# ÍSLENZK
# KVÆÐA-BÓK.

FYRRI DEILD.

KVÆÐI
EGGERTS OLAFSSONAR.

KAUPMANNAHÖFN 1832.
*Prentud hjá S. L. Möller.*

# KVÆÐI

# EGGERTS OLAFSSONAR,

ÚTGEFIN EPTIR ÞEIM BEZTU HANDRITUM

ER FEINGIZT GÁTU.



KAUPMANNAHÖFN 1832.

*Prentud hjá S. L. Möller.*

# Innihald.


Bls.

Formáli Skáldsins . . . 1.

**A. Alvarlig kvæði:**

Island . . . . . . . . 9.
Búnaðar-bálkr . . . . . 30.
Pikna-spillir . . . . . 50.
Hel-blinda . . . . . . 53.
Leiðar-steinn . . . . . 56.
Fullsæla mannsins í þessu lífi 62.
Vitringa-sæla . . . . . 63.
Lukku-dans . . . . . . 64.
Landsins lukka . . . . 67.
Friðriksvarði á Islandi . . 68.
Einvalds-vísur . . . . . 72.
Það uppvakta Island . . 74.
Mána-mál . . . . . . . 77.
Um þær nýu innr. á Islandi 84.
Ferða-rolla . . . . . . 86.
Fram-verpla . . . . . 99.
Rúnu-galdr. . . . . . 102.
Fullsæla *Martialis* . . . 103.
Friðreks-drápa. . . . . 104.
Ofsjónir við jarðarför *Lovísu* drottningar . . . . . 107.
Drápa eptir *Guðmund Sigurðarson* . . . . . . 109.
Um *Hallgrím Petrsson*. . 110.
Vísa um lát *Páls Víðalíns* . 111.
Vísur um *Jón* Bp. *Arnason* . 111.
Kveðlingr um sama . . . 111.
Viðrkenningar-sálmr . . 113.
Öfundar-elta . . . . . 115.
Heim-sótt . . . . . . 116.
Islands-sæla . . . . . 119.

**B. Kímilig kvæði:**

Hafnar-sæla . . . . . 122.
Sótt og dauði Islenzkunnar 124.
Tvídægra . . . . . . 132.
Smákvæði:
1. Höfðingi með heimskum . . . . . . 140.
2. Grílu-kvæði . . . 141.
3. Vínleika-bragr. . . 142.
4. Flösku-kveðjur . . 144.
5. Teflösku-vísur. . . 146.
6. Sá breiski heimspekingr . . . . . . 147.
7. Píkuskrækr . . . 150.
8. Tvísýni á Kvenn-heillum . . . . . . . 151.
9. Sú íslenzka matarsæla 151.

**C. Kvæði í Gamni og Alvöru:**

Lærdóms-undur . . . . 152.
*Honesta Venus* . . . . 155.
Markaðar-ríma . . . . 168.
Heimildar-skrá . . . . 171.
Hegra-kvæði . . . . . 172.
Mjað-drekka . . . . . 178.
Sigrdrífu-mál. . . . . 179.
Brúðkaups-kvæði . . . 181.
Smákvæði:
1. Brúðkaups vísur . . 187.
2. Vínsteins-mál . . . 188.
3. Burðardags vísur. . 189.
4. Hróðr bókarinnar *L'homme de cour* . . 189.
5. Nýárs-vísur til *B. P.* 190.
6. Vísa til *G. P.* . . . 190.
7. Vísur um samkomu 4 bræðra í Kaupmannah. 190.
8. Svar uppá ljóðabréf *S. M.* . . . . . 190.
9. Vísa um Stundarkot 191.
10. Um Landskjálftann í Khöfn 1759 . . . 191.
11. Um komuna til Hafnar 1757. . . . . 191.
12. Um sigling frá Kaupmh. til Isl. 1760 . 191.
13. Um sigling frá Isl. til Kh. 1764 . . . . 192.

Bls.

14. Um sigling til Islands 1766 . . . . . . 193.
15. Svar uppá brèf *J. E.* í Sór . . . . . 193.
16. Island með ermahnöppum . . . . 194.
17. Játning eins *Melucholici* . . . . . . 194.
18. Lof-vísa um hornið. 194.
19. Lukku-óskir . . . 194.
20. Nýárs-vísa 1760. . 195.
21. Vísa um sumarkomu 1742. . . . . . 195.
22. Um Góe 1754 . . 195.
23. Vísa um Island . . 195.
24. Um leiða síns föðurlands. . . . . . 195.
25. Um Viðeyar kyrkju. 196.
26. Um Bessastaða kyrkju 196.
27. Vísa, gjörð eptir 1Hagg. 196.
28. Vísa um *S. M.* . . 196.
29. Um hernað Svía móti Prussum . . . . 196.
30. Um dauða *Ferd. Sjötta* 196.
31. Um Jesúítana í Portúgal . . . . . . 197.
32. Vísa um *Polypragmosyne* . . . . . . 197.
33. Um Bæ *Kára* á Breiðumörk . . . . . 197.
34. Um prjónað ígulker 197.
35. Kokkagæla . . . . 198.
36. Utlenzkr magi í íslenzkum búk. . . 198.
37. Um Hrafnistu list . 198.
38. Konu-kosning . . . 198.
39. Ráðríki *Veneris* . . 198.
40. Um íslenzku stúlkurnar . . . . . . 199.
41. Um ofdrykkju . . 199.
42. Um sama . . . . 199.
43. Skálda-þökk . . . 199.

Bls.

**D. Gaman-kvæði:**

Kötlu-gylling . . . . . 200.
Höddu-ríma. . . . . . 201.
Titlinga-ríma . . . . . 205.
Hrafna-hróðr . . . . . 215.
Ægis-drekka hin nýa . . 216.
Skjaldmeyar-kvæði . . . 218.
Lysthús-kvæði . . . . . 219.
Búrdrífu-vísur. . . . . 220.
Rata-ljóð . . . . . . . 221.
Smákvæði:
1. Rata-kveðja . . . 223.
2. Um Haf-frúna . . 223.
3. Vísa til Ægis . . . 223.
4. Hjalla-villa . . . 223.
5. Um ferð yfir Hjaltadals-heiði . . . . 233.
6. Hesta-sæla. . . . 224.
7. Heródes-vísur. . . 225.
8. Um Grátoppa. . . 225.
9. Hest-vísa . . . . 225.
10. Meya-dans. . . . 266.
11. Um biðil nokkurn . 226.
12. Um *Anonymum* . . 226.
13. Maga-skifti . . . 226.
14. Um sèrliga subbu . 227.
15. Um *Hebet-Ullu* . . 227.
16. Um föstuhald Tyrkja 227.
17. Um gjafir *Klements* páva . . . . . . 228.
18. Hnattar-kvæði. . . 228.
19. Um Málverk *R. O. d.* 229.
20. Hökul-vísur . . . 229.
21. Um *Oddnýu Skúlad.* 230.
22. Um fræðakver *Oddnýar* . . . . . . . 230.
23. *Palatium mobiliatum* 230.
24. Gaman-bögur . . 231.
25. Um Stofu-lappan . 231.

**E. Viðbætir:**

Endr-kviða . . . . . . 232.

# Formáli skáldsins

## um þessi kvæði og þarhjá um vegleik og vanda skáldskaparins.

Þar eg hefi fyrir mig tekið, að safna í eitt nokkrum ýmislignm kvæðum, kveðlingum og vísum, sem ei hafa áðr komið almenníngi fyrir sjónir; þá verð eg fyrirfram að geta þess, er mèr þykir nauðsynligast vera og til góðs skáldskapar útheimtandi. Um þessi kvæði öll má eg það segja í einu orði, að þau sèu *ýmislig*, og það með fernt slag: að *viðlögum*, *bragarháttum*, *skáldskap og efni*.

1. Fyrst eru lögin allsháttar, innlend og útlend, þó flestöll alkunnug, og í þann máta innlend orðin; samt er ei hvört kvæði útí loptið gjört undir því og því viðlagi, heldr með ásetníngi valdir tónarnir, hvörr til síns efnis, svosem: *lystug lög*, það er: hófliga fljót og falliga breytin að hækkun og lækkun, til lystugs efnis: *dymm* og *torveld* lög til sorgligrar ræðu: *jöfn* og *hæg* til sjálfráðrar alvöru, hvör ei mjög stjórnast af hrygð eða gleði: ójöfn og ákefðarsöm til melankóliskrar tölu; og loksins: *skemtin lög*, en þó breytilig til *kímiligs efnis* (*satyricè*), og þarsem blandast gaman og alvara; er þetta jafnan aðgætandi, þegar menn kveða, og vegna þess er með öðru ein útheimt (*reqvisitum*) algjörligs skálds, að góðr smekkr í list og kunnáttu saunglistarinnar sè sameinaðr skáldligu andríki; slíkt hefir gjört hið ágæta skáld *Hallgrímr* í sálmum sínum, og víða er það auðsjáanliga aðgætt í vorum messusaungum. Nú eru þvílíkar röksemdir til þess, að bæði hèr í kverinu, sem annarstaðar

víða, brúkast stundum að sakleysu rímna- og kvæða-lög við sálma, eins og sálmalög við rímur og kvæði, nefniliga: að nauðsyn ber þartil vegna efnisins, þó á þetta að gjörast með temprun og siðsemi.

2. Hvað *bragarhættina* áhrærir, þá eru þeir með sama slag flest-allir kunnugir, en dýrleikr þeirra er misjafn, og móti því sem íslenzk skáld brúka á þessum dögum, óreglugr, því nær maðr fer að yrkja undir nokkrum bragarhætti, hvað dýr sem hann er, þá rembist hann við, að halda kvæðinu með jöfnum dýrleik út til enda. *Snorri Sturluson* hóf fyrst að kveða dýrt á íslenzkt mál, og brúka margskyns bragarhætti; síðan jók *Loptr Ríki* þarvið með sínum *háttalykli*, og þaðanaf hefir mest fjölgað nýgjörvíngum og dýrkveðnum bragarháttum hèr á landi; er háttalykill *Þorláks Guðbrandssonar* alkendr hjá oss. Nú má ei þesskonar skáldskap lasta, ámeðan efnið er óskældt og samsetníngin liðug; er þá því meiri snild og prýði, að kveðandinn verðr lífligri, orðin falla í skorður, en málið verðr mjúkt og hjartnæmt. Skáldskaparkonstin er ei annað enn sú efsta trappa mælskukonstarinnar, og tilgángr og nytsemi skálda og mælindismanna á að vera allr hinn sami, sem sè: að hræra mannlig hjörtu og draga þau til samsýnis sèr. En mèr sýnist optliga mikið útaf því bregða, þegar vèr kveðum dýrt, því bæði skjótast inn málleysur, og setníng orðanna verðr stirð og óþægilig, en efnið ílla útliðað, svo kveðandinn missir þá sitt rètta líf og tilgángs nytsemi. Að eg aptr komi til þessara kvæða, þá er að sönnu í þeim haldið við upptekna bragarháttu, en hvar dýrleikr sèst ínnaní hendíngunum, er hann sjaldnast fastr eða jafn, og verða þeir að kalla það lýti, sem vilja; sama er að segja um nýa bragarháttu þá er hèr hittast, þeir eru sumir nógu dýrir; en þó hefir diktarinn ei altíð bundið sig við þann dýrleik, heldr gefið sèr frelsi til að koma viðkvæmar í ljós sinni meiníngu.

3. *Skáldskapr* er í þessum kvæðum helzt tvennslags: eg meina í tilliti til kenrínga og fólginna meiníngа; nefniliga í íslenzku og latínu máli; þeim latínska sleppi eg, en sá íslenzki er aptr meingaðr með latínskum kenníngum. Nú má það ei lasta, þó vèr prýðum vorn skáldskap með útlendu skrúði því, sem honum allvel lætr; slíkt hafa ei einasta vorir forfeðr gjört, heldr og brúka nú allar Norðrálfunnar þjóðir í þeirra móðurmáls kvedskap Rómverja kenníngar og atferð til að yrkja myrkt og snilliliga. Þó skulu menn neyta þessa fágætis með sparsemi, svo ei taki það yfirhönd yfir smekk hins innlenda skáldskaparins; það

er og betra að blanda þeim ei of frekt í sama efni, til dæmis: kenníngum guða Rómverja og norðrlanda þjóða, eðr þeirra verkum. En því segi eg þetta, að hætt er við því í þessu kveri, helzt í einum stað, og er það gjört af því efnið er þar kímiligt.

Hvað viðvíkr þeim óblandaða íslenzka skáldskap, þá er hann hèr bæði nýr og fornkveðinn; þessi er með vilja látinn myrkr vera, hvorttveggja að orðfæri og kenníngum, til að breyta eptir skáldskap fornmanna, þótt það hafi misjafnt tekist, hann er bæði auðskilinn, og í flestum stöðum fordildarlítill, svo hann geti skilið allir jafnt og sinn smekk í fundið; já, nær kunnugliga á að sýna einhvörn hlut, þá koma í nokkrum stöðum fram, af ásetníngi, algeingar málleysur og bögumæli, líka útlend orð, sem sèr hafa numið hèr bólfestu; viðlíkt hafa þeir *Plautus* og *Terentius* gjört og eins nokkrir vorir sagnameistarar.

4. Nú kem eg til hins síðasta, að efni þessa bæklíngs sè *ýmisligt*, en þó eru það helzt alþýðu rèttir, sem þar eru framreiddir. *Virgilius* höfuðskáld Rómverja, segist ei hafa annað enn bóndavist á borði, þegar hann er (*Eclog.* 1.) að bjóða *Angústusi* keisara til veizlu á bæ sinn, þann er hann átti útá landsbygðinni; svo kveðr hann:

| | |
|---|---|
| — *Sunt nobis initia poma,* | þ. e. Eg hefi þarna kjóra kjúku |
| *castaneæ molles et pressi copia lactis.* | kastaníur og eplin mjúku. |

En eg má þó einganveginn hrósa mèr af því hinu sama; því fram um það er vantar á í bæklínginum, þá vaxa hvorki í vorn landi nytur nè epli eðr annað aldini, sem vex í Italíu. Samt er efni kveðlínganna margskonar; og því hefi eg, að dæmum hinna nýrri skálda utanlands, sett hvört kyn í sitt stæði og raðað þeim eptir háleik og virðíng efnisins á þennann hátt:

Fyrst standa kvæði í *tómri alvöru*, þau eru annaðhvort *almennilig*, um siðbætr og heimsádeilur; eðr *sèrlig* um eina þjóð, vissa menn, verk og tilfelli; í annari röð standa *kímilig* kvæði, þau eru í rèttri raun tóm alvara með heimsádeilum; en alvaran er fólgin ýmist undir ýkjum eðr dæmisögum. Þá koma hin þriðju kvæðin (*serio-jocosa*), hvar efnið er saman *alvara* og *gaman*, einsog í þeirri fjórðu röð eru einúngis *gaman-kvæði*; þó meingast stundum þarmeð nokkur alvara. En fimta röðin, í hvörri sjást margsháttar kveðlíngar, mætti að sönnu uppskiptast ámeðal hinna fjögra; samt þykir mèr betr að láta hana opna standa, ef eg kynni að fá fleiri kvædi til viðbætirs, má þá eins síðar

ef vill, setja hvört í sinn stað *). Allar þessar raðir deilast í skipti, eptir þreyngð eðr rýmd efnisins, og aptr sum af þeim stærri kvæðum í sínar smágreinir. Nú ef eg skyldi þessum ljóðmælum eitthvað til gildis telja, þá er það helzt, þótt mèr sè skyldt málið, að þau eru flestöll efnisfull og meiníngar, og það svo, að þánkarnir eru með nokkurri niðrskipun frambornir, og sjaldan orð eðr innföll upp aptr tekin; má eg því eigna þessum kvæðum vers þau tvö er *Seneca* byrjar með eina bók sína (*lib. VII de benef. ad Æbucium liberalem*):

| | |
|---|---|
| *In manibus terræ, non hic te carmine longo* | Eg held þèr hèr í höndum jarðarinnar |
| *atqve per ambages et longa exorsa tenebo!* | ei með mærð nè umsvifum eða laungum formálum! |

því hèr eru optastnær útilokuð óþarfa orð og mállcysur, ásamt þarflausum málaleingíngum og klifan sömu hluta, sem mjög ófríðka þann íslenzka skáldskap, jafnvel í summm þeim ljóðmælum, sem almennt lofast og um hönd hafast. Í því sýnast sálmar og kvæði þess merkiliga skálds Síra *Jóns Magnússonar*, sem var í *Laufási*, bera af flestum öðrum skáldskap, að efnið, sem ætíð er hentugt og lærdómsfullt, finnst ei í þeim tvítekið eðr með fleirum orðum í þeim skírt enn til skilníngsins er nauðsynligt. En þarhjá má eg meðkenna, að orðfæð er sumstaðar í þessu kveri of frek og eigi drepið á efnið ánægiliga, því tíminn hefir ei leyft það; hvörsvegna útaf einu kvæði kynnu að gjörast nokkur og þó öll nógu efnisrík; en svo þarfyrir kæmi ei vauskilníngr eðr yrði meiníngin rángt tekin, þá eru skíríngar- eða merkigreinir tillagðar, þarsem mest viðþurfti og sjäst þær við hvört kvæði. Almennar sannfæríngar finnast hèr ekki með illyrðum og ofsa framsettar, heldr stundum tempraðar, stundum mýktar með gamni, eðr með skreytni fegraðar, stundum (sem menn kalla) slegið úr og í, að sannleikrinn verði ei of beiskr, leiðr eðr óvinsæll; því

| | |
|---|---|
| *Gratior est pulcro veniens e corpore virtus.* | Sú dygð er þokkasælli, sem kemr úr sèligum líkama. |

Þeir kveðlíngar, sem hèr verða fyrir um amorsverk og kvennafar, bera ei utaná sèr klám eða níð, því það er bæði ljótt og ósæmiligt; en þeir eru þó öllu meiníngar-drjúgir, svo að sagt er hvað ásett er, vildi eg ei þesskonar kveðskap útiláta, af því að bezt sèst geðslag og gáfur liðinna manna, nær þeir hafa átt um misjafnt að tala eða gjöra,

*) Þessum kvæðum verðr hèr skipt upp milli hinna flokkanna.

hvar viljinn var frjáls, en túngan tóllfrí. Eínginn getr neitað því, að í svoddan ástandi sè helzt stillíngarvant, af því að lostinn er alljafnt framlútari til hins lakara; og dæmi eru til þess, að skáldmenniu hefir flædt á svoddan skerjum, því þeir hafa þá með íþrótt sinni ei annað gjört, enn dregið að sèr illar hamíngjur. Að lyktum legg eg það til, að ekkèrt af þessum kvæðum, kveðlíngum eðr vísum er á huldu gjört um vissar persónur, eðr hluti, nema hvar þeir eðr þær nafngreinast; en við hinn má ei gjöra, þótt hvörreinn hitti þarí nokkuð, sem uppá hann kynni að heimfærast; eins lofast ei nè lastast heill landslýðr, að eingum undanteknum, þótt nokkur dygð eðr löstr sè honum almennt eignaðr, þar reynslan sýnir, að það á ekki að vera, og ber skáldunum að vita að miðla máli í þeim dómum, sem öðrum.

Nú er eg ei svo blindaðr af sjálfsþóttanum í mati þessa bæklíngs, að eg haldi hann að vera nokkurt eptirsnið, eða gjörðan eptir þeim reglum, er nú hefi eg framflutt og hrósað; heldr hefi eg jafnframt viljað þær sýna mönnum til samburðar við sín eðr önnur skáldmæli, og líka komið með það, er mèr hefir þókt hèr til lýta hneigjast; má af þessu öllu-saman skilja, hvað útkrefst til að vera fullkomið skáld, og að margir eiga ei með öllu það nafn, þó þeir megi sæmilig skáld heita. Sumir kveða bæði fljótt og liðugliga, en þá vantar efni, innföll og andagift; þeir eru kallaðir og haldnir góð skáld, en hafa ei utan þá grein íþróttarinnar, sem nefnist hagmælska. Aðrir hafa skáldlig innföll og volduga andagift, en vantar hagmælskuna. Hinir þriðju hafa bæði skáldskapar innföll og andagift, og þann part hagmælskunnar, er orðgnótt heitir; en þeir kveða samt stirt. Þá hafa þeir fjórðu allt þetta til að bera, en þó vantar þá herradæmið sjálft, eðr stýrið fyrir skáldskapinn, sem gefr þessari íþrótt hóf og taumhald og kórónar hana að lyktum; margr (til dæmis) brúkar glaðlig lög við sorgarefni og svo framvegis, hvað áðr er lastað. Margr kveðr um bónda sem herra, um sýslumann sem konúng, um konúng sem guð; margr gjörir of mikið úr litlu, og of lítið úr miklu, með lofi eðr lasti í hrygð og gleði, fyrir hatr og elsku, hræðslu eðr hugardirfsku, undrun eða auð virðíng, og veldr það því, að skynsemina vantar smekk og kjörvísi til að velja og tileigna hvörju einu það, sem það á og því er mátaligt.

Svo skal þá eitt algjört skáld hafa þessar höfuðgáfur til að bera: *hagmælsku*, *andríki* og *smekk*; í smekknum sè kjörvísi, skamtr og viðkvæm nærfærni innifalin; sú fyrsta lokkar og sefar; önnur bugar og vinnr; en hin þriðja við-

heldr og vaxa lætr; og nær þær allar fylgja þeim, er yrkir, þá mætti, til dæmis, svo aðkveða, að:

| | |
|---|---|
| *Carmina vel cœlo possent deducere lunam.* | Með kveðskap gætu menn jafnvel villt túnglið burt af himninum. |

En máske sumir kunni að kalla þetta nýar reglur og spyrja, hvar eg hafi röksemdir til að skrúfa skáldskaparlistina svo hart, að færstir eðr eingir geti slíkum útheimtum fullnægt; þá bið eg þeir gæti að hennar áðrgreindum tilgángi og orðanna meiníngu í strax-töldum reglum, og hygg eg þá rökin muni þar finnast. Eins þó eg segi hvört hún getr hærst komist, niðra eg eigi þarfyrir góðum skáldum; af mörgum er sagt, en af eingum gjört, hvað til þess útheimtist, að vera fullkominn heimspekíngr, samt er þarfyrir ekki neikvædt eðr kafið vel forskuldað hrós margra ágætra spekínga. Nú svo einginn ætli eg komi með nýa setnínga, þá gætum að uppsprettu vors kveðskapar: *Eddu,* hvörsu guðin sjálf áttu at eiga, yðka og veita skáldskapinn; *Bragi-ás* var goð skáldskapar og málsnildar; og ef vèr leitum oss dæma, þá sjáum vèr að höfuðskáldunum hefir þókt stór vandi á að yrkja; eg tek fyrst til *Snorra Sturluson*, þar hann talar um að kveða sextánmælt; allir þekkja nafn þess bragarhátts, en svo hef eg tekið eptir nokkrum, og svo sýndist mèr, áðr eg las háttalykil hans, að ei væri svo yfrið stór vandi að gjöra sextánmælta vísu. Hvað er þá sextánmælt? það er, eptir *Snorra*, dróttvæðr háttr óbreyttr, í hvörjum sèu sextán mál, svo að tvö mál sèu í hvörju vísuorði. Hvað er þá mál? það sem *logici* kalla *propositionem;* það sýnir dæmi *Snorra:*

Vex yðn, ve'lir roðna,
verpr lind, þrymu snerpir, o. s. frv.

Hèr eru tvö vísu-orð, og tvö mál í hvörju orði, og svo heldr hann vísunni út til enda. Sjaldan brúkum vèr nú á dögum svoddan dýrleik. Þarnæst tek eg til *Olaf Þórðarson Hvítaskáld*, þar hann gefr þessi lög og segir undireins vandlæti sitt í útheimt skáldanna: „Leiti eptir sem vand-„ligast þeir, sem nú vilja fara að nýum háttum skáldskapar, „hvörsu fegurst er talað, en eigi hvörsu skjótt er ort, því „að því verðr spurt, hvörr kvað þá er frálíðr, en eigi „hvörsu leingi var að verið; og þeir sem nú vilja með nýu „kveða, hafi smásmugul og hvöss og skygn hugsunaraugun „að sjá, hvað yður er sýnt í þessum frásögnum" (Edda).

Þetta er nú sèrilagi sagt um vorn skáldskap; hvað segja aðrar lærðari þjóðir á hinum ýngri öldum? miklu meira og nákvæmara eptir því, sem smekkrinn er fínni orð-

inn; eg sleppi þeirra dæmum, sem, fángaðir af of lyst, hafa gjört hann að mesta furðuverki; en kem með eins lærðs manns vitnisburð, hvörr bæði segir sitt og annara álit um optnefndrar íþróttar fullkomleik, það er *Temple riddari* í bók hans (*Oevres Melées*) útgefinni árið 1693, hvar hann talar á þennann hátt: „Af öllum hvíligleikum annaðtveggja „náttúrligum eða tilfeingnum, í hvörjum menn hafa yfir- „geingið aðra og fyrir hvörja þeir hafa sig nafnfræga „gjört, þá eru ei til nema tveir, sem virtir hafa verið „þeirrar nafnbótar, að kallast guðdómligir, og hvörra nöfn „á þeim einum lendtu er þá átt hafa í hærsta lagi, það „er að skilja sú hetjuliga dygð og skáldskaprinn." — Og síðar í bókinni greinir hann eðli og krapt skáldskaparins með þessum orðum: „það er nú það sjálft og hið sama „heppiliga sambland af undireins nytsömu og lystisömu, „sem gjörir fegurð og dýrleika þesskonar verka, og sem „verið hefir orsök til þess, að menn hafa kallað skáldskap- „inn guðdómligan — því hann er ein harðla slýng með- „fædd íþrótt, sem einasta gefin er af himnum ofan, eðr „beinleiðis af sjálfri náttúrunni." — Samanbr. Próf. *Vadskjærs poëtisk Skueplads.*

Gaungum vèr aptr tilbaka til Rómverja, finnum vèr ei minna vandlæti skáldskaparins: *Virgilius*, sem almennt er og hefir verið haldinn skálda höfðíngi, og annar hinn gríski *Hómer* hafa haft óteljandi hólbera og marga tilbiðjara; *Lúcanus* sagði þá hann heyrði ljóðmæli *Persíusar*; „*þetta* „*er rètt skáldskapr.*" — Og mýmörg eru þvílík dæmi, hvör öll staðfesta, að á öllum öldum meðal allra þjóða hafi þeir helztu og vitrustu menn haft ofr háa ímyndun um skáldskapar konstina, hvaraf auðráðið er, að hennar algjörvi sè hjá mönnum hvorki auðveldt nè auðfundið. En áðrskrifuð orð *Olafs Hvítaskálds* hræra við, í hvörju þessi háleikr sè falinn og ber hönum saman við mínar ástæður; en þó samsinnir allrabezt skáldið *Horatius*, þegar hann felr útheimt skáldligs algjörvis í eptirfylgjandi versum, hvör eg vil gjöra að mínu svari í nú framsögðum formála:

| | |
|---|---|
| — — — *Neqve enim concludere versum* | Þú skalt ei kalla skáld þann hvörn sem vísu |
| *Dixeris esse satis: nec si qvis seribat uti nos* | gjörir, eðr einsog vær yrkir slèttu tali nær; |
| *Sermoni propiora; putes hunc esse poëtam.* | heldr þeim, sem hvass að skyni ræður |
| *Ingenium cui sit, cui mens divinior atqve os* | guðdóms hyggju' og háleiks safn |
| *Magna sonaturum, des nominis hujus honorem!* | hljómar, gefðu þetta nafn. |

Að síðustu svara eg til fyrrgreindrar ímyndaðrar kröfu, það mörg ágæt skáld hafi Ísland af sèr gefið seint og snemma, meðal annara nefni eg af þeim síðari í guðligra hjartnæmra sálma smíðum Síra *Hallgrím Pètursson;* í aðalligum (heróiskum latínu-) kveðskap og tígnugligri viðkvæmri málsnild biskup *Jón Vídalín;* en í rímna skáldskap sýslumann *þorlák Guðbrandsson;* mega allir, sem nokkurt vit á hafa, meðkenna það, að þessir hafi framar öðrum samlendum gjört hvörr í sínu verki, svo að sömu þeirra verk sèu helzt til dæma takandi, og skyldi mitt hald nokkuð gylda, þá þykist eg í þeim og þvílíkum verkum finna allt verkligt: haglig og fá orð, full af meiníng, miðlun málanna, skáldliga tign og nærfærni. — Eg læt svo hèrum úttalað og bið að lesendur virði vel sem meint er.

# A. Alvarlig kvæði.

## Island.

Eitt kvæði er svo kallast, í hvörju Island, í líkíngu einnar konu, segir æfisögu sína, eðr eitt og annað markverðugt, sem á þess daga hefir drifið uppfrá því það byggðist og niðr til þessara tíma. Þetta kvæði er optast sorgligt, blandað með harmatölum og heims-ádeilum; en endast með góðri von og sætum draumum.

### I.

*Sú fyrsta öldin er hin frjálsasta. Island segir hvörsu því var háttað, áðr enn það byggðist; það finnst og giptist landnámsmönnum.*

1. Eg sit á sjóna hvoli,[1]
*Seneca'* áðr kvað,
önn fyrir ykkar þoli,
uppi sè eg það
skýið vötnum ólètt af.
Á mun koma' og æsa hríð
ykkar sinnishaf.

2. *Island* segir sama
sorg og elli mædt:
flest-allt að vill ama,
einginn fær það bætt,
rètt er eg orðin ráðalaus!
fegri man eg fiíil minn,
færsta biðla' eg kaus.

3. Þá var eg bezt í blóma:
búin í gull og skart
sat eg frið með sóma,
sólarbirtan snart
faldinn[2] lýsti fagurlig;
klæðin græn[3] og krystals bönd[4]
klæddu' og prýddu mig.

4. Ogipt allar nætr

1) Þetta heilt erindi er orð *Senecu*, með hvörjum hann endar sína bók um *farsælt liferni*; hann segir svo (Kap. 28): *„At ego ex alto prospiciens video, quæ tempestates aut vobis immineant, paullo tardius rupturæ nimbum suum, aut jam vicinæ, vos ac vestra rapturæ, propius accesserint. Qvid porro, nonne nunc qvoqve (etiamsi parum sentitis) turbo qvidam animos vestros rotat et involvit fugientes, petentesqve eadem, et nunc in sublime allevatos, nunc in infima allisos rapit?"* 2) þ. e. jöklana. 3) Island var þá grænum grösum gróið og skógi vaxið fram til jökla. 4) hóglegir klárir lækir og vatnsföll.

undi' eg kostavönd:
soddan heimasætur[1]
sáu' ei Norðrlönd,
ýmsir biðlar báðu mín;
loksins var eg göfgum[2] gipt,
gleðin ekki dvín.

## II.

*Önnur öldin uppvaxandi og hraustlig. Island segir frá sínu barnaláni, mannkostum og atgjörvi hinna fyrstu Islendinga.*

5. Nú skal stytta stundir,
styttist hrygðar-án:
vitrar heyri hrundir,
hvílíkt barna lán
hefi' eg feingið híngaðtil,
og svo fleiri forlögin,
frá því greina vil.

6. Sat eg sæl í búi
sona, lánga tíð,
góðra barna grúi
mig gladdi fyrr og síð,
þau í kjöltu lèku ljóst,
og með skamti sugu[3] svo
sinnar móður brjóst.

7. Raunir lánið leysti,
lènti giptan fín
dreingjum dug og hreysti,
döfnuðu börnin mín;
úngum mönnum eingum þau
eptirgáfu í Evrópu
að manndygða taug.

8. Vizku þrótt á þíngum
þreyttu, lög og ráð;
eins var Islendíngum
ágæt mælskan háð;
fylgið trútt og framsýnin
vinum dugði þeirra þar;
það vóru nokkrir menn!

9. Vígs í starfi stóðu
styrkvir allra skást,
eins í illu og góðu[4]
afreks verkin sjást;
þó var meiri mergðin hin,
er með þrótt og rysnu rèð
rækja vit og skyn.

10. *Askell*[5], *Goði*[6] *Gestr*[7],
*Gunnar*[8], *Máni*[9], *Njáll*:
góðr, merkr, mestr,
mikill, hreinn, forsjáll;
þekki' eg fleiri, þar á við;
*Marðar*[10] lika fáa' eg finn,
*fá*[11] með *Skamkells* sið[12].

---

1) Svo góð óbyggð lönd; því þó Grænland sè miklu stærra, þá er það ei svo gott eðr fjölbyggt. 2) Landnámsmönnum; því þorri þeirra manna, er Island byggðu (frá ári 874 til *Blund-Ketils* brennu 962 og nokkru þareptir) var göfugmenni: lendir menn, hersar og jarlar eðr þeirra synir og niðjar, já kóngar og kóngbornir, sem þeir bræður *Hámundr* og *Geirmundr Heljarskinn, Olafr Pá* og enn fleiri. 3) Þeir úttæmdu ei landið með óhófi, ránum, okri eðr óstjórn. 4) Sá dugir ekki til góðs, sem ekki dugir til ílls. Hjá miklum mönnum er í líkamanum styrkleiki og líf, en gáfur og hugprýði í sálunni, hvort sem þeir eru góðir eðr vondir; í viljanum er dygð og löstr, og víkr þar annaðhvört eptir því sem maðr er góðr eða vondr til. Hvar ei er íll tilhneiging, þar er ei dygð. Sá er hvorki dyggr til góðs nè ílls, hann er verri enn vondr. 5) *Askell Góði* sýndi mestu góðfýsi í meðalgaungum og loksins í því að sættast á víg sjálfs sins. 6) *Snorri Goði* var vitr og ráðugr, vinhollr, en óvinum sínum heiptugr. 7) *Gestr Oddleifsson* var mesti spekíngr, ráðhollr og forspár. 8) *Gunnar Hámundarson* á *Hlíðarenda*, góðmenni, fræknastr maðr og bezt vígr hèr á landi. 9) *Þorkell Máni* lögsögumaðr, heilagastr heiðíngi: hann lèt bera sig dauðvona úti sólskin og fól sig þeim guði á hendr, er sólina hefði skapað. 10) *Mörðr Valgarðsson* var manna falskastr og duglaus, þó var faðir hans verri. 11) *fá* ístaðinn fyrir fáa. 12) *Skamkell* var hið mesta íllmenni og þartil fól.

11. Hróss við gnóttir geingu
garpar hildar-dans;
meiri frægð þó feingu
flestir utanlands
kóngum, jörlum, hersum hjá;
voðamenn og víkingar[1]
vildu' ei fást við þá.

12. Merki' og mála náðu[2]
mildings titt af hönd;
hólmgaungurnar háðu[3],
hjarna rufu strönd,
kvæðin færðu fögur og
aptr hlutu skip og skart,
skjóma' og höddulog.

13. Firrtist dreingi dauði,
dreifðust sköpin hörð;
svo með sæmd og auði[4]
sína fóstr-jörð
aptr sjá og uppfrá því
sátu' um kyrt, með konu' og börn
kættust völdum í.

### III.

*Þessi öldin var hin bezta og blómligasta, scinast í heiðni og fyrst í kristni; þá var land albyggt (mest) hraustum og vitrum mönnum, hreinust trú og bezt rækt (af því sem gjöra var) og prýddu allt mentir og bókvísi. Island segir nokkuð frá heiðnum átrúnaði, kristniboði og lærdóms byrjun hér á landi.*

14. Þessi bragna blóminn
bar þó lýti á sèr:
kunnu kristindóminn
karlar eingir[5] hèr:
*Oðin*, *Þór* og önnur góð[6]
sögðu vera sannan guð,
sína líkn og stóð.

15. Höfðu' í vondri villu
vaðið lánga tíð[7];
samt um siðir illu
sviptust börnin frið:
*Olafr*[8] kóngr kendi þeim
rètta trú, og æðra' að
elska', enn þennann heim.

16. Mannval margt eg átti
mundir þessar um,
hvört af hjarta játti
himna kónginum
hlýðni' og trú í skyldu-skatt:
einn var *Kjartan*[9] ástin mín
og eptirlætið glatt.

17. *Bolli*[10] öllum eykr
yndi snild og vit.

---

1) Spillvirkjar og stigamenn. 2) Þeir urðu merkismenn konúnga og striðsmenn og þágu laun þarfyrir (málamenn *stipendiantes* kallast nú soldátar). 3) bæði fyrir sig og aðra. Sú hólmgánga hefir' með sannindum frægust háð verið af íslenzkum manni, er átti *Björn Hitdæla-kappi* í Garðariki (hèrumbil árið 1020), þegar hann leysti úr ánauð einn þjóðkonúng og heilan landslýð, er einginn hvorki af vildismönnum hans nè hèrliðinu eðr öðrum múgamönnum porði fram að bjóðast. 4) Eingin þjóð á Norðrlöndum hefir með jafnaði sókt meiri virðíngar til annara landa og útlenzkra höfdíngja enn Islendingar; þetta gjörði þá bæði orðsæla og auðgaði þeirra föðurland. 5) Svo mátti það kalla, því þó fáeinir væru kristnir, þá var sú tala ekki neitt ámóti hinum fjöldanum; en Irskir, hvörjir hingað komu áðr landið byggðist, staðfestust hèr aldrei, og því var ei að kalla þá innlenda. 6) Því auk Asanna dýrkuðust hèr dísir og landvættir og hèldu margir hjá þeim eilift líf í björgum og hólum. 7) Island var í heiðni hèrum 126 ár. 8) *Olafr* kóngr *Tryggvason*, en ei *Olafr Haraldsson Digri*, sem nokkrir útlendir ritað hafa. 9) *Kjartan Olafsson*, hann var manna fríðastr og bezt að sèr, sökum íþrótta, góðmenni og trúrækinn, en þarhjá ei forsjáll, lempinn, eða með öllu gæfumaðr. 10) *Bolli hinn Prúði Bollason* hafði það umfram *Kjartan*, að hann hefir verið, (sem menn nú kalla) stázmaðr, manna stiltastr og kurteysastr, ör-

Flest í lyndi leikr:
lærdóms ment og rit
híngað kom með klerka[1] makt
*Sæmundr*[2], *Ari*[3], *Gissur*[4] gat
grundvöll til þess lagt.

## IV.

*Fjórða öldin verst og vígamest, full af land-eyðu, herhlaupum, sviknm, hroðaverkum og páfavillum. Island elr í öðrusinni mörg ný börn; segir frá æfi sinni á dögum Sturlúnga. Það kemst undir kóng.*

18. Sem eg sá með gleði
soddan yndishag,
hvörn mèr lukkan lèði,
leizt mèr æfidag
minn hann kynni' að vara við;
en mèr brást það alltsaman;
efnið heyri þið!

19. Upp í öðru sinni
undir þá eg tók,
barna mergð ei minni
móður-nafnið jók;
hin voru gömul orðin öll;
en mig fjölga fýsti meir,
fèkk því hriða-köll.

20. Svo trúi' eg huginn segði:
soddan veikindi
mundu, þó eg þegði,
þrautir láta í tè;
varð sú fæðing öllum eins
bæði mèr og börnunum
brátt til vamms og meins.

21. Þeir urðu ofr svæsnir,
en manndygðin þraut;
sumra svik og hræsni
sæmdir rak á braut;
páfavillan vaxa nam[5];
hreinsun[6], bannið, husl[7], ágirnd,

---

látr, forsjáll og lukkudrjúgr; með þessum mönnum og fleirum öðrum á þeim dögum mætti með öllum rètti teljast *Halldór Snorrason Goði*, sem verið hefir hinn mesti maðr að jafnlyndi, vitrleik, hreysti, hjartaprýði og reglubundnum lifnaði fram yfir aðra fornmenn, er sögur geta.

1) Klerkar kallast með rèttu ei einasta prestar (hvað nú er brúkanligt) heldr, yfirhöfuð, allir lærðir menn. 2) *Sæmundr hinn Fróði Sigfússon* prestr; honum eigna sumir Njáls sögu og fyrstu ritgjörðir hèr á landi, Eddu þá í kviðunum er, og Sólar-ljóð. En hvað um það er, þá hefir hann verið lærðr maðr og stúderaði leingi í Þýzkalandi; hann lifði til ársins 1132; nokkru seinna lifði *Gissur Hallsson* lögsögumaðr, frá Haukadal (afi *Gissurar* jarls); hann hefir þá verið lærðastr maðr og víðförlastr þessara, er hèr eru greindir; ritaði hann þá miklu bók um ferðir sínar, er hann kallaði *Flos perigrinationis*, hún er nú glötuð. 3) *Ari* prestr *Fróði* er alþekktr, hann lifði nokkuð jafnframt *Sæmundi*, en var þó yngri. Það synist hann hafi ritað Landnáma-bók og fleiri sögur; má það sjá af hans Islendíngabók, og einkanligast af sögu þeirra *Rafns og Gunnlaugs Ormstúngu* upphafliga; hann dó 1148. 4) Þennann biskup meina nokkrir menn fyrstan ritað hafa eða rita látið, og líkligt er það, því hann lèt tiunda land allt, urðu þeir reikníngar að skrásetjast. *Gissur* varð biskup árið 1082, en 15 árum síðar var tíundin gjör; hann dó 1119. 5) Helzt með helgi þeirra *Jóns Ögmundssonar* Hóla biskups og *Runólfs Annars*, biskups í Skálholti. *Þorláks-messa* var lögleidd ár 1199, en *Jóns-messa* ár 1200. 6) *hreinsun* ɔ: eldsins (*purgatorium*); einnig hreinsun saurgaðra kyrkna, messuskrúða, sem fèll á helgað vín, o. s. frv. 7) *husl*, *huusl* eða *hönsl*, pápisk ceremonia, þá dauðvona menn vóru lagðir á grúfu og undireins smurðir með vígðu vatni og viðsmjöri á iljum, lófum og hvirfli.

helgi[1], klukknaglam[2].
22. Því samfara fóru
flas, ofbeldi, víg:
brendu[3], satt ei sóru,
sátta spjöll og ríg
eta lètu uggleysið[4];
bús upptektir, hapt og haml[5]
hiknðu aldrei við.
23. Slíkra vonzku verka
varla dæmi finn[6];
grátr kemr í kverkar
kvendi hvört eitt sinn,
þegar eg minnist á það allt,
því eg kendi af því og
illsku þeirra galt.
24. Man eg Flúgumýri[7]
man eg Sauðafell[8]!
þó *Hvamms-Sturla*[9] stýri
stærstu sveitaspèll
gjöra náðu niðjar[10] hans;
*Urækja*[11] með ofstopann
eysta kendi banns.
25. *Gissur*[12] optast gerði
gott af klókindum;
*Kolbeinn*[13] hernað herðir;
hinir sjá sig um:

---

1) *helgi* það er *canonizatio.* 2) *klukknaglam,* fyrir jarteiknum og sálum framliðinna manna. 3) brendu menn inni. 4) lètu menn aldrei vera óhulta um sig; þá var verst að lifa á Islandi. 5) afhögg lima, svosem handa eðr fóta. 6) Það er og satt, því þá vóru drepnir beztu menn einsog þrælar eðr illvirkjar. En þeir, sem ei vóru drepnir, vóru meiddir eða limlestir, svo þeir gátu ei veitt sèr atvinnu. Rettargángi varð ei viðkomið, en stundum menn friðlausir og sekir gjörðir, fyrir litlar eðr eingar sakir. *Rafn Sveinbjörnsson,* bezti höfðingi og mesta góðmenni, var drepinn saklaus, af öfund einni, af *Þorvaldi Vatnsfirðingi* 1213; geldtir menn, svosem prestar tveir í Grímseyar-för ár 1223 og *Urækja* ár 1236; *Þórðr Sighvatsson* sekr gjörr á alþingi af *Kolbeini Unga* 1243, fyrir það, að hann, landflótta fyrir *Kolbeini,* (hvörr nýliga hafði drepið föður hans og bræðr) át með mönnum sínum úr flauta kerhaldi; og mörg illvirki mætti hér telja, en eg vísa til þeirra í Sturlúnga sögu. 7) A Flúgumýri var *Kolbeinn Ungi* og gjörði þaðan mörg herhlaup; þar sat *Gissur* jarl, þegar brennan varð árið 1253. 8) Sauðafell var setr Sturlúnga, þar var *Sturla Sighvatsson* og gjörði þaðan herhlaup; þar ræntu Vatnsfirðingar 1229; þar sat *Sturla Þórðarson.* 9) Hann var forfaðir Sturlúnga, fæddr 1115, dó 1183; hann hefir verið einhvörr mestr maðr og vitrastr, kænn, stiltr, ráðdrjúgr kappi og hinn málsnjallasti, en þarhjá heiptugr og hefnðargjarn, svipaðr *Snorra Goða.* 10) Helzt þeir *Sighvatr, Sturla* og *Urækja;* eptir að *Sighvatr Sturluson* fór norðr (hèrum árið 1212) hófust mest hervirki, flokkadrættir og vígaferli á Islandi. 11) Sonr *Snorra Sturlusonar:* hann var blindaðr og geldtr á öðru eysta í Surtshellir, af bræðrúngi sínum *Sturlu Sighvatssyni* árið 1236; hann hefir verið óstöðugastr og mestr ofsamaðr af höfðingjum á Sturlúnga öld. 12) *Gissur Þorváldsson* var í geðsmunum mikilmenni, stiltr, gætinn, og ráðugr, en óheill og óhaldinorðr; hann varð jarl *Hákonar* kóngs *Gamla* 1258. 13) *Kolbeinn Arnórsson Ungi* var frækinn og örlátr, en víkíngr. Arið 1243 herjaði hann á Vestfjörðu, en ætlaði að eyða þá með skipaliði árinu eptir, svo *Þórðr Kakali* gæti þar ei viðhaldist, þá mættust þeir og börðust á flóanum milli Horns og Skaga 1244, skipti þá um lukkuna, svo *Þórðr* varð jafnan úr því drjúgari.

*Kakali*[1], *Skarði*[2] merkismenn;
Lögmann *Sturlu*[3], stærsta skáld,
stærðu[4] vísindin.

26. Samt þeir allir saman
svurfu frekt að mèr;
brestr barna gaman,
brjósta *mjólkin*[5] þver;
sugu þeir, um siðir blóð;
þá var eg farin, föl og bleik,
fallin æskan góð.

27. Þeir lètu' ei þar við lenda,
leingi velktu ráð;
sjá þeir ei hvörn enda
öldin feingi þjáð[6],
loksins seldu sjálfa mig[7],
svoað fáir[8] feingu vald
fullt, að stæra sig.

28. Öðrum undirgefin
upp frá þeirri tið[9]
var eg; birtu brèfin
börnin[10] giptu strið.
Hvar eru dæmi þó til þess,
að tjái þau móður sinni sjálf
soddan rauna vess?

V.

*Öld þessi er öld prestaríkis eðr biskupa, misjöfn af yfirgángi geistligra; þó affara betri enn upphafs. Island segir frá sinni fyrstu æfi undir norskum kóngum og svo frameptir.*

29. Anauð ei eg smakka,

1) Þórðr *Sighvatsson*, bróðir *Sturlu*. Einginn maðr hèr á landi hefir átt við meira ofrebli að rísa, einn og hjálparlaus í fyrstu, og brotizt betr fram úr því, enn Þórðr *Kakali*, gjörði það vit hans og harðfeingi, hann var þarhjá siðlátr og góðmenni; varð hann höfðingi alls lands 1247, og dó í Norvegi 1256. 2) *Þorgils Skarði Böðvarsson, Þórðarsonar, Hvammsturlusonar*; hann var hetja, mesti ákafamaðr, og hreinlyndastr í Sturlúnga öld; hann var drepinn í trygðum sofandi, norðr í Eyafirði 1258. 3) *Sturla* Þórðarson, bræðrúngr *Þórðar Kakala*, vitr maðr, lærðr og forspár, hann varð elztur Sturlúnga, fór hann fyrst utan nauðugr 1263, ritaði sögu *Hákonar kóngs Gamla* og *Magnúsar Lagabætis*, varð ráðgjafi hans og kom híngað með lögbók hans 1271 og dó í góðri elli 1284. 4) Gjörðu mikinn og frægan. 5) Þrutu efni í landinn. 6) Islendingar sjá ei, hvörnig þeir kæmust úr þeim vandræðum, nema þeir játtu kóngi hlýðni. 7) Þeir hjálpuðust að því hvörr með öðrum og þó hvörr fyrir sig. Arið 1220 lofaði *Snorri Sturluson Hákoni* kóngi, að koma Islandi undir hann, og setti eptir son sinn í gisling. Hann fór aptr utan 1239, þá gaf *Skúli* hertogi hönum jarls nafn, þótt ei yrði hljóðbært; því þá hann var kominn til Islands 1241, var hann veginn af *Gissuri Þorvaldssyni*. *Sturla Sighvatsson* lofaði því hinu sama, þá hann fór utan og gekk suðr 1235; en hann fèll, ásamt föður sinum og bróður, á Örligsstöðum, fyrir þeim *Gissuri* og *Kolbeini* 1238. *Þorgils Skarði* hèt því 1252, varð hann höfðingi Skag- og Eyfirðinga, en var þar skömmu þareptir svikinn, sem fyrr segir. Þórðr *Kakali* lofaði því, en efndi það ei, því boðaði kóngr hann út 1248, en hann fór ei fyrr enn 1250, og dó áðr aptr kæmi, hvaðáðr er sagt. En *Gissur* jarl batt loksins enda á þetta. 8) Helzt þeir *Gissur* jarl og *Rafn Oddsson*, hann var dótturson *Snorra Sturlusonar*. 9) Nefniliga ár 1262, þá svarinn var skattr Noregs kóngi af Vestfjörðum öllum, Norðlendinga fjórðúngi og Suhnlendinga fjórðúngi fyrir vestan Þjórsá, en nokkrir Rángæingar höfðu áðr unnið trúnaðareiða ár 1260. 10) Þorgils *Skarði* og einkanliga *Gissur* jarl; en ásamt þeim *Hallvarðr Gullskór*, sem og nokkrum sinnum var hingað til landsins sendr með þeim erindum.

oki gæzkan[1] rèð.
Þeim[2] var ekki' að þakka,
þótt eg væri með
línkind haldin hilmir[3] af;
*Magnús* kóngr meinabót
og merkislögin gaf.

30. Hann í tækan tíma
tók mig sjálfr inn[4];
harðnað hefði glíma,
hefði ei kóngrinn
tamið þeirra losta lund[5];
hvörr mundi' annann hafa strax
heljar sendt á fund[6].

31. Síðan hefi' eg setið
sona í kónga vist,
allt með frelsi etið
er mig hefir lyst,
kostað fè og fyrirhöfn;
börnin gjörðu bágindin
brátt að skiptum jöfn[7].

32. Þvíað orkan þrjóta
þá smámsaman fór;
Islands-förin[8] fljóta
færri' um síldarkór,
sem áðr höfðu gnótt og gull
fært með heiðri heim og gjört
húsin nægtafull.

33. I sig allar sugu
eignir geistligir;
táknum[9] til þess lugu,
að tyglað væri sèr:
hjúskap rèttum bregðr bann[10];
blóðs og erfða villa vond
vakna líka kann.

34. Vantrú[11] verkin styrkja,
verðr ei sálum fridt[12];
hèrmeð heilög kyrkja
hafa verðr sitt,
stólar, klaustur, klerka stètt;
leikir missi óðöl öll[13],

1) Miskunarfull stjórnun. 2) Islendingar, sem tóku sèr, og ei af góðfýsi, hin fyrsta konúng, vitandi ekkèrt, hvörsu öðrum eptirkomandi kóngum mundi háttað verða, svosem *Einar Þveræingr* sagði meir enn 200 árum fyrr á alþingi, þegar *Olafr* kóngr *Helgi* beiddist þar, fyrir sendiboða, ríkis. 3) Hèr er *singularis* fyrir *pluralis* og á að skiljast þeim eptirfylgjandi norsku konúngum. 4) Hann tók mig inn til sín, hýsti mig, skýldi mèr fyrir illviðrum og ófriðarstórmum. 5) Með lagasetningum og stjórnsemi. 6) Það er líkast svo mundi lyktað hafa, helzt deilur *Gissurar* jarls og umboðsmanna *Þórðar Kakala*. 7) Það er: bágindi landsins gjörðu ei einn öðrum fremri, heldr alla að mestu jafnauma; það er það versta tilstand eins lands, og hnekkir mesti einnar þjóðar í góðri stjórnsemi, að allir sèu að efnum jafnir, því þá þrýtr undireins herradæmið, óttinn og undirgefnin, og þykist hvörr sèr ærinn; en komi þá nokkuð ófall, þá getr einginn öðrum bjargað. 8) Nefniliga þau, sem landsmenn sjálfir áttu og fóru á í kaupferðir, hve fá þau verið hafi, það má, meðal annars, sjá af Sturlúnga sögu um Flóa bardaga árið 1244; eins var það gjört að nýlundu 1362, að nokkrir Eyfirðíngar fóru utan á skipi því, er þeir áttu, það var ferja mikil, sem þeir höfðu keypt að staðnum á Múnkaþverá. 9) Við dauða og helgi sumra manna, vígslur, stökla, bannsetníngar. 10) En þeir máttu þó að öðrum kosti fyrir fè kaupa; og það var skrítnara, að þó meinbugir uppkæmu, sem biskupar sögðu, þá leyfðist þeim samt þareptir, um tiltekinn nokkra ára tíma, saman að vera og skilja síðan. Svo var um *Þorvald Gissursson* og fyrri konu hans. Um kvongun presta var *Arni* biskup fyrst í deilu við *Gissur* jarl. 11) Þau ýktu furðuverk eðr heldr hjátrú. 12) I hreinsunareldinum, nema vel sè fyrir þeim gefið og miklar messur haldnar. 13) Þeir sem ekki vóru af röð geistligra, einúngis fyrir góðmennsku sína, þó þeir sjálfir eða þeirra forfeðr hefðu á eign sinni kyrkju byggt og auðgað, og presta tilhaldið.

sem á var kyrkja sett.
35. Allt það upp að reikna
yrði heldr lángt;
*Arni*[1] fór með feikna
frekju' að mörgu rángt,
svo að þrasið þaraf spannst;
misti rètta margr eign,
mönnum til þess faunst.
36. En hann *Arni Mildi*[2]
fyrir öllum þessa lands
herrum gekk í gildi,
getið er ei til sanns
nokkurr flytti annað eins[3]
utanfrá af gjafa gnótt,
sem gilvi[4] mat ei neins.

## VI.

*Bísna öld og stórsótta; þó í skárra lagi uppá frið og björg manna ámilli; helzt lètti því öllusaman að afstaðinni drepsóttinni miklu.*

37. Skammar stundir stoða
storðu dýrðin[5] man:
elda bísnin boða[6]

---

1) *Þorláksson*, biskup fyrstr með því nafni; hann kom til stóls í *Skálholti* árið 1269, en dó 1297. Hann er sá, sem Skálholts biskupar páfiskir í þeirra statútum nefna jafnan svo: *Magnús* (ɔ: hinn mikli) *Arni Þorláksson*, því þeir hafa síðan arið með hans kvígu, er það og að mestu ótrúandi, hvörsu hann byrjaði og vann með einúngis harðýðgi og kappi Staða-málin þvert ámóti kóngi, höfðíngjum og almúga hèr á landi, var það þó um sama skeið, sem hærst geingu biskupa þrætur í Norvegi, því árið 1283 gjörði *Eiríkr* kóngr þá útlæga. 2) Svo kallast *Arni* biskup *Annar*, sem nærst kom eptir *Staða-Arna*. Hann varð biskup árið 1303, kom híngað til lands með mikið vald af konúngi 1311, svo hann gekk þá hèr fyrir öllum öðrum; hann dó 1320; aðrir biskupar höfðu hèr þó meiri metorð, svosem *Ormr* biskup á Hólum, sem biskup varð 1347, en dó 1356, var hann þá orðinn með biskups tign hirðstjóri og hafði leigt land allt með sköttum og skyldum, þó var hann af harðýðgi og deilum illa þokkaðr og spennti góz dómkyrkjunnar. *Arni* hinn *Þriðji*, sá eiginliga var kallaðr hinn *Mildi*, vegna drambslegrar eyðslu sinnar; hann var biskup í Skálholti og jafnframt settr (*constitutus*) á Hólum, samt hirðstjóri, hann deyði 1420. 3) Híngað til lands, er til þess tekið, hvað fjölskrúðugr hann komið hafi ár 1311, þá hann sókti við til Skálholts kyrkju, er brunnið hafði af lopteldi 1309, hafði hann mest það fè og gripi að gjöfum; en *Arni* biskup *þriðji* eyddi auðlegð stólsins meir enn nokkurr annar biskup hèr, og flutti marga dýrgripi með sèr til Norvegs; hann var hèr fá ár. 4) *Hákon* kóngr *Magnússon*. 5) Islandi hjálpaði ei leingi velgeingni *Arna* biskups hins *Annars*. 6) Það var trú alþýðu fyrri manna, að hvort mundi boða annað, stórsóttir og jarðeldar; hèr í landi urðu og um þessar mundir hræðilig undur: ár 1332 brann Knappafells jökull í Öræfum svo mjög, að eldrinn sást um allt Island. Ar 1338 var hinn óttaligi sólar skortr og landskjálfti hinn mikli kallaðr, þá hrundu fyrir sunnan land 60 bæir, en komu upp víða nýir hverir; þá köstuðust menn af baki þeir sem á reið vóru og 3 menn rotuðust til dauðs. Sá skjálfti var undanfari eldgángsins mikla í Heklu árið 1340 og 1341, hvöreð eyddi 5 hreppa næstu og skemdi meiri hluta lands þessa; þá var svo mikið myrkr fyrir sunnan um Hvítasunnu leitið, að ljós varð að hafa í húsum um hærstan dag; öskufönnin var þá í ökla undir Eyafjöllum. I sama sinni brann, jafnframt Heklu, Knappafells jökull

bann og ólifjan[1],
eyddust bæir árin lök[2];
svarta fárið[3] flesta menn
færði' í heljar vök.
38. Þegar þessu linnti,
þá varð nokkru skárr[4],
betr sinu sinnti
sveita-múginn fár;
áðr fjöldinn þoldi þraung;
nú var betra' að gresja' um garð
gróða' og afla-faung.
39. Norskir, Irskir, Enskir[5]
áttu ferð til mín;
Þýzkir máttu mennskir[6]
mökin hafa fín
við mín börn í værð og ró:
hvorutveggjum hagnaðar[7]
heillin þokka bjó.
40. En þótt Islendíngar
ættu færstir skip[8],

og Herðabreið austr, urðu svo ógnarligir brestir, þá björgum laust saman í eldinum, að það heyrði um allt Island; næst eptir var dæmalaus snjóa-vetr. Arið 1362 brunnu í 6 stöðum jarðeldar hér í landi. Þá eyddist eystra Litlahèrað, 40 bæir (þar eru síðan kölluð Öræfi); fyrir Vestfjörðum var í sama sinn svo mikill vikra rekstr í sjónum af þessum eldgángi, að varla var skipgeingt í röstunum. Arið 1389 spúði Hekla eldi með svoddan uppburði, að hún teppti sjálf upprásina, brauzt svo eldrinn undir jörðunni og kom upp lángt fyrir neðan fjallið í tveim stöðum; uxu af þeim uppköstum í sjálfum opunum tvö ný fjöll. Arið eptir komu enn miklir landskjálftar, svo margir bæir hrundu, en dóu menn; þá urðu og svoddan fádæma skriður um land allt, að marga bæi aftók: einn var bærinn í Launguhlíð, þar sökk *Rafn* lögmaðr með heimafólki sínu, 16 mönnum. Mörg fleiri undur skeðu á þessum árum.

1) Það er: drepsóttir, sem um landið geingu jafnframt áðrtéðum bisnum, og vóru það helzt bólusóttir; hin fyrsta (sem eg veit af) kom árið 1240, önnur 1310, hin þriðja, mjög mannskæð, 1346 og 1347; af þeirri fjórðu bólusótt varð mestr manndauði um allt Island árið 1378, eða, sem aðrir annálar segja, 1380. 2) Af áðrsögðum tilfellum stórsótta og eldgánga, hvörjum fylgðu fyrir jarðskjálftar og skriður, en eptir hraunflóð, ösku-fall og vikra; eyddust við það jarðir, en peningr varð tannlaus og fèll svo. 3) ɔ: Svartidauðinn: svo kalla eg þessa pest, hvörrar líki ei hefir komið á Island; en sú plága, er gekk yfir mikinn hluta heims árið 1349 eðr 1350, kom hingað ei í það sinn, og var hin sóttin hèr um það skeið, er *Eiríkr* kóngr hinn *Pommerski* tók við ríki í Danmörk og Norvegi, árin 1401 og 1402. 4) Því eydst hafði fjöldi bæa og margir hreppar, af hvörjum sumir eru enn óbyggðir. 5) Þær þrjár síðustu þjóðir komu hingað seint á þessum tímum, en Norðmenn einúngis leingi frameptir; var viss tala kaupfara, sem hingað komu árliga eptir loforði kóngs, 6 skip; má það og sjá af sætt *Magnúsar* kóngs og *Jóns* erkibiskups, að hann (erkibiskupinn) mátti árliga senda til Islands 30 lestir mjöls til sölu, sú sætt er gjörð 1277. 6) mannúðligir. 7) Þá er raung kauphöndlan, er annarhvorr fær skaða, en báðir eiga að hafa nokkurn ábata eða í það minsta hagnað. 8) Það telja einir annálar fyrir nýmæli, að árið 1374 sigldu með *Jóni* biskupi á Hólum (eptir Spjaldhaga-þing og Smiðsmál hirðstjóra, hvörn þeir drepið höfðu fyrir harðræði og háðúngar við þá) Norðlendingar á skipi því, er þeir sjálfir áttu og hèr höfðu smíða látið, en aðrir annálar segja það skip hafi heitið Marjubolli og *Jón* biskup *Skalli* hafi sjálfr hann reisa látið, en kóngr hafi kallað

kaupmanns artin kringa[1]
kunni það í svip
upp að bæta frjáls[2]; eg finn[3],
þar sem gjaldið kemst umkring[4],
kvíslast ábatinn.

## VII.

***Sjöunda* öldin er tvískipt öld ágirndar og villu, siðbótar og lærdóms. Island segir frá hinum seinustu kathólsku, og hinum fyrstu tímum eptir siðaskiptin hèr á landi.**

41. Páfa-villan versta
var samt herfilig,
biskupar hvört bezta
bólið undir sig
drógu[5]. Fáir margra magns
gjörðu njóta[6]; *Gosi*[7] fèkk
*Grimmi* leitað agns[8].

42. Þá í Þýzkalandi
úr þoku ljósið skein:
*Luther*[9] lyga grandið,
lèt, og villu-mein,
eyðast klárt hjá kristnri drótt;
neytti *Kristján Þriðji*[10] þess,
þó hann færi hljótt.

43. Mín var lika leitað,
leizt mèr á það vel,
hreinni trú að heita[11];
heimsins barna vèl
nóg mig höfðu nídt og spjað,
þó fylkir klaustra feingi góz,
fullborgaði' hann það[12].

sèr það skip. Arið 1381 forgekk í hafi Þorlákssúðin það skip átti Skálholts kyrkja.

1) Lag til að verzla. 2) *frjáls* kauphöndlan, ɔ: í leyfi og fyrir utan stóra tolla, þýngsli eðr álögur. 3) Þarí er helzt fólgin betrun kaupskapar, bjargræðis og fjárgróða í einu landi, að lausir fèmunir og afgángs ágóði hafist jafnan í kaupskiptum til ávaxtar. 4) Það er: geingr millum manna (*roullerar*) í landinu. 5) Opt með nauðgunar kaupum og sakargiptum. 6) ɔ: Eigindóms maktar og nytja, þegar það, sem margir af-lifa, kemst undir einn mann til eign, hvörr ekki eyðir eins miklu inn í landið og hinir allir, þá skerðist almennings gagn og höndlan minkar að þeim mun, en fèð er ávaxtarlaust. 7) *Gottskálk* biskup *Nikulásson* hinn *Grimmi* var kallaðr; hans atferð, yfirgángr og málaferli, sèrilagi við *Jón Sigmundsson*, eru alkunnug; hann varð biskup árið 1500, en dó 1520. 8) Meinast hèr: ábati. 9) Dr. *Lúther* útgaf sinar *theses* ámóti aflátskramara *Tetzel* (*Tessilio*), sem í umboði *Leós Tiunda* páfa, seldi fyrirgefning allra gjörðra og ógjörðra synda fyrir peninga, og safnaði með því ógrynni fjár; þá kostaði lausn einnar sálar úr hreinsunareldi laka 5 fiska. Þetta skeði árið 1517 og varð það upphaf siðabótar *Lúthers*. 10) *Kristján Þriðji* fullkomnaði siðabótina í þessum ríkjum, en áðr hafði hana byrjað *Kristján Annar* og sèrilagi sá guðhræddi kóngr *Friðrik Fyrsti*. 11) Nefniliga og helzt árið 1540 eðr 1541, þegar *Gissur* biskup kom út, þá kom og út *Kristófer Hvítfeldr* með tvö stríðsskip og sókti *Ögmund* biskup. Hafði þá *Kristján Þriðji* þegar látið á einum degi í varðhald setja alla biskupa í sínum ríkjum. Eptir það tók *Jón* biskup *Arason* að hafa yfirreiðir, þó bryddi ei á hans heimskuliga fyrirtæki, að standa ámóti þeim nýa sið fyrir alvöru, fyrri enn árið 1547, þá fjandskaprinn kom ámilli þeirra *Marteins* biskups, hvörn hann fángaði árið eptir; hann var höggvinn 1550. 12) Miðr fróðir menn halda kóngr vor hafi ábatazt á því, að hann tók undir sig þessar eignir, en dró þær frá landinu; en þegar menn telja gjafir kónga aptr ámóti, bæði til andligrar og annara stètta manna, samt

44. Friðr ferðar-broddr[1]
fýsti dæmin ný;
*Guðbrandr*[2] og *Oddr*[3]
áttu hlut að því,
meðr vildismönnum hèr,
að guðsótta' og kenning Krists
kynnti fólkið sèr.

VIII.

*Þessi hin átta öldin er óhrein, efa-full og ómensku. Island fýsir enn að fjölga börnum, þar hin eru aldri orpin: hún faðir í elli sinni mörg börn, og segir hvörnveg þeim sè háttað.*

45. Hugði' eg sorgir sjatna,
samt finn eg einhvörn keim;
börnin þegar batna
banar ellin þeim[4];
þó[5] mèr hylpi[6] hvörgi *Lofn*[7],
yrkja vildi' eg annað sinn
uppá nýan stofn.

46. En hún æska farin
elli gekk ámót[8];
blóðs var ólga barin[9],
biluð yndishót;
mána seina færði' eg fórn[10];
snemma kindtr kólnar að
kvöldi' umsiðir órn.

47. Jukust hriðir harðar,
höfuð kom í ljós,
mitt örverpi[11] var það,
viknar heldr drós;
líf í fóstri varla var;
of smátt, horað, óheimsligt,
ekki saug það par.

48. Móður-hjartað mæddi
mig, að halda við
fóstrinu, sem eg fæddi;
flestar segið þið[12],
náttúran það nefni tal[13]:
lífs afkvæmi sínu svo
sèrhvörr bjarga skal.

49. Móður margra bura
mjólk og glætu dregg
þraut; við fæðu þura
þau komust á legg
börnin, sem eg seinast ól,

---

laun umboðsmanna, þá sèst að jafnmikið geingr inní landið, og konúnginn skortir heldr enn ekki í þeim skiptum.

1) ɔ: Þeir, sem undan öðrum geingu til þessa, nefniliga að bæta trúarbrögðin. 2) Hann fæddist árið 1539, varð biskup 1571 og dó 1627; hann hefir í andligum efnum mest gott gjört sínu föðurlandi (næst *Þorgeiri Ljósvetninga-goða*) með því að skíra (útleggja) og prenta bibliuna, samt margar aðrar ómissandi bækr; þar fyrir utan hefir hann með prentverkinu mjög prýdt lands og almennings efni, því, auk styrkingar og viðhalds kristindómsins, veldr það peninga hræringu og margri annari nytsemi. 3) *Oddr* hinn *Norski Gottskálksson* biskups, var lærðr maðr og góðmenni og velþokkaðr hèr á landi; hann útlagði það nýa testament og *Korvins* postillu og lèt prenta utanlands, braut hann með þessu ísinn fyrir þeim nýa sið, og var það því meir hrósvert, að hann var ei andligrar stèttar maðr. *Oddr* varð lögmaðr árið 1554 og drukknaði í Laxá í Kjós 1557; liggr hann í Skálholti. 4) Vóru dauðir flestir hinir gömlu og góðu menn, en uxu upp aðrir nýir. 5) Þótt *Venus* færi frá mèr og þryti af elli girnd og eðli til barnsgetnaðar. 6) ɔ: hjálpaði. 7) *Lofn* var ein af Asynjum í Eddu; kveikir hún ástir milli karla og kvenna. 8) Enduðust fulltíða árin, en byrjaðist þurðar-æfin, eðr ellin. 9) deyfð, lækkuð. 10) Tíðirnar (*menstrua*) vóru í afrènun. 11) Seinasti og minsti burðr; sú líking er af fuglum tekin, því þeir verpa seinast (þá ofgamlir gjörast til varpsins) eggi dálitlu, hvört eiginliga kallast örverpi og öðru nafni hreiðrböllur. 12) Þið mæðrnar dætr mínar. 13) ɔ: náttúran innræti og skipi þá reglu.

í þeim mergr einginn var,
úr þeim tápið kól[1].
50. Auk þess gjörði greina[2],
gæfu þrots eg naut[3]:
meiri meya' enn sveina[4]
mergð eg ala hlaut;
atvinnan varð af því rír[5];
til annars þroskinn varla vinnst
enn vakta naut og kýr.

## IX.

*Island segir nú frá sjálfri sèr og síns líkama ásigkomulagi, mest í eptirlíkingum, berandi það saman við innbyggjaranna tilstand.*

51. Nú hefi' eg sagt þèr svona,
sagan er orðin laung;
mæða minna sona
mínu brjósti þraung
eykr, hósta, kaun og kvef;
sjaldan eg á ferli finnst[6],
frekt eg ligg og sef[7].
52. Ef eg uppi vaki
einsog skógar lauf[8]
bliknað, hrist og hrakið;
hindrar sjónin dauf,
að eg ekki þá[9] fæ þekkt;
orðin heyri' og athæfið,
er það breytiligt!
53. Minn hefir faldr feingið
fjúka ryk og kám[10];
allt er af sèr geingið[11],
er eg í kyrtli[12] grám[13];
skallann hárið hylr ei[14];
hvar eru þingin[15] þau eg bar
þegar eg var mey[16]?
54. Skemt er skrautið græna[17],
skorin helftin frá[18],
krystalls verkið væna[19]
verpr blettum á[20],
trefjur[21] einar eptir sè:
hylja tötrar[22] holdið mitt,
hrúðr og óværi[23].
55. Eg ligg allar nætr

1) Hèr talar Island í geðshræríngu, það er: henni er ofmikið niðri fyrir, og því tekr hún svo frekt til orða, sem menn almennt plaga í sama ástandi; meinast hèr litill mergr, það er: manndáðin varð miklu minni enn áðr, sumpart af því, að efni landsins vóru til þurðar geingin. 2) Það gjörði líka svo mikinn mun og umskipti. 3) *naut* tekst hèr í slæmri merkingu (*in malam partem*) fyrir galdt. 4) Hèr er samlíking: feingu færri af þeim karlmanns atgjörfi eðr urðu menn fyrir sèr. 5) því konur eru ei til aðdrátta ætlaðar eðr þúngrar útivinnu. 6) I mökum við eða samkvæmi annara þjóða. 7) heldr er eg í einsetu og ligg hulin í þeirra gleymd og ókunnugleik. 8) Þá er eg eins og skógar lauf. 9) syni mína hvörn frá öðrum og vegna þess eingan af þeim nafngreint. 10) Jöklar eru vaxnir af snjó og blakkir orðnir af elli og laungum duptrigningi. 11) Það sjá allir sem vilja og nokkra aðgætni, vit og fróðleik hafa. 12) Af jökulgárum og sumar-sköflum víðast hvar. 13) *grám* fyrir gráum, svosem fám fyrir fáum. 14) Heiðar og fjöll eru graslaus. 15) Grös og viður og önnur sum landgæði. 16) Aðr enn eg byggðist. 17) blómlig græn jörð, grasrót og jarðvegur burtnuminn af uppblæstri (stórmum og vindum af vissri átt) jarðeldum skriðum og jarðföllum. 18) Þegar menn lesa sögurnar, og gá nú að bygðinni, fjöllum og eyðimörkum, hvar víðast finnast visnar reinglur, og tágar uppúr holtum, melum og söndum, í flögum, skriðum og árhlaupum, innanum það byggða land, þá mun ei á þetta vanta. 19) Arlækur vesnaðr og ljótkaðr, en þeirra farvegur aflagaðr og útvíðkaðr. 20) Svo stórar eyrar eru nú komnar, sem ei hafa verið tilforna. 21) Þunna jörð, litla grasrót, og hèr og hvar eptirstandandi torfur. 22) Spillt og raskað landslag, sem sagt er. 23) Hraun og jarðhita brot.

úti klæðalaus[1],
sit í sjó með fætr[2],
sækir bruni daus[3],
ennið lemr frost og fjúk;
því er ei kin þó kerling sè
karar-aum og sjúk.

56. Hvar eru jurtir heiða[4]?
Hvar en dýru grös?
Bygð er orðin eyða,
úldnar blóm í kös,
fagrir runnar[5] finnast síst,
upp úr jörðu bergið blæs[6],
bjarg úr sjónum skýzt[7].

57. Fegrst blómstrin bera
berar flár og hraun;
undan forsi og frera[8]
færa sætan daun:
eyra-rósin[9] kennir kurt;
mela-sólin[10] eins ber af
engja' og túna júrt[11].

58. Þig mun undra þetta,
það er og ekki fjær;
ó! að allt-eins rèttar
urtir dygða vær
findum þessum flösum á[12],
það er ekki þessu líkt,
þar er lángt ífrá.

59. Sína dygða dofa
dafnar túnum í;
sáðmennirnir[13] sofa,
sèrðu glöggt af því,
síðr kunni klúngrin gróf[14]
annað gefa' enn mylsnu, mold,
mosa' og geitnaskóf[15].

1) á bersvæði og svo skinin, en ekki í skjóli annara landa. 2) Mínar hólknóttu undirstöður eru fullar af sjó, og strandir umhverfis brimbarðar og ágeingnar af sjóargángi. 3) Jarðeldr brennir mig að neðanverðu. 4) sem uxu þar sem nú er auðn. 5) af stórviðar skógum og eikum; þó menn vilji ei sögunum trúa, þá trúi þeir reynslunni: úr öllu mótorfi koma fúnir kvistir og triástykki, því hvar sem það er, þar er hin forna gróna jörð sokkin, og önnur ný ofaná vaxin; úr stórskriðum og jarðföllum koma opt fram stór trè; að eik hafi hèr vaxið það segja sögur, en hvað um það er, þá hafa hèr í fjallgili nýliga fundizt ýmislig triáblöð, að steini orðin, svosem af stóru birki og viðir, en sèrilagi einslags blöð, stór sem meðalmanns lófi, hvör mjög lík eru eikarblöðum. 6) Almenníngr segir, að þá jörð blásist, þá færist grjótið uppúr grasrót; hitt er víst, að við það jörðin uppviðrast, og þynnist, en rótin deyr, þá taka klettar að mæna yfir, og sýnist að þeir þokist upp. 7) Söm er landsmanna meining um þetta, þótt sjórum þverri og lækki, hvað bæði hèr og annarstaðar, helzt í hinu Eystra-salti er annmarkað. 8) klaka- og ísalögum. 9) *eyra-rós*, er einhvör blómligust jurt hèr á landi, hún vex sumstaðar í dala ár-eyrum, með fagr-rauðu blómstri, og bregðr til fíólu-bláma. 10) *mela-sól*, er önnur hin fegrsta jurt, lík í skapnaði sóleyu; hún vex víða í melum á Vestfjörðum, með há-gulu blómstri, sem bregðr til græns papagóa litar. 11) jurtum og grösum, sem þar vaxa. 12) Í þessari samlíkan eru tvær meiníngar: 1. fyrst útsker þetta ber jafnfagrar eðr fegri jurtir, en hin betri og byggðari löndin, þá væri þaraf ætlandi og óskandi, að eyarmönnum væri lánað dygðarækt og sinnisgæði þareptir. 2. þar það versta af landinu gefr svo fagra ávexti, þá skyldi bygðin, sem bezt er ræktuð og vaxin, gefa mest dygðblómstrandi menn; en þar geingr þvert ámóti, og er það raunar ekki að undra, því 13) ef þau lönd, sem bezt eru ræktuð, gefa daufa menn í dygðum og góðri framkvæmd, eins þá sem aðra eiga að siða, 14) þá er ei undr, þó hrjóstugt og óræktað land 15) gæfi ei af sèr annað enn tómt afhrak af mönnum; en hèr má þó miðla málum.

## X.

*Hèr tekr helzt til heims-ádeilan. Ísland telr upp eina og aðra algeinga lesti, skaðligar tilhneigíngar, aðferðir, siðvenjur og ávana hjá sínum börnum, sem valdi og valdið hafi brestum í landstjórn, hèraðs- og búskipunum, og bágindi þeirrar seinustu aldar.*

60. Aðr endast kvæði
eg vil tala hreint[1];
börnin held eg bæði
braggast muni seint
og svo líka temjast tregt;
nú skal segja sannleikann,
sè það leyfilegt.

61. Þó eg lafi lotin,
leingi er túngan heil;
ei er þánkinn þrotinn,
þó mín barna feil
á mèr hafi unnið slig[2];
þeir hafa valið sjálfir sèr
síðan mæðu-stig.

62. Hús-stjórnin er haldin
helgust[3] stjórnarlaus;
hjúin blóta baldin,
brúka nöldr, raus,
ef ei verkin líka lýð;
hefðuð þið boðið annað eins[4]
á Sturlúnga tíð?

63. Vetra vinnu' og sumra
verðr blessan treg;
hjóna sambúð sumra
síst er náttúrlig[5],
færstan guði gefa hur[6];
í sjálfræði asnist fram[7]
einsog bestiur.

64. Dygð menn halda hrekki,
hrósa lasta vild[8];
sómann sè eg ekki,
sumir kalla snild
að lasta' á bak og bera róg;
fagrgala framaní
falskir kunna nóg.

65. Hreinlyndir þeir heita
og hermannligir vel,
sem skitnu skensi beita;
skarpleik mestan tel
bæði logið brixla' og satt;
en hitt má ekki nefna á nafn,
sem nið og lygi batt[9].

66. Af upphlaupa-girni
af eru vopnin dæmd[10];
varga við og birni

---

1) skírt og ekki í eptirlíkíngum sem híngað til. 2) Hèr vex henni, af harminum, aptr í augum, því ekki er það Íslendingum eða þeirra sjálfskapar-vítum allt að kenna, þar sóttir, hallæri og aðrgreindar stórar landskemdir hafa ollað nokkru af því. 3) góðmannligust og saklausust. 4) Hefðuð þið boðið annað eins húsbændum ykkar og yfirboðurum á þeim dögum, þá munduð þið hafa hitt ykkur sjálfa fyrir; því á Sturlúnga öld máttu fara bændr, húskarlar og griðmenn, hvað, hvört, og nær sem skipað var, á degi og nóttu, sumrum og vetrum, ei einúngis til þýngsta og harðasta erfiðis, heldr og hernaðar, manndrápa eðr annara mestu hættuverka, og sæta sjálfir áfarkostum, lífs eða lima tjóni, ef þeir hlýddu ei. 5) eptir guðs tilskipun í náttúrunni, enn síðr eptir hans orði. 6) sjaldnast ala börn sín upp í guðsótta og góðum siðum, svo þau sèu honum þægiligt offr. 7) láti þau ana fram eptir munni og maga. 8) Það er nú svo komið, að menn halda suma lesti dygðir að vera, og sumar dygðir að vera lesti. 9) Um það er þagað sem til hróss er eðr hnekkja kann álygi eðr vondu umtali. 10) *Magnús* í Ögri dæmdi árið 1581, að menn skyldu hèr ei vopn bera, en skyldu þó eiga þau, ef á þyrfti að halda ámóti útlendum ófriði og ránum; hann getr í þessum dómi um aðra ályktun, hvarmeð vopn sèu öldúngis bönnuð og aftekin; segir hann að danskir valdsmenn hèr, fóvetar og líka sýslumenn hafi brotið þau fyrir Íslenzkum, og tekið þau af þeim.

vel er þjóðin ræmd[1];
ef að nokkurr í þá beit,
halann leggja' og lúðra burt
líkt sem önnur geit.

67. Hjartaprýðin heima
hvörgi gefr sig;
hjá framandi feima[2],
fara við menn á svig;
kaupmanninn þeir meta mest,
útlendr, þótt argr sè,
við altari hjá þeim sezt.

68. Opt hann að þeim lýgr
uppá sál og trú,
saftina'[3] úr þeim sýgr;
samt þeir halda bú
fyrir soddan merkismenn,
þó sveingdin kvelji konu' og börn,
kaupa þeir varnínginn[4].

69. Það hefir þessu landi
þjakað allra mest,
auðr óteljandi
agn og matan bezt
árliga geingr útúr því;
aptr kemr ekki margt,
utan glingrin ný.

70. Hjálpuðust ekki áðr
elztu börnin mín?
Síst þau smakka náðu
sykr, brennvín,
ekki tóbak eða te[5];
vitlaus öldin verðr nú,
nema vökvuð á því sè.

71. Man eg dæmi drjúgum
drykkjuskapar meins;
landsins miklum múgum,
mestum höfðum[6] eins,
hratt það opt í haminn svíns,
dygð er haldin andakt og
orka brennuvíns[7].

72. Hreysti til þess hafa
hart að fljúgast á;
allar skammir skrafa,
skart það heita má,
og í frelsi góðu gert;
fyrst hann kallinn kendr var
klaga' hann er ei vert.

73. Oþjálga' eins og drumba
ætla' eg suma menn,
er með þrái þumba
þvert til skaðans; en
gott ei vilja nokkuð nýtt[8];
glópskan þykir gamla bezt,
gleymt er hið forna nýtt[9].

74. Þóað efnin þrotni

---

1) Þetta er skop, og meinast að hún sè illa ræmd af úlfbúð og innbyrðis ósamlyndi. 2) eru hjá útlendum feimnir bljúgir og ódjarfmannligir. 3) *Saft* eðr næringarvessi (*succus*), svosem blóð í dýrum, gróða vökvi í trjám og jurtum, o. s. frv. 4) *Varningr* meinast hèr kramvara eðr óþarfi, sem þeim er ódýrt látinn, og þeir prettast opt á. 5) en þeirra fæða var: skyr, ostr, smjör, slátr, harðr fiskr, mjöðr, mungát og mysa, eða munu þeir hafa haft verri heilsu, minni líkams hreysti, eða verið ófríðari sýnum eðr ógerpiligri enn Islendingar eru á þessum tímum? Nei, nei! eins og þeir eru lastverðir, sem í öllu vilja halda við þá íslenzku matarnautn og tilreiðslu, svo eru og hinir, er hana vilja með öllu aftaka. Brúki menn vistir og hagsýni forfeðranna, ásamt smánýtni og hreinleika annara þjóða! 6) bæði höfðingjum, og mörgum öðrum skörpustu, vitrustu og lærðustu mönnum. 7) hvör þó optast er ótímabær, óstefnilig og hvikul guðsdýrkan; eins sú hreysti, hugprýði og framkvæmd, sem að mörgum kemr í drykkjuskap, hún er nú svo algeingin, að menn halda hana að vera sanna dygð, hvör þó altið framkemr af frjálsri og ótrublaðri ályktun skynsamligs vilja sálarinnar. 8) nýkomið, þó gott og þarfligt sè. 9) nytsamligir hlutir, sem fornmenn kunnu og brúkuðu, t. d. bústjóru, matar skamtr, húsastarf, vatnsleiðingar á túnum, akryrkja, garðlag, vegabætr, karlmanna íþróttir fyrir líkamann, þarfligar kvenna handýrðir, svosem dýrir saumar og vefnaðr, og margt fleira, sem menn ei nú kunna.

og þurfi nýan skamt[1];
kyrrir á kistu botni
kasast manrar samt;
einginn hefir af þeim not;
hinir[2] burtu fötin fá
fyrir kjöt og flot.
75. Þeir, sem þrífast[3] kunna
þó með yðn og stund,
gánga svo til grunna[4],
greiða' af þýðri lund
óborgaðan optast sjá;
utá húsgáng eta með
umbleypingar þá.
76. Aðr æra þókti
ytra' að vinna fèð[5];
öldin sæmdir sókti
siglingunum með;
nú er orðið öðruvís:
fèð orlendis[6] eyðist skjótt
örbyrgð þaðan rís.
77. Færstir listir læra
landinu til góðs;
en að státa og stæra
stoltir neyta móðs;
atferð þeirra er ómátlig:
hoppa, blýstra, snýta snart,
snússa' og skæla sig.
78. Hrifu þeir ei þekkja,
þeim er túngan gleymd;
sprokin bændr blekkja
bjöguð; húngrs eymd
matast seint við sniðin ný;
ýngismeyar geta gott[7]
geingist fyrir því.
79. Sakna' eg frægra forðum
fyrirmanna lands;
gát í gjörð og orðum,
guð og lögmál hans
elsknðu margir leynst og ljóst;
litilmannligt lizt þeim nú
að leggjast á hans brjóst.
80. Aumast undirdánum
er það siðatjón,
ef hærri tilla tánum
trautt á dygða frón[8],
þó þeir kendu' og rèðu rètt[9];
reykinn sèr, en rèttin ei[10],
reikna má það prett
81. Manna dæmin[11] mega
miklu koma' í verk;
yfirboðnir eiga[12]
að auka dæmin merk;
með því bezt sem á þeim er[13]
herrar sjálfir lýðinn lands
læra' að heyra sèr.
82. Hvar er höfðíngs þótti?
Hvar er rausnin nú?
Hvar er herrans ótti?
Hvar er dygð og trú?
Það er komið á ríngul-reið;
öfund vex, en ómenskan
eingu kemr á leið.
83. I öllu vilja vera
vitrir, lærðir; þó
ávöxt eingan bera;
áreynslan er mjó,

1) Að finna uppá nýa atferð í búsháttum sèr til bjargar, þegar hin gömlu og alþekktu meðölin bregðast. 2) brutlarar, svallarar, mathákar. 3) ɔ: hjálpast. 4) komast í vesæld. 5) að græða fè utanlands. 6) *orlendis* eðr erlendis, ntanlands; hèðan mannsnafnið *Erlendr*. 7) *gott* fyrir vel, er viðtekin danskr talsmáti. 8) Ef meiri háttar menn vilja ei sjálfir snerta þann fagra dygða veg. 9) þ. e. prèdiknðu, stjórnuðu og skipuðu rèttiliga. 10) Það er alþekktr málsháttur: að fá ei nema reykinn af rèttunum. 11) *Philosophia exemplaris*, eða dæma-spekin siðar mennina allramest, það er: þegar menn gá að dæmum, vondum og góðum, fornum og nýum í heiminum. 12) þ. e. fjölga, með eigin verkum, góðum eptirdæmum. 13) Eingin dæmi, hvort heldr þau eru góð eðr vond, eru meir lifandi og minnisstæðari enn þau nýu, hvör menn sjálfir sjá og finna, og allra ljósust eru þau á þeim, sem yfir aðra eru settir; því sèu þau góð, þá hafa þau segulsteins náttúru, og draga aðra menn, jafnvel nauðuga, eptir sèr; þau verka þá hjá góðum mönnum álit og elskn, en hjá hinum sífeldt hitahald, blygðun og skamfeilni.

þurfi landið þeirra við;
blákaldt ætla' að berja fram
bannsett óvitið.

84. Þó sumir sýnist nettir,
siðugir, klókir bezt,
og alþýðan þar eptir
apa vilji mest,
gull er ei allt sem glansann ber,
aðrar þjóðir aðra snild
akta[1], trúðu mèr!

85. Vekja skyldu vara
vitin fyrri sögð,
spakir höldar spara
spaug og dreingja brögð[2];
rèttinum sómir siðlætið[3];

1) Þær halda annað fyrir klókskap og kurteysi; o: þjóðir þær sem nú haldast velsiðaðar, hvörjar svo eru (það er að skilja: fleiri og meiri háttar menn þeirra ámillum) af margra alda skynsemdar æfingu, umgeingni (*commerciis*), lærdómi og reynslu orðnar. Kurteysi (*decorum*) hefir hvorki syndsamligt nè dygðugt í sèr, og hún er hjá hvörri þjóð ýmislig (svosem klæðasnið, kompliment, vissar ceremoniur o. s. frv.), samt verðr það að synd móti forsjálni, svo og klókskapar reglum, hana að afrækja, en dygð að yðka með hófi. Nú vita flestir menn í heldri röð, kurteysinnar reglur í sínu landi, og eptir sínu höfði (*principiis*), og þykir hvörri þjóð það ljótt vera hjá öðrum þjóðum, sem þeim er mótstæðiligt. Þó skiptir þetta mestu hjá illa siðaðri þjóð, og óvaninni við háttu annara landa. En þar hittast þó fáeinir menn, þeir eð eru svosem *qvinta essentia*, eðr kjarni mannkynsins, hvörjir finna, eins þótt þeir sèu með útlendum, þá allra minnstu ásteiting er verðr (jafnvel fyrir kurteysustu, klókustu og beztu mönnum) í almennu tali, látum og umgeingni, þótt aðrir menn sjái þær ekki. Þessir kallast að hafa næman og góðan smekk, og náttúran sýnir á þeim sitt meistarastykki. Þeir eru allstaðar sem í föðurlandi, og allra landa skikk sýnist að vera þeim náttúrligt. Hvör ein þjóð hefir fyrir sig nokkrar frábreytnar upphafsreglur, tilhneigingar og takta, sem hún viðheldr og vèr í einu orði köllum *principia*; þau þekkja svoddan smekknæmir Phœniees ei einasta á öðrum þjóðum, heldr og á hvörjum landa sinna og svo á sjálfum sèr, en eingin getr öðrum kennt eða reglur gefið til þvílíkrar þekkingar, nema náttúran sjálf, af því að hún (þekkingin) er svo fjölskild, smásmuglig og nákvæm. Sama er að segja um klókskapinn, er náskildr er áðr umtalaðri gáfu; hann á hvorki að stiga niðr til of einfaldligra ærligheita, nè upp til fals eðr óhreinleika; hann eiga menn að brúka til að koma því öllu í verk, er þeim sýnist gagnligt; þó svo, að eingum sè ránglega gjörðr skaði í því minnsta. Sá sem er rètt klókr, hann kallast eðr heldst ei klókr almenniliga; því úr því menn vita og segja að einn sè klókr, þá er hann það ekki leingr. Nú má af þessu sjá, að það er ekki allt gull sem glóir, og að flestir af þeim, sem almenningr segir að kunni sig vel, og sèu klókir, þeir eru það siðr enn ekki. 2) Vitrir menn gjöra sig ei of lèttvæga eðr auðvelda í gamni eðr alvöru; án þess má einn höfðingi ei vera, að hann sè með hófi alvarligr og ekki of fljótr til að gjöra það, sem af honum er óskað, nema það sem guðs dýrð eðr brýn nauðsyn viðliggr. 3) Það styrkir hann og prýðir, ef meðfylgir góðvild og sannsýni, til að sjá hvað öllum bezt gagnar, getr optast vitr höfðingi miðlað því, á þá að vera með það, sem áðr er sagt: að sjálfr hann sè það bezta eptirdæmi, og hitt lika, að hann

illa villir[1] lúsa-leit[2].
lög og dóma frið.
86. Vinir, vald, ábati
volaðs kefja rètt;
hleypr laus hinn lati,
leyfist kaupmanns stètt
okr-máng við eið og raup:
eg má ei græta' hann góða mann!
hann gefr mèr betri kaup.
87. Eru undirgefnir
eingum betri mun;
fái þeir æðri efni[3],
öfund[4] kalla mun
illa feingin aura söfn;
vittu samt að verri er
valdstjórn[5] bændum jöfn.
88. Nú hefi' eg sagt hið sanna,
sýnast má það beikst;
ei til allra manna
er þó málið treiskt,
það væri illt og apaligt[6];
guð á margan góðan[7], sem
girnist dygð og spekt.
89. Bæði minni' og meiri[8]
munr[9] held eg sè;
finnst ei þjóð[10] með þeirri
þrjózku og ofbeldi,
en vondir optar vinna leik[11];
frómir komast færstir upp
fyrir moða-reyk.

XI.

*Island talar til dætra sinna (kvennfólksins), áminnir þær með fornum dæmum, biðr þær að hjálpa sèr, og drepr á, hvörnig þær skuli fara að því.*

90. Dyggar dætr mínar!
daprt kveðju tal,
áðr efnið dvínar,
allt eg segja skal;
flest mun koma fyrir dag[12];
eg hefi þulið ykkur mitt
ásigkomulag.
91. Von er núna nokkur
nýtt mun hefjast spil[13];
ef herrann hjálpar okkur
þið hljótið að koma til.

---

sè alvarligr og ei auðveldr; því með þessu öllu samt ávinnr hann sèr undir eins álit og elsku; skal álitið hafa þann hærri sess, annars vekr elskan með tímanum ofmikinn kunnugleik, og gjörir einn höfðíngja of almenniligan, því einsog nauðugt álit fæðir hatr, svo fæðir sjálfráð elska forakt.

1) of smásmugligar lagaþrætur í sókn, vörn eða dómum verða að vitleysu, og gjöra úr rèttinum apaspil, jafnvel þótt honum kynnu að ná eptir strángasta rètti, því þá verðr (svosem máltækið hljóðar) mesti rèttr mestu ránglndi. 2) hún raskar þeim griðum og náðum manna ámillum, sem rèttargángr og ályktanir höfðíngja eiga við að halda. 3) ef yfirmennirnir komast til nokkurrar auðlegðar. 4) Menn kalla opt af öfund það allt illa undirkomið, þó þeir viti, að optast er í því nokkuð og stundum allt logið. 5) Ill valdstjórn er slæm, eingin valdstjórn er miklu verri, en lángverst er sú valdstjórn, sem hefir einga krapta yfir þá undirgefnu, og er uppá þá komin, því það er gjört í skjóli rèttar, ámóti öllum rètti, fyrir lífið framkvæmdarinnar. 6) að meina þetta til allra jafnt. 7) ɔ: hèr í landi. 8) ɔ: manna. 9) mismunr í dygða og lasta æfíngu. 10) Eingin þjóð er svo vond, að ei finnist góðir menn innanum; mörgum ritmeisturum hefir sú illska og fávizka á-orðið, að álykta svo um ýmsra landa lýdi, og fyrir því höfum vèr orðið Islendingar af *Munster*, *Blevken*, *Andersyni* og fleirum; en það er allra glópsligast og undireins illmannligt, þegar af einum eðr fáum dæmum misjöfnum, eru rök dregin til að fella og ófrægja heilt fólk, eðr eigna öllum landsmönnum alla tíma, eins landsmanns eðr eins tíma ávirðing. 11) þeir koma fram sínum vilja optar enn hinir góðu. 12) ɔ: augljóst verða. 13) mèr segir svo hugr um, að nýr leikr muni verða á borði.

árafjöldinn dregr drjúgt;
sleppið fornri fávizku,
farið að öllu mjúkt!

92. Ykkur byrjar ekki
að annast manna ráð[1];
nirfils nizkan hnekkir[2]
nokkuð landsins dáð;
*Papyrius*[3] lèk á lind;
*Vetrúria*[4] mun ei mörg
minka snerru-vind[5].

93. *Eldri Cató*[6] kendi
kvendum sannleikann,
var hann vifum blendinn;
*Valerius*[7] fann
meðal-hóf með hægyrðum,
spakr þokka sprakka fèkk,
spyrjið *Livium*[8].

94. Góðra drósa dæmi
dragi hvörr til sín;
soddan konum sæmir
sæmd við pell og lín!
lempnin vinur laungum mest[9],
ef hún brúkuð er til þess,
sem öllum gegnir bezt.

XII.

*Um síðir upphefst Island í góðri von, segir með hvörjum hætti börn sín geti batnað, og kveðst enn eiga eptir eina hrið. Hún segir frá sinni síðustu undarligu giptingu, læzt muni komast úr álögum, kasta ellibelgnum, og vakna síðan úng aptr í annað sinn.*

95. Vaknið vinur allar,
vaknið hreystimenn,

---

1) Meinast hèr fyrir: yfirráð bænda, síðan manna forráð hèraðsskipanir og aðrar opinberar sakir. 2) Það er nú víst, að þegar menn eru of fastheldnir og aðsjálir í hinum smærstu hlutum, þá eyða þeir með því og spilla fyrir sèr stórum hlutum óvitandi; kallast það: að spara skildínginn til að sóa dalnum. 3) Þessi mikli rómverski höfðíngi gantaði eitt sinn í æsku sinni móður sína, á þennan hátt: synir öldúnganna í Rómaborg höfðu leyfi til að fylgjast með feðrum sínum uppi ráðhúsið, svo þeir með aldrinum vendust við ríkisstjórnina; einn af þeim var *Papyríus*, hvörn móðir hans spurði nokkru sinni, um hvað höndlað hefði verið í ráðinu þann-dag, en hann vildi það fyrir eingan mun opinbera; um síðir, þá hann gat ei leingr undan komizt, skrökvar hann því til, að þar um hefði verið talað í ráðinu, hvort hentugra mundi Rómverjum, að einn maðr hefdi tvær konur, eðr ein kona tvo menn. Hèrum þókti móður *Papyríusar* mikilsvert, og segir hún það brátt einni vinkonu sinni, og á litilli stundu komst þetta um allan bæinn, og uppvægði húsfreyur Rómverja. Morguninn eptir þusti kvennfólkið til ráðhússins og beiddi með ákefð, að kona hvör mætti tvo menn hafa. Ur þessu varð hlátr mikill, en þó hugleiddu öldúngar upphaf þessa máls, og ályktuðu, að einginn únglingr mætti uppfrá þeim degi koma í ráðstofuna, nema *Papyríus* einn. 4) *Vetrúría*, móðir *M. Córíólanusar*, frelsaði allt Rómaríki frá undirgángi, með tölu þeirri, er hún hèlt til sonar síns, hvörr seztr var um Rómaborg, og rekið hafði aptr sendiboða og presta bæarmanna, sem auðmjúkliga báðu um frið og miskun. 5) ɔ: styrjaldar óróa. 6) *Eldri Cató Censirinus*, í ræðu þeirri, er hann hèlt ámóti of miklum áburði rómverskra kvenna, hvörjar ámóti því stóðu með upphlaupi, að í lög væri leiddr að nýu dómr *Oppíusar*, er bannadi konum að bera meira í klæðum, enn eins dals þýngð af gulli eðr silfri, og ei skyldu klæði þeirra marglit vera. 7) *Lucius Valerius*, mikilsháttar maðr í Rómaborg, hèlt í sama sinn lánga tölu gegn *Catóni*, og miðlaði þó mjúkliga því máli. 8) *Livium* sagnameistara megið þið lesa um þetta í 34 B. 1 Kap. 9) Það sannar laungum reynslan, að hún er smiðr og lærimóðir mannligrar umgeingni.

konur bæði' og karlar!
kvölda tekr senn;
mín hin gamla vaknar von;
þennan völsku[1] sigrið svefn,
sjáið vera kon[2]!
96. Guð, minn gamli faðir,
gipti mig heilli þjóð,
víst hans vilji það er[3],
vaknið börnin góð!
sólin lýsir[4] loptið breitt,
hugsið aldrei' að handaverk
hans verði' ekki neitt[5].
97. Fènda bræði bólgin[6]
birtir gallið svart,
eldr[7] í ösku fólginn
upp mun lifna snart;
öfund nístir náa kul[8];
þá munu ráðin leidd í ljós,
sem leingi vóru dul.
98. Afskúm allra þjóða
oss ei kalla má;
fátækt[9] glampa góða,
gripr oss i frá;
varnað er ei vits og skyns[10],
eingrar dygðar æfingar
eða gáfna kyns.
99. Læging lukku segla
lægir ofhugann[11];
ógeðs upphafs-regla[12]
öllu spilla kann,
reynsluleysi, vaninn verr[13];
ósmekkr að öllu finnst,
nema' óvitinn' í sèr[14].
100. Þó, ef lærdóms listir[15]
líka reynslan holl
allar vizku vistir[16]
í visinn[17] settu koll,
batna mundi bragrinn;
þráið yrði þá að dygð[18],
þarmeð einrænin.
101. Guð mun enn úr illu
okkur skapa gott;
von í rauna villu
vömm ei fær nè spott,
spáin sú mun reynast rètt:
skorpu fæ eg eina enn,

1) Valskar mýs hafa leingi svefnugar verið haldnar, og þaðan er hinn latínski málsháttr: *glire somno lentior*, þ. e. svefnugri enn valska. 2) karlmanna höfðingjann ɔ: konúnginn; það ætti að vera ykkur til upphvatningar. 3) að þið skuluð vakna. 4) Guðs náðar sól er enn ekki til viðar geingin, heldr uppljómar hún og vermir alla náttúruna. 5) hugsið aldrei að hann láti sín verk að eingu verða. 6) Islands óvinir geta ei leingr dulið heipt sína, því þeir reiðast nú yfir sig og hlaupa á sig. 7) innvortis hugar, gáfna og mannskapar eldr hjá Islendingum. 8) Þeir öfundsjúku kveljast af leiðinligum hræakulda. 9) Fátæktin veldr því, að vèr erum óálitligír í augum annara þjóða. 10) Oss eru einsog öðrum náttúrukraptar gefnir til að æfa sèrhvörjar dygðir. 11) ɔ: dirfsku og framkvæmd; meiningin er: þannig geingr það, jafnvel fyrir góðum mönnum, að vex vilji þá vel geingr, og bregzt hvörjum hugr og hreysti þá heill bilar. 12) vond *principia* og *præjudicia* (grundvallar ástæður og fordómar), hvör inndrukkin eru með móðurmjólkinni. 13) eðr lakar, þ. e. vondt uppeldi, ávani og siðvenjur. 14) Þeim líkar ekki neitt, sem þeir ekki hafa vanizt. 15) Flestum Islendingum þykir ei annað mega lærdómr heita, og vita ei af öðrum lærdómi að segja, enn guðfræði, latinskri og griskri málfræði, hinni gömlu veraldarsögu og fornfræðum föðurlandsins; hvörjar konstir eru fræði, en ekki vísindi (*scientiæ*). Þarámóti virðist hinum lærðu þjóðum nú í heiminum, sem ei megi lærdómr heita, nema fylgi heimspeki, náttúru- og mælingarfræði; hitt kalla þeir trúar-reglur og fróðleik. 16) *vizku vistir*, þ. e. íbúð og brúkan allsháttaðrar speki. 17) ɔ: vanvitugan. 18) Þá yrði þráið að stöðuglyndi, og einrænin að forsjálni og framkvæmd, svo geta góðar tilhneigingar og dygðirnar sjálfar orðið, fyrir vondt uppeldi og *principia*, að löstum.

ekki samt eg dett[1].
102. Gömul kona krymtir
kann sèr lætin ei;
mig hefir *Friðrik Fimti*
fastnað einsog mey;
sjaldan dæmin dragast slík,
að úngr kóngr örvasa
eignist silki-brík.
103. Sjá! það er af eingri
amors töfra frygð,
heldr hjarta-þraungri
herra-náð og dygð;
við mig blinda[2] hatt hann trú,
við mig snauða gylvi gott
gjörði fèlags bú[3].
104. Einsog staurinn stamr[4]
stend eg hriðar-ær[5],
þó við sig er samr
siklíngs gýar blær[6];
skömmin sú mun uppi æ,
ef eg hata hjartað mitt,
hvaðan lífið fæ[7].
105. Hjálpið til í tómi!
treystið hendi guðs[8]!
barnafjöldin frómi
frjáls við ófögnuðs
myrkvastöfu dofa dvöl[9]!
yðr býðr sjóla sól[10]
sitt fagnaðar' öl[11].
106. Alög af mèr bráir,
ellibelgr dvín,
tiggi' á drós í dái[12],
dreypir gleði vín[13],
brennir hennar ham og saum[14];
lofi guð, eg vakna vil
við svo góðan draum.

1) ɔ: fell öldúngis útaf. 2) blinda af elli, það er: forblindaða af (með tímaleingðinni innsmognum og gróðrsettum) *præjudiciis*, hvarfyrir eg ekki veit rètt að taka þessari náð. 3) Hann skipti mèr miklu af sinni auðlegð; hèr er bendt til dæmalauss örlætis og gæzku konúngsins við þetta auma og fátæka land: árið 1756 gaf Herra *Friðrikur* kóngr 50,000 Rd. til hinna nýu innrèttinga á Íslandi, fyrir utan mörg stórvæg *privilegia*. 4) ɔ: óþjálg og óleiðitöm. 5) ɔ: veðr-óra, ringluð og marg-umbreytt orðin af öllum þeim ósköpum, er frá því fyrsta hafa yfir mig geingið. 6) Konúngrinn snýr ekki samt sínu hugarfari til mín og gæzkufullum ásetníngi. 7) Því blóðið geingr í líkamanum, meðan hann lifir, frá hjartanu og til hjartans, fyrst um slagæð, sem skiptist um allan líkamann, en þá taka við hinar æðarnar. Þessi líking á vel við einn góðan konúng, til hvörs og frá hvörjum flýtr hans þegna líf, næring og velferð; hans forsjálligar hugleiðingar eru þær vind- og logn-æðar, í líkama stjórnarstandins, gegnum hvörjar blóðstreymið skeðr og ske hlýtr, svo leingi líkaminn lifir. 8) Guðs almætti, það hann geti og muni hjálpa okkur. 9) þ. e. með því þið eruð frelsuð úr svo dymmu og laungu fángelsi, og getið (ef þið viljið brúka framboðið tækifæri) komizt í ljós, og hrundið af ykkur því gamla sleni. 10) sú konúngliga hátign. 11) Fagnaðar-öl kallast nú velkomandi eðr velkomenda drykkja; því með henni var fagnað vinum og hoðsmönnum. 12) Svo var ýkt í fornsögum, að þeir úr álögum kæmust, lægju í dái á eptir, var þá 13) dreypt á þá hvítu víni, svo þeir skyldu rakna við og nærast, en álaga hamrinn, 14) (sem liggja átti hjá þesshàttar mönnum meðan þeir sváfu) var þá strax brendr, svo ei gætu þeir vaknaðir, (sem þeirra óskapaeðli var til) nè aðrir í hann komizt. Sú líkn fylgði og álögum kvenna, að þær skyldu úr þeim leysast, ef þær kæmust í sæng hjá kóngum eðr kóngasonum. Eins segist Ísland muni, úr því það er komið í rekkjuneyti *Friðriks* konúngs, leysast af kýngi þeirri, er híngaðtil hefir á það strídt.

# Nokkrar hugleiðíngar,

framsettar í ljóðum,

sem nefnast

# Búnadar-Bálkr,

sundrskiptar í þrjú

## kvæði,

*um dagligt búskapar-líf Islendínga; hvörsu lakt sè hjá ofmörgum; hvörnig vera eigi, eðr og verða mætti.*

Hèr er sleppt því almennasta, sem enn brúka, til nytsemdar og góðrar dægradvalar, dugandi bændr, af hvörjum (lof sè guði!) margir eru til, þó fáir að reikna mót hinum fjöldanum, sem hlut á í *Eymdar-Oði* og fleirum klausum. Sumt er ávikið í *Fullsælu*, *Islands-sælu*, *Heim-sóti* og viðar.

---

## Inntak efnanna í Búnaðar-Bálki.

A.

*Að vondir andar búi í Islands lopti, sem eru þau ólukkuligu* Præjudicia, *eðr inngrónar, óprófaðar og rángar meiníngar, sem valda allri ólund, eymd, örbyrgð og ýmisligri kjörvillu flestra Islendínga.*

B.

*Þessir menn fara ei vel með guðs gáfur, hrærast ei af hans gæðum í náttúrunni, af tímaskiptum nè þvílíku, til að leita með ánægju brauðs síns, nema hvuð nauðin rekr eptir þeim.*

C.

*Þeir giptast, fá slæmar konur og hjálpast ei. Börnin fæðast veik og uppalast illa. Hjónanna ódygg sambúð færir með sèr óblessun.*

D.

*Illr bæar-bragr; honum fylgja reymleikar og þvílíkt, en fjarlægð heilagra eingla.*

E.

*Slíkir aumingjar fá ei náttúrunnar vor- og sumar-gleði að finna, sem fyrri aldar menn, hvörjir til þess leituðu ýmsra brugða, og eins að fá yndi af vetrar-tímanum. Ráð, að fráskiljast þesslags mönum. Guð vill að menn gleðjist af gáfum sínum.*

F.

*Hinn úngi maðr, (hvörs persóna hèr jafnun framsett er í eptirfylgjandi kvæðum) fer að hugsa hvörnig hann skuli bú reisa, og lifa í því farsæll. Nóttin undir sjóar fjöllum og hennar ásýnd.*

G.

*Strandfuglanna ánægjufullt, þó vos-samt liferni. Hvað þar af sè að læra.*

H.

*Hèr opnast sæludalr. Hèr er landslagið, landfugla, dýra og fiska athöfn og eðli, allt fullt af ánægju.*

I.

*Morgunroðinn gefr náttúrunni nýan lit. Sá úngi maðr reisir hèr bú og giptist. Sólin skín fram og endrlífgar alla hluti, og*

*svo manninn með, sem vexlast og prísar sig sælan að vera.*

K.

*Hvað gott er ei að sitja sæll í búi? Hvörsu búreisendur vaxa stundum af litlum efnum.*

L.

*Að menn skuli gera sèr yndi af öllu sínu erfiði, með uppáfinníngum og ýmisligum umþeinkíngum, eptir starfsins kríngumstæðum. Hugleiðing út af hrauni og loptètnum klettum. Ýms nytsamlig efni hèr af jörðu tekin.*

M.

*Hve skemtilig sè heimkoma velliðunar bænda uf lángferðum. Góðra kvenna atlæti mót bændum sínum.*

N.

*Utmúlan og hrós góðrar ektakvinnu og hússmóður.*

O.

*Bóndans vetrar ánægja hvílík sè af ýmsum hlutum; svo sem eru: gnógtir sumarsafna, rjúpnaveiðar, frost og ísalög, og þeirra hlunnindi.*

P.

*Að optar sè svipull sjóar-aflinn, en landgæðin jafnari og mannhollari. Kúagagn og mjólkrnægð á vetrum.*

Q.

*Einhvör fágætust vetrargæði eru innsettar grænar og frjóar maturtir, með hvörri uppáfinníngu að vetrinn í sumar umbreytist. Leiði Islendinga á slíkum hlutum og* præjudicium, *að ei gefi jurtir hold nè hams.*

R.

*Um góðan bæarbrag. Að góðar sögur sèu lesnar um vetrar vökur, til fróðleiks og dægradvalar. Siðlátt dagfar. Fáng til æfíngar líkamans. Rækíng guðs orða. Einglafylgi og hjásneiðíng reymleika og vondra vætta.*

S.

*Vorgleðin ýmislig, af fiskum, dýrum, sumarfuglum, og s. frv.*

T.

*Garðyrkja og jarðardýrkan. Ýmsar ræktar urtir, sem vaxa á Islandi til matar, og undireins heilsubóta. En allt þesskonar fyrirlíta flestir Islendingar, og þeir heimskari lasta það; en vilja þó og mikils meta útlenzka jarðar ávexti, af því þeir vita ei gjörla þeirra uppruna. Guðs boð, urtir að èta. Guldragrös og reinir.*

U.

*Sumargleðin margvíslig. Utiseta í grænu grasi. Nokkrar villijurtir á Islandi harðla góðar, undireins til matar og lækníngu. Reykelsi. Fjárgras og hey, og nokkrar maturtir alþektar að nytsemi, sem og almennt brúkast, nefnast að eins.*

X.

*Um te og kaffedrykki af innlenzkum tilefnum og þeirra jurta góðu verkanir.*

Y.

*Nokkurra annara villigrasa lækníngar og dygðir. Dýrindis pípu-tóbak. Hjónarætr. Uppskorin ylmgrös blómgast inni í húsum fyrir utan rætr.*

Z.

*Sú yndælasta vist í slíkum hlutum náttúrunnar hèr á landi, er sett á móti armæðu búskapar og óbyrju búksorg gróða-manna.*

Þ.

*Fyrirmæli um Islands bænda vaxandi ánægju. Dæmi dregið af skelfiskum og þeirra húsabyggíngum. Hvaða meðöl guð hafi Islendingum í hendr feingið. Dæmi af skógar svinum. Upphvatníng til Islands búenda um yðni og ánægju, o. s. frv.*

Æ.

*Til endalyktar framsetjast nokkrar greinir úr prèdikun Salómons konúngs um sama efni. Seinast er niðrlag kvæðisins.*

# Fyrsta kvæði,

# Eymdar-Odr,

eðr

## Óvætta-Dvöl[1] og Ógèðs Æfi,

*um það hvörnig dagfar og bæarbragr á Islandi sè orðið leiðindasamt og ónáttúrligt.*

*A.*

Þèr sudda-drúnga daufir andar,
sem dragist gegnum myrkra lopt!
Þèr jökul-bygða[2] vofur vandar[3],
sem veikar þjóðir kveljið opt!
Hvað leingi Garðarshólma þið
hyggizt að trylla fárátt lið[4]?

2. Yðar skýgerðar fánga fjaðrir
fjöll og dali með vöggu-brag;
þèr valdið því, en eingir aðrir,
Islenzkir sýta nótt og dag!
elligar svefninn endalaus
umgirðir þeirra dofinn haus.

3. Þeir nema færst til yndis auka,
enn þó náttúran hafi til;
fyrir ylmgresi fýlu-lauka,
fyrir skemtanir hrygðar-spil,
fyrir heilbrygði fánga pín,
fyrir sætindi brennuvín.

4. Fyrir mannvit þeir flónsku velja,
fyrir hreinlæti skörnugt gróm,
fyrir alúð þeir fúlur selja,
fyrir kurteysi rustadóm,
fyrir saunglystar sætan eym
svartagalls-raul[5] er helzt í þeim.

*B.*

5. Einga nýta þeir afgángs mola,
er kallast vilja nokkrir menn,
húngr kjósandi' í hvílu' að þola[6],
heldr enn veiða smádýrin[7];
golþorskar fylla gráðgan búk,
þó gjörist við það iðrin sjúk.

6. Sama' er um allt er ómaks krefr,
ekki vilja þeir skeyta því;
hitt sem tilbúið guð þeim gefr,
geti það komizt magann í,
beint[8] úr náttúru fýsir fá
fyrirhafnarlaust èta þá.

7. Matvæli þegar þverra fara,
þeir kenna guði sultar stúr;
í góðum árum aldrei spara,
enn siðr hafa nægtabúr[9];
heldr farga til fánýtis,
fyrir óþarfa snap og glis.

8. Og þó þeir fái nægtir nógar,
nokkuð þykir þeim vanta samt;
árið[10] leiðist til lands og sjóar,
likar þeim ei við herrans skamt,
gjöra litið úr gáfum hans,
gremja svo mildi skaparans[11].

9. Missiraskipti minnst þá gleðja;
murra þeir jafnt og dunda sèr;
hafi þeir nokkuð húngrið seðja,
hvort sumar eða vetr er,
nauðugir sumir nokkrir frí[12],

---

1) vist vera eðr hýsing. 2) þ. e. Islands. 3) ɔ: vondar. 4) *Garðarshólma-lið*, ɔ: Islenzkir. 5) *svartagallsraul* ɔ: melankólisk lög og efni, sem þeim verðr helzt fyrir að mæla fyrir munni sèr hvörsdagliga. 6) málsháttur: í hvílu skal húngr þola; því að liggjandi kyrrir finna menn siðr, og sofandi alls ekki til húngrsins. 7) smáfugla, síld o. s. frv. 8) beint eðr beinleiðis, fyrir utan tilbúníng. 9) nægta-búr eða magazín, sem vistum er í safnað til vara utanlands, ef fátækir kunna með að þurfa, elligar dýrtið, ófriðr eða eldsvoði uppáfalla. 10) ɔ: árgæzkan. 11) *gremja*, gera þann milda guð sèr graman eðr ómildan. 12) þeir skárri fylgja hlaupi náttúrunnar tregðulaust, hinir nauðugir.

náttúru straumi rekast í.
10. Þegar flugurnar lifa' ei leingr,
leggjast þeir upp í vetrar hams;
en nær fiskr að fjöru geingr,
fara til róðrs innan skamms;
áðr enn grasið blóma brá,
bóndinn skal fyrir kúna slá.
11. Svo rekr nauðin ætíð eptir,
efað lifinu bjarga skal,
en yndis vegir verða tepptir;
við þetta leit eg margan hal,
sem að andlitis sveita með
sífeld leiðindi þola rèð.

C.

12. Við gifting skyldi skárna tími:
skatnar hyggja til sælu' og fjár,
meðan ei kólnar blæu brými,
búsældin stendr nætr þrjár;
þareptir fylgir brestr bús,
barlómar fljúga' um sèrhvört hús.
13. Húsfreyan við það ólètt æðir[1],
af því nýlifnuð veikist kind[2];
barnið í ljós með forsi[3] fæðist;
fóstra þau eptir sinni mynd,
hinn únga son, að fái fyrst
foreldra spor að rekja lyst.
14. Veikligt afkvæmi við þó hjarni,
vilja þau helzt það deyi strax;
að herrann gefi' ei björg með barni,
beggja meiníng er sama slags,
og svikjast um að eiga börn,
engu þó siðr lostagjörn.
15. Oblessan fylgir þessu þaufi,
þrifnaðarleysi' og huglaust geð;
átumaðkr og einhvörr þaufinn
ódrýgir hvað sem hún fer með;
hún gerir illan bæarbrag,
bóndinn sem færir ekki' í lag.

D.

16. Þá nóttin dymmir, draugar vakna,
djörfúng taka þeir mönnum frá;
heilagra eingla eingir sakna,
eru þeir hvörgi þar í hjá;
góðir andar víst eru til,
enn ei við þvílíkt hjónaspil[4].
17. Gól heyra menn og horfa' á myndir
hræðiligar með eldíngum;
allteins sjá þeir sem eru blindir[5]
illar vofur í myrkrunum;
forynjur hestum færa slig,
fær[6], naut og hirðar slasa sig.

E.

18. Ei mun leiðari vist til vera;
vorið kemr og nóttin björt;
allskonar jurtir blóma bera;
blærinn hýrnar við dægrið hvört;
fuglar vinast[7] með sætum saung,
sist verðr þessum tíðin laung.
19. Náttúran stigr vikivaka,
veraldar dýrin lifgar hún;
fyrrgreindar lyrfur frá skal taka[8]:
firrast[9] þær við með síða brún,
hvílíkra gæða' að hlakka til,
háldandi vera barnaspil[10].
20. Viti þèr ei að vorir áar[11]
við slíkt til kæti fundu margt?
gagndaga[12] jurtir grænar, bláar,
gular og rauðar, kyrkna skart[13],

---

1) eðr ólmast af stórgeði. 2) *barnið* nýkviknað í móðurlífi sýkist (sem alþekkt er) af hennar liðiugu. 3) þ. e. ofstæki móðurinnar. 4) sambúð slíkra hjóna. 5) *blindir*, og heilskygnir þótt byrgi fyrir augu sèr. Af þessu er auðráðið, að þvílík svo kölluð sjón er í raun rèttri eingin líkamlig sjón, heldr í huganum ímyndan eðr *phantasma*. 6) ɔ: sauðir. 7) þ. e. makast eðr hafa samgáng. 8) það skal undantaka þær úr hóp annara dýra, sem sumri fagna. 9) ɔ: fjarlægjast, þumbast við, láta firruliga. 10) allt slíkt er Íslenzkir heyra sagt frá útlendum eða til þeirra sjá, álíta þeir þannig. 11) lángafar, forfeðr. 12) gagndaga vika, sú sem uppstigníngardagr er í, þá var hátíðliga geingið um tún og garða, o. s. frv. 13) Kyrkjur vóru forðum blómstrum prýddar á sumrum, um Jónsmessu, helzt á Vestfjörðum (í Isafjarðar sýslu).

Leikpallr ís á vötnum varð[1];
í vetrinn þannig hjuggu skarð.
21. Ef jörðin, þegar ætti að gróna[2],
uppá sig tæki vetrar feld,
þèr skuggafífl og þoku þjónar!
þá munduð undrast víst eg held;
guð er betri sem yður sèr,
samt náttúrunni' ei umbreytir.
22. Nu má hvörr hafa nef og augu
nábúi fólks í slíkum heim.
Ef þú vilt ekki verða draugr,
vend þèr, mitt hjarta! burt frá þeim;
þær fúlu vofur[3] forðast skalt,
sem fordjarfa þar loptið allt.
23. Skoðaðu guðs í verkum veru,
vill hann ei þína hvörsdags hrygð;
full af yndæli flest þau eru;
fèkk hann þèr í þeim miðjum bygð,
að *Adams* straff og eymda þján[4]
æ mýkist fyrir herrans lán.
24. Kvæðið má nefnast *Eymdar-Óðr*
allra, sem byggja þetta land,
þúngan við og þegjandi róðr;
þeirra eg óska batni stand;
svo hryndi burtu hrygðar ryg,
hressi þeir upp og braggi sig!

---

## Annað kvæði,

sem kallast

# Náttúru-Lyst,

eðr

## Ólundar-hapt og Vonar-fylli,

*um það hvörsu að náttúran öll, og einkum dýranna sorgalaust líf, en fyrst og seinast guðs forsjón, bendir manninum til góðrar vonar og ánægju, eins hèr á Islandi.*

*F.*

Hvað sem meinvætta mæltu þóptar[5],
mèr varð geingið í tjalda reit[6];
eg fór að hugsa enn sem optar,
um bjargræðið í vorri sveit;
heimila störf eg hölda sá
og hvörsdags lífið bæum á.
2. Þánkar í lopti flugu fríu,
flestir þúngbúnir draumum af;
himininn netja skyldr skýnu[7],
skyggði[8] sem speigil undir haf;
möglaði sjór við merskis brýn[9]
melankólisku kvæðin sín[10].
3. Vatnið af heiðum veltist niðr,
var það að tauta giljum í;
en skuggaligir skútar viðr
skvöldruðu margt og gegnðu því;

---

1) þá vötn lagði vóru þar leikir hafðir, sem sjá má af ísl. sögum. 2) grænka að vori. 3) þ. e. *præjudicia,* sjá Innt. *A.* eðr 1ta Er. 4) þjáu, ánauð, þjáning, armæða. 5) *meinv. þóptar:* fèlagar þeirra fúlu anda eðr *præjudiciorum.* 6) strönd eðr sjóarfjara. 7) þ. e. hægð eðr lognviðri. 8) fægði eðr gerði fagran og slèttan sjóinn; þ. e. hægð veðrsins gerði logn á honum. 9) *merski* eðr *mærski* er jarðar heiti og *brýn* sama og brún, þ. e. við mararbakkan elligar sjóar-síðuna. 10) öllum kemr saman um það, að brim og niðr geri þögn og djúpar hugsanir, og þarhjá nokkrskonar hrygð eðr fáleika, einsog öll melankólisk lög og kvæði.

ásýnd jarðar var ekki björt,
eins vóru fjöll og bygðin svört.

4. Af því að nóttin nú var komin,
náttúran öll var hljóð og kyr;
þúngsinnis gjörði þetta vomin;
þagnaðir sváfu fuglarnir;
þó sumar-gríma vegljós var;
við það fjölguðu grillurnar[1].

5. Eg stóð í úngdóms bezta blóma,
búskapar vildi reyna hnauk;
eg girntist megan, sæld og sóma,
svo væna konu þaraðauk;
enn eg sá til þess eingin ráð,
utan mèr veittist herrans náð.

6. Því flestir þeir sem fara' að búa
fátækir, sjaldnar rètta við[2];
hinir á mátt og megin trúa[3],
með hörku-strit og sífeldt yð
vinna sèr brauð, þó varla sè
vert að kalla það sællífi.

7. Nú hugð' og væri vegr annar,
svo vegna kynni betr enn,
nær guð ei sína blessun bannar;
bjuggu hèr sælir fyrri menn[4],
og mörgum þjóðum enn í dag
utanlands geingr flest í hag[5].

8. Guð hefir margt til matar-bóta
mönnum gefið á landi hèr;
að stytta tíð og yndis njóta,
enn lína starf og mannraunir,
æfandi vit í verkum hans[6],
verkar það traust til gjafarans.

9. Enn þá ég leit hve landsins múginn
leið, og síðvaninn bjargir fól[7],
ský vonarleysu döpur drjúgum
dró fyrir mína gleði-sól;
efnaleysið mig líka sló,
laus-sinnis hik í brjóstið fló.

G.

10. Ei vildi mínu výli lètta,
vitið reikaði lánga hríð;
eg var að hugsa' um hitt og þetta,
hvað verða mundi' á seinni tíð;
hátt fugla-kvak þeim blundi brá,
birta tekr af degi þá.

11. Ut er að falla, stór er straumr[8],
ströndin þornar, en svalið dvín,
þar var svo fagr fugla glaumr,
(fersaung höfðu þeir milli sín)
að výlið hvarf, en varð eg hress;
vil eg því snöggvast geta þess.

12. Tjaldar, selníngar tístu saman,
til var ei hjá þeim skepnum agg[9];
márinn dró seym við sífeldt gaman;
saung veiðibjalla[10] gaggaggagg,
selnmgrinn margt ti-ti-ti,
tjaldrinn margt í rennu kví.

13. Þeir vóru' að taka til sín fæðu:
tjaldrinn maðk úr leirnum gróf[11],
selníngr hafði hleina kræðu[12],
hrúðrkarls börn[13] af steinum skóf;
margfætla[14] smakkast mávi rèð;

1) ɔ: ógrundvallaðir smíðunar þánkar uxu við það til nokkrs grillti, eða nokkuð var ennþá að sjá. 2) Það skeðr miklu meir og optar, út í löndum, enn hèr, vegna vonar- og hugleysis og ódugnaðar. 3) hinir fáu sem viðrètta, falla til hinnar hófleysunnar. 4) landnámsmenn, sem höfðu þó miklu starfsamara enn vèr, og þeirra niðjar í nokkur hundruð ár, máttu þó betr og lifðu ánægðari. 5) Af því þær þjóðir finna uppá lángtum fleira til yndis og hagnaðar. 6) yðkandi það og aukandi með því að skoða guðs verk. 7) Lángr ávani huldi fyrir Islendíngum og bannaði þeim marga góða bjargræðis útvegi, sem annars væri auðveldt að hafa hèr á landi. 8) Það fellr út. 9) kíf, orða-þráttanir. 10) svartbakr, friðarhljóð eðr geðstillingar fuglsins er þetta. 11) fjöru eðr beitumaðk. 12) fjörugrös, smásöl og slí. 13) smáir hrúðrkarlar í kletta holum. 14) krabbi (*Canc. brachyurus*), sem hèr algeingastr er.

mat[1] svartbakrinn hrognkelsið.
14. I þeirra fugla eðlisháttum
ei nema lyst og gleði fann;
þeir átu nær þeir eta máttu,
af þeirra vistum sjórinn rann[2];
en þegar vatnið yfir flaut,
ámeðan sèrhvörr hvildar naut[3].
15. Þeir biðu til þess brast út sjórinn,
búinn var hvörs eins rèttr þá,
matr settr á borð og bjórinn[4],
borð-sálminn kyrjar hvörr sem má;
svo láta kóngar sinn við dúk[5],
saungvara leika kvæðin mjúk[6].
16. Þeir prisa guð sem gaf þeim fæðu,
gjörvöllum hópnum sagðist vel;
sífeldt höfðu þeir sömu ræðu,
sýndi þar túngan hjartans þel.
O! þau falligu fjaðra-dýr!
farsæld og unun hjá þeim býr.
17. Svo fór eg burt frá greindri gælu[7];
girndin kvað sem í brjóstið flaug:
o! að eg lifði í soddan sælu,
sem eg er maðr betri' enn þau[8];
hreinn og saklaus sem fjaðr-fè[9],
frí við sorgir og andstreymi!
*II.*
18. Meinlausir þánkar gánginn greiddu,
gerðu þeir stutta villuleið,
þángað á götu-leysi leiddu,
lukkan hvar fyrirsat og beið[10]
að skipun guðs í grænum dal;
geingr það fram, sem verða skal.
19. Opnaðist land til fjalla framm[i],
fætruar uppað geingu hratt;
hólstað leit eg í breiðum hvammi,
byggiligan, og það var satt!
huginn mèr sagði: hèr er nú
hamíngjuvænt[11] að reisa bú.
20. Hvað sem land prýða kallast kunni,
komið var hèr í eina sveit:
hálitað blóm í hvörjum runni,
heil-ylmuð[12] grös og jörðin feit,
hólar, vellir[13], ávöxtuð lýng[14],
vötnin og fuglar allt umkring.
21. Þeir súngu hvörr í sinum nótum,
svo þar var lyst að hliða til,
saklausum ásta saddir hótum,
svo gekk þeim skepnum allt í vil;
makar samfara firrtir pín,
flögtuðu kringum hreiðrin sín[15].
22. Eingir af þeim í striti stúrðu,
starfar þó hvörr sem þörf var á;
hreiðr-fuglarnir heima kúrðu,
hvatir[16] ei vóru lángt í frá;
því nokkrir hèldu varir vörð,
vistirnar aðrir tóku á jörð[17].
23. Einn finnr jurta frygð og ánga[18],
fegrstu plokkar blóm af þrein,
hinn úr grastoppum fræin[19] fángar,
flýgr síðan með aflan heim,
annar smádýr[20] og flugur fær,
forði slíkr er honum kær.
24. Við holu-dyrnar ei þeir eira,
uppfljúga títt með kompliment,
(svo gaman er að sjá og heyra)
si-tistandi við lagið klènt:

1) áktaði mikils, þótti gott hrognkelsi; hrognkall, heita Nordmenn rauðmagann enn í dag. 2) fèll út af matvælum þeirra. 3) þeir sváfu jafnan um flóðið. 4) sjóar lögrinn sem þeir jafnan fá með fæðunni og er þeim í drykkjar stað. 5) ɔ: borð. 6) kóngar láta blása til borðs og leika fyrir sèr á hljóðfæri um máltíð 7) skemtunar kvæði. 8) að eg hefði sælu þeim mun framar, og eptir minu standi. 9) fuglar. 10) beið min þar. 11) vonligt eðr líkligt til hamingju og lukkustofus. 12) mjög daungóð til heilsubótar. 13) sem og hólar og vellir. 14) eðr berja-lýng. 15) meðan þeir eru hreiðrin að byggja og þángað til orpið er. 16) þeir karlkyns eru, steggir. 17) þeir tindu fæðu niðr á jörðunni. 18) lystugleiki og góðr þefr. 19) öx úr töðugresi. 20) smáorma og fiðrildi, o. s. frv.

allt þetta sem eg aflað hef,
unnustu minni það eg gef.

25. Nær úngar vóru úr eggjum skriðnir,
öllum móðirin skamtað-gat;
fedrnir höfðu allteins yðnir,
úngunum lıka gáfu mat,
sem viðka kokin[1] vesællig,
viandi[2] láta mata sig.

26. Hýaðir[3] strax er fiðrið feingu,
fjaðrirnar lærðu' að bera rètt;
í fyrstu með þeir gömlu geingu,
gátu kennt þeim að fljúga lètt;
skylda foreldra þarmeð þraut,
þaðanaf hvörr sèr bjarga hlaut.

27. Um dýrin hin var sama saga,
sinni þjónuðu girndar-lyst:
sauðrinn gekk í grænum haga,
grasið hann beit og mettaðist;
mjólk í júgrinu mettan jók[4];
mjólkina lambið aptr tók.

28. I vatni fiska sá eg sveyma
sinnislètta[5] með sporðaköst,
þar áin fór til óss að streyma,
af þeirra buslí gjörði röst,
yfirhöfn[6] sumra svo var glæst,
silfri' eða gulli komst hún nærst.

29. Þeir vóru' að metja[7], stökkva' og steðja,
stundum móka, því lognið var;
með samnúning[8] sig makar gleðja,
mátti svo vinast hvört eitt par,
og una sèr við kaldan kost,
kann þeim ei granda vetrar frost[9].

I.

30. Otal leit eg[10] sem lystir saddi,
ljóðað[11] það ei nè talað fæ;
þá morgunroðinn geðið gladdi[12],
gyllti fjöll, engjar, tún og bæ,
eg fór að reisa bygð og bú;
blessaðist allt, sem gerði' eg nú.

31. Af einum hlut eg varð að vaka[13],
vanta þókti mèr nokkuð enn:
aðrar skepnur þær áttu maka,
einsog flest-allir vaxnir menn;
eg einstæðingr óska rèð,
unnustu góða' að hljóta með.

32. Einginn skal lá þó við eg vælti
værðar-litill í sængrstað;
það var allt sem við manninn mælti,
mèr veittist það er um eg bað:
himininn[14] konu góða gaf,
guð svo lètti mèr hrygðum af.

33. Sólin brauzt fram úr frænu[15] skýi,
fegurð veraldar lýstist öll;
allt var á beztum blóma-stigi,
blikaði[16] gras um rakan völl,
náttdaggar knappa silfri sett,
smaragðar[17] vóru' í hvörjum blett.

34. Þá geislum skaut úr gluggum[18] hifna,
gnataði[19] hrygð og sást ei par;
ásján jarðar nam endrlifna,
öll náttúran sem blómstr[20] var,
opnuð snèrist við sólar-ljós,

1) svo gjöra landfugla úngar, helzt titlinga, þá þeir heim koma. 2) tistandi (með laungum seym). 3) hý nefnist sá dún er fyrst fær únginn, aðr hann fiðrast. 4) mettanin eykr mjólkina. 5) ei djúphugsandi, þúnglyndir. 6) húðin eða roðið, svosem á laxi og urriða. 7) þeir vóru að metja straumina. 8) Það er helzt meiníng náttúru-spekinga, að fiskar vinist svo. 9) því þeir hafa vetrar, fylsni, eru og sjálfir ei heitrar náttúru. 10) eg sá hèr margt fleira í náttúrunni. 11) ort ljóð. 12) þá roðaði fyrst fyrir sólu, er hann fer frá þessu að segja. 13) varð af því andvaka, það stóð mèr fyrir svefni. 14) *himin*, fyrir guð á himnum, er talsháttr allra þjóða í Norðrálfunni. 15) fögru. 16) gaf, það vota gras endrskin. 17) skein í því döggvaða grasi, við sólina há-glæ-grænn litr, eða sem margr sá eðalsteinn er *smaragður* heitir, væru samankomnir. 18) himna sólin kom fram milli skýanna. 19) hrapaði, fèll burt. 20) hún var öll í einu áliti, svo fögur sem eitthvört fríðasta blómstr; lika

sýndi vellukt og hunángs ós[1].
35. Giftust jurtir[2] og fóru' að[3] frævast;
fjargviðrast dýrin sein og þúng[4];
hin styggu fýsti að standa' og gæfast;
stundu gömluð[5] og fæddust úng;
eg naut þar af og færði fræ;

fjölgar hyskið á mínum bæ.
36. Nú er há-sumar heppnis daga;
hamingjan sætir búskapinn;
þar með er úti þessi saga,
það er að skilja, fyrst um sinn;
lof sè guði, sem láníð gaf;
landið fagni við soddan skraf!

---

## Þriðja kvæði,

sem er

# Múnadar - Dæla[6],

eðr

## Bónda-líf og Lands-elska,

*um það hvörnig góðir bændr kunni að lifa glaðir og vel ánægðir, og hafa allskonar nægtir, á Íslandi, af hlunnindum þeim er þar brúkast nú, eðr að nýu brúkast kunna, og í öllu því að sýna dugnað og elsku föðurlandinu.* (Því er hèr sleppt flestu því alþekkta, sem brúkað'er, og til slíkrar ánægju hlíðir; eins flestu því er fornmenn brúkuðu.)

K.

Vænt er að kunna vel að búa,
vel að fara með herrans gjöf,
hans verkum sèr í hag að snúa,
honum þakka fyrir utan töf,
enn sèr og öðrum gera gott,
gleðjast og forsmá heimsins spott[7].

2. Að kunna vel sitt kall að rækja,
keppast í dygðum leingra fram,
aldr' eptir fölskum sóma sækja[8],
síst um veraldar hirða glamm[9],
að sýna velgjörð aumri þjóð,
ofsa rángl ætis[10] hepta móð.

---

sýndist hún sem mörg blómstur, að opna sig við sólina og snúa sèr eptir henni.

1) sveitti út sætum vökva. 2) eptir nýustu grasamanna raun og sjón, hefir hvört blómstr menn og konur með frjófgunar eðr getnaðar limum, og er viss tala manna og kvenna í hvörjum blómstra sveitum (*classibus*). 3) jurta konurnar verða af fræum ólèttar eptir það mennirnir hafa frjóðustið fellt. 4) þau urðu spök og liðandi af ástinni. 5) en þau gömlu stundu, sem til slíkra hluta vóru ör-magna orðin. 6) *Mun. dæla*: sama sem sælu-dalr, þvíað dæla er lág, lægð, hvaðan er dælu-ker. 7) Það er grein góðrar ánægju þá maðr veit að hann gerir skyldu sína, að hirða ei um hvað illir menn kunna honum til lasts að leggja. 8) Svo sem er hátt álit alþýðu, byggt á eingum grundvelli eða jafnvel lögteknum löstum. 9) glaum og gleði fjölda manna, sem eru dárar. 10) eru meiníngarrík orð, þ. e. að sigra slíkar tilhneigíngar hjá sèr og kunna rèttiliga af sèr hrinda annara ójöfnuði.

3. Að kunna' að lifa' í fró og friði,
fullhraustr undir herrans líkn,
umgirtur verndar-eingla liði,
af djöfla valdi frjáls og sýkn[1];
en loks hjá guði' að verða viss
um vist ódáins sællífis[2].

4. Þvílik sèr alldrei lukka leynir,
litið hef eg þar nokkuð á;
hann sèr það bezt er sjálfr reynir;
segja skal eg því meira frá,
hvörsu mitt bónda-hvörsdags-líf,
híngaðtil gekk fyrir utan kíf.

5. Eg fann bergmanna fimmtu veru[3],
farin var ofan af himni sú;
fèlausra þvílik efnin eru,
allhentug til að reisa bú;
ein gaf hending[4] og önnur plóg,
inn til þess að eg hafði nóg.

L.

6. Hvaða verk er eg vinna gjörði,
við það skemti sèr þánki minn,
og hugsan aðra kæra kjörði[5],
sem kynni stytta dægurinn;
þó jafnan gætti' að syndlaus sè,
svo mín blessan ei hnignaði.

7. Eg tók mèr helzt til hugleiðingar,
hvörsu náttúran reglað var,
eins í því vigtug' og í því ringa,
er fyrir skilnings-vitin bar;
um það get eg ei annað sagt,
allt talaði guðs speki' og makt.

8. Hèr nærst þegar eg var að verki,
velti[6] eg hlutnum fyrir mèr,
og leitaði' ef eg hitti hverki
hvað nýtt, gott, eða skaðligt er[7],
framyfir það eg vandist við;
varliga trúði landsins sið[8].

9. Nær eitthvað það til bata beudi
brúka lèt eg og reyna strax,
griðmönnum[9] bæði' og grönnum kendi;
svo gæti vorðið þeim til hags;
eins þeirra niðjar sviptist sút[10],
síðan það beri' um landið út.

10. Ur jörð eg tek þó taki' ámóti,
til ýmsa hluti bjargar magns[11]:
stundum velti eg völdu grjóti,
veggja til eðr meira gagns:
eg girnist ei gersemi[12] nein,
gull, silfr og náttúrustein.

11. Merkr-demant[13] (eg mæli' ei framar)
Mógol skal eiga og hnossin fleir';
þeinglar[14] kljúfi þritugan hamar,
þèttan í myrkri' að grafa leyr[15]:
mèr læt eg nægja missir auðs[16],
mætti eg afla dagligs brauðs.

12. Þá lít eg berg af loptinu' holað[17],
laungum flýgr í þánka minn,
að furðast hvað eg fái þolað,
fúa-gjarn ösku-sekkrinn,
sem var í margri veðra hrið,
varað hefir þó lánga tið.

---

1) ósekr. 2) sælu-vist ódauðligra manna, í öðru lífi. 3) það er *qvinta essentia* málmgraftar-manna; svo kallast af þeim vonin, uppá hverja þeir opt verða að byggja. 4) mèr vildi til eitt happið eptir annað. 5) eg tók mèr fyrir skemtilig hjáverk að umþeinkja. 6) velti í huganum. 7) einhverja nýa nytsemi eða skaðsemd við þann hlut eða verk. 8) hvað eptir honum var bezt eða hentugast haldið, heldr reyndi það sjálfr. 9) heimilis-mönnum. 10) og að börn þeirra verði við það farsæl. 11) ýmsa hluti til nytsemdar. 12) *gersemar* er rèttara og eldra. 13) sem vegr mörk (nærr því 15 lóð eða 900 karata); þann stein hefir Mógol feingið frá *Kulor* á Golkonda-strönd. 14) kóngarnir mega brjótast gegnum björgin niðri jörðunni 15) til að fá þaðan málminn. 16) eg er ánægðr, þó eg hafi ei stóran ríkdóm. 17) þvilikt skeðr opt við sjó af hafvindum.

13. Þegar hraungrjót[1] er handa' ámilli,
hræðist eg við og kem í stans,
af því jarðeldr jafnan spillir
jörðunum hèr og utanlands;
að mitt hèrað er frá þeim frí,
fullkomliga eg gleðst af því.

14. Ur jörðu[2] lita kann eg klæði;
krít rauða tek og ýmsan mó[3],
allgóðan hnaus, sem eldinn fæðir[4],
ebenstimbr[5] balsamað þó;
málmvötnin[6] sjúkum manni þekk
magann bæta nær eg þau drekk.

15. Fyrir mig einn eg ekki byggi,
afspríng heldr og sveitúnginn;
eptir mig vil eg verkin liggi,
við dæmin örvast seinni menn;
eg brúa, girði[7], götu ryð,
grönnunum til þess veiti lið.

16. Nær eg mæðist í striðu starfi,
stirðr af vosi hvíli mig,
og huggast við, að það sè þarfi[8],
þótt í herðarnar kæmi ryg;
nóttin og værðin þerra þurt
þess liðna dagsins svita burt.

*M.*

17. A lángferðum nær eg er úti,
aðdrátta vegna' um heiða-geim[9],
get eg helzt þángað girndin lúti,
gott er að vera kominn heim;
því hjartað mitt er helmingað[10],
hlakka eg til að finna það.

18. Eg veit hún hefir sinni sama,
saknar hún strax ef geing eg frá;
þó við sín hafi verkin gaman,
vantar hann' allt, nema' eg sè hjá.
Skal hann ei bráðum bruna' í tún?
bóndann dreymdi mig, segir hún.

19. Lít eg af holti lönd og garða,
lifnar blóðið við slika sjón,
mæli hvörn spöl á spannar kvarða[11],
sprett læt eg fara bitil-ljón,
lángt finnst mèr heim að bænum bil,
bráðlætið samt fyrir öðrum dyl.

20. Húsfreyan hefir angað úti
annað slagið, og þetta sèr;
hún strýkr munninn klèn með klúti,
kemr þegar á baki' eg er,
og bjarta leggr hönd um háls,
heldr enn ekki við mig frjáls.

21. Hún kyssir og með klappi segir:
komdu blessaðr, heillin mín!
guði sè lof! eg finn þig fegin;
fyrir margt laungu vænti' eg þín!
hjúin gleðjast og börnin blíð,
bugtið það[12] geingr lánga hríð.

22. Eg fer í bæ og hressist heldr;
hún dregr af mèr vos-klæðin;
svo kuldinn flýi, kveikist eldr,
kræsast þarf einhvörr rèttrinn:
borðið er sett með bezta mat,
í búrinu sem hún feingið gat.

23. Hún finnr margt til yndis orða,
einsog fyrst nýgift værum þá;
hún mig ýmist biðr að borða,
brátt kvartar, að mèr fellst ei á;
hún segir: fyrir þreyttan þig,
það er nú mál að hvíla sig!

24. Af beztu faungum býr hún rúmið,
að bæði getum sofið hægt:
að dökku liðr dagr húmi,
dasaðr sef, (því vel er lægt[13])

---

1) brædt í jarðeldi. 2) úr sortu. 3) mór, *Argilla*, bras-mór, og fl. 4) mótorf sem vel er eldfimt. 5) íslenzkt ebentrè (*Ibenus islandica*) kallast surtarbrandr, og er hann smurðr málmvökva, svo ei getr fúnað. 6) ölkeldur, járnlagarvötn o. s. frv. 7) geri garða. 8) það sè gagnligt, þó mikið hafi fyrir því. 9) á fjallvegum. 10) annar partrinn er heima. 11) eg mæli hann í smán, því mèr þykir vegrinn lángr. 12) lotníng, sem fólkið sýnir bóndanum meðan það er að heilsa honum. 13) *lægt* ɔ: liggjandi, mèr er hægt, vel um mig búið.

í minnar ástar faðmi fús,
fram til dagrinn birtir hús.

25. Viðr morguns eg vakna roða,
vakr og nýr, að hugsa' um bú;
þanninn ámilli vaðmáls voða
værara' eg sef, að minni trú,
enn kóngr svaf á silki-hýng
syrgjandi, kafinn umþeinking.

26. Hvað sætt er þannig heim að vitja,
hugsi þeir til sem reyna líkt!
á landi giftr svona' að sitja,
sælgæti mun ei finnast slíkt.
O! hvað sælan þann segg eg tel,
sem þannig býr og giftist vel!

*N.*

27. Má eg vel lofa mína hýru,
má eg vel þarum sýngja ljóð;
öll er hún[1] sköpt af eðli dýru;
ei veit eg þvílíkt gæzku-blóð;
öll er hún söm í sjón og raun,
sætan mannkosta færir daun.

28. Hennar guðhræðslu' og dygða dæmi
dagliga skín, sem fagrt blis:
hjúum allt kenmir sem þeim sæmir,
siðar hörnin og heptir ys[2],
illmæli, klám og arga-fas,
ósamþykktir og heimsku þras.

29. Hún er rètt-kölluð hússins móðir,
hjúunum kær og virt sem her,
hennar dygð læra landsins þjóðir,
lempin þartil og hugul er;
hún virðir mig og elskar eins,
eingum geraudi neitt til meins.

30. Hún með íþróttum húsið fyllir,
hreinliga býr til mat ávalt;
hvað sem hún hefir handa' ámilli,
herrans blessan það drýgir allt,
svo hvört eitt matarkynja ker
krukka spámannsins haldið er.

31. Hún er skírlíf í hjarta' og sinni,
hjá mèr sefr og bærist ei;
heldr liggr í hvílu minni
hæverskliga, sem önnur mey,
erfiðar samt með æru þar[3];
ávöxtinn guði befalar.

32. Hún vill aumstödduṁ hjálpa' og þjóna,
hún vill sykra það remma' er á;
hún er mitt skart og heiðrs króna,
hún er það bezta, sem eg á;
hvörjum staudligum eignum af
ekkèrt þvílíkt mèr drottinn gaf.

33. Nú hefi' eg talað nóg um okkur,
nefnda sælu má finnast um;
því svoddan konur kosta nokkuð,
kjörgripir eru' í ríkjunum.
Flestallt húendum vildi' í vil,
væru þvílíkar margar til.

*O.*

34. Nær vetrar-tíð að garði geingr,
gleðst eg að eiga skjól og hvíld[4];
útivinnan ei lýr oss leingr,
lyst af haust-söfnum verðr fylld;
því nýtri verð eg nú í vor,
náttúrunnar að rekja spor.

35. Vetrinn hèr ei virða flóar[5],
við hans gæði samt kannast eg;
heilsan er frisk þá frýs og snjóar,
falli veðráttan bærilig;
aldrei festir á skötnum skarn[6],
skemtan er mèr að ganga' á hjarn.

36. Fara læt eg að fugla-veiðum,
fágætis til um hlíðar urð,
sem[7] fornmenn áðr höfðu' á heiðum,
hænsna loðfættra sèst ei þurð[8];
vel get eg horðað villi-rètt[9];
á veiku fiðri sef eg lètt[10].

---

1) hýran eðr konan mín. 2) ógáng. 3) Þetta er sett á mót 1ta kv. 14ða v., sjá að fr. 4) þ. e. inni, fara í vetrar hreysi. 5) vermir, heitir. 6) menn verða ei óhreinir úti að gánga í frosti og snjó. 7) *sem*, þ. e. með sama hætti og fornmenn: við tog og snörnu, en ei byssuskot. 8) rjúpnar eyðast ekki. 9) *villi-matr*, kallast af öllum ótömdum, sjálfala eðr villidýrum. 10) eg sef vært á því mjúka fiðri.

37. Náttúran sjálf fer lopt[1] að leggja
lystiligt yfir vötn og sæ;
krystalls[2] gler er við iljar seggja
almenniligt á hvörjum bæ,
einginn, veit eg, um veðra-hvolf[3],
vísir á þvílíkt hallar-gólf.

38. Ísinn þykir á Íslandi,
óbliðu merki skaparans[4];
það er ei satt! hann sviptir grandi
sífeldt, og geymir blessan hans[5];
hlunnindi margt og ferskan fisk
fáum vèr þaðan á vorn disk.

P.

39. Þó gott sè hvað eg get af sænum,
gæðin þau verða stopul samt;
hjálpræði vissast heima' á bænum
hollari gefr flestum skamt,
ómakslaust selr ull og mjólk
ærin, fyrir vort heima-fólk.

40. Töðu-gjöfum eg gjörr kann haga;
græðast kýrnar þá sezt er að;
hjörtkælar nær til vatnsins vaga,
verðr mèr skemt að líta' á það;
hvör þeirra mjólkr brunninn ber
barmafullan á kviði sèr.

41. Springvatn úr garði gylva Dana[6]
getr hún frenja[7] leidt til sín[8];
úr hvörri rennu'[9] og hvörjum hana
hvítlitað sprænir matar vín;
ef höndin þrykkir óvart á,
uppsprettan fer að vella þá.

Q.

42. Lángt yrði þvílíkt til að tína;
tek eg það sem er fágætast;
reynslan gjörði mèr sjálf að sýna,
þó sæki' að frost og veðrið hvast,
hvörnig að vetrar húmin svört,
helzt feingi eg að sumri gjört[10].

43. Nær grösin öll hjá grönnum fölna,
gróðrar náttúran byrgir dyr[11],
rætr og aldin rotna' og sölna,
rírnar og deyr hvað lifði fyrr,
þá eg hef hjá mèr grösin græn,
góð til líknar[12] og matar-væn[13].

44. Allan vetr með öllu lifi
ávöxtur þrifst og stundum vex[14];
nett hann uppskera kann með knífi
konan, til saðníngs og til smekks;
fyr' mig og aðra sýðr svo,
í sèrhvörri viku, daga tvo[15].

45. Svo heilnæman og frægan forða
fursti[16] margr sèr nægja lèt;
hjúunum þykir hnoss að borða
hvörsdagliga það raritet;
aðrir um tekinn tvíla skatt[17],
trúandi laust að það sè satt.

46. Epli, næpur og aldin-rætr[18],

---

1) eða pall af ísum. 2) *krystallr* þýðir öndverðliga á griska túngu: ís, og þaðan hefir steinninn *krystallus* sama nafn feingið. 3) heimr. 4) en guð lætr þann þó optliga verða oss bæði að gamni og gagni; (sjá næstu skiríngargr.) 5) varðveitir undir sèr, handa oss, ýmsa fiska. 6) með kunst gerðar vatnssprænur í ýmsum lystigörðum Dana kóngs, sem spýta hátt í lopt upp. 7) *frenja* er kýr. 8) fært heim til sín, snúið uppá sig, sýnt. 9) *rennu*, það meinast úr hvörri mjólkræð og spena. 10) hvörnig helzt vetr megi að sumri gera. 11) teppir alla vegi lopthitans, fjarlægir og byrgir sólina og fl. 12) heilsubótar eðr lækninga. 13) brúkanlig og hentug til matar. 14) Svoddan innsett kálgresi vaxa framan af, og blómið útspríngr; síðan lifir það, sem í svefni, vaknar á vor, og gefr þá fræ, nær litið plantað er. 15) matreiðir þessar jurtir tvisvar í viku, (einsóg hrúkað er í öðrum löndum). 16) *fursti* eðr fyrsti, prinz, tiginn herra. 17) Hinir landar minir efast um það, að eg hafi svo mikið gagn af maturtum, elligar að hyski mitt þar við lifi. 18) kólfar og æxlis-rætr, sem eru að mynd og efni svipaðar aldini.

á vetrum geymir jörðin þýð;
en slikar matar beztu bætr
brúkuðu Grikkir forðum-tið,
Rómverja lika hraustr her,
höldar[1] og yfirmennirnir.
47. Siðuðum þjóðum enn eru' öllum
ávextir slikir dagligt brauð;
því hlæ eg rètt að rustaköllum,
er reikna þá gras sem auki frauð[2]
einsog hvört {gauðið / flónið} af þeim sè
áminnstum {köppum hrastari. / þjóðum vitrari[3].}

*R.*

48. Víst er framsagðr vetrarhagr,
að vista nægðum höfuð-þing;
samt hinn ráðvandi bæar-bragr
bætir heimilið allt um kríng;
fræðibækr[4] eg les og ljóð;
svo læri hjúin dæmin góð[5].
49. Eg líð ei gems nè gárúngs hætti;
gamanið samt eg læt í tè,
og vil hvörr glaðr verða mætti
við skikkun, hóf og frómlyndi,
og svo í kroppinn komi' ei ryg,
karlfólkið stundum reyni sig[6].

50. Gjarnan trúrækinn vil eg vera,
vinnufólkinu' eg held til þess;
ei má húslestr[7] undan bera,
eðr að sýngja guðligt vers;
biblín les eg fyrst og fremst;
fræða lærdómr úngum temst[8].
51. Eins hvort vèr vökum eða sofum
andfælulaust og drauma-rótt[9],
bærinn er hreinn af vondum vofum,
við slika siði dag og nótt;
þeir góðu einglar eru hjá,
öllum meinsemdum hrinda frá.

*S.*

52. Fiskr er geinginn inn úr álum[10],
eyðist af bændum[11] hvört eitt kot;
senn er komið að sumarmálum,
sælunnar verðr ekki þrot;
nýkomnir fuglar[12] fríðka tún,
farinn er snjór af hvörri brún.
53. Jörðin skiptir um lánarliti[13],
leiðist rjúpunum skjallarhams[14];
mèr breytist[15] og, að mínu viti,
mjög svo geðferðið innan skamms;

---

1) aðalmenn og hershöfðingjar Rómverja. 2) þeir ætla að maturtir sè þróttlaust gras, sem taki úr merg, og menn kunni ei náttúrliga við að lifa. 3) svo hvört afstirmið og heimskinginn hèr á landi, hyggst nú betr skilja enn þær vitru og mektugu þjóðir, og ætla hraustari að verða, með því að forðast maturtir, enn hinir miklu höfðingjar og hreystimenn urðu, með því að borða þær. 4) sannar og fróðligar sögur, rímur, eðr annað gott þvíumlíkt. 5) Það er *philosophia exemplaris* (dæma-speski), sem menn helzt taka eptir, og hún fæst ei nema við frásagna lestr. 6) glími, og hafa aðra siðliga leiki, hvarmeð líkaminn verðr æfðr og heilsunni viðhaldið. 7) guðs orða lestr dagliga opinberliga í bænum, kvöld og morgna. 8) börnunum er kendr sinn kristindómr. 9) þá sofum vèr rótt fyrir utan andfælur og vonda drauma. 10) undir landið, inn í firði og víkur, uppí landssteina. 11) þeir fara drjúgum allir til sjóar. 12) sumarfuglarnir (*aves migrantes*), svo sem lær, hrossagaukar, stelkar, spóar, o. s. frv. 13) hvíta liti sem hún lánað hefir, eðr hún hefir til láns feingið hjá vetrinum, þ. e. af ísum og snjóum. 14) *skjallar-hams*, egg-himnu hamr, eðr hinn hvíti litr. 15) eg hefi ogsvo feingið sinnaskipti með missiraskiptunum: svo hafa menn annarslags hugar-hræríngar, með öðru veðri og lopts-liti; mennirnir í kríngum oss, hlutirnir (*objecta*) og

því öll er komin önnur lyst
í mig, enn sú eg hafði fyrst[1].

54. I haust, er var, eg þrumdi þreyttr,
þá jurtagarðsins yðju sleit;
nú vil eg aptr verða sveittr,
og velta þar um einum reit;
en varpa síðan fræi' í fold,
fyrirmyndun um sjálfs míns hold[2].

55. Lystugt er úti' að vera á vori,
veðrið fagrt, en sólin skín;
ærnar jarmandi, fær og forinn[3];
fuglasaungrinn aldrei dvín;
fiskar[4] upptaka' og firrtir hrygð
forvitnast[5] ætla' um landsins bygð.

*T.*

56. Frækornin þá eg felli niðr,
fara þau uppá von og trú,
náttúran hress þeim heldr viðr,
hlaupa þau upp[6] að bragði nú;
án fyrirhafnar[7] minstu má
maðrinn af þeim jurtir fá.

57. Þar vex upp mest af minstum aungum[8],
margslags kálgresi nytsamligt;
gróðrsetníngar[9] lifna laungum,
líka krydd-urtir eigi tregt;
mjólk-urtir[10] gefa matar-lyst,
magann kælandi og brjóstið þyrst.

58. Af myntu[11] gall og maginn heilist[12];
mustarð[13] af tali frelsarans
þekkjum; mann yfir sá[14] hèr seilist,
sætan ylm gefr limið hans[15],
magann vermir, en hreinsar haus[16],
hann vægir[17] kýlin graftarlaus.

59. Steinselja leysir þvagsins[18] þúnga,
þá miltis-teppu'[19] og kviðarstein[20];
spinakkan[21] mýkir[22] líf og lúnga[23],
laukrinn kveisu'[24] og ormamein[25];
eins hvört meðal það eykr krapt
áborið, sem til matar haft[26].

60. Niðri jörðunni nýtan akr[27]

---

öll heimsins ásýnd, virðast oss eptir því breytinn svip hafa, sem viðrar úti, öðruvís í sólskini enn dymmviðri, logni enn hríð, o. s. frv.

1) í haust er var, þá vetrinn kom. 2) hvörnig það skuli til þurðar gánga og síðan endrlifna. 3) *fori* (og fær) sauðr, hrútr, geld-sauðr, forustu-sauðr. 4) vatns-fiskar eða silúngar vaka, taka uppi. 5) einsog þeir vilji fara að skoða o. s. frv. 6) *að hlaupa upp*, segja sáðmenn um garðfræ, þá skamma stund niðri liggr og þær úngu jurtir fljótt uppspretta. 7) *án fyrirhafnar* eða mæðu; því lètt erfiði er ei fyrirhöfn að kalla. 8) Allar sèrílagi svo kallaðar káltegundir hafa mikið smáa rót, í samburði við þá stóru jurt, er vex þar uppaf. 9) *plantæ*, úngar jurtir, sem með rótum plantast. 10) *mjólkurtir:* meinast öll salöt, sem sameiginliga gefa matarlyst (og kallast líka þessvegna lysturtir), kæla og svala. 11) krull-mynt, *Mentha Crispa officinarum.* 12) heilbrygðast. 13) *mustarðr* (kallast helzt sá tilbúni) sinep eðr sinapi, um hvörn Kristr talar, Matth. 13, v. 31 og 32. 14) Það-sinepi, sem vex hèr á landi, verðr meir enn mannhátt. 15) *hans* miklu og mörgu blómgreinir. 16) *purgat caput*, þ. e. dregr vonda vessa af höfðinu. 17) lætr þau vægju, flýtir þeim, (*maturat tumores*). 18) pètrselja, *Petroselinum*, læknar hlandstemmu og greiðir þvagrás. 19) *obstructio lienis.* 20) á við steinsótt, bætandi blöðru og nýrnasteins meinsemdir. 21) spinat, *Spinachia.* 22) gefr mjúkt líf, (*ducit alvum*). 23) mýkir lúngu, (*lenit, aperit pulmones*). 24) innantökr, (*colicam & dolores intestinorum*). 25) innaní manni. 26) Þessi meðöl verða bæði í mat borðuð og í lækningum brúkuð útvortis og innvortis. 27) Hèr meinast akr jarðepla, hvör öll niðri-jörðu vaxa.

náttúrliga eg gjörði mèr;
hinn yfir jörðu' er ennþá lakr[1];
epli meina' eg sem vaxa hèr[2],
og mjöl og brauð[3] og grjóna-graut
gefandi, sveingðar eyða þraut.

61. En jörðin fèsjóð hulinn hefir[4]
handa mèr, næpur, rófur[5] með;
fleira mitt akrgerði gefr
gott, þó hèr ei sè framtalið;
uppskeran mèr ei verðr vönd[6],
vetrinn þegar fer í hönd.

62. Auk þess mèr jurtir margar þèna,
sem mörkin[7] reiðir[8] hvört eitt ár;
nokkrar því fæðslu ljúfa lèna;
lækna' hinar ýmsa kvilla' og sár;
það akta' ei grannar minir mál[9],
meir enn hið fyrra'[10] um garða kál.

63. Ofaní kaupið að því hlæa
óvita gantar, það er verr;
en slíkum heimsku-hlátri bægja,
húngrið síðan og kvillin fer;
þeir vilja gjarnan útlenzkt allt,
og helzt vitleysið[11], sè það falt.

64. Af því, sem heima[12] guð þeim gefr
góðu' og þörfu' fyrir eingan pris,
ósmekkr finnst og illr þefr;
einsog það væri flær og lýs[13],
sópa því sem til ángrs er
ofnærri, lángt í burt frá sèr.

65. Guð segir: þú skalt urtir eta[14];
þeir ætla það, máske, syndalaun[15]
og forðast því, sem fremst þeir geta;
fíflin samt þiggja korn og baun[16];
vissu þeir að það væri gras,
við kaupmanninn þeir hefðu mas[17].

66. Grösin sem hèrna hjá þeim vaxa,
halda þeir ei til lækna sterk[18];
en í galdri með gina-faxa[19],
gjöra kunna þau. furðuverk;
reinir[20] bölvaðr segja sè,
samt er hann eitt það bezta trè[21].
U.

67. Ottast eg að min sæla sjatni[22],
sè eg leingr við þennan flokk;
heimsku veikleikinn bið eg batni,
svo basla þurfi' ei með vanar stokk[23];
gaungum heldr í grænan lund,
gleðjumst þar aptr litla stund.

68. Ugglaus sit eg í svoddan blóma[24],

---

1) kornakrar, sem nú vilja ei lukkast (enn sem komið er) hèr á landi. 2) helzt þau tvennslags: kartöplur og jarðperur. 3) af hvörjum gert er mjöl og brauð, o. s. frv. 4) jörðin hefir hèr enn í sèr hulinn akr, því niðri henni vaxa næpur, og fleiri kálfarætr. 5) svo kallast aflángar næpur, er hèr vaxa. 6) hæg og ei vandasöm. 7) sú ósáða jörð, tún, úthagar o. s. frv. 8) þ. e. ber, gefr af sèr. 9) þ. e. efni. 10) það sem áðr var sagt (sjá 47 v.). 11) þ. e. það sem heimskuligast og skaðligast er, sè það að eins frá útlenzkum eðr af þeim brúkað. 12) ɔ: hèr á landi, hjá þeim. 13) sem biti þá, og þeim væri ami að hafa nærri sèr. 14) Gen. 3, v. 18. 15) straff syndarinnar, en gæta þess ei, er guð sagði til *Adams*, Gen. 1, v. 29, þ. e. a. sk. áðr enn hann fèll; og til *Nóa*, samast. 9, v. 3. 16) allslags korn, ertur, baunir, o. s. frv., sem þó er allt af urtum tekið; já, hveiti, bygg, rúgr, hafrar og þeirra grjón, er af þeim eiginligu taðgresis tegundum (*graminibus*), sem melrinn vor. 17) þá mundu þeir út af því deila við hann og minna fyrir gefa. 18) dauf til lækninga. 19) *Ginfaxi* heitir sú mynd, sem galdrasnápar nú opt brúka. 20) hann hefir orðið fyrir sèrligu óorði hjá Isl. 21) ávöxtur hans er harðla góðr við sár, stillir búkhlaup og fl. 22) gleðin hindrist. 23) gánga við vanar völ, (ei: fara á vonar völ), fara um húsgáng, betla. 24) Eg set mig hèr niðr

sist þarf eg hræðast eitr-dýr;
guð lèt þau hingað hvörgi koma;
hèr ei forgift í jurtum býr[1];
þistlar hèr ei nè þyrnar fást[2],
því er mèr hèr-að vera skást.

69. Mörg eru fyrir utan hvannir,
ágæt blómstur í þessum stað;
eg vil þú mína sögu sannir,
sagði eg áðr fátt um það;
fyrirhafnar-laust vaxa vel,
vistajurtir, sem fyrst eg tel:

70. Fardaga kál[3] og kráku-fætla[4],
kálgresi mega virðast jöfn,
til lystar-rètts[5] hún er, eg ætla;
á kalta[6] sömu dygðanöfn,
á skarfa-kál[7] og súru sett,
sefar hið fyrra[8] bjúginn[9] lètt.

71. Fyrst eg sit undir einir-runni,
eg má geta þess heilsu-très[10],
með fáum orðum einginn kunni
ótal dygðir að nefna þess[11]:
reykelsið hollt í hvörjum stað[12],
hressir og kroppinn verndar það.

72. Um fóðr-hey, sem fènu lúkast[13],
fergð[14] og skömtuð úr þurri kös,
og ótal það sem almennt brúkast,
öll ber, söl, smærur[15], fjallagrös,
þó njóti titt, eg tala fátt,
nè tæring uppá búmanns hátt[16].

73. Heldr vildi eg nokkuð nefna
nytsamt, er fyrri vissi' ei hvörr,
sèrligt til búmanns sældar efna,
svo meiningin ei verði þur[17],
og hvað mèr einatt yndi jók,
er í náttúru las eg bók[18].

X.

74. Nær vatn skal heita' að veizlu-minni[19],
og verðugum gestum láta' í tè;
útlenzkum varla verð eg minni[20],
vil eg ei þeirra fúka-te[21],
framar akta eg[22] æru-prís[23],
er mèr sú jurtin heima vís[24].

75. Te krydda eg[25] af bezta blómi[26],
í blástr-skugga[27], sem þurkað var,

óhræddr fyrir illyrmi og eitr-jurtum, sem úti löndum er að óttast, nær menn sitja í grænu grasi.

1) eitr eðr ólifjan hafa þær ekki. 2) þeir vaxa ei í þessu plázi (þó finnast þeir í fám stöðum á Isl.). 3) heimilis-njóla blöð, *Patientia.* 4) *Coronopus,* er ein *plantago angustifolia.* 5) eðr salats; brúkast hún svo í Hollandi. 6) *Caltha palustris,* veitu-sóley, er og til káls og salats. 7) allteins *Cochlearia.* 8) þ. e. skarfakál. 9) skyrbjúg. 10) heilsubótar trè. 11) því það er eitt *polychreston,* eðr gefr margar dygðir til lækninga. 12) sem sè: laufunum sjálfum og þeim mjóstu greinum. 13) um ýmsar heytegundir, sem smala er gefið til fóðrs. 14) þ. e. hlaðin, grjótborin og sigin. 15) smáraleggir ɔ: *Trifolii pratensis albi.* 16) dagligt bónda matlífi. 17) smekklaus, leið, óskemtilig. 18) las með reynslunni. 19) traktèra aðkomandi með tevatni. 20) eg vona aðrir dæmi svo. 21) hèr kemr aldrei nema slæmt te, og svo er það almennt í Höfn; nú er það hèr opt auk þessa fúið, myglað og eitt sinn áðr soðið. 22) eg met betr og dýrara. 23) *Veronica. Joh. Francus* hefir sèrilagi kver ritað um *Veronicam theezantem, ed.* 1694 & 1700 *Lips.* og *Frid. Hartmannus, de infusæ Veronicæ efficacia præferendu Thee, Halæ* 1694. *Buchvald* segir hún sè *quasi vere unica inter plantas ob virium excellentiam dicta.* Og í margra annara lærðra manna bókum er henni ákafliga hrósað. Seyðið drukkið er ágætt við stór sár, brjóstveiki, kveisur, vatnssótt, steini, lifrarstemmu, miltissýki, síðusting, lúngnasæring, megrusótt, kláða, gjörir svita, o. s. frv. 24) í landeign minni. 25) gjöra jurta blending fyrir te. 26) blómstrin eru helzt til þess tekin. 27) í vindi, hvar ei skín sól á.

vel-litað[1] sem að vitra rómi,
verkun, smekk, ylm, af hinu bar;
hármeyar-lauf[2] og bráða-björg[3],
blandast við ekkilsjurtin[4] mörg.

76. Ef austan að svokallað kaffi[5]
kola-mylsnu þeir girnast saup[6];
þá segi' eg komi af syndastraffi,
soddan prjálsemdar elkast kaup;
af einirberjum betri drykk
bý eg, sem hefir sama skikk[7].

77. Þvílík mig heilsu bætir bára[8],
báðum höndum eg kerið gríp,
og þriggja steiktan avöxt ára[9],
ylmheitan[10] þann eg glaðr sýp;
Norðmenn hafa það þekkir lært[11];
Þýðverskir eins til nytja fært.

78. Þær dýru veigar hrygln' og hósta
hrinda, gjörandi blóðið þunnt[12];
þeim nýrnasteins og blöðru[13] brjósta
bágleik[14] og kveisur verðr unnt[15]
að lækna', og innra[16] flogin fljótt,
flýr þá og líka kónglig sótt[17].

---

1) þetta tevatn hefir fagran (grænan) lit. 2) *folia Dryadis.* 3) blóðberg, *vulgo;* rèttara blóðbjerg eðr björg, einsog bróðbjerg eðr bráðbjörg heldr enn bróðberg. 4) *Achillea* (af *Achille*, sem fyrst fann hennar dygðir, einkum til sárabóta), *Millifolium pratense, album, nobile,* vallhumall, hann bætir og læknar hjá mönnum og konum allslags blóðlát, eins blóðþvag og blóð-uppgáng, á við höfuðverk, stein, eitrbit o. s. frv. dustið brúkast í sár útvortis. Teið þar af hefir og áðrtaldar verkanir, og líka bætir það allar kveisur og innantökur og *dolores venæ portæ*, byrjun til nýrnasteins o. s. frv. *Buchw.* segir (í hans *Specim. Bot.*) *Millef. officinarum omnibus fere genuinis practicis haud immerito polychrestum habetur — & optimum medicamen in medentium ægrorumqve votis rarò fallit, p. p.* 5) sem kemr austan úr heimi (Arabíu) og varla kann kaffi að heita, eptir að það með þeim almenna tilbúníngi hefir mist alla sína rèttu náttúru. 6) það er ei annað enn kaffikola-mylsnusúpa eðr grautr. 7) hann er viðlíka tilbúinn og hefir alla sömu ásýnd, svipaða lykt og smekk, nema enn þægri, og verkanin betri í margan máta. 8) heilsubótar lögur. 9) á einu trè eru í senn ber frá þremr sumrum, þ. e. þeir gulu vísirar í sumar, þau grænu berin síðan í fyrra sumar, og þau svörtu, sem eru fullþroskuð, síðan sumarið þar fyrir. 10) einir-kaffi er ylmandi þá heitt er. 11) I Norvegi brúkast þessi drykkr, og þýzkir menn vilja sèr hann fyrst og fremst eigna. *Joh. Jul. Hecker* segir (Einleit. in die Botan.) „Die Wacholder-Beeren sind eine rechte Polychrest-Artzney. Sie können auch selbst zur Verdünnung des Bluts vieles beytragen, wenn man sie ein wenig röstet, und alsdann wie Caffee zurichtet. Solcher Tranck ist sonderlich gut im langwierigen Husten, Gelbsucht, Magenbeschwerungen, Colic, Nieren- und Blasen-Steine u. s. w." 12) Þessi drykkr þynnir hjá þeim blóð, sem það ofþykkt hefir. 13) leysir steina kviðar, hvört sem heldr eru í nýrunum eðr hlandblöðrunni. 14) brjóstveiki. 15) þeim dýru veigum (eðr drykk) verðr unnt að lækna o. s. frv. 16) *dolores stomachi* eðr maga-pínu ýmsa, og aðra verki innvortis, svo sem og einirberin óbreytt gera, hreinsandi burt hvör saurindi líkamans, og einkum hjálpandi blóðsins umgángi (*circulationi sangvinis*); um einir-trèsins sjálfs, þess laufa, smjörs, o. s. frv. margfaldar dygðir verðr hèr oflángt að tala. 17) *morbus regius,* gula.

Y.

79. Maðran[1] örþreyttum lèttir lia,
ljá krapta veðra-berin[2] rauð;
melir og drekar[3], (muntu trúa?)
mèr færa hveiti' og sætabrauð:
fjöl-dygdug[4] jázt um jöklastöð,
Jakobs-fifill[5] og remmu-blöð[6].

80. Enskir kaupa fyrir dýra dóma
dökkvunar-blöð[7] í tóbaks reyk;
vèlantsrót[8] garnir gerir tómar;
geitlu[9] vill þjóðin fóta-veik;
græðisúran[10] er sárum holl;
svæfla[11] bilaðan læknar koll.

81. Ofsvefni hrindir hrafna-klukka[12];
hrindir svefnleysi fjólu-lauf[13],
mergruna skemdum[14] skeggið bukka[15];
skírist af augnfró[16] sjónin dauf;
við eitr, pest og orma-nag[17]
á sævar-hvönn[18] og vind[19] og slag[20].

82. Þetta' er og meira' á minu landi,
mörg er ótalin dygðin fin
í þeirra góðu grasa blandi;
gestunum skeinki' eg bjarkarvín[21]
og sterka berja virt og völ[22]
vænnra blóm-laga' í helgar-öl.

83. Hjónagrösunum gleymi' eg aldri,
svo góðan ylm þau senda mèr,
frjósemi verka' á frygðar-aldri[23],
frævast[24] óbyrjur þar fyrir;
ein rotin sökk og önnur flaut,
úr faðmlögunum tekin braut.

84. A fagri mörk gekk mèr í lyndi,
mettuðu blómstrin sjón og þef;
en svo eg missi' ei urtar yndis,
inni hjá mèr eg nokkrar hef;
þær ylm í bænum breiða' ámót,
blómgast samt fyrir utan rót[25].

Z.

85. O þú blessuð forsælan friða,
sem frið og lyst og nægðir ber!
vel má eg í þèr una' og bíða,
einsog guð hefir lofað mèr;
hjá þèr er auðr ekki par,
utan til snöru' og þvingunar.

86. Sá ríki sinu ræðr ekki;
ríkdómrinn hans drottinn er,
og beygir hann í bönd og hlekki;
en blessað sjálfræði fylgir þèr[26];
hans strit er þreyta' og þorsta pín;

---

1) *Gallium v. Galium* er eitt *Acopon*. 2) hrútaber, alþekkt á Isl. 3) melr, *Arundo, gramen spicatum etc. v. Linn. Fl. Sv.* 102 og *Draunculus* (*minor*), kornsúra. 4) *polychresta*, sem hafa margar dygðir, játast á Isl. 5) *Jacobæa* (*minor*) *vel Senecio*. 6) *Menyanthes*, horblaðka. 7) sortulings blöð kaupa þeir dýrt úr Ameriku til að reykja með tóbaki. 8) *Thalictri* (*alpini*) *radix purgat*. Þessi jurt hefir og fleiri dygðir, sem aðrar þær hèr nefnast, þó ei nefnist nema ein verkan hvörrar. 9) *Podagraria*, snóka-hvönn. 10) *Plantago latifolia est insignis vulneraria*. 11) *Rhodiola*, burn, eðr *Cephalica*. 12) *Nasturtium*, vild-karsi; *hinc adag: ede nasturtium* við svefnuga og dofna. 13) *Viola* (*martis & tricolor*), hennar blóm og blöð. 14) *Dysenteria*. 15) *Barba capræ*, mjaðurt, *Ulmaria*. 16) *Evphrasia*. 17) bit eitr-orma. 18) meistara-jurt, *Imperatoria*. 19) vindar innvortis, *flatus*. 20) *Apoplexia*; annars hefir *Imperatoria* miklu fleiri dygðir, og er lík að verkunum höfuðhvönn eðr *Archangelicæ* (vorri þeirri ætu), og báðar þær eru *polychrestæ* almennt kallaðar. 21) lögur lifandi bjarkar, eðr af særðu birki (*aqva betulæ*), með hvörjum vín og öl kryddast. 22) krækiberja-drykkr og íslenzkt kryddöl, (*v. Dr. B. G. A.*) 23) meðan maðr er ei úr barneign. 24) þ. e. hafnast. 25) skornar upp, skamt fyrir ofan rótina og settar í vatn, blómgast þær inni og lifa nokkrar vikur. 26) til allra dygða æfingar.

þitt strit, svalandi gleði-vín.

87. Hvað greppar[1] fyrr á gyllta streingi
um goða-lunda[2] súngu prakt,
svosem forðum Odáins engi[3],
um þig held eg með rètta sagt;
því raunin talar, það eg skil;
þeir diktuðu hvað ei var til.

Þ.

88. O! að búendur fyndu' og feingju
forsælu þessa' á hvörjum bæ,
til sinnar vinnu glaðir geingju
guðs undir blessun traustir æ;
ó! að nytsamligt ættu bland[4]
alls, sem gefr vort föðurland.

89. Aumust smádýr af alabastri[5]
ágæt byggja sèr hýbýlin;
heimsins kóngar, með hörkuvastri[6],
hafa slík ekki byggt sèr enn;
þótt húsum þeirra safni sèr[7],
síst það völunda getr hèr.

90. Þær veiku' og daufu kindur kunna
kóngligan sèr að reisa stað,
handalausar[8] á grjóti grunna;
gætum nú, bræðr! loksins að,
hvað á oss sifeldt výl og vafl?
vèr höfum guðligt skyn og afl.

91. Vèr höfum ótal varða[9] vegi,
vèr höfum ótal gæða kyn,
og þá liðr af lífsins degi,
liggr fyrir oss sælan hin
uppá hæðum, sem aldrei þver,
í guði, hvaðan komum vèr.

92. Látum oss ei sem giltur[10] grúfa,
gæta þær alldrei neitt á svig[11],
akarn[12] við rætr eikar stúfa[13],
umhyggjulausar fylla sig;
en uppá trèð þær ekki sjá,
akarnið hvaðan kemr frá.

93. Lítum því, bræðr! kveins úr kafi,
komi til hans vort þánka-reik,
sem allar mönnum góðar gjafir
gefr, fyrir utan verðugleik[14];
byrgjum ekki vorn munn í mold,
mikli þann guð vort uprètt hold.

94. Glaðir skulum á sumri safna,
svo blessast oss hin kalda tið;
vetrinn skal í vori kafna,
varir sú skikkan alla tíð,
þartil óveðrið útaf deyr,
og eingiun vetr kemr meir.

95. Því meðan ei er æfin búin,
er gagnlig vinna skemtilig;
en þó eg deyi þreyttr, lúinn,
þá fæ eg nóg að hvíla mig;
nýt eg að eins míns erfiðis,
og landið hefir menjar þess.

Æ.

96. Lífið mun öllum rustum remmast[15],
ræktarsnauðum við fólkið sitt;
við skulum frá þeim fara snemma,
og fram-mæla seinast, hjartað mitt!
hvað prèdikaði af hugarsjón,
hinn vitri kóngr *Salómon*[16].

97. Sólunni leit eg ólán undir,
auðugr þegar saman dró,

---

1) skáldin. 2) blótlundar þeim helgaðir. 3) *Campi elysii* Grikkja og Rómverja og Odáins-akr á Norðrlöndum, hvar menn dóu ei. 4) söfn og nægðir allra þeirra góðra hluta. 5) skelfiskarnir, hvörra undarliga fögru hús eru af kalkefni, sem alabastr, og hönum mikið lík mörg að lit og ásýnd. 6) með stórri, smásmugligri og mikinn part ónauðsynligri fyrirhöfn, geta þó ei nærri svo vel byggt. 7) þ. e. skeljum bæði til kalkgerðar og þeim falligustu til að prýða innan hallir sinar, haldandi fjölda smiða. 8) fyrir utan hendr og fætr á grýttu og rótsömu hafgrunni. 9) vörð m setta, svo ei villast þurfum. 10) svín eru jafnan niðrlút. 11) ta ei til hliðanna. 12) eikar ávöxtur. 12) stýfa, eta. 13) grúfum ei andlitið niðri jörðunni, svo þar fyrir ei talað getum. 15) þ. e. beiskt verða. 16) í sinni prèdikunar bók.

og hugði niðr hreppa mundi;
hann við þján illa fyrri dó;
sonurinn snauðr eptir á
ekkèrt, sem höndin taka má.
98. Hvað gagnar svo fyrir gýg að vinna,
getr sèr[1] maðr eymd og nauð,
og alla dagana æfi sinnar
etr í myrkri hrygðar brauð;
illr í skapi hvörn dag hann
heilsunnar[2] aldrei njóta kann[3].
99. Manninum er því ekkèrt betra,
enn sinu lífi' að kætast í[4],
matar og drykkjar sinna setra[5]
sjálfr yðjandi neyta frí[6];
guðs úr hendi sú gleðin fer,
gáfa drottins hún jafnan er.
100. Viljið þèr mèr ei til þess trúa,
sem talað hefi' eg um búskap lands;
*Salómon* kóngr kunni' að búa;
komum, bræðr! að ráðum hans;
vilja guðs oss og vorri þjóð
vinnum[7], ámeðan hrærist blóð[8].

# Píkna-spillir

*um það, að meiriháttar stúlkur láti og látið hafi svo opt fallerast hèr á landi; kennist helzt um það hirðuleysi foreldra og illri siðvenju í hússtjórninni, hvar einginn munr er gjörðr á góðu og illu, háu og lágu, yfirráðum og undirgefni.*

Viðkvæðið er útlagt úr þessu gamla rómverska tvíhendingarversi, (hvört þó í inngángi kvæðsins að nokkruleiti mótsegist):

*Crede ratem ventis, animum ne crede puellis:*
*Namqve est fœminea tutior unda fide.*

Stormum trúðu fyrir far
fyrr enn muna snótum;
trúrri' er ólgan trygða rýgar[9] hótum.

Marsjáll[10] hafði mikið nafn,
merkis-skáld í Rómi,
myrkvast við hans mærða safn
margra kvenna ljómi,
máltök skráði mælsku-jafn,
minnistætt það orðið var,
stormum trúðu fyrir far,
því hann fældist fljóða-tafn[11],
fyrr enn muna snótum;
trurri' er ólgan trygða rýgar hótum.
2. Gott og sannligt ekki er
allt hvað gamlir segja[12]

1) þ. e. aflar sèr eðr orsakar. 2) hefir ei gott af henni nè annari líkamligri velliðun; því í hans geði býr ætíð íllt, hrygð og ófriðr. 3) sjá *Eccles.* kap. 5, v. 13. 4) *ibid.* kap. 3, v. 12. 5) *ibid.* kap. 5, v. 18. 6) neyta þess með frelsi, sem heimilið af sèr gefr. 7) vèr skulum erfiða eptir guðs vilja, og undireins handa oss og löndum vorum. 8) þegar maðrinn deyr, þá staðnar blóðið.

9) *rýgur* er kvennkenning. 10) *Martialis* hèt eitt latjnskt skáld í Rómaborg, hann kvað margt, sumt var gott, en sumt bæði kímnisfullt og klámfeingið. 11) *fljóða-tafn*, ɔ: gínníngar, tælíngar, þóktu honum þær miklar. 12) Það er gamalt máltæki: "að margt se gott sem gamlir kveða", og annað: "að flest sèu fornmælin sönn"; en hèr er bendt til viðkvæðisins, hvar öllum konum er gefin ein sneið rángliga; samt játast það ei í kvæðinu, heldr meinast einúngis þær, sem í henni hlut eiga.

mörgu trúa megum vèr
um margt er skárra að þegja,
reynslan vitnið betr ber,
bezt hún opt úr málum skar;
*st. t. f. f.*
samt hún ekki sýndi mèr
sætna lund að rótum; *t. c. ó. t. r. h.*

3. En eg hefi' á öðrum sèð
óteljandi dæmi,
þau um ljósra linda geð
loddu' í mínu næmi;
um það skáldin orktu með
að þær væru misjafnar; *st. t. f. f.*
góðkvendunum ljóð hafa lèð
lofs með hærstu nótum; *t. c. ó. t. r. h.*

4. Eins hafa skáldin ýmiss ljóð
orkt í þessu landi,
opt um gift og ógift fljóð
eptir þeirra standi;
sem fiskr greppa þagði þjóð[1],
þegar rökin[2] greina bar; *st. t. f. f.*
styttum tið og um það óð
efnum vegs á grjótum[3];
*t. c. ó. t. r. h.*

5. Fallið get eg aldrei í
undrun, þótt eg heyri,
giljist stelpa, griðka, þý,
grátr lángtum meiri
er að heira' um borg og bý
beztu kosti fiplaðar, *st. t. f. f.*
bregða trygð og falla frí
fyrir þræla spjótum; *t. c. ó. t. r. h.*

6. Einn þann versta innanlands
anmarka má kalla,
kreinkir rykti múga manns
í minnsta[4] skömm að falla,
höfðingjanna dætra dans
drepr slikr sóma skar[5]; *st. t. f. f.*
æru Lofnar[6] lendir kraus
í losta verstu gjótum; *t. c. ó. t. r. h.*

7. En nú grenslast ætla' eg nær
hvör ósköp slíku valda;
eg hygg ei verði sóminn særr[7]
hjá svoddan veigum falda,
þótt hundraðsinnum heiti þær
háar, fagrar, auðugar; *st. t. f. f.*
skirlifis ei byrði bær
birtist þeirra fótum; *t. c. ó. t. r. h.*

8. Eða kannske kappar nú
kalli litin vansa,
ógefin þó fái frú
friðil til að dansa;
piku-spillir bætir bú,
barn að geta er reynslu par,
*st. t. f. f.*
önnur forðum tjáðist trú,
traut það vannst með bótum;
*t. c. ó. t. r. h.*

9. Feðrum, bræðrum, frændum svall
fjandlig heipt með kýngju,
ef hjá snótum úngr karl
úti sat í dýngju,
axarhyrna biðlum ball[8],
ef blekkja vildu píkurnar; *st. t. f. f.*
en þær hueptust inná pall
og urðu fyrir hnjótum; *t. c. ó. t. r. h.*

10. Aptr páfa seint í sið,
síðar mörgum öldum,
þá ríkismeyar mistu við
mæðra' og feðra' í völdum,
frjálsar þoldu' ei *Amors* ið
og urðu sèr til minkunar; *st. t. f. f.*
að fallerast[9] það farganið
fira hèt í sjótum[10]; *t. c. ó. t. r. h.*

11. Í hálft annað hundrað ár
hefir þó yfir tekið,
meir enn kapla' og kúa fár
kreinking áfram rekið;
úti löndin orðið gár,

---

1) *greppa-þjóð* ɔ: hópr skáldanna. 2) orsök til þess kvennfólkið sè svo misjafnt. 3) á þeim grýtta og seinfara fjallvegi, (hvar kvæðið var gjört). 4) nú strax áminnsta. 5) þ. e. slikt þeirra lauslæti slökkr ljós kvennligrar æru, kælir þeirra gott mannorð. 6) *æru-krans Lofnar*, jómfrúr-krans, meydómr, meydóms teikn og prýði þessarar gyðju. 7) sjáanligr; eðr og: sverjandi, hvörn menn geta með eiði sannað. 8) þeir vóru vegnir. 9) þegar yfirmanna dætr áttu börn í lausaleik, þá var ei öðruvisi aðkveðið, enn sagt að þær hefðu látið fallerast, giptust þær síðan einsog ekkèrt hefði ískorizt. 10) *sjötum* (*sjötum*) *fira*, samkomum manna.

að þær sèu þurftugar[1]; *st. t. f. f.*
sú vömmin jöklum vekr tár[2],
vèr þó geðið brjótum; *t. e. ó. t. r. h.*

12. Þá skal eg mína mínum fyrst
meining löndum segja;
en eg kalla litla list
um lesti slíka' að þegja,
náttúran hefir ei megnið mist[3],
miðlast vit til stillingar; *st. t. f. f.*
króist[4] girndin kvenna þyrst
í kænsku feðra nótum[5];
*t. e. ó. t. r. h.*

13. Þó mæðr spari meinum vönd,
mega þær uppá passa,
að dætr sitji sèr við hönd,
svó sjái' ei læti skassa,
sauma' og prjóna vinna vönd
vífum spekir ólman mar, *st. t. f. f.*
á hann leggr beizli' og bönd[6],
bezt sem aptra þrjótum[7];
*t. e. ó. t. r. h.*

14. En þeir gánga annan veg,
sem umsjón veitast láta;
hæverkan er hofmannlig,
ef hún er rètt í máta,
sprundin sum á talið treg
temsa, kemta' og vinna' ei par,
*st. t. f. f.*
húss um þrepin læðulig
lypt ei geta fótum; *t. e. ó. t. r. h.*

15. Sitt er að hverju segja menn,
sama' er hèrna líka;
flegðulig og framhleypin
færstum geðjast píka,
báðar kunna (inni' eg enn)
eins að vera gjálífar; *st. t. f. f.*
meðalhófin kvendum kenn
með kurteys-látum fljótum;
*t. e. ó. t. r. h.*

16. En að láta ýngis-frúr
opt á bæi hlaupa,
um eldhús, skála, bása, búr,
brátt til danskra kaupa[8],
huginn þó að hittist trúr,
hneigist samt til ótuktar; *st. t. f. f.*
vinnufólks er sollr súr,
sèst[9] þar klám með blótum;
*t. e. ó. t. r. h.*

17. Það mun heita frægð og fremd,
að framast vel í þessu,
en stundum heyrist narra nefnd,
nokkrir kalla skessu,
sèu ei snemma stigin stemd,
stúlkur verða brjálaðar, *st. t. f. f.*
skírnarheitin illa efnd
olla sköpum ljótum; *t. e. ó. t. r. h.*

18. Húsbóndinn því hafa þarf
hugsan daga' og nátta,
og halda skikk við hjúa starf,
svo hafi þau nokkurn ótta,
þeim ýngri verðr að því hvarf
sè undir-múgr glauma-spar;
*st. t. f. f.*
heya[10] stundum órar arf

1) Svo hafa útlenzkir álitið, þegar þeir heyrt hafa af kaupmönnum eðr skipurum og þeirra fólki (hvörjir sjaldan minka eðr fegra það sem áfátt er í landi vóru) að margar nafnfrægustu stúlkur hafi þannig farið; sem eingar eðr mjög fáar mundu ærligar eðr hreinar meyar hjá oss finnast. 2) svoað jafnvel þeir ísgrónu jöklar gætu þar yfir tárfeldt. 3) Guð gefr mönnum enn á dögum allt eins fullkomnar náttúrligar tilhneigíngar, og í fyrndinni, og þarmeð allteins mikla krapta og vit að stjórna þeim. 4) veiðist og kyrrsetjist. 5) ɔ: í nærfærni og klókskapar netjum foreldranna. 6) Sú ýðja sem útheimtir ýðn og athuga, temr fyrir mæðrnar óróann, og annan óstöðvandi hest tilhneigínganna (dóttur hennar). 7) ɔ: þvílíka stjórn og taumahald, sem jafnvel þvíngað getr hin þrálátustu dýr. 8) ɔ: fara opt í kaupstað. 9) *sèst* fyrir: heyrist. 10) við heyskap og aðra vinnu; *órar* (sem menn nú kalla), leikr, glens og gaman-glettíngar hafa opt eptir sig leidt saurlífnað og barnsgetnað, því foreldrarnir láta börn sín hlaupa með vinnuhjúum, og heyra, sjá og læra þeirra orðbrágð og athæfi, en fylgja þeim ei sjálfir eða láta þau hjá sèr vera.

áttu' í fiðla mótum[1]; *t. e. ó. t. r. h.*

19. En það seinast óska ráð
öllum betr reynist,
að stöðuglyndis dætrum dáð
drjúgt í hjarta leynist[2],
siðr vex, en sjatnar láð,
svanninn gjörist um sig var,
*st. t. f. f.*
góðra dygða gefr sáð
guð með vexti skjótum;
*t. e. ó. t. r. h.*

20. Eptirlætið allraverst
er í þessu landi,
því sjálfræðið það metr mest,
sem manni' er helzt að grandi,
guðhræðslan þann græðir brest,
glæpa fjötr dygða-snar, *st. t. f. f.*
stöðugleikans stytta' er bezt[3]
og stóð á gatnamótum[4];
*t. e. ó. t. r. h.*

21. Eg veit vel að jómfrúdóm
jöfrar gefið hafa,
víst mins herra[5] virði' eg dóm,
verð þó samt að skrafa:
innra[6] kreinkist æran fróm,
einginn rekr þetta svar; *st. t. f. f.*
alþýðunnar úmtals róm
allir þola hljótum, *t. e. ó. t. r. h.*

22. Hèr eg tærar[7] hafa vann
hrundir undanskildar,
hinum frúnum frjálsleikann
frægi'[8] eg ei til vildar,
enn-nú minnr afglapann[9],
sem ærir kærur hèr og þar;
*st. t. f. f.*
P i k n a - s p i l l i r kallast kann
kvæðið auðs af njótum;
*t. e. ó. t. r. h.*

# H e l b l i n d a.

*Svo er kallað þetta kvæði, sem er gjört tilfinníngarlausum mönnum til viðvörunar, hvörjir eð þykjast nógu góðir vera, og aldrei kannast eðr vikna við guðs bendíngar, nè þekkja það synda straff, sem þeir sjálfir hafa bakað sèr, þó það sè svo auðkenniliga yfir þá komið; hvar uppá það er helzt tekið til dæmis, hvörsu hræðiliga fólkið er að fækka á Íslandi af aumkunarligri ótímgun, og undarligu sinnuleysi innbyggjaranna, hvarfyrir landið muni innan skamms eyðast, nema guð náðarsamliga sjái eitthvað gott ráð fyrir því, en mennirnir betri sig, og einkum forðist þá yfirgángandi svívirðiligu lostagirnd hórdóms og saurlifnaðar, en óguðræknir, ræktarlausir og latir foreldrar leggi*

1) *mót*, er hèr form sem steypt og mótað er í. 2) ɔ: látist inni það leyniliga, laumist, eðr smámsaman með hægðum innplantist. 3) hún leggr hapt á glæpina, og glæpafullar tilhneigíngar. 4) hún styðr mann hvar sem maðr er, og helzt nær hann er á tvísýnum vegi. Líking þessi er af því dregin, að víða í útlöndum, hvar götur skiptast, eru stölpar uppreistir, og á þá skrifað, hvert hverr vegur liggr. 5) konúngsins. 6) því konúngarnir geta ei gefið nema útvortis æru, hvör að er boðið almennings hald, að einn sè gildr maðr bæði til rèttargángs og annara útvortis viðskipta í mannlegu fèlagi. 7) tárhreinar meyar. 8) þ. e. viðfrægi, eg hrósa ekki þeirra ófrjálsligum tiltektum (lauslæti). 9) afglapa kallaði Þórðr *Hræða Orm* (frænda *Miðfjarðar-Skeggja*), sem vildi hafa glapið eða kreinkt systur hans, því að honum vegnum bað hann smalamann sinn svo segja *Skeggja*, að hann flytti burtu afglapa sinn úr landeign hans.

*af þann bölvaða vana, að þeir hirða hvorki um fjöldgun barna sinna, nè þeirra kristiligt og ærligt uppeldi, heldr eru að óska sèr að þau deyi jafnóðum og þau fæðast, og verðr þeim svo eptir óguðligri ósk sinni, með fleiri orsökum, sem drepið er á í þessu kvæði.*

---

Forlögunum fresta má,
en fyrirkomast aldri,
svona formenn sögðu frá,
sinna þessum galdri
ótal kristnir enn;
gángi striðið eitthvört að,
örvænta þeir senn,
og hyggja bænar hvörgi stað
fyrir hjálparlausa menn.

2. Annan miklu fleiri flokk
fylla' á þessum tíma,
þartil vitis detta' í dokk
dáðalausir hýma
við líkams losta sinn,
láta svo sem verkast vill
verða lifnaðinn;
því geti hvorki góð nè ill
gjöldin burtdáinn[1].

3. Blindni slík af vantrú vex
verri' enn hirði' eg tína,
manndómsleysi og minkun þreks;
í máli stuttu sýna
mun eg' merkið eitt;
dags hefir blinda döpur oss
í dauða-villu leidt,
hröpum vèr í he'jar foss
hálf-sofandi greitt.

4. Guð oss bendti mörgum með
merkjum oss til bata;
en vèr höfum þau ekki sèð,
og þá gjörum hata,
sem vorri raska ró[2];
sjáandi' að ei sjáum vèr
sannast á oss þó,
eru teiknin orpin hèr
yðrunarleysis snjó.

5. Er ei hvörs í minni manns
mörkuð fimtin ára[3]?
þá sjórinn brást og blessan lands,
bygðir húngrið sára
þoldu' og megru mein;
hrundi niðr fólk og fè,
fèkkst ei hjálpin nein;
landið varla viknaði
við þá plágu grein.

6. Fyrst á þessari þegnar öld
þeinktu komið vera
Íslands-þjóðar æfi-kvöld,
ein nam pestin[4] skera
fjölda fólks í strá;
dáða til hvað vænast var
valdist burtu þá,
af bændum vóru bygðirnar
berar víða' að sjá.

7. Aðr kváðu fólkið fátt
fróðir menn í landi;
þó var núna minna' um mátt
og miklu verra standið,
þeir óttuðust áleyðing
átján þúsund feingu fall
fyrir bólna sting,
og mörgum annar bani ball,
er bæi fór umkring.

8. Nú þótt leifðr lýðr sá
litill vera þækti,
bráðum kviðinn datt í dá,
dreingr einginn sætti
fjöldgun fólksins meir,
því siðr byrgðist brotið skarð
að bragna fjöldi deyr,
og hálfu færri fæddr varð
fullvaxinn enn þeir.

9. Frá því hálfr tekinn til
tugr sjötti' af árum,
hulið jók á hrygðar spil,
horfin dauða bárum

---

1) vantrúaðir og guðlausir þessarar aldar menn ætla að þeir muni deya einsog fènaðrinn, og mæta hvorki góðu nè vondu eptir dauðann. 2) vèr hötum alla þá, sem ekki prèdika oss frið, þó þar sè einginn friðr. 3) þau fimm ára harðindi, sem nú seinast yfir landið geingu, og landsfólkið batnaði þó ekki þar við. 4) hin svokallaða stóra bóla.

meiri mergðin dó;
einginn fann það, einginn grèt
eptir vanka ró;
stóru bólu leifa lèt
lakan helming þó[1].
10. Ekkèrt strið og eingin pest
og einginn húngrs dauði,
nema' ótímgunar valdið verst
verkað gat þær nauðir
og Island yfir stè;
geingi svona' í sextíu' ár,
sem guð láti ei ske!
eingin lífs hèr eptir stár
af öllu landsfólki[2].
11. Þó sem áðr fíflska fergð
fyllir sjónar reiti:
jafnt um ofr mikla mergð
manna, kvarta sveitir,
hugsar hvörr fyrir sig:
ofmargt hyskið hefi' eg nú,
hlaðast börn á mig,
tæki guð þau, bættist bú
og bjökin mæðulig[3].
12. Leitar skárst af landi braut
liðið úngra karla,
í slíkum fjölda þreyngsla þraut
þolað geta varla[4],
bændum leiðast bú,
í vinnumensku vistuð hjón
verða' að skilja nú;
leigð til bús að leggja frón
líkar reglan sú[5].
13. Orsök marga' og háskans hæð
hjálpar ekki' að reikna;
viðkomandi fólksins fæð;
fjölda sinni teiknar
það ólukkulag;
menn líta' á það sem lítið er
og lappa þarf hvörn dag,
en aldrei skygnast um, sem ber,
allrar þjóðar hag.
14. Sukkudokka dæmið slíkt
dára sannar óra[6],
of flugur saman rekum ríkt,
en rækjum ekki' hið stóra,
sem liggr einkum á;
óttast viljum ætið þau
eymda morin smá,
en vörunnst ei þann vonda draug,
sem vill til heljar slá.
15. Þá túngl á hvarf er hafið, opt
hundar að því geya;

1) Í þau næstu 55 ár eptir stóru bóluna þá var ætið að fækka fólkið, þóað einginn yrði var við það; svo að eptir þann sama 55 ára tíma, þá var ekki meira orðið eptir, enn helmingr af þeirri fáu tölu, sem lifði þegar stóra-bóla var afstaðin, en það vóru niutíu þúsund sálir, nú vóru ekki orðnar eptir 45 þúsundir á öllu landinu, þar eitt lítið land þar ytra, sem ekki er nema 20ti partr Islands, og þó er fólkfátt kallað, það kann að hafa 20 sinnum fleira fólk. 2) Þetta má allt sjá af manntalinu, sem tekið var seinast hèr á Islandi, og er af þessu auðsèð, að eptir 60 ár heðan frá verðr allt fólk útdautt á Islandi, ef það fækkar allt af, einsog fækk að hefir síðan stóru-bólu. 3) djöfullinn hefir hagliga komið þeirri villu inn hjá ofmörgum, að þeir þykjast guðrækiliga gjöra, þegar þeir eru að óska sèr að guð vildi taka börn sín, og fegra þá bölvaða heimsku (og máske stundum illmensku), með því að þeir segja: að þau sèu komin bezt hjá honum, hvað þeim er þó ei að þakka, og allir rèttkristnir foreldrar, sem treysta guði og elska afkvæmi sitt, sjá af hvörsu vondri rót er sprottið þvílíkt sinnislag. 4) Það frískasta af fólkinu siglir burtu af landinu, einsog það hefði hèr ekki rúm. Bændrnir nenna ekki að búa og fara í vist eðr húsmensku, því skiljast hjónin að og hætta börn að eiga. 5) Ríkismenn leggja undir bú sitt hjáleigur og smájarðir, við þetta og þvílíkt fækkar tala bændanna, og barna fjölganin minkar. 6) *Sukkudokkar* áttu forðum að vera ein þjóð, sem lagði fyrir sig að veiða flugur, en forsómaði þessvegna allt það sem gagn var í.

en nær það kemr leingra' á lopt
þeir láta vera og þegja;
framhleypnum svo fer:
allt í fyrstu frægast var,
fallið bráðum er;
lángsamt fár sem breytt að bar
brátt gleymist, því verr!

16. Hálfblind ein er aumust þjóð
á ókönnuðu ströndum,
lotin fyrir flugna móð,
sem sem flykkjast suðr í löndum
djarfar augun í;
heilsu lands er hætta brýn,
helzt skal sjá við því;
ei skulu vora villa sýn
veik hègóma bi.

17. Látum ei þann fugla fans
og fjandans grátitlinga
svona villa sjónir manns,
særa þær og stinga
og drita í augun inn
höfum fyrir oss hendr tvær,
hvarma verjum skinn;
brúkum vísir ljós er ljær
leiðar skaparinn.

18. Ef nú verðr augað blindt
af því flugna skarni,
*Tobías* fær oss til þess minnt,
hvað tjóni sjónar varni,
brúkum beiskju gall,
hugar depru bæti bezt
biturt sannleiks spjall,
annars fáum allraverst
óhamingju fall.

19. Þörf var eittsinn þennan post
þjóðar blindu snerta,
til þess dofið tjáir brjóst
trúar sjónum skerta
framar nú enn fyrr.
Helblinda því heiti ljóð,
að hel er sezt við dyr;
yðran sjónir opni þjóð,
svo aptri vítis hyr.

---

# Leidarsteinn[1]

## góðra farmanna í hafvillum heims þessa.

*Eitt kvæðl, sem sýnir einkenni og aðgreining góðs og syndugs lífernis, afmálar dygðir og lesti með rètt náttúrligum lit; setr fyrir sjónir, hvörsu hræðiliga margir menn villist í lífina. Telr guðs ríkistjórn meðal manna, og sannar hvörnin hvörr manna fyrst og síðast geti undir henni lifað forsjálliga, ærliga og guðliga.*

---

I. *Vegfarandinn talar, og ráðgast um við sjálfan sig, hvörr lífsvegr beztr sè. Hann er leingi efablandinn um stefnuna, því hann sèr menn halda og gjöra þvert ámóti því, sem hann ætlar, og fá við það ena fögrustu lukku, framgáng og fullsælu, í heiminam, að almennings áliti.*

Syrtir að eljum enn,
en nóttin fer í hönd,
eldflögur[2] óttast menn
og fleiri myrkra grönd;
hvar mun eg hæli finna
hèr á bersvæðis eyðiströnd?

2. Kerbyggjans[3] bragðalag
brúkendum geingur tregt:
með ljósi' um miðjan dag
í mannþraung manna frekt
leitaði' á Grikkja landi,
lýðnum sýndist það hlæiligt.

---

1) Segulsteinn í kompási. 2) eldingar. 3) *Diogenes*, sem bjó í sá eðr tunnu; hann lastaði ýmsa ósiðu og hègóma Grikkja. Eittsinn gekk hann útá torg, á björtum degi, með ljós í skriðbyttu;

3. Fjölbyggð þó sveitin sè
sett meðr blóm og auð,
hvar fæ eg herbergi,
hvar fyrir allri nauð
óhræddr haldast kunni?
hvar fæ eg lif fyrir utan brauð?

4. Er það í aura gnótt?
er það í vina stóð?
er það við abl og þrótt?
er það við herraboð?
er það við *Amors* gæði?
er það við lukku[1] sigluvoð?

5. Onei, það fjærri fer!
fláræði birlar sá
voðaligt sjálfum, sèr,
sem þetta treystir á;
vitna það allar aldir,
ekkèrt þvílikt viðhjálpa má.

6. Eg tek það ágætast
í mannsins valdi finnst,
manndygðir liða last,
lofast þær allra minst,
nema löstur nokkurr fylgi
nákvæm öfundin við hann bindst.

7. Svo trillskan seggja vex,
*Senecu* brèf eg fann,
brýn er til voða vegs
velgjörðin, segir hann;
þiggendur vegna vilja
veitendur, hveim ei borgast kann.

8. Hvað mun öfundin ótt
óviðkomendum slæm,
ef þeir, menn gjöra gott,
góðverkin hata? dæm!
hvað mun hin gæzkan gylda?
gjörist hún fremr sakanæm.

9. Háski' er að segja satt,
sama var fordum-tið;
eins með forsjálni' er fatt,
finnr hún heipt og strið;
en sumir lestir lofast,
lögteknir eru' um nokkra hríð.

10. Já, það sem ætið er
og verið hefir mest
lofað í heimi hèr,
hatað er, ef það sèst[2]:
það er guðs dýrð að þjóna,
þar nema maðr að stelist.

11. Hitt sè eg, margir menn,
sem minnr bindast við
upptalin atkvæðin
og frjálsan brúka sið,
lof, auð og lukku hljóta,
lèr hún þeim ríki, sælu' og frið.

12. Þurt er og þeflaust eyð[3]
þar dygðin heldr stól[4],
en lyst er eptirþreið
einsog rennandi sól;
strákar hafa stærstu lukku,
stivarðar[5] hennar eru fól.

13. Er þá manndygðin ei
annað enn gantaspil?
er þá sannleikr ei
eða guð nokkurr til?
er þá guðhræðslan ekkèrt?
ills og góðs hvört mun finnast skil?

14. Samt allra landa lög
leggja við straffið gildt,
lífshegning, högg og slög
harðlig, nema' upp sè fyllt
á goðan guð að trúa,
gott athafast og forðast íllt.

15. Kannske heims höfðingjar
haldi svo frið og ró;
um guð ei gáturnar
greini' eg í banni þó;
ef eg villist, viljandi
villist eg, einsog *Cíceró*[5].

---

menn spurðu hann því hann breytti svo undarliga; hann kvaðst vera að leita að mönnum, því hann meinti, að í öllum þeim hóp mundu fáir eðr eingir rèttir menn vera.

1) lukkan diktast af fornskáldum og uppmálast siglandi. 2) *Gracian* segir að maðr eigi heldr að vera enn sýnast þetta þrennt: maðr leiðrèttingasamr, kristinn vitringr, og heimspekingr í kóngahöllum, (eðr rèttr *politicus*). 3) slètt auðn, líka rif. 4) aðsetr. 5) útbýtarar hennar gæða; *stivarðr* er enskt orð (*steward*), ráðsmaðr hjá stórum herrum. 6) svo segir hann, þá hann hefir hvað bezt útlagt að guð sè til: *si erro, lubenter erro;* það var ágætt fyrir svoddan speking.

*II. Hèr kemr hann til sjálfs sín og alvörunnar; hann leiðir rök til þess, að einn guð sè vissuliga til, sú er elski og náðarliga launi dygðirnar, en hati og straffi syndirnar. Hann telr guðs sköpun og stjórn yfir skepnunni, sèrílagi yfir öndum og mönnum, lög og sjálfræði mannsins, rèttargáng og verkun samvizkunnar, að guð hafi þetta gjört, ei af verðúng; heldr einúngis manninum til goða.*

16. Onei, eg villist ei!
ónei, eg veit það mál!
hitt allt lokleysu grey
laðar fávísa' í tál;
til er einn guð og góðr,
getið hefir hann mína sál.

17. Hann gaf mèr hold og líf,
hann skóp mig eptir sèr,
hann er mitt abl og hlíf,
hann einn forbjóði mèr
að mèr hugfesti' eg annað,
enn þann sannleika, sem hann er.

18. Eilífr anda fjöld
einfaldra, fyrir hríð[1],
samsetta hluti' og hold,
heima, sem ár og síð
breytast[2], hann bezta gjörði;
bygging sú stendr vissa tíð.

19. Öndum gaf ærinn krapt
að þeinkja vizku með;
kvikindum skyn hefir skapt,
skraut hefir öllu lèð;
eitt var það æðst hjá mönnum:
andann líkamnum teingja rèð.

20. Oskildast er það tvennt,
og skildast öðru hvort,
þó fær hvort öðru þènt,
þar er af báðum gjört,
og samt hindrar hvort annað,
í þeim veikleika' er ablið bert.

21. Guð reglur gaf þeim hóp[3]
góðar, hvareptir er
skorðað allt sem hann skóp,
skamtast það, vex og þver;
allar náttúru nafni
nefnast þessar guðs skipanir.

22. Öndunum auk þess gaf
allra vísastan rètt[4],
mönnunum eins er af
almáttkum guði sett,
þó í sjálfs valdi vera[5]
og vilja frjálsum þetta lèt.

23. Þau boðorð eru' ei þúng
þraut, án og maura-gjald,
þau fjár ei þynna púng,
þeirra stutt innihald
er í guðs hlýðni' að hafa
heilnæmt sjálfs sins náttúru vald.

24. Einn guð, sèr ærinn, þarf
ei manna hlýðnishót,
þeim er líf hvíð og hvarf
að hefja' eí verkin ljót,
spillandi sælu sinni,
sjálfs elsku' og dygðum þvertámót.

25. Sú þekking berst ei brott,
blindast við eingin vèl,
þann guðs fullvitni vott
velgjörð og mikla tel,
því dómhús[6] sitt hann setti
sjálfr í allra manna þel.

26. Samvizkan gánings-gjörn
gjörð er í sálu manns;
hún sýnir sókn og vörn
og sæti dómarans;
þar brúkast stundar-stefna,
standa lögin fyrir augum hans.

27. Setr hann dyra-dóm[7],
dæmir sig fortakslaust,
Appell fær eingan róm,
ei gyldir maktin hraust;
undan hann ei aldrei sleppr,
af því hann hvörgi finnr traust.

28. Svo kann samvizkan að
sýna hvað dygðin er,

---

1) fyrir tímann eða sköpunina. 2) I allri náttúrunni eru allir hennar partar smámsaman að umbreytast, þó eyðist hún ekki, heldr er sú breyting henni til viðhalds. 3) öllum sköpnðum hlutum í náttúrunni. 4) ɔ: lögmál. 5) að hlýða eðr víkja frá þessum lögum. 6) samvizkuna. 7) hann var settr í bæardyrum, svo heimamenn, er fyrir sökum vóru hafðir, gætu ekki útkomizt (sjá Eyrbyggja-sögu).

syndina' í sama' stað,
sem og hvað girnast ber,
heima gefr himnaríki
hjá sèr og vitis ógnanir.
29. Fyrir synd færir straff,
fyrir laun dygðirnar,
báðar þær eru' henni' af
að *vivum*[1] málaðar;
ó, sjá hve sín ámilli
sjálfar þær eru fráleitar!

*III. Dygðarinnar ætt og uppruni; hennar eiginligleikar og nytsemdir; hald heiðingja; syndarinnar art og eðal þar þvert ámóti, með ólukkum og skaðsemdum, sem henni fylgja.*

30. Dygðin er dóttir guðs
dáfögur eðla mey,
upphyrjan alls fögnuðs,
algjörvis kontrafrey[2],
eilíf og ómælandi,
eyðist breytist og sigrast ei.
31. Sannleiknum samfædd og
sönn brant að heiðrinum,
brúkar kærleika log
að lýsa veginn um,
staðfestu býr á bjargi
burðug og ern, þó sýnist hrum.
32. Hennar yndælis art[3]:
að vera guði lík,
vellyst skynsamlig[4], skart:
að skína' í vondri flík[5],
íllskuna' að undirleggja,
í fátæktinni' að vera rík.
33. Hún verðr ekki hrædd,
hvað stórt sem ábjátar;
af sannleiknum sumir fædd
sögðu væri' heiðingjar[6],
og tímans dóttur-dóttir,
dygðin þá gyðja köllnð var.
34. Rómafólk góðri gaf
gyðju musteri nýtt;
heiðri þar innaraf
annað var byggt og prýdt,
einginn svo að honum kæmist,
utan fyrst dygðinni' hefði hlýdt.
35. O, þann ágæta sið!
um dygð að sækja veg;
nytsemi var þar við
viss og ósegjanlig;
en nú, við heimsins enda,
atferð sú þykir hörð og treg.
36. Dygðin gott ein er allt
og heimsins minna[7] sól,
lífi sem fæða salt[8],
sjálfhyrg fyrir utan hól,
dygðin, í einu orði,
er heimsins[9] grið og vetrarskjól.
37. Syndin þar þvert ámót
þarf ei að útmálast:
hún er íllt, bann og blót,
bölvan, ógæfa, last;
hún getr holds vellystir,
hennar óstjórn í þeim stjórnast.
38. Hún stolizt hefir inn
hjá manni' í fyrstu tíð;
með fjanda flokkinn sinn
færir dygðinni stríð;
þó sýnir guð og gefr
gnógt abl að vinna hverja hríð.

*IV. Atriðið sjálft, hvernig menn villist í lifnaðinum, útveljandi íllt fyrir gott, mót skynseminni og rèttdæmi samvizkunnar; hvað syndirnar leiði eptir sig, og hvaðu kænsku góðir menn brúki tilað sneiða hjá þeim.*

39. Nú fyrst menn flasa svo;
fyrir hvað? spyrst á ný;
samvizkan sýnir þó
sannleikann eins í því;
vit og krapt vantar ekki,
viljinn má líka kjósa frí.

1) eptir eigin mynd; svo kalla málarar, þegar þeir hafa lifandi mann fyrir sèr, að gjöra mynd hans. 2) mynd (*contrefait*). 3) er. 4) hún girnist ekkèrt, nema það sem er skynsamligt. 5) hún er af sinni náttúrligu fegurð auðþekkt, hvörsu fátækliga sem hún er búin. 6) svo sögðu þau rómversku skáld, að *Virtus* væri dóttir *Veritatis*, dóttur *Temporis*. 7) maðrinn kallast sá minni heimr. 8) einsog saltið geymir matinn óskemdan og gjörir hann vel smakkandi. 8) *grið* er lögheimili, hvar maðr er friðhelgr, sjá *Grágás*; hèðan: griðmenn og griðkonur, heimamenn.

40. Hèr kemur hnútrinn:
hvörr maðr ann sèr góðs,
væn lízt þá vellystin,
er vit skilníngs biðja hljóðs;
sálin um stundar-sakir
svæfist við kitlan holds og blóðs.
41. Trublast hún undireins,
aðstreingð[1] í svefnrofum
býðr búnum til meins
brjálsemi limunum;
ef í því vakna vildi,
vitkast hún gæti' og sèð sig um.
42. Hún yðrast eptir strax,
af því samvizkan knýr;
nema lystin leiti[2] bragðs
lösturinn dæmist rír;
þá fegrast íllt með illu
aptrlokast samvizku dyr.
43. Olukkan opnast þar,
ein býður þúsund heim;
um sig er vitr var
verst hann í solli þeim,
brest ei með bresti dylr,
bætir með dygðum lasta-keim.
44. Farsælt er fángaráð
flasi líkams í gegn
að biða enn ekki' í bráð
bilast við losta megn;
tómið sannindin segir,
sálin umráðgast við þá fregn.
45. Gefið nú góðir menn!
gaum yðar sálar dygð;
gefið ei góðir menn!
gaum yðar líkams frigð;
gætið samvizku verka,
veiti hvort öðru sátt og trygð.
46. Hún þá vansemdum ver,
vel frjófgar mannsins hold,
annars það svipað er
ávaxtarlausri mold,
nema sè nokkru verri
naðr-eitrandi jurta folð[3].
47. I kerið látin lykt
leingst hygg eg fyrsta sè,
fèkk sannað forðum slíkt
fóstra *Calígúlæ*[4],
blóðgum hann brjóstum nærði,
blóðþyrstr varð sá týranni.
48. Gjöra myrk girnda hvöt
geran hvörn synda þjón,
að kvikt sitt etr kjöt
kviðlaus *Erischthón*[5];
spör á sèr dygðin drýgir
dagana skamt í lífsins sjón.

*V. Sú höfuðdygð stöðugleikrinn, sem er aðall og grundvöllur annara dygða, er hin örugg-asta hlíf mót syndum og íllsk-um eigin og annara manna, það má sjá af sögum heið-íngjanna og sèrílagi af dæmi* **Sóusar** *kóngs, þó allra helzt á rèttrúudum mönnum.*

49. Lángbezt það magnar menn
mót heimsins íllsku vind
að hvörr sè aðgætinn
og sálin stöðuglynd
gefi' ei meir við því minna,
mun það dygðar uppsprettu-lind.
50. Aðr var sama sagt,
sanna það dæmin skír;
að siðustu sè tillagt
*Sóusar* æfintír
spakr var Spörtu kóngr,
spurt höfum vèr hans verkin dýr.
51. Kví gjörðu kríngum hann
*Clitóris* bæarmenn,
á þeim samt áðr vann
ágætan sigrinn,
lönd hafði lagt sig undir,
lukkan sýndi' honum kjörin tvenn.
52. Og fyrst í kreppu kvam,

1) fast og nær bundin að líkamanum. 2) þ. e. að menn sæki sèr til eptirlætis að fegra hann fyrir sjálfum sèr, og halda svo áfram. 3) land fagrt ásýndar af banvænum blómstrum. 4) *Cajus Calígúla* var rómverskr keisari, fóstra hans ataði brjóst sín í blóði, hvört sinn sem hún gaf honum að sjúga, svo hann vígdjarfr yrði. 5) gýrugan sjálfs sín, því með vondum lystum eyða menn mest sjálfs sín líkama og spilla sinni náttúru. *Erischthón* brendi lund *Cereris* (korngyðjunnar), því sendi hún *Famen* (sultinn) til hans (sjá *Ovid. Metam.*), sem eyddi hans áleigu, svo hann át umsíðir sjálfan sig.

króaðr þreyngsla gjá,
en þorstinn þvínga nam,
þar var ei vatn að fá,
bæarmenn brunninn geymdu,
barizt gat *Sóus* ei við þá.
53. Af því hans einka lið
örþyrst vigmæðast rèð;
en þeir við umsátrið
óbilugt feingu geð,
bað hann þá brunninn leyfa,
banðst til að hætta svobúið.
54. Þeir, er meðtóku það,
þóktust sjá betri stóð,
utan hann strax í stað
við staðarins sværi goð:
að láta lönd og aura;
leizt honum miðr þetta boð.
55. Samt ef við orustu hlè
allir vatn *Clitóris*[1]
drekkum, sáttmálinn sè,
segir hann, gjörðr viss;
nú var það sagt og samið,
sækir herinn til útrýmis.
56. Kallar þá kóngrinn
að kæmi liðið sitt;
heyri þèr þyrstu menn!
þeim gef eg ríki mitt,
er nú vil ekki drekka,
af eidnum gjörandi fólkið kvitt.
57. Eingin lèzt heyra hvað
hann sagði, drukku þeir;
óvinirnir þar að
upphlóu lángtum meir;
þá *Sóus* þröm[2] á geingr
þegjandi styðst við dreirgan geir.
58. Einn sveittr ekkèrt drakk,
undrast þá liðið frekt,
óvina hljóðnar hlakk';
hvað frægt og konúngligt
var ei þá alla' að vinna
við slíkt bindindi, þol og spekt?
59. Mörg dæmin önnur eins
í skeðu fornum sið;
en það er ei til neins
öll þau að tefjast við,
því samt var lyndi seggja,
samvizkan góðum skeinkti frið.
60. Staðfestin heiðnum stóð
styrk með í hvörri þraut;
eins var hún allri þjóð,
allra mannkosta braut;
en nú með æðra rètti
er hún Krists þjónum lögð í skaut.

*VI. Guðs gæzkuríkasta miskunsemi í því að auglýsa mönnum sinn vilja, enn framar enn sèst af náttúruljósinu, hvarvið þeim opnast leið til hins fullkomna heilagleika, það er: algjörvis allra dygða, og þarmeð fylgjandi eilífrar sælu. Hèr er fundin sú höfn og herbergi, sem upphafliga var aðleitað. Kvæðið endar með játníngu mannligs óverðugleika, og trausti til guðs náðar.*

61. Guð ei sèr lika lèt
við ljós náttúru tóm,
mannkyn í myrkra hret
mannspilt og syndagróm
leiddist, og lýst því væri,
lèt því sinn skrifa vilja' og dóm.
62. Þarum ei tala þarf,
það er kynnt öllum lýð,
ef vèr guðs æfðum starf
einsog í fyrri tíð,
vaxin[3] ei vizkan dæmdi
vekjandi meir samvizku stríð.
63. *Seneca'* og *Sócrates*
sjást ei meir kristnum hjá,
þó vort sjálfbyrgings vès
vogi' að fordæma þá,
sèrhvörr fyri sínum dyrum
sópi' og prýði sem bezt hann má.
64. Eg dæmi eingan mann,
en með mig nóg hef eg,
eygi' eg einstiginn þann,
er dygðin guðdómlig
gjört hefir mèr að gánga,
gæti eg klifrast upp þann veg.
65. Hún byggir heilagt fjall
himins við uppgánginn,
hennar má heyrast kall,
er hún laðar ferðamenn
torfærur til sín koma,
tekr í hönd sannleikrinn.

1) ɔ: úr *Clitors* brunni. 2) barmr, brunnstokkr. 3) Það vita menn, að lærdóminum er nú mjög framfarið, en mönnum fer aptr í því að lifa eptir honum, svo hann verðr þeim til meiri ásökunar.

66. Fullörugg er hans fylgð,
þeir fara' ei villt úr því,
lukkan nè lasta vild,
leidt fær sist kröggur í;
örbyrgðin ei þá tefr,
ófundin flýr sem þoku-ský.
67. Gleyma þeir giftum auðs,
gleyma þeir kitlun blóðs,
og komast upp til guðs,
af honum njóta goðs,
meir' enn eg megna' að skíra
mettast þeir gæðum himna sjóðs.
68. Hèr er það herbergi
hvörs eg leitaði fyrr;
hèr vetrar hæli sè,
hèr eru lífsins dyr,
hèr er heiðbjartr dagr,
hèr er samvizkan glöð og kyr.
69. Er nú guðhræðslan ei
alls góðs nytsamlig til?
er nú manndygðin ei
eilift fagnaðar spil?
ójú! það stöðugt stendr,
strax, ef eg má, þess njóta vil.
70. Æ! mèr er margs ávant,
miskun guðs treysti eg þá,
hana' eg hef fyri pant,
hún litr viljann á;
því stend eg burtu búinn,
ber eg allt mitt það er mèr hjá[1].

# Fullsæla mannsins í þessu lífi.

(Eptir *Mart.* 2 *B.*, 47 *Epigr.*)

Þú vildir *Damon!* vita það,
hve með kæti' í hægðum gætir
hèrna jafnt og vel lifað.
2. Hana! þar eru fræðin fróm;
legg við eyra, hèr má heyra
heimspekinnar leyndardóm.
3. Að erfa jörð[2] og jötna skraf,
optar smærra' og aldrei stærra
enn menn þurfa' að bjargast af.
4. Bújörðin ræktuð holl og hæg
gefi' í hlöðu gnóga töðu
og hlunnindin, sem þyki þæg.
5. Heilnæma sveit að haldast við,
hvar menn þeigi þurfi' að beygja
upptekin affarasnið[3].
6. Mátuligt hafa um sig æ
starfs og hjúa; bezt er að búa
við til hægða byggðan bæ.
7. Frelsis að eiga og náða nyt,
minst í erli' og málaferlum;
greyligt er nágranna krit.
8. Með höfðingjunum sjaldan sèrt;
bús að geyma betra' er heima;
því hjúin vita hvörr þú ert.
9. Öndin sè glöð og gleðin stilt:
kroppinn beygi kvillar eigi,
sig hann beri sem þú vilt.
10. Vertu forsjáll, en fals ei tamt,
gleði-tamr, gamansamr,
gikkr ekki vertu samt.
11. Viðtalsgóðr og viðskiptinn
hæg við ríka, helzt þinn líka
eigðu fyrir virkta vin.
12. Í veizlu góðan skerf með skikk
rèttu' að höldi', án rètta fjölda;
mátann halt í mat og drykk.
13. Varastu það sem verðr opt,
drykkjulæti daga' og nætr;
vinið lætr vit í hvopt.
14. Með helgum trygðum teingðu þèr
rekkjunaut, sem reki' á brautu
hvaða þraut að höndum ber.
15. Gef henni hjarta, mund og munn;
hún þèr aptr; eykst þá kraptr,
elska, dygð og kæti kunn.
16. Síðan þú getir sofið vært;
húss af djöfli[1] ofr-eblið

1) Þessi orð sagði heimspekingrinn *Bías*, þá hann flúði úr sínu föðurlandi *Príeni*. 2) ɔ: óðal, jarðagóz. 3) þ. e. ekki neyðist til að bregða siðgæði sínu.

eins í bragði burtu sært.
17. Lyk hjartað sorga fyrir fjöld;
bezt er þèr að vilja ei vera
á morgun annað enn í kvöld.
18. Að lyktum dauðans var ei ver[2];
he'dr eigi óska' að deyir;
hann kemr til þá tíminn er.
19. Hvörr nú með vizku öðlast allt,
sem eg hefi sagt, an efa
sá mun lifa sæll ávalt.

# Vitrínga-Sæla

## eðr fullsæla mannsins í þessu lífi,

### eptir lærdómum hinna nýu heimspekínga[3].

Þú heiðinn maðr! hefir sagt,
hvað til kyrða[4] færi fyrða;
þetta skyldi þartil lagt:
2. Guð hafði manninn myndað rètt
með vizku gnótt, og gnægð íþrótta
í náttúruna niðrsett.
3. Forgefins ekki' gjörði hann það,
heldr vildi, hvörr einn skyldi
af fremsta megni færast að[5].
4. Mennina setti saman í hóp,
hvörr svo annars hjálp um annist,
í þeim hlutum, er hann skóp.
5. Til þess fullkomni sjálfan sig,
og læri' að skilja skaparans vilja;
dyrðkan hans er dæilig.
6. Ætlarðu þá að það sè nóg,
að kefja' og sýna ei krapta sína,
meinlaust forðast mæðu plóg.
7. Nei! til erfiðis ertu sanns
í fyrstu gjörðr; fylg á jörðu
fremst tilætlun skaparans.
8. Náttúru-vit og yðnin á
hjálpa, læra, í lag að færa;
fullgjörðr þú gjörist þá.
9. Við hentugleika alla átt
gagn að sýna' og gáfur þínar;
samt upphrokast ekki mátt.
10. Því slíkt er ekki' af sjálfum þèr:
dýrð án efa guði gefr
hvörr sem lofar hann á sèr.
11. Þú hefir, sem aðrir einhvörn brest;
með erfiðis settum siði
yfirvinnst hann allrabezt.
12. En svo þú villist ekki stíg
elsku sjálfs í, fárið frjálsa;
lærðu fyrst að þekkja þig.
13. Og hvörsu þú við allt annað
bundinn verðr; guð er gjörði
hvað er öðru innplantað.
14. Þá æðstu vizku og gæzku guðs;
af því gaman öllu saman
færðu betra' enn fögnuð auðs.
15. Af þekktum guði þekkist öll
skylda manns og vondir vansar,
dygðar elskan, heillin höll[7].
16. A þennan grundvöll byggja ber

1) ɔ: ótrú, deilum og öðrum illum bæjarbrag. 2) þ. e. kvíð honum ekki, eðr: haf svo lifað, að þú þurfir hvorki að varast hann nè að verða var við hann, áðr hann kemr. 3) Þetta kvæði er eiginliga viðbætir, andsvar og uppbót hins fyrra. 4) þ. e. til ómakslauss og náðugs lifernis. 5) *farast að*, er gamalt orðatiltæki, og merkir: að neyta allrar orku til nokkurs, framkvæma með fyrirhöfn og aflsmunum. 6) ɔ: sèr þú og þekkir af áðrsögðu um náttúruna. 7) ɔ: fölsk og svikul lukka.

líf og vinnu; ljóst þú finnr
allt það, sem guð ætlar þèr.

17. Gakktu þinn veg í þinni stètt;
manna þrótt ei þarft að óttast,
ef þú gjörir gott og rètt.

18. Samvizkan góð í gleði og sorg
hèr er líkust himnaríki;
hún er óvinnandi borg.

19. Hún gefr sanna sæld og værð,
hvar hjá mönnum ert í önnum;
hún verðr aldrei' af vopnum særð.

20. Hvört dauðinn komi' og sýni sig,
hvört þú yfir aðra lifir,
ekki kemr það við þig.

21. En lát æ vizku vaxa sið;
hærst er sæla hèr, (eg mæli)
að þú standir aldrei við.

# Lukku-dans.

*1. Um almanna lukku, sem af heiðnum kallaðist Fortúna, átti hún að vera blind og standa á hnetti, sem veltist ýmist á landi eðr vatni; hún málast með segli í höndum, er hún heldr yfir höfði sèr, hoppar svo og hrindir hnettinum eptir því, sem seglið ber hana, og á undir tilviljun, hvort hún hittir á hnöttinn, eðr missir hans.*

Min lukka tekr töplur smá,
tilbúin er í sæng að gá
og detta' í dá,
skal hún ætla' að þrjóta þá
og detta' í dá?

2. Lukkan hoppar á hnetti fljót,
hún brúkar ei nema' annann fót,
á mannamót
steðjar yfir grund og grjót;
lukkan er ljót.

3. Opt fer hún yfir bratta brún,
ber[1] hægri rá[2] en önnur hún[3]
hönd, hæða sjún[4],
sparkar, siglir, spaugar hún
um torg og tún.

4. Í sjóar ólgu siglir vel,
sveimar í skúmi[5] lukku-hvel,
slær augun el,
fleiri kunna' að verða vèl;
þekk hennar þel.

5. Og fyrst hún stígr ætið hallt,
undan sèr rekr hjólið valt,
þú þeinkja skalt:
hitti hún ekki á það, allt
mun gánga galt.

6. Því lukkan hefir flas í för,
fleigist hún einsog túndr-ör
veðr óvör
fyrir stormi, spekta spör
kann villa kjör.

7. Seglið er fullt með þytinn þann,
þá hjólið skreppr útundan,
fær biltu bann
hausinn, og í ránar rann
kollsteypast kann.

8. Hvað lukkan gyðja veglig var,
vottuðu forðum heiðingjar;
samt blindu bar,
sá ei götu sína par,
eðr áttirnar.

9. Trúðú mèr sjónlaus er hún enn,

1) *ber* ístaðinnf. heldr. 2) höndinn um neðri rá seglsins, (hvört lukkan brúkar til að sigla með á hnettinum, sem skáldin diktuðu). 3) *en önnur hún* ɔ: vinstri höndin heldr um hún mastrsins, eðr rá seglsins. 4) sjón eðr fyrirburðr á loptinu, leiptr, lopteldr. 5) því heiðnir máluðu stundum lukkuna á sjó siglandi á hjóli sinu.

ei þarf að brúka kumpásinn;
með þorin þrenn
hennar spenna mitti menn[1]
og óveðrin.

10. Ef hennar böllur[2] hossar þèr,
hugsaðu til hvað völt hún er,
viðskila ver;
bið, því miklu betr fer
að synda sèr.

*II. Um þá sönnu og stöðugu lukku.*

11. Vittu það lukkan til er tvenn,
tælast af einni vondir menn
í gönur; en
önnur vitrum viðfeldin
vill gott í senn.

12. Hún af guðs ættar hærsta stig,
hún vitran lætr fánga sig;
þekki' hún þig,
einginn vinnr á þèr slig,
illt fer á svig.

13. Og þó útvortis mæði mein,
mun hún styrkja þín veiku bein;
ei megnar ein
hönd á þig að henda stein,
því hugð er hrein.

14. Hún geingr mæltum fetum fram,
fer ekki stökk um grund nè damm,
hól eðr hvamm;
hræðist ekki ganta glamm,
ber hraustan hramm.

15. Nú ef samjafna nokkru má,
næst er hún sigrverki þá,
leið litr á;
meðal-frið í sjón að sjá
sè leingra frá.

*III. Um það hvörnig þeir sem brúka ránglega almanna lukku fá skýið fyrir Júnó eðr grípa grjót fyrir gull, og hrokast svo upp þaraf, sjálfum sèr til niðrdreps eptir dæmi Ixíóns.*

16. Margt geingr illa þó af því,
það heimskir villast kjörum í;
falskt lán sem frí
morgunroða skartar ský,
nóg vex sem ný[3].

17. Vertu' ekki lukku þeirra þjón,
það kann að verða gæfu tjón;
sè þèr fyrir sjón
oflátinn hann *Ixíón;*
hve fór það flón?

18. Hafinn úr eymdum hèr á storð
hann var settr við guða borð;
mikil metorð
stóðst hann ei, við stikil-sporð[4]
leit skykkju-skorð.

19. *Júnó* þar ein af öllum bar
ættar sakir og fegurðar,
líf losti skar;
*Júpiter* þess verðr var,
villir sjónirnar.

20. Og ár skýflóka skjótt með hind
skrautliga gjörir konu mynd,
sjón blekktist blind;
hinn framkvæmdi sína synd
við yrju vind.

21. *Ixíón* nægðist ei með það,
er hann hèlt vera fullkomnað,
sig stærði', í stað
*Júnó* honum hefuda bað
og kýngi kvað.

22. Svoað til Heljar hrapa rèð,
hart er bundinn við kvernhjólið;
hans græzku geð
sefast þar og þokast með;
vel var það skeð.

23. Eins fór mörgum þá lukk-an laus
lènti' honum meira' enn ás og daus,
hnáreistr haus
púðrs ógnar orðum gaus[5],
með ramb og raus.

24. Ef nokkurr vilja segir sinn,
sem hinum er ei geðfallinn,

---

1) þ. e. Lukkunar synir eiga að standa bakvið hana á hnettinum og halda henni um mittið. 2) ɔ: hnöttur. 3) *ný* þ. e. nýkveikt túngl; *nið*: túngl-þverran. 4) þ. e. við drykkjuna, haldandi neðanum stikilinn á horninu. 5) þ. e. vill gjöra mál sitt svó ógnarligt sem fallstykkja þrumur.

blóð belgir kinn;
ógnar hann, því heimrinn
er eitt kálfskinn.

25. En þegar varir allraminst
einhvörstaðar hann látinn finnst
í saurnum inst,
elligar af veslum vinnst,
verðr það hinst.

26. Nú sèrðu hèr í stuttum stíl
stoða mun ekki lukku príl,
með vei og výl
eltir hún þá, sem annan skríl;
hún er harðbýl.

*IV. Um það, hvörn veg hin stöðuga lukka gángi, að þekkja hennar tíma og auðkenni, og með hvörju móti menn skuli samteingja henni almanna lukku, sem líka kann góðum mönnum til að vilja.*

27. Forsjálnin annan vandrar veg,
visinðin kallar farsællig,
til lukku treg,
sem á hjóli syndi eg,
á lægsta leg.

28. Lukkan sem er af guði gjörð,
gefr sig spökum hèr á jörð,
hún geymir hjörð[1],
bindst þó ei við fjall nè fjörð,
æxlar einörð.

29. Ef nú vildi svo takast til,
tildraði lukkan þèr í vil;
með skyni skil,
hógværðin við ástar yl
eflir þann bil.

30. Hún plagaði' opt að elta mann,
sem undan henni hlaupa vann;
lær leikinn þann!
ef þú hana eltir, kann
hún halda' undan.

31. Gættu þá lukkan hreykir hærst,
hættusemdin er allra-næst,
ef frelsi fæst,
úr hindar hljóði farðu fjærst;
öld er það kærst.

32. Aðra reglu þú reyna mátt,
reki þig lukkan uppi gátt
(nær dillar dátt)
meðr vina missir, brátt
aptr von átt.

33. Elligar tapir eign og fè,
eða leggist í sjúkdómi,
þeinktu svo sè,
lætr hún þinní leikfylli
tempran í tè.

34. Þess líka gæta gjörla ber,
gáðu hvörr lukku tíminn er
hjá öðrum og þèr,
hvort að hann í hendr fer,
eða seinkar sèr.

35. Guð marga tíma teiknar frí,
taka þó fáir eptir því;
gaum gefðu því,
færið[2] ekki fyrirbí
fljúgi, sem ský.

36. Ef rèttri gæfu gætir náð,
gefa þarf ekki fleiri ráð
í leingd og bráð;
þig bilar ei að drýgja dáð
um lög og láð.

37. Tak sjálfr reynslu vissan vott,
vill lukkan dárum háð og spott,
flugs ber þá brott,
góðir hennar hitta pott[3];
guð er alt gott!

---

1) ɔ: hún er sínum börnum og fóstrbörnum einn góðr hyrðir. 2) tækifærið. 3) ɔ: hennar fjársjóðu; það er viðtekin málsháttr utanlands, að sá hafi gripið í lukkupottinn, sem eitthvört sèrligt lán hefir aðsteðjað. Lukkupottr er nú á þessum dögum kerhald snúið með sveif, það brúkast í lotterium eðr hlutfallsleikum og láta menn þarí nokkur þúsund smáseðla, flesta óskrifaða, en á sumum stendr misjafnt tal peninga, einn, hundrað, þúsund, og þar á millum, eru færstir seðlar með stærstum vinningum; hèr er nú tekin úr, fyrir þann eða þann, einn seðill, og jafnan ruglað í kerhaldinu þess á milli, sèst þá hvörr heppnastr er.

# Landsins lukka.

Auðnu lands um auðn og bý
allir, heyri' eg, prisa;
ótti kemr útaf því
og öðru fleiru hjartað í;
þaðan fæðist þessi sorgar visa.

2. Dæmalaus er döglings náð
drýgð í þjóða næmi:
þrisvar hundruð þúsund skráð
þeingill aura fèkk oss tjáð;
slíkrar mildi mun ei finnast dæmi.

3. Þeir sem Isa mæltu mót
mönnum[1] þagðir[2] eru:
oss er heitin eymda bót,
endrgetning holl og fljót,
það reiknast víst í raun og allri veru.

4. Skrifað er um *Scipión*
skata Róms á landi:
vann hans lýðr veraldar frón,
við það sagði göfugt flón:
að þeir væru' í allrabezta standi.

5. En það kvað hann fara fjær,
fèndr standa búna:
af uggleysi sem oss er nær
og öðrum löstum sigrumst vær;
aldrei fyrr þeim eins var hætt og núna.

6. Fram það kom sem frændin tjá
frábært efni sorgar;
dreingium ekki dugði þá
dygðir, auðr, maktin há;
litt vèr erum líkar Rómaborgar.

7. Öðlings gæzkan ætlum vèr
ein það skuli vinna,
hvörnig sem að haga sèr
með hyrðuleysi þeir hann tèr[3]
sjóli kann um síðir slíkt að finna.

8. Guð er einn sem öllum ræðr
alheims túngla hringum:
vilji þið ekki biðja' um bræðr!
blessun hans að kasta' á glæður?
hún væri fín í vorum innrèttingum.

9. Almúginn þar um talar
eptir bónda viti:
ekki verðr úr því par
ofr fjár sem kemr þar,
mèr samt notkast minn fátæktar biti.

10. Blessan drottins auðgar ein
utan hrygð og mæðu:
húsins hvörn hún styðr stein,
stoðar hjálpin önnur nein;
þèr munuð kalla þetta presta hræðu.

11. Ef á fundum einhvörr margt
um guðs vilja talar:
segir lýð og landi þarft
lærdóm fyrst og dygða skart;
þèr geispið opt, og girnist annað hjala.

12. Efablandnir erum því
utan guð sè meðr;
hinir sumir hlæja' að því,
hugsa það sè narrarí;
viti þèr ei, hann veit það allt sem skeðr?

13. Hætta mesta' er hann að smá.
Hvört með fólsku' og leti
í skýum byggið húsin há,
er hèr á jörðu' ei staðið fá
og færið rifnu fórnir yðar neti?

14. Herklæðist (það herrann tjer),
til hernaðar útbúist,
haldið ráð og hrópið þèr
handabönd, en svo við ber,
það verðr neitt, þèr víst á flótta snúist.

15. Lánað ekki lukku glis
leingr augun villi;
ríkis guðs og rèttlætis
ræknir fyrst ver leitum þess,
svo mun oss veitast sèrhvör gæða fylli.

16. Harðindin, sem híngaðtil

1) *Isa-mönnum*, þ. e. Islendingum. 2) þ. e. þagnaðir. 3) þeim hann veitir sínar gjafir.

hrært ei gátu sinni,
umbreytast í annað spil,
að þeir læri betri skil,
sem ætla' að laga land með
heimsku sinni.

17. Yfa kaun er ekki tóm[1],
öldin móti stríðir;
herran sára grefr gróm,
gefr beiskan læknisdóm,
stillir blóð og bætir mein um síðir.

18. Hann oss blessi bezta mann,
beztan kóng í heimi,
sem oss alltíð elska vann,
ætíð blessi drottin hann,
honum eì nè hans afkvæmi
gleymi!

19. Landi voru lèni grið
og landsins innrèttingum,
blessun sinni bæti við,
brestum öllum kippi' í lið,
svo vegsamist hans verk á land-
sins þingum.

20. Nær á landsins lukku stig
ljónar allir gnesta[2],
helzt það eina hreystir mig,
herrans ráð eru undarlig;
hann gjörir af öllu gott og æ hið
bezta.

---

# Fridriks-vardi
## á
# Islandi.

*Kvæði þetta synir að nokkru leiti ágæti, það er: atgjörfi, iþróttir og dygðir* Friðriks *konúngs* Fimta, *en sèrilagi menjar hans hèr á landi.*

**A kóngsins fæðingardag 1757.**

---

*I. Inngángr og orsök kvæðisins.*

Sú mèr sjón í tálum eigi
sýnast draumi vann:
eg sèr, eins á nótt og degi,
einn háborinn mann,
hann fer hvörs um muna rann[3],
þýðr sinna þegna
þánkana gleðja kann.

2. Vakinn vertu fyrri minna
viðju-landa-hlær[4]!
eg finn, orkt hafa skáld um minna,
eg held þetta nær,
þó minn þróttr komist fjær,
um svo hátiginn herra,
sem hvörri þjóð er kær.

3. En fyrst Islands færstir ljóð-
um
ítran mæra gram,
skáldlist skíra norðr-þjóðum
skaparinn veita nam,
þó sízt þær oss tóku fram;
vel megum vèr til hætta
vanti' ei giftar ham[5].

4. Þvíað þvílíkt er það eina
þakkarmerki, sem
í stað Ymis frörnra beina[6]
eg með fleirum sem;
annað ekki get nè frem;
döglings dæmalausa
dygð eg skíra kem.

*II. Hèr nefnist fyrst konúngrinn*

---

1) tímans hentugleiki; það er ei fremr vert í þessum kringumstæðum. 2) ɔ: framfara með hávaða, og hafa mikið um sig. 3) ɔ: hjarta. 4) ɔ: hugr og gáfa minna fyrri landsmanna, fornra Islendinga. 5) *gift:* gáfa, *hèr:* andargift. 6) í stað eðr landi jökullagðra bjarga: hèr í því kalda Islandi.

*og hans forfeðra ágæti, og í hvörju sú ætt beri af öðrum kónga ættum í veröldu.*

5. *Friðrik*, fimti kóngr Dana,
frægstr er það hnoss;
bezt skikk, bezta dygð og vana
beztr veitir oss,
mat, drykk, mildi nægta foss
býðr, í einu orði:
ástar föður-koss.

6. Guðs af gæzku norðrlöndum
gekk upp stjarnan sú;
vort haf, viðum meðr ströndum,
vermir, lýsir trú;
hann gaf hálf-fertugan nú
nær, en nýtr hefir
níu' ár ríkt og þrjú.

7. Ættstór Aldinborgar konr
er, þrjú hundruð rèð
ósljór eptir föður sonur
árin hrósi með;
þessi sór, sitt við konúngs gèð,
að feta' í fótspor þeirra;
vèr fáum merkin sèð.

8. Víst þá valið hefir alla
vors guðs náðar-hönd;
oss má konúngsæla kalla,
köld sem byggjum lönd;
kóngs sjá kunnum eingin stönd,
er vóru svo vel og leingi
við söm knèrunns bönd[1].

9. Því er ei kyn, það af slíkum stofni
þróist blómstra krans,
aldin drifin ástar ofni
er ber konúngs manns;
það skin, skín af fegurð hans
sèr hvörr einn og sannar
sálar og líkamans.

*III. Konúngsins útvortis ásýnd, vöxtur, íþróttir og lærdómr.*

10. Miðhóf mætt í náttúrunni
mestan fæðir krapt,
eins frjóf alt hefir, þeim hún unni,
*Alexander*[2] haft;
sízt sljóf sama gjörir jafnt:
hèr hefir meðal-mikinn[3],
mestan tiggja skapt.

11. Lèt hún limaðan bezt og þrekinn
lofðúng eygðan mjög;
hár-brún hrokkin dökkva tekin,
hind á sagnar veg,
nef-tún næva vottar eg;
rósir í ræsirs kinnum,
raustin hermannlig.

12. Skot, ring[4], riddaralistir allar,
reið og hers aðferð;
skilming[5] skati kann, og hallar
skársta stjórnargerð;
eg sýng um hans frægðarverð
ekki meir enn ekki;
eins þó minnast verð.

13. Lítt þreyr láta fögr æði[6],
leik og gleðiskil;
en þeir þvílík stunda gæði,
þeingli meina' í vil;
hann meir heldr jöfra spil
að fara með hauka' og hunda
hofmanns veiða til.

14. Sjást snart sem hjá ljósi skuggi
sagðar listir; en
fremst art frjáls af villu' og uggi
fæst lærdómrinn;
það skart skreytir konúnginn,
sem í gullið greypi
gimstein hagir menn.

15. Æðst blóm allra vizku lista
er guðs þekking frið;
lærdóm lofðúng þennan fyrsta
lærði' á vaxtar tið,
hlaut róm harra talan blið,
játning fram þá flutti
fyrir vildis lýð.

16. Gott traust gefr öllum þegnum
gæðings prófuð raun,
er brauzt ýmis náms ígegnum
og ráðgátna hraun;
skamtlaust skeinktu' honum *Musæ* laun
þarf hann ekki' að þiggja
þegna vil á laun.

---

1) ɔ: sama kynstaf eðr linu. 2) ɔ: *Alexander* hinn mikli. 3) ɔ: að vexti lítill meðalmaðr. 4) ɔ: hríngreið turniment. 5) ɔ: æfing alkonar vopnfimi. 6) ɔ: spil töfl, og sjónarspil (kómediur).

17. Meistarar mentum allra kynja
mærings nærðu sál;
hann þar hærstu veit og skynjar
heimsins túngumál,
eygðrar eins náttúru mál,
halla speki spjallar,
spýr[1] forblómuð tal.

*IV. Um kóngsins manndygð; ávöxtur og menjar hennar og alls hans atgjörfis í báðum hans ríkjum. Hans frægð, innbyrðis kærleikr hans og undirsátanna, dæmi þaruppá tilfallið 1750.*

18. Hjörþings heimskr skoði' og vitr
hlinr þetta tal;
döglings deilir kosti litr,
dæma reynslan skal;
mildings meina' eg dygða val,
er hans yfirlitum
alt sambjóða skal.

19. Rík, sterk, ríkin tvö það sýna,
reiknum einkum þrennt:
handverk, höndlan kaupmanns fína,
hvörja lærdóms ment
jók merk umsjón harra; kendt
er það í öllum skrifum
orkt og sett á prent.

20. Vöktun[2] vísa sú með hrósi
veröld flýgr of;
hvað mun mín í slíku ljósi
mærð hans auka lof?
þann grun þeigi' eg vek um of,
samt má sefi heðan
sjá mannbaldrs hof.

21. Hvörs múr, hlaðinn eingum steinum,
hefi' eg beztan spurt,
hers úr hests eða verði neinum,
hann tók skýli burt;
breytir trúr *Trajans* eptir kurt;
en hans undirsátar
hann elska' og leiða þurt.

22. Sex ár síðan talin eru,
sorgar kendum gust;
hærst fár höfðu' í raun og veru
að hilmis lífi þust,
grams hár greip saltpétrað dust;
en niflúngi næstir
nokkrir önduðust.

23. O, þitt þrumugerðar tundr
þotið úr gleymsku tjörn!
ei hitt[3]; hèr er drottins undr,
hèr er kóngsins vörn,
hann blítt hrópar: standið börn!
eg em óskaddaðr,
en það gladdi hvörn.

24. Nóg sagt, nægra þarum aðrir
nefna' í suðr-heim;
framlagt, lánaðar ekki fjaðrir,
lófðúng skrýðist þeim;
sú dragt (senn er eg kominn heim)
eins er kunnug orðin
yzt um norðr-geim.

*V. Hèr getr um konúngsins dæmalausa mildi og velgjörðir við Ísland sèrilagi.*

25. Hèr er mát! hræddir valla þora
hróðr byrja neinn,
forlát frægstr dyrfsku vora
fólksins angasteinn!
Þú gát þeingill hefir einn
á oss Íslendingum,
aldrei hjálpar-seinn.

26. Vor börn, víf og gamalmenni
vita þína náð,
vylgjörn verða' að lifna' af henni
vakin nýrri dáð;
guðs vörn víst er þetta' og ráð,
lykjast hans í hendi
hjörtu kónga stráð.

27. Vesæld, vantan fjár og bjargar
veikir Ísa-þjóð;
svo fæld finnst við ógnir margar,
framtakslans og hljóð;
ómæld alvalds rausnin góð
brauðs það nægtum bætir
og byrgir gefnum sjóð.

28. Auk þess ótal fjár hann gefr,
eg tel margan grip;
til leyfis lagt og skeinkt hann hefir

1) o; rekr tilbaka. 2) vernd umsjón og hyggja fyrir ríkjunum. 3) hitti ei á kónginn.

landinn haffær skip;
einginn les, utan ríngl og fíp,
allar gota gjafir
og gæzku verk í svip.

29. Af hans umsjón kom inn hingað
ullar klæða gerð;
sambands seggjum hefir þíngað
sjóli skjól og verð;
haf lands haldið fiska mergð
utilegu lýða
lætr nytjast ferð.

30. Nytsöm nýtr handverk lætr
nema hjá oss stað;
jafn-töm jarðar yrkja rætr
jöfr festi, bað:
sköp röm skulu ei geta það
nè með fyrrum fótum[1]
fèndr aflagað.

*VI. Islands ástand, og að guðs hönd sè þar í verki með.*

31. Alt slíkt Isa freðnu landi
er og sýnist nýtt;
þó ríkt það í mörgum standi
þaraf verði lítt,
viðlíkt vantrú getr nídt;
en þótt eitthvað breyti
annað geingr kvitt.

32. Guð nei! gjörðu' að hindr-vitni
gabb og hrakaspár!
leyf ei ljós til einkis svitni
Lofðúng sið og ár!
hrafn-grey hèr ei *Cæsars* stár;
vors er hagað herra
hyggju' og rifni skár.

33. Þín hönd, það mega allir sanna,
þar er í verki með;
þó grönd þjaki lakra manna,
þarmeð hallærið,
bezt lönd brutust þreyngslin tèð;
á öld, en fáum árum
ei, er svoddan skeð.

*VII. Hvöt til landsmanna; kóngsins fæðíngardagr; skylda Islendínga við konúnginn; kveðja og ósk til hans; lyktan kvæðisins.*

34. Vel um! vaknið upp, á ferli
verið, góðir men!
skundum! skeytum eingum erli,
skoðum konúnginn!
fylgjum frægstum, sízt er enn
autt þar hnoðrinn húkir,
hinkrið! batnar senn.

35. Vitið vonin lögzt við stjóra[2],
verst í hvörjum sjó,
sú við sitr hrið og óra,
um síðir lygnir þó;
ætli þið augu guðs sèu sljó,
eða hans miskun úti,
ef þið hefðuð ró?

36. Lángt frá! fegnir nemum staðar,
fegri byrjum slag,
efst á etjugoðs[3] mánaðar
enda jóla lag[4],
guð þá gaf oss bezt í hag
*Friðrik* kóng enn *Fimta*,
sem fæddist þenna dag.

37. Vorar veslar álna reitur
vinna, börn og hjú
(ekki par!) æða dropin heitr,
ærlig þegna trú;
þessar þigðu gjafir nú
bezti bragna kóngr!
ber þèr gáfan sú.

38. Vort hnoss! vilji guð þín njótum
vel mörg ár hèrtil'!
lát oss liggja á þínum fótum!
vèr lifnum við þann yl,
tám koss tárgan gefa vil,
öðlings heillar óskum
enda þetta spil.

---

1) framfótum (einsog þeir væru ferfættir). 2) Heiðíngjar í fyrndinni hèldu vonina gyðju vera, hefir hún siðan verið máluð og úthöggin fyrir konu, styðjandi sig við atkeri. 3) *Etjugoð* ɔ: orrustu guð þ. e. *Mars;* af hans nafni lèt *Romúlus* þann fyrsta mánuð síns árs heita Martium; en *Núma Pompilius* setti síðan 2 mánuði fyrir framan, og var þá fyrstr Janúaríus. 4) gleði-veizlu hátíðar bragr, því ellefta stundin var nærri endað um nóttina þá kóngrinn fæddist.

39. Guð þèr gefi' í sínum anda
gnægð og styrk og fjör!
Guð þèr gefi börn til handa
góð, sem líkist þèr!
Guð þèr gefi það, bezt hann sèr!
Guð þig allan eigi!
og þig geymi sèr!

40. Fljótar flaug, enn huga varði,
flæðar skeiðin móð;
njótar[1] nöðru *Friðriks Varði*
nefnist hafnar ljóð,
bótar bið eg föður-þjóð[2].
Hræðumst guð, og heiðrum
hildings mildi blóð!

# Einvalds vísur.

*Kveðnar árið 1760, þá liðin vóru 100 ár frá því er hófst einvaldsríki Dana konúnga.*

Stendr upp á leiptra landi[3],
lystr sólar[4] arfi njólu[5],
þeim er heiðmenn[6] fagna frama
frægðum vandir Norðrlanda;
minning fagna þjóðir þannug,
þaðan ár að hundrað váru,
einvald gátu grundar Dana,
gramir, líka Noregs ríkis.

2. Enn veit eg að muni minnast
margr þess í skálda messum,
og kóngi vorum valið sýngja
verka spjall[7] af skarar stalli[8];
endr[9] hykk[10] að orir[11] landar
óðreyrs fylli beri stilli;
herra þeim eg fæ því færri
flæðar dögg af sónar löggum.

3. Hitt er víst að við það máttu
verða teitar Ísa-sveitir,
alvald þegar gáfu gylfa
greidd úr læðing[12] ríkin bæði;
áðr vóru einsög síðan
allir góðir sínum þjóðum,
þótt að yxi þeirra máttr
þegar með þeim einginn rèði.

4. Hlutu trauðir hörðum játa
höptum munda[13] jöfrar stundum,
lög og dóm sem órètt aga
ofr-jarlar[14] þoldu varla;
bændr hölda[15] kúgan kendu,
kúalitlir urðu' að búa;
friði kná[16], nè stýra stríði
storðar-valdir herrar aldri.

5. Önnr tel eg torrek banna
tiggjum dygð í rètta bygðum:
þeingil niðr áttit[17] úngr
erfa mærr, nema kosinn væri;
hafna kóðu[18] konúngs efni
kappar vildis áðr skyldi
sínum vilja, fyrr enn fræna
feingi tign und garlands[19] skygnum.

6. Gagnast máttut[20], þessum þegnar,
þrumugreifar[21] utan leyfi,
tiggjar skatt á landmenn leggit[22],
lendra hjón nè fjölda þjóna;

1) njótar nöðru hafnar: höfn er íklæðning, klæðnaðr, fat, yfirhöfn. 2) ɔ: mína landsmenn.
3) himin. 4) ɔ: lángaði eptir sólar uppkomu. 5) sonur nóttar (ɔ: dagrinn). 6) hirð- og hófmenn. 7) *verki:* skáldskapr. 8) skeggstæði, haka, varir, munnr. 9) aptr í annað sinn; *líka:* hèraðauki. 10) *f.* hygg eg. 11) *f.* vorir. 12) þ. e. leyst úr fjötrum. 13) þ. e. handfestingar kónganna. 14) *ofr-jarlar* kallast hèr helztu ríkisins höfðingjar, sem ofmikið vald höfðu. 15) ɔ: aðal eðr óðalsmenn. 16) kunnu. 17) átti ekki. 18) kváðu, sögðu. 19) *garland:* krans konúnga, sigrvegara o. a. fl. 20) máttu ekki. 21) landsins eðr ríkisins jarlar. 22) leggi ekki.

eingum ráðum ríkis þúnga
ráðaneytis án að breyti;
sekkan[1] lofðúng þjóð ef þykkist,
þegar rómar hörðum dómi.

7. Otal síðan agg og þrætur
æxluð forðnm hygg eg vorðin:
sekir ýmsir rèðu ríkjum
reknir brut og aptr teknir;
gjörðust kónga menn að morði,
máttgir tveir um eitt land þrátta;
eyða sjólum opt varð nauðr
eigið land með hyr og brandi.

8. Fá menn þvílik fyrri tíma
fræða-næmir allmörg dæmi;
seinni aldir ei frá minnr
æfintírum kunna' að skíra:
skati dæmist lönd að láti,
lýðir megi trygð uppsegja,
annar dæmist eins og fremr
endi líf und' böðul-hendi.

9. Komið nirðir, sjáið sama,
sikis glóða', á vorum þjóðum,
eða hvörnig hafa síðan
haldizt við að skipti valdi;
einga betri kunnum kónga,
kvittir sorg, enn Oldinborgar
greifa kynja góða stafi[2],
guði þekka' og öllum rekkum.

10. Bisna skal, þá bráðum versnar,
bata til í snöggu bili:
fram það kom er fèndr grimma
feldu hríð á Danaveldi;
Svíar þraungðum vildut vægja,
varð það ráð að ofrdáðum;
Gautar fángi fjörgýn Jóta,
flæmi sinnjor[3], Noreg vinni.

11. Sagt og gjört; þeir spella spektir,
sparka sand að Þjóðislandi[4],
Hólsets jörð við eggjum eilsa,
ögr Sless[5] við sára skessum;
hjarl Reiðgota serkjum sörla
sagnir væddar[6] hlýðnast ræddu,
Lánga ver[7] og Fjón er feingu,
Falstr meir og eyar fleiri.

12. Öldu gekk á tálu tjáldi
tiað lið með hilmi Svía[8],
sigr fljótan við það vágu,
vángi sævar[9] að því gánga;
Róiskeldu friðr friar
fyrst um stundir Dana grundir;
trygðum Gauta gylfi bregðr,
geingr bort að Hafnar porti.

13. Kölluðu þjóðir kominn að falli
konúngdóm og ríkja blómið,
sendi guð til fælu fjandum
frelsispróf úr sundi mjófu;
harða fyrri kóngi keyrðu[10]
kosti Danir móti vana;
urræði nú áttut skárri,
einvalds stjórn nema bjóða fjórnar[11].

14. Aptr hèldust þeingla þóptar,
þágu bændr frelsis vændir,
lènsmenn þorðut veita vansa,
vandast lög og skipan fögur;
kóngalög fèkk áðr aungr[12]
einsog *Friðrekr* gaf enn *Þriðji*,
*Kristján Fimti* bætti beztum
bókum rètt að nýu settan.

15. Senniliga hvörr eptir annan
áttar-stafir *Friðreks* hafa
batað einvalds fullum fetum
firða ráð af herrans náðum;
Íslendingum virtust veslum
velgjörð margri síðan bjarga;
stórum drápum þeigi þeirra
þróttar verk eg knætti merkja.

16. Geymt var æfi *Friðreks Fimta*
fagnað gefa þegna sefum,
hátið guði' er helga lætr
hár einvaldr ríkis aldar;
fylgja þrúðgum djöfla dólgi[13]
dýsir góðar, heillir bjóða;
heillir, dygðir bera ballum

---

1) sekan eðr sakaðan. 2) *kynja-staflr*, þ. e. afkomendr. 3) *sinnjor* er konúngs kenning (*sjá* Eddu). 4) syðra Jótlandi. 5) Slesvík. 6) þ. e. brynjaðir herflokkar töldu Jótland til að hlýðnast sèr. 7) Lángaland. 8) *Karl Gustav* gekk með lið sitt 1658 á ísi til Fjóns og Sjálands. 9) Sjálandi. 10) kjörðu (ɔ: Danir harða kosti *Friðriki 3ja*, þá hann kom til ríkis). 11) ɔ: lands, ríkis. 12) ɔ: einginn. 13) þ. e. hranstum eðr hugprúðum óvini illra vætta.

buðlúng þeim er einglar geyma.

17. Eingan Danir fremri feingu:
fylkir miðlar gullnum friði,
*Astaráðu*[1] ræsir æstir[2],
rèttr lifnar, niðr af hifnum;
Skrælings fjöld og Inda aldir
inna það með Norðr-finnum,
Fæðis-hús[3] og *Friðreks* staðr[4],
fèlags grand[5] i sameign landa.

18. Eingan Norðmenn frómri feingu,
friðar skönn[6] er ber fyrir mönnum,
varnar strandir vengis björnum[7]
verja kann og ófrið banna;
lærdóm, vísdóm, fróðleik firða
framar hann og búskap annast,
handverk fremr, fjöldgar löndum,
fæðir veika, markað eykr.

19. Eingan slíkan Islendingar
áttu gram að kærleiks frama;
hildingr vorrar örbyrgð aldar
anði vill og gæzku fylla,
grennis þjóðar sjónar sunna[8]
sveipar fjöll í rauða gulli[9],
ótal lærir gæði geta,
guð er blessar hólma þessan.

20. Ræsi slíkum heimr hrósi,
heilla biðji' og öllum niðjum,
ræfrs vættum vánga jöfr[10]
veröld senjor undan spenji[11],
frægan signi sælu magar[12],
seyni[13] hnefa[14] bezta gefi,
heimti til sín *Friðrek Fimta*
fjörvi mettan eptir þetta.

# Það
# uppvakta Island,

***kveðið og prentað í Kaupmannahöfn* 1749, *á ennar Aldinborgisku konúngsættar þriðja Júbil-ári.***

Uppteyg höfut þat it háfa
hvítföldut jökli köldum
móðurjörð úr mar-svæði,
mál er at höfga[15] brjálum;
hvárki sifjúngar[16] sofa,
svarrar Helblinds[17], várir,
at vaki því herföður haukar[18]
hæfir, ok gaumgæfi.

2. Eru þrjátýgi tugar[19]
taldir nýtylftar aldra[20],

1) *Astráða:* svo umbreytist hèr nafn *Astræu*, rèttlætis gyðjunnar. 2) kallar á, biðr til sín koma. 3) af Dönum almennt kallað *Opfostringshus*, sem hann hefir byggja látið í Kristjánshöfn. 4) sá nýbyggði hluti Kaupmannahafnar. 5) þ. e. aftekt samgaungu engja og akra (sem Danir kalla *Fælledskab*). 6) o: skjöldur.. 7) *varnar vengis birnir:* herskip til landvarnar. 8) *grennis þjóðar sjónar sunna:* andlits sjón eðr auga þess er fólkið fæðir, nl. kóngsins, hans náðar tillit. 9) andlitis sunna kóngsins sveipar í rauða gulli (o: forgyllir með slíku sólskyni) fjöll Islendinga (o: gleðr, lifgar og blómligt gjörir landið og þess innbyggendr). 10) þ. e. óskum og væntum þess, að vánga eðr landa ræfrs (o: himins) konúngr (o: guð) 11) spenji eðr lokki konúnginn frá heiminum til sín. 12) o: sonar. 13) o: syni. 14) hnefa, nefa eðr nyðja.

15) o: drúngi, svefn. 16) o: nákomnir eðr teingðir. 17) þ. e. löndin sem Islandi eru að höndlun skyld, og því leiti að hafa hinn sama konúng. 18) hugir manna sèu glaðir og hreifir. 19) þrjú hundruð tiræð. 20) tólf mánaða tíma eðr eitt ár.

er gætendr Öldúnga borgar
uppfrá því mærir þágu
vald yfir Dana veldi;
viðr hèldu því niðir[1],
uns nú *Friðrekr* ræðr
röuð sá *Fimti* ok löndum.

3. Ytar á aldamótum,
at sið göfigum jöfra,
hátið hildingi buðu
hneitu glens[2] og alls er heitir,
sjá ættlegg tiginn tiggja,
til voldugra ok holda
sýknar friðs skila fullsælu,
fjáði þeigi[3] heldr atgáði.

4. Jók lof ok þeirra riki
ástsæld hamingju frama,
Dönum drótt norræna
drenglundaða tengði.
þjóð hvortveggja þaðan
þegnskyldu einni gegnir,
eima vinar el Mímis[4]
eins at geði[5] ákveðr.

5. Sunna þrim hundrat-sinnum
sèr fleygt hafði umhverfis
jörmungrund; eptir at orma
andskoti var þrotinn[6]
þrisvar undir allstórum
ok þekkum *Friðrekki*[7],
þeim hátið aldar þriðju
þengill alheima lèt geymast.

6. Heyrist því glaumr ok gaman,
gleðst myndug elja rindar[8],
Ægir, Rán, niptir niu[9]
nálgast öll með sköllum;
Sjáland, heimkynni sjóla[10],
salir, Noregr, Dvalins,
hauðr Reiðgota' ok Hólsetu,
Hyrrokin laða byri[11].

7. En þú svelli solliu
snæbjóð þvita slóðar,
á sitr ein heimskauti
orðlaus ok sýslu norðr,
sem mögur Vindsvals[12] megin,
minni, óð[13], sjón, hljóði
hefði þik reyndar rænda
risinn snerpu sinni[14].

8. Grömum norskra guma
gnóttir Suttúngs fluttu
lagar áfengs ærit,
ok skjöldúngum dönsku foldar
fornir greppar gjarnir[15]
græðgis freka', afreka;
veg tóku' ok vingan fræga,
vápn og aðsetu naðrs[16].

9. Var kind þorri þeirra
þín, sveitúngar minir!
þá oddvitar[17] itrir
áðr fyrr til kváðu,
æfi þrekvirki' í verka
vagtafu sitt, athafnir,
orðræður, aðrar gjörðir
at rita, svá burir viti.

10. En sè svá þú innir:
ortu' á þrettándu forðum
öld ok áðr skáldin,
eptir þat mund heftist.
Hvítbjarga man-gjöf meinuð,
manngi síðan friðan
fund, nema' í föðurlandi
færði á lopt, týs hropta.

11. Nú er öðlinga eðli
afbrugðit fyrnd, glikt hugðak,
speki, glymvindis Göndlar[18]
gát, listir, forista,
bókvísi, kæn kurteysi
koma dagvöxtum framar;

---

1) eptirkomandi konúngar. 2) *hneitu* eðr *neitu glens*, þ. e. sólarinnar. 3) þ. e. hataði ekki. 4) *Mímis vinr:* Oðin; *eimir:* eldr; *Oðins eldr:* sverð; *sverða èl:* strið, hernaðr, orrusta. 5) *eins at geði:* eptir eins kóngs makt og vilja. 6) eptir að vetrinn var liðinn. 7) þá *Friðrekr* konúngr hafði að ríki setið 3 ár. 8) þ. e. jörðin; löndin og þeirra innbyggjarar í Danakóngs ríkjum. 9) þær 9 dætr Ægis ok Ránar. 10) Kaupmannahöfn. 11) *Hyrrokin:* tröllkona; *byr:* meðvindi; *vindr tröllkvenna:* hugr; *byr þeirra:* glaðr og góðr hugr; *laða hugina:* bjóða þeim og lokka þá til að samfagna sèr. 12) vetrinn. 13) náttúrliga manns skynsemi, æði, eðli. 14) kominn til þess æðsta. 15) *gjarnir:* hraustir og vigdjarfir. 16) *aðseta naðrs:* vist hýbýli, bæli ormsins (ɔ: gull og silfr). 17) hertogar kóngar. 18) aðferð í bardögum og hernaði.

var-a svå firðum forðum
framgengt í búnaði rúna[1].

12. Mannskis er því minna
megn, konúngi niðjúnga
megnan mjöð Gunnlaðar
mærum sem hæfir at færa;
stirð eru ljóms lángbarða
lög[2] at fyrnsku sögum,
virð vettugi njörðum
viðis bríma'[3] á nærri timum.

13. Mistreystattu mætti,
minnr visis góðfýsi,
háleitr sjá hölum
hvervetna náð tèr;
yðkan mentar allskonar,
íþrótt fræða, siðgæði,
þökk, rèttdæmi', hugrekki,
riklyndum hara likar.

14. Æðstr alla stillir
af losta mannkostu
fyrrum fólkvaldra várra
flytr, á, sèr inytjar;
ágæti hvörskyns ýta
umfram hefir numit,
sem ossum sonum grímu[4]
sendi þroski hyggenda.

15. Nåkkvart ok þótt í birtist
úþjálgt Galars súðum,
eðr heimskliga lagat
líti ræsir, ei vitar;
yfirstigr heldr stefja
stirðleik, hærra virðir
raungæði dýrr enn dára
dálig fagrmálin.

16. Ráð er því Þjálfa leikbróður[5]
þat ngganda huggir;
áþekk öðrum lýði
ásýn kæti þína;
munu þèr rök æva minni
milding allsherjar gyldum

þakklæti fram láta
ljóst af úsaurgu brjósti.

17 I upphafi yfir
or Noregi fóru,
úsáttir, farflótta,
fagrsvörðuðum njörði
byggendr þeirs fyrst bjuggu
beðju Ginars þína,
guð sem rèði tilreiða
ráðhagr útlagum.

18. Þar hofgoðar hófust,
háðu bragnar lögsagnir,
heiðinn þá vá viða,
veitti ben, hjaldr þreytti;
þaðan frá mitrs meiðar,
merktir stoð hvítu voða,
manna forráðum rèðu,
Rögnis hviðu ok friði.

19. Ufrýn Sturlúnga æfi
eylands hvatti deilur,
vesköp[6] hörð meðr háska
hvárar unnu knèrunnum;
svá vettergis[7] vörgum
vant lèzt á neyzlu kesti[8];
vigglöð garpar hnigu
glikir auðgir ánauðgum.

20. Avöxt tóku leiks at lokum,
landauðn, skemdir, fjaudr;
hallæri, örbyrgð ollu
aldrtýla valdri;
niflúngr Noregs enn öflgi
nauðsyn leysti trauða;
lögvisi fyrir ljósa
lètti úgiptu stètta.

21. Þaðanaf snifin snjófi[9]
snotrum[10] Noregs gota
þjóndi, þegnskap syndi,
þángat-til kyntánga[11]
þraut lunds gulltanna lota[12]
lofðúngar Jóta þá höfðu

---

1) *rúna búnaði:* bókvísinni. 2) *stirð eru ljóms* (*hljóms*) *lángbarða lög:* túngnanna orðfæri eptir fornmönnum þykir nú stirt og óviðunnanligt. 3) *viðis brýma:* gulls; *á nærri timum:* á þessum dögum. 4) *sem. ossum sonum grímu:* vorum dögum. 5) hugr hjarta. 6) forlög, ósköp. 7) *vettergis:* eingra kinja, máta eðr kraptar. 8) *neyzlukostr varga:* hræ, lík dauðra manna. 9) *snivin snjóvi* (ɔ: *jörð*)*:* Snæland, Island. 10) forsjálum. 11) ættkvísl, ætt. 12) *gulltanni:* Heimdallr; *loti* eðr *lotti*: sverð; *sverð Heimdalls:* höfuð; *lundr:* fagr skógr; *lundr höfuðsins:* fagrt hár höfuðsins *f.* fagrhærðr (ɔ: *Haraldr Hárfagri*, hvörs ætt í Noregi þraut með *Olafi* kóngi *Hákonarsyni* og *Margretu* drottningu, hann dó 1387).

norðmanna stjórn ok stýrðu
storð ísa vest-norðr[1].
22. Var-háttat þannig þinna
Þórs móðir! sköpum jóða;
hefir þrúngit of öld ýngri
álagt fjón[2] mögur Vindljóna[3],
gnúði með gnistandi riðum,
gjörði úáran sára;
en siklinga ráðsvinna
sorglaust gat þeim borgit.
23. Örlæti láði våru
likn meðr jafnan tèðu,
bókvit allsháttar jóku
ok róm helgra dóma;
úsaurgir Öldúnga borgar
af viðfrægum kynstafi
skylar[4] (í skjótu máli)
skildu[5] hvat námu hagkvæmit.
24. Þessvegna vekjum Gissurs
vita[6] jötna bitum[7],
sviptir fè, gripum[8] fögrum,
framseljum þat bezt megum velja:
síms[9] hildinga haldim
hróðri' á lopt, þakkir bjóðum;
guð lèt oss, annars snauðum,
ei muna ljós brott frjósa.
25. Árnum allra heilla
einvöldum *Friðreki* hölda,
sem fyrir fjölgan ára
fjölgat dygð hefir afbrygðis,
lángfeðgar er fengu;
fagnaðr hans drottningu magnist
sjá ensk engla og danskra
ættleggs dygð safnar beggja.
26. Elli fjör bæði færi
forráðs heppit náðigt;
örend í sífeldt yndi
ángrlaust ríki gángi;
eptir þau umráð, giptu
án mállaka taki
arfar frægir, sem eigu,
uns stofn veraldar rofnar.
27. Þjassa máls á þessi
því gautar helgi skrauta,
flug beinir Hræsvelgr hægan,
hèr at auk Mundilfara
læa börn, leika degi[10]
ljær skin, máni grímu;
sefráttu[11] því Sifjar
seðst[12] föður vera[13] gleðstu!

# Mána-mál.

***Fornkveðið samtal þeirra Reykjavíkr-feðga: Ingólfs landnámamanns, Þorsteins Ingólfssonar, Þorkells Mána sonar hans, og Örlygs á Esjubergi.***

Ar var at ári,
dag enn átta, tvö
þúsund hundrat þvarr
týgi fjögrtán
tveim við aukit,
mæltust frændur fyrir.

*Ingólfr* ok *Þorsteinn*
ok *Þorketill*
láu í leyningi,
frá miðnætti
mæla knáttu
ok lita land yfir.

1) Island liggr í norðvestr frá Danmörk. 2) *fjón:* hatr, hèr meinast harka vetrarins. 3) *sonur Vindljóna:* vetr. 4) *skili:* kóngs heiti. 5) *skildu:* ánöfnuðu tillögðu. 6) *Gissurs viti*: hrafn Oðins (ɔ: hugrinn). 7) *jötna bitar:* gull eðr silfr. 8) *sviptir fè:* undirskilst „*og*" gripum. 9) *síms:* sem es (ɔ: sem er). 10) *leika* (*Dvalins*)*:* sólin, sem leikr og skemtir fyrir oss dagliga á himninum. 11) *sefrattu:* sofðu ekki. 12) *seðstu:* lifðu ánægð. 13) *vera* (*sværa*)*:* móðir bónda eðr ektamanns; *Sif:* kona Þórs; *vera Sifjar:* jörð; *föður-jörð:* föðurland mitt, Island.

*Máni* kvað:
Niðr er nýkomin
njórun drauma,
blekkir vindbláinn;
nýtr-a norðrljóss,
nýtr-a mána,
sèkat ek sjöstirni.
Vakit er nú *Mána*
munar allir
þekkir *Þorsteini!*
vaki þú minn afi
á Ingólfsfelli
leiddr laungu fyrr!
Höfum vèr í haugum
helzt und' lengi
Sifjar meni sofit,
óði rændir
ok örendi[1],
limum stirðir,
lífs of vanir.
Kveð ek þik *Örlygr!*
í kviðarburð,
veitk-a[2] þik vígðri
vorpinn moldu;
geigat ek Oðin
eðr Asa bönd,
þótti *Þorkatli*
Þór ölmusa.
Ok enn kvað hann:
Hef ek at Ölvesi
hjarsa sólir[3],
mænir hátt við ský
haugbúandi[4],
brenna log fyrir
lands frumbyggja,
verpr hann á mána
muðar[5] ljósum.
*Ingólfr* kvað:
Standit er upp álfar
ok landvættir,
bliðir landbúar,
bygð at festa!
kveð ek yðr heimil
hólkn ok borgir,
fjöll ok auðnir
Islendinga!
*Þorsteinn* kvað:
Enn vartu faðir!
álfa drottin,
sem á lífi,
ljóðans kindar,
veit ek at þú veit
vea sköp
ok landnjóta
nærverandi.
*Ingólfr* kvað:
Hvat er þat reykjar,
er ek rjúka sèk
við sund vestr á
Vikr hjarli?
*Þorsteinn* kvað:
Þar hefir niflúngr
norðrlanda
fyrir sex árum
fjölgjört tóptir.
*Ingólfr* kvað:
Sefrattu sonur!
segattu draumóra!
veit ek nýbreytni
várra landa;
erut hèr en fornu
flet landnáma
erut hèr at *Ingólfs*
arin stöðvar[6]!
Ok enn kvað hann:
Ar var aldrs
Islendinga,
fyrstr er ek bygðak
á frera landi,
sóktak úr Öræfum
suðr hinnig,
reistak hèr enn fyrsta
rausnar bæ.
Glaðr var *Ingólfr*,
gróf fyri súlum,
bar vebranda
við bjaðar[7] ský;
settak öndvegi
fyrir öndurt land,
gerðak hèr und' goðum
griða sæti.
Glaðr var *Ingólfr*
þá gumar sóttu
nám at byggja
nógra landa;
kváðu mik at ráðum
í Reykjavík;
gaf ek hodd-glötuðum

1) andardrætti. 2) veit ek þig okki. 3) augu. 4) *Ingólfr.* 5) munns eðr andlits (ɔ: augunum). 6) heimili. 7) jarðarinnar.

Hrana svarka[1].
  Glaðr vark í öndvegi
við ölteiti,
vóru lángelda
lið of borin;
sátum yfir helgum
hunángs veigum,
þá var eingis vant
*Arnar* kundi.
  Nú er annat orðit
austr hingat
stendr fnikr[2] í vit
fornum draugi,
hnipna[3] hnöggúngar[4]
í hlaðveisum,
æðrast aumingjar
ísarn-nálum.
*Máni* kvað:
  Annat var áðr
enn á þessum
björtum degi
bók visinda,
knýar[5] breytast
með kurteysi;
hver hefir æfi
sitt aldar far.
*Ingólfr* kvað:
  Annat var áðr
er vèr gengum
hliðveggjaðir
Hlakkar tjaldi,
armgirðlaðir
Gusis smiði,
hvass þornaðir
hvitmýlingum[6].
  Annat var áðr
er vèr gengum
Helblinds eldum
hrælogandi,
búnir þveitum,
byrddir fleinum,
hjálmgöll huldir
ok hildi-gelti.
  Var ek með víkingum
við gnapheima[7],
lètum ver á liði[8]
löndúng[9] gjalla,
var ek á hólmum,
vann ek einvígi,
mætti ek at ímunar
myrka flaugum.
  Nú gengr raup
fyrir rausn manna,
ok hól fyrir
hreystiverk;
hellir út inndrótt
á lín[10] blekki,
skilmast heiðflotnar
hrafna fjöðrum.
  Mínar eru sætur[11]
mángi gefnar,
dúsilmenna
dans kveðandi,
reyka þeir út ok inn
yðnar vanir,
líkjast þeir í máli
marfresslingum,
likjast þeir í látum
láketlingum.
*Máni* kvað:
  Reiðr ertu nú Rögnis
rýgar[12] ábryði[13];
máttattu minn afi
mæla svá!
glepr fyrir sjónir
gömlum elli,
sýnast yðr ýngri menn
ónýtjúngar.
Ok enn kvað hann:
  Horfnar eru gervar
Hárs glymvindis,
en vefriðr
aptr kominn;
þess eru sælir
Snælendingar,
rekinn er ófriðr
í erlendíng.
*Ingólfr* kvað:
  Er-a þat frændi!
friðr í landi,
troðin er trygð ok ást
í tröð niðr;
er-a vettugi
verð kunnasta
drengskapar án,
dygð ok hreysti.

1) jarðir, lönd. 2) ódaun. 3) hniga. 4) litilmenni. 5) karlar, dreingir. 6) örvum. 7) hafið. 8) skipi. 9) sverðið. 10) pappírinn er úr því. 11) aðsetr. 12) landsins. 13) vandlætingu.

þá er á þjóðversku
þekkra landi
seðr hroðvitnir
harri Prussa;
var-a þá minn hugi
vísa fjarri,
saxneska þjóð
er sjóli gat.
*Máni* kvað:
Víst er vellskati
vígtamiðr,
hæla máttu skylfíngi
skolk[1] berandi,
hykkat[2] ek hann betri,
þótt hann hrytì menn,
selr hann náradís
sína drengi.
Ok enn kvað hann:
Veit ek at þú vita mant
hvat Viddi[3] mælti:
"sínu skyldi einginn
afli treysta,
því svá bregðst
á bana dægri
hugr ok hreysti
þá er heill bilar."
Veit ek attú vita mant
hve Valföðr mælti
þanns forðum þú
fremst tignaðir:
"eitt er þat,
sem aldrei deyr:
dómr um dauðan hvörn."
*Þorsteinn* kvað:
Kemr-at hinnug at
harri Berlinnar;
lángt er út um lönd
at leiða sjónir;
reikum makligar
í Reykjavík
ok fen barkar
föðurlandi.
*Ingólfr* kvað:
Gott er at mæla,
gott er at hlýða,
segja muntu sonur
sannar rúnir:
bjóstu með sæmd
á bóli mínu?

gafstu ribböldum
rèttar ángr[4]
ok hoflausum
hof-þínga grið?
Mannr em ek fyrstr
minna landa,
er þing settum
inná nesi
ok hof böndum
hátimbraðak;
veit ek er án regin
rèttarleysí,
veit ek at er regin án
ráðaleysi.
Nú eru stallar
niðrbrotnir,
eyðast þingdeildir
með þyrfingum;
gleymast menjar
ok hin góðu verk
aldaföður
alls ráðanda.
Vann minn faðir
vitru kveða,
þá *Hjörleif* fann
þrælum veginn:
lítit fyri góðan
hèr lagðist dreng,
svo gengr hvörjum
þeims höpt eingi
býst með blótum
bliðka vilja.
Ok enn kvað hann:
Minn hefir faðir
mælt sannindi;
veitk-a hve vilja
vesælmenni,
veitk-a hvat goðum er,
glöggvar[5] blóta;
veit ek at varaskrap
veldr-a góðu.
A 'er auðvirðing
ossum niðjum,
sultr ok seyra
silþakslandi;
grams hefr gæzka
fyrir gýg unnit,
en frömuðir
framvarps drjúpa.

1) sverð. 2) hygg eg ei. 3) jötuninn (ɔ: *Hallmundr*, sjá Grettlu. 4) þreyngsl, gyrðingar. 5) kvikindi, smælingjar.

*Máni* kvað:
Villr ertu faðir!
í vesköpum,
illt er ódæmum
eptir spyrja,
þèr eru fastir
við enn forna sið,
munkat hann at öllu
mega verja.
Þundr ok Baldr
ok þrúðigr As,
Freir ok Njörðr,
Frigg ok Helja;
allir 'ro jólnar
ok ás-megin
einum falin
undir guði.
Sá er almáttgr
sýn[1] skepjandi,
lèt hann ártala[2]
ljóða[3] gefinn,
skóp túngla fjöld
ok skrátýrnir[4],
ægir ok hlóðýn,
öll kykvendi.
Rèð hrið[5] fyrir
ræsing[6] aldar
ok hrið eptir
alda fari;
gætir hann at öllu,
sem gegnir bezt
ok hvívetna
hvötum[7] þjóða.
Ok enn kvað hann:
Erat er[8] frændur
undrlátir[9]
at varmennsku
vorra landa!
illum hvelpi
mælir eingi gott,
en gott mun æ
góðum hrósa.
Vituð er[10] at sunnu
sjálfsmiðandi
guð enn helpr
Íslendingum;
sèr á hann vini
með vinleysum,
ok með fiflum
forspekinga.
Þat ek þá reyndak,
er ek reirðr vark
hels læðingi
læknum firri,
lèt ek færa mik
und fagrahvel,
skein þá mèr í sjónir
sólar ljómi.
Birti fyrir augum,
brá lífs ótta,
fól ek mik á hendr
fremstum guði,
leið ek úr í svefni
lífs návistum,
síðan nár í mold
náðir hefi.
*Örlygr* kvað:
Nú hefi ek heyrt
hjal ofsköpta[11];
lengi vartu *Máni!*
manna sættir,
lögvísastr
land-búanda,
hreinlífastr í
heiðnum dómi.
*Máni* kvað:
Rödd fer undan
Esjubergi;
vel tekr *Örlygr*
vâru máli.
*Örlygr* kvað:
Þínu máli
þjóðgæðingr!
virðugliga
vildum taka
Ok enn kvað hann:
Þeigattu nú *Máni*
margsvitandi!
seg oss alls ek veit
attú vita man;
lèttu mèr af brjósti
ljótum harmi,
spár spakligar
spyrja[12] knáttu.

---

1) sól. 2) túngl. 3) lýðum. 4) níundi og efsti himin. 5) tími eðr byrjan hans. 6) raðan. 7) kapp, æði. 8) sèu þèr ekki. 9) of undrunargjarnir. 10) vitið ekki þèr. 11) frænda í sama knèrunn. 12) rekja.

Mál þitt ek nem,
maðr em ek kristinn,
elskar ek velferli
vorra landa;
mun-a þessi hríð
þóptum tæmast,
ok gullaldr
endrbyrjast,
endrbyrjast
Islendíngum?
*Ingólfr* kvað:
Jöfn er oss feðgum
fýsn at heyra
þat er *Örlygr*
þèr af beiðist;
hefk-a svo kaldan
sem ek hvessti fyrr
ýmugust
til Islendínga.
*Mána-spá:*
Þá var sem úr myrku
mökkr[1]-skýi
fullr máni
frambrunaði;
var sem aldinn nár
eðli tæki
leygs fjarr vita[2]
ljóst skinandi.
*Máni* kvað:
Fagrt er að litast
um framarla[3]
munað almanna,
drífr þó ok festir èl
ok frystir enn
yfir lög ok land.
Nú er nýbyrjat
níunð ára
hríðar harð enga[4];
gengr greipar í
grimmust lota,
skamma stund at standa.
Búum í bregðr
brún landstúna:
þriðjúng þrim viggja[5]
styrir oddviti,
sá er vil-mögur
hinnstr af húmfresslíngum.
Þann misvitr
manna-skræfu
kaus á svipu sek,
sá mælingr
man á lögbergi
breitt öndvegi byggja.
Skör fer í bekk,
skamt mun æði
harðast hríð at enda;
hreinsast vebönd
hvarginligum[6]
álfrekum af.
Verðr *Ingólfr*
endrborinn
ok mærstr *Mána* faðir,
úngir munu risa
í Reykjavík
ok fræva hin fornu tún.
*Ingólfr* kvað:
Glaðr em ek nú geðs
ok goða líknar,
ef þeirri skal lotu linna;
mun lángt þannig at
er þetta sker,
hvörs vèr óskum allir?
*Máni* kvað:
Skamt mun at bíða
þess at skerpla þverr
ok sefast rekka raunir,
mun sem í dái
marga vetur
fold ófreðin liggja.
Hyggja mun á holti
hvörr at sínum
þörfum þegn í búi;
framvörp falla,
færast höfðíngjar
at innbyrðis gagni.
Koma munu læknar
þeirs landsmanna
bæta geðbresti,
bæta siðbresti,
landstjórn bæta,
byggja kunnustur
ok vegligt bóka vit.
Skulu kaupferðir
í kjör fallast
og vaxa velmegin,
springa munu blómstur
á bæar trè,
göfgu man þá fjölga fræi.

1) muggu. 2) eldsvita fjarlægs. 3) fram á aldirnar. 4) þreyngsla nauða. 5) skipa. 6) kvennaligum.

Þá munn lögkænir
at lögbergi
deila[1] hvartki[2] dóm;
ætlanar-menn[3],
orðsnillingar,
hreinni túngu tala.
*Þorsteinn* kvað:
Mikið þú nú mæltir at
mögur ástráða[4]
lögum skal land byggjast;
hvört mun *Friðrekr*
menjar sjá
síns gjafla sefa,
síns ens' góða sefa.
*Máni* kvað:
Víst mun *Friðrekr*
menjar hafa
síns goða sefa;
þó mun lengra' at bíða
þess at buðlúngs mildi
sonur tók er seri.
Ok enn kvað hann:
Lángar eru aldir
af at njóta
meldri mannkosta;
lengi skulu frævast,
lengi skulu vaxa,
lengi mun' góðs of getit.
Skammarligu verðr
skamma stund
hönd höggi fegin;
skammar munu menjar
þess skjótt er gjört,
æ grær um góðs manns leiði.
Manngi til þess mundi,
þá er mæringr
veitti Reykjavík,
at lagði hèr enn fyrsti
landnáms maðr
helgar höfuð-tóptir.
Litlum verða börn
af lífsdreggjum;
lengi segir lángt fyrir;
háls er lángr
hvörs ómaga;
opt er gott sem gamlir kveða.
Sèr ek um hin fögru
fóstr-tún
ársæl álengðar;
risit er at ræfrum
og rauk-turnum
hátt við hamra ský.
Mun yðr *Máni*
meir enn síðar[5]
beimum endrborinu;
segir á sumrum,
sem í forneskju,
lög á þópta þingi.
Skal hann goðvísi
gerla styrkja
mèr í fræðum fyrri[6];
guðs man ríki
gæzku fylgja
meir enn mák segja.
*Örlygr* kvað:
Góðu heilli vartu
getinn Máni!
hygg ek þú sè Kolúmbilla kær;
helgar eru þínar
enar hinstu spár,
hafi þú nú sagt heill sögu.
*Máni* kvað:
Mátt ok megin
miðr enn *Æsi*
vildak aldrei á treysta,
því veiklig þókti mèr
ok vitlaus trú
á þeim undrænum[7].
Sá ek at einn var
öllu fyrri,
meiri ok máttgari,
allrabeztr
allheims drottin,
hveim er gott af getik.
þeim ek þuldak,
þann tignaðak
ok laungum líknar bað
við þat er fjörvi
fyrinæmdumst,
ok nú man ek þaular þagna.
*Ingólfr* kvað:
Mál er at hætta,
munin[8] er ek heyri
dökkan dags við brún;
hafa várir hugir
hrið of mælt

1) skera úr. 2) all-jafnt. 3) ráðagjörðarmenn. 4) heilræða. 5) nokkrum tíma hèrfrá. 6) fremri, meiri. 7) skyn- og máttlaus hlutr. 8) hrafn.

gaungum vèr nú svalir at sofa.
Þá hvarf njóla
nánum koni,
var-a lengr ljósa vant;
en sá reit er þá
sögu nam
aldar ættstuðla
aldar eptir komu.
Nafn álhimins
einn lendinga
skreytti *Skáldaspillir*
orum feðrum
fyrir feldar dálk[1]
*Mána* bezt of boðit[2].
Eyri[3] nú *Mána*
moldum hauðr,
amit yrmlingar;
iðgjold *Mána*
mörg Islandi
guð endrgefi.

## Um
# þær nýu innrèttíngar á Islandi,

*kveðið og prentað í Kaupmannahöfn um vorið 1752, þá Friðrik konúngr Fimti hafði á ný tjáð sitt örlæti við Island; og þá Skúli Magnússon hafði fyrir fè það keypt tvö haffær skip handa þeim íslenzku fèlagsbræðrum, samt öll verktól til klæðasmiðjunnar, og leigt Kristján Danneberg, er vel kunni til klæðavefnaðar.*

Varkat þessan verka
við at þarfleysu riðinn,
súrra[4] sifja þorri
sýngist braut Islendínga,
enn bjargvætta[5] váttist
velgjörð und' tiðar helgi[6];
orkt hafa menn um minni
miðjungs sæfar yðju[7].
2. Fallin er Ymis öllum
of dýr höfgi svira[8]
hjarna[9] grámaga grimum[10]
galdr reist tvífaldan,
rennr upp ræsis sunnan
rómfagr hæða blómi,
hvörr veit nema tótóti[11]
tingist Islendinga.
3. Lauk við konu líki[12]
lýð-konar[13] ástriða
snertir oss harmr um hjarta
hefir rænt gota kvæntan,
en alföðurs unni
ætíð norðr-sætu[14]

---

1) para röð eðr keðja af silfri vog 50 merkr, sem þeir gáfu honum að kvæðislaunum. 2) hann tók lögsögn ár 970 og hafði 12 ár, og honum var *Eyvindr* samtíða, því hann dó ei fyrr enn eptir Jómsvikinga bardaga. 3) þyrmi. 4) *súrra sifja þorri:* sambuð sú, með hvörri vèr nauðugir höfum bundnir verið við höndlunar-fèlagsins misjafna breytni. 5) þeir ágætu menn sem Island styrkja. 6) *und tíðar helgi:* eptir því sem tíminn og kríngumstæður þessarar aldar leyfa. 7) *miðjúngs* (og) *sæfar yðju:* ullar verkin, eðr klæða smiðjan og fiskiveiðar á duggum. 8) *Ymis svíra höfgi:* himininn. 9) *of hjarna:* á höfuð (ɔ: himininn er dottinn í höfuðin á þeim. 10) *grámaga grímr:* (grámagi er fiskr, þoskr) svo kennist hèr höndlunar fèlagið, því það höndlaði með fisk. 11) *tótóti:* ullarskamtr eðr ætlun (ɔ: klæðasmiðjan). 12) *konu* (sinnar) *líki* ɔ: drottníngarinnar líkami. 13) *lýðkonar*, þjóðar höfðingja. 14) *alföðurs norðrsætar* norðarliga liggjandi land.

þvíat ást frægum festir
fljóð getnaðar slóði.
4. Stöndum upp til stranda,
steðim braut ígla lautar[1],
eyki liggjandi lauka
litum gjöf Dana jöfrs;
firrist Önd ok Orra[2]
aldrtjón í fjóni;
færi guð veiðum várum
vöxt hamingjusaman.
5. Ræðis mildings maðr[3]
mærr ráðgjafi færa
eitt vann *Oddr Totti*[4],
alt vannst speki-manni,
hefir ver[5] frelsi várum
vebönd markat höndum,
frægt er þat orðit firðum;
frægð, lán aukist hánum.
6. Nú er uppkomin ára
annár sælleikr[6] þannig:
hami miðjúnga[7] meiðmar
Mimis orku[8] stíma;
enn laukmarir leika
lundar taka reiðar[9] á. sundum,
hvörr veit nema bil bata
býngist[10] Islendínga.
7. Hafi þökk ok þokka
þeirs liðsinntu, Niðr[11]
ærn[12] hjá unnendum fornu
efnit vill hann nefnist
kappa kindr uppi
kald-náa minning[13] haldist
meðan í holdi líf loðir
linnat guð blessun sinni.
8. Alla fylking fyllir[14]
fremjandi ossra landa
gagn öfundar egnir
íþrótt suni nóttar
stýrir hinnigat harra
hans nafn gæðinga jafni
*Skúli*[15] ber; manni mála[16]
mælim fullrar sælu.
9. Hefir sjót[17] hala sútum
svipt, fèlaga giftu
reist með rètti fyrsta[18]
ráðist allt til dáða;
trygð ok samlyndi landa
lofðúnga kynning ávinni;
æ svá markaðar[19] sómi
sýngist Islendinga.

1) *Braut ígla lautar:* brú lögð yfir sjóinn (Kristjánshafnar brú, knippilsbrú). 2) *Önd og Orra:* svo nefnast hèr þær tvær húkkortur; *orri:* skógarfugl. 3) *ræðismaðr konúngs:* sá sem er fyrir inntekt og útgift (*præses* fyrir Financerne). 4) *Ottó Tott*, geheimeráð, hvörr stóra hugð og drengskap hefir synt þessu auma landi, í því að styðja og auka mál þess við konúnginn, samt þau hollustu ráð og skipanir að gjöra þessum fátæka lýð til hjálpar. 5) *ver:* karlmaðr, svo kallast hann sèrliga sakir ágætis. 6) *ára annar sælleikr:* nl. hinna fyrri alda. 7) *hami miðjúnga*: reifi, ullina; *miðjúngr:* hrútr. 8) *meiðmar Mímis orku:* vefstóll, vefstaðir, með stórri konst uppfundnir. 9) *reiðar:* steipireiðar; hèr er bendt til hvalfánganar, sem þá var áformuð, og hvalveiðarfæri öll tilfeingin. 10) *bil bata býngist:* skarð tímans, sem milli hefir orðið (í þessa lýðs velgengni) fyllist upp. 11) *Niðr kappa*, hetju son, meinast jústizráð *Heltsen*, hvörr með mikilli góðfýsi verið hefir fylgjandi voru máli. 12) *ærn* f. *ærinn:* gildr, nægr. 13) *kald-náa minning:* eptir þá dauða. 14) rekr hèr lestina. 15) *Skúli Magnússon*, er lagði í sama sinn stund á sem bezt hann kunni, sínar erindagjörðir. 16) *máli:* verðlaun umbun. 17) *sjót:* samsæti, söfnuðr, fjöldi (ɔ: Islendinga). 18) *reistr með rètti fyrsta:* interessentanna lukka byrjast með þeim fyrstu privilegiis. 19) *markaðar sómi:* kaupstefnu og höndlunar lofstír.

# Ferda-rolla,

***fornkveðið kvæði, samanstandandi af visum og visnaflokkum um ýmislig guðs furðuverk í náttúrunni, sem fundin og skoðuð eru í yfirferð hèr á landi.***

Fer ek of ferðir vårar
fet-stiklandi miklu;
leiðist mèr lengr at ríða
landshorn Isa fornu;
fann mín frægsta minning
fýsn náttúru bisna,
einn guð fyrir öllum þjóðum
enn leyfist ok þrennr.

Af þessari visu má ráða, að stórferðir yfir landið, taki erfiðar að þykja, en þó hafi í þeim sèzt mörg náttúrunnar furðuverk, fyrir hvör guð fyrst og fremst lofast egi.

*I. Um Heklu fjall* 1750.

2. Nú lit ek fells und fótum
ferð kinn nauta minna;
frægð þess er farin í bygðir
fram heims giftu ramri;
þrikrýndr raumr[1] í Rúmi
raustar tein færir at greinum,
meistarar, bækr beztar
bakna[2] kall því fjalli.

Hèr segir að Hekla sè nafnfræg orðin um heiminn, svo að bæði páfinn og margir sagnaskrifarar hafi af þessu fjalli að segja. (*Gregorius* hinn *Mikli* kom fyrstr eldfjalla hjátrúnni á lopt.)

3. Opt þaut þviti steyptr,
þrumdi foss elfar blossa;
opt sigu tindar typptir,
tók is brenna þvísa;
úr gufar átján raufum,
opt grefr múga tóptir
dust, hraun, með vikrum verst-
um;
varð rið, skjálfti jarðar.

Hekla hefir opt spúið úr sèr bræddum björgum eld-ám, hraunum og vikrum, úr mörgum munnum; (svo sem úr 18 árið 1597, úr 13 árið 1636, og úr 8 árið 1693) hvaraf margir bæir grófust og eyddust; sömuleiðis hefir hún opt gjört hræðiliga jarðskjálfta, hvaraf fjöll sigið hafa.

4. Hryllir við Heklu fjalli
hölda fyr' tveimr öldum;
án tal illar sálir
í teljast því víti;
heyrði þjóð ýlfr-yrði,
endr lopts taka fèndr;
eldhver finna förum
frekligan norðr í Heklu.

5. Våg[3] djásn visa logi,
varð flaugr gefinn draugum;
ísarn-nefjaðr at eisu
eins hrafn flýgr jafnan;
eldr leifir[4] frjó foldar,
frák eirat jörð nè leiri,
vatns sem viðsmjörva neytir;
við klett[5] tundr mettast.

6. En vèr slíkt ei sönnum
sillandi páfa villu;
ýngjast[6] Islendingar,
átrú forn er snúin;
brennir eldr þar er annar
eldr kveykingu veldr,
vatn hófligt við hitnar,
við meir kæfist niðr.

I þessum þremr visum talast um ógnarnir þær, er almúga bæði hèr og annarstaðar á norðrlöndum stóð af Heklu í hinum pápiska sið, þegar hinir geistligu jukn hjátrúna með ýkjum

1) páfinn ber þrjár kórónur á höfði, hvörja uppaf annari. 2) teikna, gefa til kynna. 3) vog, lyppti upp. 4) skilr eptir, snertir ekki. 5) *f. við klett sem* o. s. frv. 6) eru fjarlægir orðnir enum forna sið.

sínum, til að skelfa hina fáfróðu og halda þeim þess betr undir sinni stjórnun. 4ða vísan segir um helvíti í Heklu, hvar ótal sálir og árar sèu, en orð þeirra og náhljóð heyrð í loptinu. I 5tu bendist til þeirrar lygi, að þegar Hekla spjó árið 1510, þá átti að sjást kóróna, sem vera skyldi *Hans* Dana konúngs, í logunum. Djöflarnir áttu opt að sjást fljúgandi í eldi fjalls þessa, stundum í járn-nefjaðra hrafna líkjum. Sömuleiðis átti eldr þessi að vera svo ónáttúrligr, að hann brendi einga lifandi eðr vaxandi hluti, svosem skóga grös eðr aðra jardar-ávexti, heldr dauða hluti, sem þurra jörð, leir, steina og vatn, af hvörjum hann logaði sem lýsi. En allt slíkt segir skáldið ósatt vera, því allr eldr sè eldr, og brenni það sem náttúrliga brunnið geti, já einnig aukist af vatninu, svo framt sem það yfirgnæfir hann ekki; en hrælog þau, er koma úr þessum jarðeldum, eru hvorki eldr nè brennandi, þó hafa þau orðið átilla greindrar hjátrúar.

7. Kannkat ofsögum segja
svall í þessu fjalli:
eldr tveim á þremr
öldum mökkr kvöldi,
inni ellifu tvennar
ógn-hríðir nam líða
titrandi grund sem tötra
tenn í vergángsmenni.

I ánnalum teljast 22 hríðir, sem Hekla hafi átt að fá með eldgángi og hristingum á 600 ára tíma (nefnil. til 1693); verðr þar að meinast með milli-hríðirnar, sem færstum skrifurum kemr saman um, og þær þrjár, af hvörjum *Björn* (eg veit ei með hvörjum rökum) nefnir þá 3ju árið 1029, en aðrir segja þá fyrstu skeð hafa árið 1104, eðr 1106. Annars, skyldu öll ártöl sönn vera, þá yrðu Heklu brunar til áðrnefnds tíma 33, og með þeim tveimr er síðan hafa orðið í Heklu hrauni 36. Eptir naumasta reikníngi þegar stundum 3ja og 4ra nálægra ára elds uppkomur eru að einni gjörðar, þá verða höfuðhríðir Heklu 16, og sleppa menn þá óvissri tölu milli hríðanna, hvörjar víst hafa verið nokkrar, og fyllt munu hafa ena fyrri töluna.

8. Uppgýs fjall og fnasar,
fnik-hjúpaðir ísar drjúpa;
salt-gnestandi gneistum
gall hún of sveitir allar;
upp björg höfug hoppa
hafl glík sem kol at afli;
hraun brædd fljót ofan flutu,
flaut grein brennisteina.

Enn segir þegar Hekla hafi blásið frá sèr fylu-þoku og brædt af sèr jökulinn, þá hafi hún bæði af því og salttegundunum, er í eldinum hafi verið, gjört bresti sem heyrzt hafi yfir allt landið, stór björg hafi leikið á eldinum, sem kol á afli. Slíkt var helzt aðgætt árið 1300, þegar sjálft fjallið af ósköpunum rifnaði í sundr (útsunnan til); hraunflóð með brennisteini hefir og opt úr henni komið.

9. Lèk skutilsvelgr Loka
lit blám, rauðum, hvítum,
endr í öllum myndum
og ský-myrkva nýum,
upp ljós-knöttum kippir,
klauf snart þúshundrat[1] parta;
æxluðust fjöll og axlar,
urð ný gegndi furðu.

Eldrinn hefir stundum blossað með öllum litum og í öllum myndum, stundum orðið biksvartr, og aptr uppskotið yfrið skærum hnöttum, hvörjir sundr hafa brostið í loptinn, í ótal parta; ný fjöll og hálsar með stórum hraunum hafa og komið úr Heklu, svosem árið 1390, þeg-

1) *f.* þúsund.

ar stóð í munnum Heklu, svo að eldrinn varð að brjótast út fyrir neðan hana (í skóginum fyrir ofan Skarð), hvar eptir urðu tvö fjöll, og mikil gjá ímillum.

10. Aflögðust breiðar bygðir
bræddu gleri væddar,
urpust grænar fyr' görpum
grundir, tún og lundar;
tranðla verðr af öðli
alda býa taldr
flokkr, þanns fól it dökka
fjúk úr höttkápu[1] hnúki.

Af slíkum ófagnaði hafa eyðzt ótal bæir, ágæt lönd og skógar; sumt hefir yfirbræðzt af logandi hraunflóðum, sumt þakizt af vikri, steinum og ösku, t. d. árið 1443, þá hlaup hennar aftók á einum morgni 18 bæi.

11. Slíks ofrvalds vildu
vegs um merki þegar
er á land gengu lundar
lag-þíngs Irlendinga[2]
brunnum brá-valla kanna;
brennisteins veisur[3] greinir
öld vegföllum valda
vettir meðr hverum kletta.

Til að sjá eptirleifar alls þessa umgángs, komum við út á Vestmanna-eya skipi, en alþýða kvað það mesta óráð, bæði sökum brennisteins bleytu, og hvera á fjallinu, og líka reymleika.

12. Hrafn kvað úr heljar ofni
hrygg-járnaðan byggva,
sjóna ljós slökkva fýsist
sannr árr komu-mönnum;
vartrúaðir þá várum;
vað leiðsögumaðr
bóandi Sels í sundi
sèr fjallvaðil hvera.

Því þar vóru sagðir hrafnar uppi járnnefjaðir, hvörjir rífa vildu augu úr öllum sem þángað kæmu. En vèr trúðum ekki slíkum frásögum heldr feingum til fylgðar bóndann í Selsundi (*Vigfús* að nafni), hvörr eð hitti vað yfir þessar torfærur; þó hafði hvorki hann nè aðrir, svo menn vissu, uppá Heklu farið.

13. Riðum lángar leiðir,
ljón stökk sanda dökka,
uns hólkngerði fell girðir
gnæfandi stöðvar lævis[4];
þitil-elg blása lètum,
búk várn sjálfir at arni
færandi fjalls bárum
fót námunda[5] rótum.

Vèr riðum svo leingi yfir svarta sanda þartil vèr komum að þeirri miklu og háu hraundýngju, er geingr umhverfis fjallið, þar lètum vèr hestana hvílast og eptir verða, en klifruðum yfir urðarhrygginn, og geingum svo uppá fjallið.

14. Hrikti' í þá er holdar sóktu
hörg eld-dýsar[6] björgum,
vekr-a berg nema vikrat
við brak dverga[7] kviðar;
kálfa snæ njótar nýan
naðr dýs gengu' yfir ísi,
miðsumars gautar grímu
gnúp hrímstráðan tráðu.

Marraði þá undir fæti í klettunum, því þeir vóru allir til vikrs brendir; þetta var hærsta sumar um nóttina, feingum vèr þá kálfa snjó nýfallinn í jöklinum; en bæði þá og fyrifarandi daga hafði heiðviðri verið í bygðinni.

15. Farar varð eingi fyrri
fálmlausum spáðr tálmi;
Island bjarghryggjum bundit,
batnað firrt jökla' og vatna,
nýfædd fell meðr bræddum
furugrein líkum steini,
eldflauga litum fyldar
fjón-koli gímur holar.

Mætti oss eingin torfæra, sem sagt hafði verið; sáum vèr, hærst af Heklu, mikinn hluta landsins

1) kápa með hettinum við kallast hekla. 2) Vestmanna. 3) forað, bleyta. 4) elds. 5) í nánd við. 6) gyðju hof. 7) vagl, máttartrè í húsum.

með fjöllum, jöklum og vötnum, mest norðr- og austr-af; einnig mörg fjöll af eldi uppkomin og stór-gjár, hvar upprásirnar höfðu verið, en þær vóru aptr neðantil uppfylltar með ösku og vikri. Þar vóru og í fjallshlíðinni aflángir svartir steinar, hvörjir mjög likir vóru kolbrendum trjástofnum, kvistum og greinum, yfirbræddum síðar með steinrensli.

16. Uppi varð eptir á toppi
eldhvols stafr í felli;
stukku vèr niðrat nokkut,
náðu þrír söðul-dýrum;
hittum gant þann er gætti
geirum hrauns í þeirra,
fengit hafði höfuð-þúnga
hann þá er gilda skyldi.

Efst á Heklu skyldum vèr eptir staf, niðrsettan í fjallið; runnum síðan ofanaf fjallinu, og fundum hestana, samt mann þann, er eptir hafði með þeim orðið, hann sagði sèr hefði illt orðið í höfði, þegar vèr ætluðum að gánga á fjallið.

17. Heim hróðigir komum;
harðúð mannskis trúði,
vegligr Baldrs bagla
beið komendr greiði;
guðs hèt þat miskun góða
grund ei svalg at stundu,
eða fjall þat er freyðir
flóð elds, dirfsku þjóðir

Hèr greinir það er vèr komum ánægðir frá Heklu, og gistum í Skálholti, hvar biskup gjörði oss hinn bezta greiða, en veitti oss nokkrar ávítur fyrir ofdyrfskuna, og sagði það hefði verið guðs mildi, að al'staðar hefði uppihaldið undir oss.

18. Völd kváðum hans, at heldr
hans jörð sveitum manna;
verðskyld fyrir vârar gjörðir
verri er hjá þeim herra,
likn í tiptunum táknar,
tröll án[1] slikum fjöllum
vindrúm gefr þat er grandar
grand-minst vâru landi.

En vèr svöruðum það væri víst honum að þakka, sem og hitt, að jörðin hèldi upp svo stórri mergð mannkynsins, þar vèr hefðum ei annað enn illt af honum forþènað vegna synda vorra; þó sè hann liknsamr í öllu straffi, og sýni hann það í jarðeldinum, sem siðr enn ekki stjórnist af djöflinum, heldr gángi eptir náttúrunnar verkunum; gefr guð þessum eldi þá rás í sterkum fjöllum, svo að sem minst grand af verði oss eðr landinu.

19. Fold mundi farin hin kalda
fyrir gaung auðu[2] laungu,
dökk björg í sæ sokkin,
samt grund blóma vundin,
ef haldit fjöll hefðu
hábrýn fóstri sinu,
kviðþrútin Þrúðigs móðir
þegit sein hreinkan neina.

Því hefði jörðin ei feingið þvílika tíða hreinsan, og fjöllin hefðu sitt fóstr innibyrgt, svo eldrinn hefði ei getað útbrotizt, þá mundi Island fyrir laungu eyðzt hafa, og með björgum og undirlendi umbreitzt, og í sjóinn hrapað.

20. Orkustór ofr-verkjum
af mundi skolfit hafa
endr sem ann'ra landa
eina byrgt suðr í heimi;
ágæt frón þars gnata,
gjálfr rís, borgir skjálfa,
sukku Rúm hverfis rekkar,
rán glikt varð á Spáni.

Jörðin mundi þá af innvortis ógna hriðum skolfið hafa, en haldið eldinum inni, einsog í öðrum löndum skeð hefir, hvar þau dæiligustu lönd hafa forgeingið, sjórinn æst á land upp, og borgirnar titrað. Af slíkum undirgángi hafa sokkið heil hèröð með þeirra innbyggjurum; í

1) reymleikalaust. 2) eyðu.

Vallandi og Spáni hefir viðlíkt tjón orðið.

21. Hler bjó í býa sporum,
brast strind vestr-Inda[1],
Ægir Grikklands eyar
elds heipt hvattr gleipti;
Heklu jafnöldru jökla
játum, vildu þau láta
af, þá fagrt guð gæfi
grið-þing Íslendingum.

Hvar áðr vóru bygðir staðir, þar komu upp sjóir og stöðuvötn. Í Ameríku hefir jörðin opt sundrbrostið, og eyarnar í Grikklandshafi af undireldi umbreytzt og sokkið.

*II. Um Geysir í Biskupstúngum, árið* 1750.

22. Geysir eldheitu gusat
getr opt vatni' í loptit,
fellr at sem flæði
frek Hlórriða drekka[2],
hundrat faðma hrindir
hátt lög regn- á dögum
tvisvar tylft í gusur
tèr dagsstunda, hvera
aukar[3] barm við í verma
vöxt, horn, bein gjörir at steini.

Hèr getr þess að hið heita vatn falli að í Geysir, sem sjór, og hann spýti því tvísvar á dægri (eðr 12 stundum) til 100 faðma (mest), þegar rosi og stórregn eru í veðrinu; að af áfalli vatns hans vaxi steinbarmar hans, og hann snúi í stein trjám, jurtum, hornum og beinum.

*III. Um hörpudiska og fleiri skeljar í klettum hjá Asgarði í Grímsnesi og við Sogið*, 1750.

23. Asgarð einn af þrennum
ek veit bezt hvat skreytir:
guð hefr-a veröldu viða
vandat líkneskjum banda[4];
en hèr öll it sanna
íta fjöld getr at líta;
harðsteinar undir hrauni
harp-skel inni fela.

Þessi Asgarðr hefir það framyfir hina tvo, að guð hefir hèr sett miklu merkiligri goða líkneskjur, svo að ei munu víða í veröldinni aðrar-eins finnast, því hèr er, undir eld-brendri urð, lag af hörðum og föstum klettum, hvar innaní hörpudiskar finnast með heilu líki; eins finnast skeljar skamt þar frá í Sogsbökkunum, og á hina síðuna, í svokölluðum Skeljabakka. Þetta er leingst uppí sveit, 3 eðr 4 mílur frá sjó.

*IV. Um Kröflu og víti í henni svo kallað*, 1752.

24. Var ek á vítis ljóra
við aflheita Kraflu,
mánguðu Mývetningar
mínum leið at sýna;
kulvindr af kveifar landi
kippti hjarnskjóli *Bjarna*,
kræktum tveir kafit flæktu
keyri' úr blávellu leiri.

Víti kallast sá stóri leir-hver Mývatnsmegin í Kröflu; hann sáum vèr af Hrafntinnu-fjalli, en feingum eingan til að fylgja, því Mývetningar sögðu torfærur af brennisteins bleytum á veginum; vandræddust þeir leingi hèr um, en menn okkar vóru heldr ei nærri, fórum við svo tveir einir; fauk þá hattr *Bjarna* í hverinn, en náðist þó aptr með stinnu keyri.

*V. Um Mývatns náma*, 1752.

25. Sák-a fyrr seyð þvílíkan
sem hèr orðinn nemum,
brunnu þá Biflings inni,
brennusteinn nam renna;
vex hann aptr ok æxlast,
úr þeim hèlug súra[5];
reykr málm[6] lit á lætr
lýtandi silfrit hvíta.

Hèr segir um brennusteininn og jarðeldinn, er hèr geysaði úr Kröflu leirhnúk o. svo frv., helzt fyrir nærri 40 árum. Sömu-

1) þeirra í Ameríku. 2) fjörnborð, sem útfallið gjörir. 3) *aukar* eðr *aukr*, er rèttara enn eykr. 4) goða. 5) sýra. 6) helzt messíng og silfr.

leiðis, að hann vaxi í námunum, og að hèla af súru salti (í hvörju hinn meiri hluti er álún) komi úr hónum, ofan á jörðina; líka, að reykrinn úr þessum námum gjöri silfr ljótt og illa litað.

*VI. Um Hallbjarnarstaða-kamb,* 1752.

26. Tjörnesingar að arni
ár þá gýmis várut,
er rökk ægis-drekka
ættbaðm tvo týgi faðma
híngat niðr lægði loga,
lèt kvikskeljar setjast,
þömb sem þeytt hafði' at kambi
þeim steinvorðnum heima.

Tjörnessingar vóru fjærri, (því þeir vóru miklu síðar), þegar ægis drykkjuskapr tæmdi hèr sjóinn, svo hann lækkaði um rúma 20 (22) faðma, og lèt hèr lifandi skeljar eptir verða, einsog þeim hefði í kambinn af boga skotið verið.

27. Berar af Grímsness báru
brast fisk hörpudiskum,
þær í þèttum leiri
þornaðar meðr salt-hornum[1]
gljáir á, sem vèr sæum
sikrstein[2] tár-hreinan;
áðr höfðu þær hæðir
haf vel tvítugt kafat.

Grímsness hörpudiskar áðr nefndir vóru fisklausir, og í því bera þessar skeljar af þeim, að þær eru innan fullar af eggjuðum krystöllum, sem líta út einsog kanderað sikr hvítt, en áðr hefir kambr þessi staðið í tvítugu djúpi.

*VII. Um öskrhólinn á Kili,* 1752.

28. Hvoll er á Hveravöllum,
hvellr frá Kjalfelli
heyrist sem hundrat þjórar
hákallendr gjalla;
Æsa stendr í ási,
undir tekr hún stundum,
typptum hver en ei annat
í hvein smugu-steini.

I þessari vísu segir að óhljóð stein-þúfunnar á Hveravöllum heyrist undir Kjalfell, og bergmál kveði við í vörðunni, er vèr hloðum undir hraun-ásnum þar skamt frá, hvörja vèr nefndum Æsu; loksins getr um orsök þessa öskrs, að það sè ei annað enn suðuhljóðið hversins undir, hvört í þeim mörgu og krókóttu pípum þúfunnar af hita og gufu hækkar og margfaldast.

*VIII. Um Geirshólm og Hörð Hólmverjakappa,* 1753.

29. *Hörðr* Geirshólma varði,
*Hörðr* andskotum gjörði
hörðum lotur harðar,
*Hörðr* fólk-váða[3] kjörði;
hörð vápn hvergi sparði
*Hörði* tjón sá förði[4];
*Hörð* herfjötrar mörðu;
*Hörðs* banar nign'[5] und jörðu.

30. Varga vissak hvergi
vin, þanns dólga kyni
betr kunni úrygr[6] ita
í gráð vita, fáði[7]
orð drengilig laungum;
lauk um skjálf tvítug[8] hálfan
fram tug minnr manna
mein' ek í hefndir einum.

I báðum þessum vísum er lofuð hreysti og vopnfimi *Harðar;* einnig getr um herfjötr og víg hans; samt þess, að eptir eingan mann hafi jafnmargir í hefndir drepnir verið (nefnil. 24), og var hann þó sekr.

*IX. Um Geitlandsjökul-gaungu,* 1753.

31. Eru til dalir Ára,
er stór dalr Þóris,
Grettisból grafit í hèlu
Geitlands þykkir standa;
upp hljóp íss á gnýpu
efnandi bókar stefnu,
öld fresk hittit í háska
hrið fal jökul-dali.

1) köntum sem á salti. 2) krystall. 3) bardaga. 4) færði. 5) hnigu. 6) öruggr. 7) ræddi. 8) hálfr þriðji tugr, einum fátt í, því í hefndum eptir *Hörð* vóru vegnir 24 menn.

Hèr getr þess er vèr geingum á Geitlandsjökul, eptir ritaðri fyrisögn (bæði Grettissögu og Síra *Helga*), ef nokkur gjá kynni þar að sjást, og efuðumst vèr þó um Þórisdal, en allra-helzt Áradali. Feingum vèr stór-viðris krapahríð á jöklinum, svo ekki frá oss sáum, komum þó klaklaust niðr aptr.

*X. Um Surt og Surtshellir,* 1750.

32. Heill veri þú *Surtr* hinn svarti!
sjáttu[1] í óvináttu
ferð ossara firða!
fá gnótt hefir yðr sóttan!
aumkar mik ok meima
maldrs gróttu hve kalda
áttir þú málvinr vætta!
vist und' hólkni gista.

Kveðju hellisbúans fylgir sú bæn vor, að hann liti til vor vinar augum, því vèr kennum í brjósti um hann, að hann, svo mikils virðr hjá öllum vættum, skuli þá köldu einsligu vist hafa.

*XI. Um surtarbrands blöðin í Brjámslækjargili,* 1753.

33. Barðastrandar und' urðum
augð stórmerki vóru
drottins allsherjar áttar[2]
anda guðs ok banda;
skóg hèr friðastan frægr
forðum skóp máttar orði;
viðir, birki', eiki-viður
vers án[3] skrýddi þersan.

34. Björk stóð laufguð með berki,
blóm jókst sunnu ljóma;
en guð færðist at[4] annat,
ummerki slikra verka
hræðilig skatnar skoði,
skamt[5] þritugum hamri
ok tólfræðu tekr
trjá-fall undir fjalli.

35. Sundraða flatti sindri,
seig hart, þallar parta;
grænum fólst meðr greinum
grænt lauf dvergsala raufum
feygt allt súrbarkandi seltu,
sem horn varð svið-ornat;
lauf sást lim ok kvistir,
lávarðs smið himin-rjáfra.

I næst undangángandi þremr vísum segir frá því, hvörsu furðu-liga guð hefir landið verða látið á Barðaströnd (vestr), hvar sjá má undir fjallhrúninu að verið hefir hinn bezti skógr, áðr landið byggðist, af viðum, berki og eik; en guði þókknaðist þessum blóma að umturna, þar hann feldi ofaná þann skóg þritugan hamar og mikið fjall 120 faðma hátt. Undir þessum björgum fólst og flattist viðurinn og limið, feygðist fyrst, en varð síðan seighart af nokkurskonar súru og þerrandi eðr barkandi salti, svo viðurinn varð svartr sem sviðinn væri og harðr sem horn. Auk þess hèlt laufið og kvist-irnir, sinni mynd eptir sem skír-liga má sjá enn í dag.

*XII. Um Sæhverinn í Flateyar-löndum,* 1753.

36. Ægir mun drykkju drýgja
dáð ræsandi[6] þaðra,
töld munu goð til gildis
gott sumbl eiga' at potti;
heim er Þórs ketill kominn,
kann neytr öl heita;
óttist hèr eingi vætta
enn nema Lopts sennu.

Uppá þenna hver (sem sýðr uppúr skeri, og sèst um stórstraums fjöru) er líking tek-in af kviðunni Ægisdrekku í Eddu, segir því, að goðin muni hèr að veizlu sitja hjá Ægi og kominn muni hèr ketillinn vera nógu stór að brugga þeim öllum öl í, því sè ekkert sem fyri þurfi að kvíða, nema kíf og brixl-yrði Loka.

*XIII. Um Eldborg,* 1754.

37. Hvörr man seggja sýna
svip kyndanda' í Hripi?
hvar veit einn eðr annar

1) sjáðu ekki. 2) ættar. 3) í eyði. 4) tók sèr annað starf fyrir hendr. 5) afmarkað pláz. 6) útleggjandi, rekjandi, stýrandi.

arins stöðvar[1] váru?
gekk Eldgrímr af nökki,
gróf jarðloga rófr[2]
þars stendr borg sú er byrgir
bý gleruð hræ[3] nýa.

Hèr er spurt hvar Hrip hafi staðið eðr jarðeldrinn upp komið, með hinu öðru sem um er getið i Landnámu.

*XIV. Um ölkeldur í Snæfellsness-sýsslu*, 1754.

38. Gat þess gumi vitr
grams í Skuggsjá frammi:
eingin Islendingum
ölteiti slík veitist,
Síðhattar býtir brúðr
bragnfim æða lagar
Ymis áðrykkju strauma
áfengs vel ok lengi

39. Snjófellsnes eitt er yfir
öl veitandi sveitum:
kætt hafa keldur átta
kjörlegi viði Sörla;
hjúps án þekjur upsa,
ísarn, leir, þefjan meiri
gefr ok suðu' án gufu
gott vín bata finu.

Sa maðr sem hefir skrifað kóngs Skuggsjá segir ölkeldur á Islandi sèu áfeingar o. s. frv., en hvað um það er, þá er það víst, að Snæfellsnes hefir þann kost fram yfir öll önnr hèröð, að þar eru svo margar ölkeldur nefnil. 8; (af hvörjum hin bezta og mesta er Rauðamelskelda), þær leggr aldrei. Smekkin hafa þær sumpart af járntegundum, sem og köldu suðuna, því vatnið bullar í flestum af þeim jafnaðarliga. Þeirra vatn er og heilsusamligt fyrir ýmisliga sjúkdóma.

*XV. Um Snæfellsjökul-gaungu*, 1754.

40. Snjófells-ás ok æsir
allmáttkir himin-fjalla
leyfist ragna lofum
ljóð nökkviðar Oðni;
brautgáng[4] sæloga brjótr
Bárðr, of jökul harðan
hamaðr veitir oss heima
hlýr önn komumönnum.

41. Ottuðust seggir sýtta
sætt ill-dólga vættar
ok siðar eingu trúðu
af heimsóknar skrafi;
vastu[5] Bárðr! at vestan
viðsýnn gnýpu þinni;
Stöð[6] sám minnr enn miðja
miðbarð Grundarfjarðar.

Hèr segir að menn hafi verið hræddir um ferðir vorar fyrir kýngi landvætta, og um hæð jökulsins: að af hærstu hnúu hans sjáist Stöðin við Grundarfjörð nærri ofanað miðjum hliðum.

42. Viku annarar inni' ek
annar hlýri[7] sannar
nýtölu nætr sólar
nám-spell á Snjáfelli;
ísarn í hjuggu spyrnur
upphvel jökul-þela;
sáu vèr ótal eya
ok klakk geirfugls hnakka.

Hèr getr um að þessi ferð hafi verið mánudaginn annan í Sólmánaði, og það, að vèr máttum högga spor í ísinn með týgilknífum tilað komast uppá hnúuna (eystri), hvaðan sèst hafi margar eyar, (helzt á Breiðafirði) og það yzta háa Geirfuglasker.

43. Unnust tylftir tvennar
tveim þúsundum undan
ára tygi fim fjóra
fyrr tel ek áskyrti[8],
er *Oleifi* borinn
ok hjarn frera *Bjarni*
tráðu gnúp yfir griðar,
gell dvergmál um helli.

Enn eru þeir nefndir, er geingu á jökulinn, og sagt hvað þá hafi verið ártalið.

44. Tákn varð margt er viknar
við múg ærsla kliðr:
goða túlk[9] lopt of liða

---

1) stó, máleldr. 2) ræfr. 3) hræ hins nýa bæar. 4) fylgi, brautargengi. 5) varstu. 6) fjall hjá Grundarfirði. 7) bróðir nætr: dagr. 8) ávantaði. 9) túlkr og meðalgángari goðanna nefnist *Merk-*

leit ek jötun-reitar,
neðar steig þumlúng þriðja
þjóftraust[1] ok helft at snjóvi
dagmál Svasuðar sælu
sár hrauð yrmlings dauði.

Af þessari vísu má það sjá að kvikasilfr (í loftmælirnum, *Barometro*) hafi sigið við hæð jökulsins (nærri) 3½ þumlúng, og um dagmálabil hærsta sumars, í björtu logn-viðri, hafi uppá jöklinum verið í meira lagi vetrar kuldi, hvað sjá mátti af *thermometro* (hitamælir) er vèr höfðum þángað með.

45. Var glerglyggva flúri
glík ásjána ríkis
Vindsvals sonar andurt[2]
svell of Bárðar hellis
æðst; en leiðar traustr
af brá steinninn hái
brott við ýmissar ættir
inn náttúru sinni.

Mynd snjóarins eðr íssins á jöklinum segir hèr að lík verið hafi sumum laufaviði er leggr á glerglugga í frosti. Einnig segir að segulsteinninn, eðr nálin í kumpásinum hafi brugðið frá sínu rètta eðli, og í hring snúizt eðr til ymsra átta í sama sinn.

46. Nú megn seggir saman
snívins hól[3]-gaungur ifa[4],
en vèr sjálfir sönnum,
sjá frètt er án pretti;
mál þjóðverskrar mílu
man ek hæð jökuls stæði,
um faðm mála meiðmar[5]
munðak fram þrjú hundruð.

Enn er hèr getið að mældr hafi verið Snæfellsjökull, og ákveðið um hæð hans, að hann sè ein þizk míla og 300 faðmar að auki.

47. Fetum fundi slíta
fránligs tröll harra dánar
holds[6], höfðingja skyldu
hliðum drifu riðar.
Bárð hugprýðis herða
hreifan allsherjar leyfi
uns jökul-set[7] sækir
sig[8] Hlès afa rýgar[9]!

*XVI. Um Drápuhlíðar-fjall*, 1754.

48. Hèr alsmiðar harri
hefir griðar eld-smiðir
ok bif seyðar[10] sögu
sett á grjót ok kletta,
frán meið[11] í kol kuýði,
kol-rein varð at steini,
Surtar-baðm[12] it bjarta
bál ner þvita snèri[13].

Í vísunni segir, að á klettunum í Drápuhlíðar fjalli megi sjá, það eldr og sjóðandi vatn hafi samverkað í þess leggingu eðr endrsköpun; hèr hafi sum trè brunnið til kola, er að steini hafi orðið; sum hafi orðið að surtarbrandi, og síðan nærriþví að steini.

*XVII. Um timbr á Hornströndum, sama ár.*

49. Svarðar er Ymis orðinn
ei smár vöxtur hára,
vindr á vestr-ströndum
vågrek slík færir þagat;
verðr hèr viður at jörðu,
vex kál úr efnum skála,
bolúngr er bragna seiling,
bárn safn ok kára.

Hèr segir frá stærð timbrs og vogreka á Hornströndum, að þau liggi í stór-bálkum niðri jörðunni og fúni svo niðr; að úr beztu bjálkum og rótarviði, vaxi grænar urtir, helzt skarfakál, og að rekaviðar hrönnin sè manns seiling.

---

*úríus* (fljúgandi með vængi á höfði og fótum), hans nafn hafa náttúruspekingar gefið kvikasilfri vegna þess hvikula og fljúgandi eðlis.

1) *Merkúríus* aleizt af heiðnnm mönnum verndarguð kaupmanna og þjófa. 2) öndvert. 3) snjóháls. 4) efa. 5) málkeðjunnar. 6) herra jötna náa. 7) fjallið sem jökullinn sitr ofaná. 8) *sækir sig:* sökkr sigr. 9) *afi rýgar Hlès:* Ægir. 10) sjóðandi vatns. 11) fagrar eikur. 12) surtarbraud. 13) gjörði að mestu að steini.

*XVIII. Um surtarbrands kvistu og greinir undir Fossheiði (að neðanverðu)*, 1754.

50. Enn hefir sýnt it sanna
sálar höfuðr í máli
orðins endr jarðar
Islands getnaðar kvísla:
hèr liggja kvistir í kestum,
kraup þöll fyr' yfirhlaupi
fjöll timbrandi fallin
farg þolir í seltu bjargi.

Enn hefir guð sýnt sannleikann í þeiri þrætu, hvört Island sè að nýu uppkomið (eptir það í fyrstu skapaða hefir undirgeingið) því hèr liggja trè með sinum kvistum einsog þau fallið hafa í þeirri ógurligu bjargaflæði, hvör stórfjöllum hefir hèr hlaðið ofaná hið forna skógland, hvörs eikur undir þessum nýa fjallgarði liggja ferghðar og saltaðar.

*XIX. Um eyaskiptin við Reykjanes (suðr)*, 1755.

51. Neiti hvörr þambar njótr
neitt land eya bandi
ei við undir-lævis
or komi gufur stórar;
Eldey tvenn hvarf en aldua,
önnur reis hraun-brunnin,
gaus upp fyri gufna nesi
Geirfuglssker ok fleira.

Þóað hvörr maðr mótsegi því, að jarðeldr uppkomi í hafinu og gjöri þar lönd og eyar, þá er samt víst, að báðar Eldeyar hinar fornu hafa við svoddann bruna forgeingið, og sú Eldey (er enn í dag er fyrir utan Reykjanes) hin ýngri, er aptr í bruna uppköstuð (sjá Flateyarannál) árið 1211. Eins hafa í þessu hafi af sama efni uppkomið bæði Geirfuglasker og fleiri eyar.

*XX. Um bergleðr á Dalatá (norðr)*, 1755.

52. Ulfr hefir hèr álfa
undir bygð leiddr[1] fundit
en lèt eptri grönnum
eptir steinleðr á klettum
strandar þat herrans hendr
hóf skepjandi þófa;
undr sýnir orum löndum
allþunna frjó krystalla.

Hèr getr Ulfs haugs og bergleðrs á Ulfðölum, hvört eins er átektar og mýkt, þykkt skinn, hvítt að lit, lætr undan fingri, og tekr sig sjálft aptr; er þetta leðr þó samanstandandi af ofursmáum spathkrystöllum.

*XXI. Um það er með jarðnafri var borað í brennisteins námið í Krýsivík*, 1756.

53. Hugðak til Heljar bygða
hratandi[2] leita Rata;
vakin þá Krýsuvíkur
varð norn jarðelds forna;
öskr kom upp með hvískri,
eldheit spýttist bleyta;
hefr-a frá fènda jöfri
fratat úr því gati.

Skáldið segir sèr hafi í hug flogið, hvört Rati mundi ná til neðri bygða (sem fáfróðasti almúgi af kathólskum eptirstöðvum hyggr vera undir slíkum brennisteins og jarðhita plázum), því hver-vellan fekk rúm um gatið, svo uppbullaði með öskri og hvískri brennandi leirbleyta; segir hann seinast í vísunni, að þetta sè ei þaðan komið.

*XXII. Um hverana í Torfajökli*, 1756.

54. Sè hèr alvaldr ára
eldri hrið[3] hveim veldr
ofrgang jökul afu
ok hrím gufu bríma;
undrlátir veri vândir,
vitru fól alheims sjóla
mæri, hvöt funa frera
fann vatn strið hvat annars.

Þessa merkiligu guðs smið í náttúrunni, mega jafnvel verstu og heimskustu menn undrast og að henni dást, það hann hefir hèr þá allra sundrleitustu hluti,

1) grafinn. 2) fallandi hrapandi. 3) tími, aldr hans fyrir hriðina eðr eptir eylifðina, sjá Stjórn.

sem eru: frost, ís og bruni, vatn og eldr, ei einasta samteingt, heldr og látið hvað annað upphvetja, og hvört öðru viðhalda.

*XXIII. Um Mýrðalsjökul-gaungu í leit eptir Kötlugjá,* 1756.

55. Nú vætt sagði sættir,
sefn finn Kötlu minnar,
hríð kvað draga úr heiði,
himin græn-jökul mæna;
hár skulut kvað skera,
skararland vaxit standi,
lætr við kinn-skógar skrautin
skolla[1] lausum þolli.

56. Statt upp, ferðum flyttu!
fák ký, vitja býar!
sol liggr, Sjofn hvílir,
senn rís, brautir lýsast,
hýrnar snót, fannir hjarna,
hlym vex, jórar glymja,
kom skoða! kven ljóðar,
kyrð þigg! eimi liggr.

Skáldið segir einhvörr hafi í draumi til sín komið (og gjörir sèr í lund, það hafi nokkurr talandi vættr verið, eptir því sem síðar bar raun vitni um) og sagt nú væri komið gott jökulgaungu veðr, og mundi ferðin greiðliga takast, því Katla væri nú í góðu skapi; vildi hún þeir væru skeggjaðir menn, er sig heimsæktu; lèt hann sem hún ljóðaði á þá, og byði þeim hjá sèr náðir að taka, því nú væri ekki eldrinn uppi.

57. Vakinn vark at bliki
viðblán[2] Dellings niðar
lýsist, hverfr hræsin[3]
heiðvætt, mökkr eyðist;
laung var leið at ríða,
ljón und' jökli flóna[4]
taums ok hýrnar í hamsi
hestþægendum vestan.

58. Sem steinlögðum ljónar
leiðast at jökli reiðar,
heiðingjar[5] of kjöl klifa
kaldstorkinn vatns öldum;
sand-turnaðr reitr saurnar,
sí-málg þrumdi gíma,
stukku vèr yfir, en okkar
jóra beið draumnjórun.

Þegar hann vaknaði, segir hann draummaðrinn hafi horfið, og dagr runnið í því, en fjallþokuna burttekið; hafi menn þá af stað farið, og riðið hart undir jökulinn, og síðan uppá hann, því hann hafi í fyrstu slèttr verið, en brátt vesnað af sendnum jökultyppum, og af undir fossum grenjandi gjám, hvörs vegna við höfum við hesta skilizt og áfram geingið.

59. Veðr-spá nam ek væða
vegfúss ólpu pússi,
eirðit henni sú en harða
hrímaukin kol-gíma,
þoldit hlaup þóat hèldi
hönd mín rúmi þínu,
brast hún, en kaupa-guð[6] gisti
gott sandjökla þjóttu[7].

Hann kveðst borið hafa hitamælirinn í hempu vasanum, og haldið um með hendinni, en hann hafi brotnað við það við urðum opt að stökka og klifra yfir jökulgiárnar, svoað kvikasilfrið hafi niðr farið og týnzt.

60. Hríð óx hörð um svæði,
hèllt snjó skýa ljóra;
laung var leið at gánga,
laust andviðr at austan;
knúðu vèr stólpa kviðar,
kol vikr ís-hvola
nágaunglir vurðum vángi
Vímrar fljóðs í gjá brima.

Nú tók veðrið að vesna, með sterku mótviðris fjúki, en vèr sóktum gánginn austreptir því ákafligar, svo vèr komum i nánd við gjána.

61. Án var Ýmis beina
ei tún Háloga rúnu;
borg stóð hol yfir hergi
hrein-byggð smeltu-steinum;

1) forsmáir, slær við skolla eyrum. 2) himin. 3) hælin, hólsöm. 4) hitna. 5) vargsheiti. 6) *Merkúríus* (ɔ: kvikasilfrið). 7) harðlendi.

mitt undir görðum gettu
góða hvild tóku móðir,
þó hugðnt þat væri bygðir,
þær til ætlat væri.

Liggr hún í hraunbrendum hamra-girðingum jökulsins, hvar undir vèr hvildum oss í hríðinni, vitandi ekki að svo nærri oss var sá staðr, er vèr höfðum tilætlað.

62. Brást vætt, brugðust sættir,
brott snèrum, leituðum jóra;
leiðarsteins hólpumst liði,
leið gekk vestr af heiði;
oran leik fundum farar,
fann maðr hvörr annan;
laðorð brugðit er brúðar,
bölva-smið heitum völvu.

Hèr segir hann, að bæði hafi draum-vættrinn brugðizt, og svo Katla, hafi þeir svo aptr horfið og geingið, eptir tilsögn kumpássins, vestr af jöklinum, fundið hestana og hina sína förunauta; að lyktum kveðr hann Kötlu stuttliga.

*XXIV. Um Kötlu undur, árin 1755 og 1756.*

63. Mýrdæll kæfir hèr kyrðir,
kveð ek enn of hlut þenna,
hrakligr í hærstum jökli
hver eldhrimnis þerru
fjandliga gefr grundu.
Guð minn, þitt lof innist!
Túnga meðr viðum vángi
væðist hrygðar klæðum.

Enn er hèr talað um Kötlugjá og undur þau, er úr henni hafa komið með eldi og eimyrju; því Skaptártúnga með viðlendum öllum umhverfis er svartþakin, sem hún væri í sorgarklæðum; á guðs almætti og gæzka í þessu að lofast, sem í öllu öðru.

64. Tvíelnt rofar úr raufu,
röggvum[1] gnóg eng ok skóga
þekr í fölska foki,
fló rögn sindra gögnum;
reiður[2] þá borur bræðir,
bjarg hraut í stað margðu;
fjórðúng ok helfnings it harða
höfgi rann leið þingmanna.

Hèr segir að svo mikið öskufjúk hafi komið úr gjánni, að það hafi legið 2 álnir hátt yfir engjum og skógum, (en miklu þykkra í lágum og giljum), að reiðarslög hafi farið í gegnum klettana, og látið brædd göt eptir sig; að björgin hafi viðs vegar uppkastazt úr gjánni, og einn steinn hafi flogið þingmannaleið úr Kötlugjá, sem vegið hafi hálfan annan fjórðúng.

65. Guð varð gunna reiðr,
gjall hraut lángt úr fjalli,
sást á Sauðeya vastum
sandr ok Hèraðs landi;
Breiðdæll eykt of alla
átti skamdægrs náttir;
dagr var dökkr í loga,
drjúgum brest-knettir fljúga.

Enn getr þess, að við slík guðs reiðiteikn hafi vikrinn hrotið lángar leiðir burt úr fjallinu, og askan hafi komið í Fljótsdals hèrað og á sjóinn við Færeyar; í Breiðdal var svartnættis myrkr um hærstan dag, og þó var allt lopt í einum loga að sjá, af eldflögum og ljósknöttum, sem sprúngu í sundr með hræðiligum brestum.

66. Allir veraldar olla
eima lok kváðu þeima;
skrugga vann skatna tvinni
skaða fjörs, ok mörum;
hygg ek skrið hálsa þriggja
hæð í fertugum stæði
mar yfir breiðrar báru
blik nær tveimr vikum.

Svo almúgi ætlaði heimsendir kominn vera; af þeim reiðarslögum, er komu úr gjánni, dó í Skaptártúngu maðr og kona, og alls 11 hestar, allir á augabragði; 3 vóru kvíslir hlaupsins, er líkast sýndist fjallhálsum, af hvörjum sjórinn fylltist tvær vikur út frá landi, svo að hlaupið

1) ferðir á fati. 2) skrugga.

stóð uppúr sjónum á fertugu djúpi.

67. Hlaups vóru mílur hálar
hnör drifandi fjórar,
var tvítugt flóð yfir Veri
vândt ok Mýrdals sandi;
jöklar ólga sem bylgjur,
í grend við þá brennu
þvarr ís, gnýpur við gnurra.
Guð minn, þitt lof innist!

En vatnsmegnið varð svo mikið, í hvörju þetta ísa og stórbjarga hlaup framruddist, að geingt var haffæru skipi, og vel í ám og lægðum á Mýrdalssandi og í Veri tvítugt djúp. Loksins segir hèr, að nálægir jöklar (svosem Sólheima jökull) hafi geingið, sem sjó-öldur, upp og niðr, og til fjallatindanna hafi verið stunur og þrusk að heyra: að á hærstu jöklum (svosem á Eyafjalla jökli) hafi ísinn merkiliga sigið og minkað.

*XXV. Um Breiðumörk, austrjökla og ár,* 1756.

68. Bær er *Brennukára*
bundinn falljöklum[1] undir;
vaxinn er ís þars uxu
áðr bjarkir láða;
stofnar framskjótast skafnir,
skækla svörð slitr úr jöklum;
land eyðist austr af móðum,
ei vað stendr þaðra.

Hèr getr þess, að jöklar sèu vaxnir framyfir Breiðumörk, hvar *Kári* bjó, og hvar beztr skógr var á slèttlendinu, því falljökullinn sjálfr og árnar bera framúr grundvelli jökulsins stóra trèstofna, torfur og svörð úr hinum forna jarðvegi; hèr segir og, að austrland taki mikið að eyðast af ágángi vatnsfallanna, sem aldrei hafa sömu vöð eðr farvegi.

*XXVI. Um myrkviðrið í Alftaveri 6ta og 7da Okt.* 1756.

69. Var í Svanaveri
vist ill, Kötlu mistr
kaldakol þá er höldum
kaus ból eign sjóla;
nasar, augu, eyru
ok tenn dökkvat kennir
vikra dust, þat er of vastir
vall hreins smugur allar.

70. Furðuligt þat þókti
þröstum mèls sjónir brustu;
kunnak, kvað hvörr annan
kolskeggjaðan seggr;
sína mynd orpna sandi
sjá-at manngi knátti,
en viður hvörr annan
áleit frænings reitar.

Okkr þókti íllt að liggja (í Kötlugjár sandrigníngu veðrföstum) á Herjólfsstöðum, kóngsjörðu í Alftaveri, hvar bændr höfðu (fyrir elds uppkomunni) gjört kaldakol vetrinn fyrir; lágum vèr þar í einum eyðibænum; í myrkrinu fyltust af vikrsandinum nasir, augu og eyru á oss, já hann fór uppí munninn og ofaní lúngu, svo hor og hrákar vóru alsvartir; hestarnir urðu sjónlausir, og menninnir svartir í framan, hló þá hvörr að öðrum, því hvorjir sáu aðra, en einginn sjálfan sig.

*XXVII. Um burtför úr Viðey* 1757.

71. Loks fer ek heiman í húmi,
hneigik skör Viðeyu,
sat ek í sessi' Abóta,
sinna rèð Heljarkinnu;
mynnumst til höfuð-hvanna,
hrós fám bjarga rósum;
fyri bið vetr fjóra
frævist dag ok æfi.

Nú segist Skáldið fara heimanað alfarinn, þó mjög sè á daginn liðið; kveðr hann Viðey með lotníngu, og minnist þess, að sèr hafi skemtiligast þókt á Heljarkinn (sem er hár og víðsýnn hóll með klettum skamt fyrir sunnan bæinn), og opt hafi hann setið í Abótasæti, hvört að er sem stóll með tröppum und-

[1] svo kalla Austrlendíngar jökla þá, er vaxa niðr á undirlendi.

ir, móti útsuðri í greindum klettum, framaní Heljarkinn; hann kveðr nú með kossi þær tvær ágætu jurtir (er vaxa í Viðey og þeir *Bjarni* færðu úr sjóarklettunum uppí Heljarkinn og gróðursettu þar) Höfuðhvönn, (Sæhvönn, *Angelica Archangelica*) og Bjargarós (Burn, Blóðrót, *Rhodiola rocea*, hvör í blómstri er rósu lík að skapnaði og ylman); þakkar hann þeim fyrir 4 ára yndisliga samveru, og óskar þær megi blómgast og margfaldast um aldr og æfi.

*XXVIII. Um látúns steina á Akranesi*, 1757.

72. Herjans kvânar ok heina
Hlès sáðlanda nesi
leit ek á klukku litan
líka Kalmansvíkr;
undir saltaðir sandi
sitja glátúns þvitar,
hèlugir at Reykjarhólum
hafa súr, firri kafi.

I Kalmannsvík á Akranesi sáum við steina með klukku-koparslit, hvörjir sjó og landi jafnt tilheyra og finnast, af nokkurskonar málmblandaðri seltu grómteknir, niðri fjörusandinum í smástraums flæðarmáli undir Rauðalækjar - ósi. Samaslags steinar finnast og nærri Reykhólum (í Miðhúsa-eyum) og sezt utaná þá hèla af súru salti, nær þeir eru teknir úr sjóar-leirskafinu og látnir leingi standa í frjálsu lofti.

*XXIX. Lykt kvæðisins, og um viðskilnað við Island*, 1757.

73. Ferð er í Patreksfirði
fullenduð með öllu;
full er Ferðarolla,
far tekit á búlka mari;
höfuð allsherjar ek leyfir,
hann nam våskeyti banna;
föður gjörik minn ok móður
með ættingjum kveðja.

74. Ut er ek borinn á báti,
ber hnakkmiða gera
vindr af vestrlandi
vaðandi drafn til Hafnar;
gnýpur hamlúngi hlaupa
heimkynni frá minna;
föðurland horfit liði
lif val, Kristi falit!

I þessum 2 seinustu vísum telr skáldið ferðalag sitt yfir Island og efni kvæðisins endað, eptir að hann hefir tekið sèr far til Kaupmannahafnar með Patreksfjarðar skipi; hann þakkar guði fyrir að hafa verndað sig frá öllum slisum; að lyktum kveðr hann Island og felr það guði.

# Framverpla.

*Um ýmislig framvörp og umbiltingar Islands á seinni árum.*

Naðr skrapanda skráði
*Skúla* getu múla,
sýðr-a[1] runnin reiði
róligt gall hèr á bóli;
leikr grunr fyri gaukum
gott lýtik af *Totta*,
hagar ráð at þú rægir
rekk vel síknan ekki.

2. Skal-a Framverplu fæla
fníkr minna líka,
stefni Gunnlaðar gufna
glaplaun[2] mèr at raunum;
veit ek at skáld munu skreyta
skapfróð lofi góðu
dvergalið þat, er af liðr
lastvart oru hjarta.

1) sýðr eðr seyðir ekki. 2) *glaplaun Gunnlaðar*: skáldskapr.

Hèr er inngángr Framverplu og áeggjan til hennar að framgánga djarfliga, þar hún hafi góðan málstað.

3. Skriða til skarar óðum
sköp vånd æstu banda,
föl er markaðar málum
mín. jörð feðr vorðin;
nafn þitt stærandi stefnur
stendr á brautar endum,
máltak verðr á virða
veg ok húsa regum[1].

4. Aka typptum eykjum[2]
alvalds menn til hallar,
riðr einn, gengr aðar[3],
uppboð þitt at skoða;
Hafnar gerist hróðrefni
harð auðn móðurjarðar,
hvörr frág árit fyrra
fingr bákni[4] á þingi.

5. Heim sák af himni komu
húngr-morð at borðum
frera bjóðar[5], þá bárust
buðlúngs fèn[6] til hennar;
hlægði[7] þat dólga dygða,
drengr við gugnar einginn,
saðr[8] er burðr at boði
búa lífs ok vífa.

I þessum vísum nefnist hið fyrra uppboð landsins, þann 10da Maí 1758, og harðindin næstliðin ár.

6. Öll er í fúna fallin
framvarps hæsi garpa,
staðin[9] sofa ber á blóðum,
brúkorð verkin forðast;
veldr orm-vefju skálda
vefnaðr mærðar efni;
lítit var haldit af heitum,
hirð[10] mæt þar at gætir.

7. Kennir um *Skúli* skjanna
skarpodduðum *Todda*,
vellglötuðr hefir heitit
heiðsjót dregr at greiða;
skjöldúngr mal ok meldr
móttakandi[11] gróttu
sínum fèlaga fenju[12]
fljót spennandi[13] njótum.

Um þessara tíma framvörp, og hvörsu á þau er endi bundinn; líka um ofstæki sumra framverpenda, að þeim þyki jöfr og ráð hans ei nógu fljótr að greiða það allt, sem um er beðið.

8. Um kennir manngi manna
míns lands foristu sínum
völdum, at hitt sè haldit,
hún vill, takist ilia,
sízt[14] guð ok náttúru nauðir
nekkviðar[15] öllu hnekki,
æsta þat himin æstir
einvald höfgi gjalda.

Þeir vilja ekki það láta við veðri komast, að hjá mönnum sè skuldin, heldr á guð, og náttúran fyrir hann, því að valda, að lítil er orðin framkvæmd föðurlandsins velferðar.

9. Gat vel fækkat vítum
vild fèlaga mildi,
öðlings ofr stuðlat
er fjám þinnig kvámu;
kveð ek sva at eingir ifi
afsprings Snælendinga
vèldir[16] skrum-rita skvaldrum
skeið afvegu leiðast.

10. Hèr er orsök, at harri,
hví rekkum trúir ekki,
föðurlands þó at fóðra
frón góð kaupum bjóði;
hrundit er gift úr hendi
hjarney[17] vårra barna;
nauðigar þykkjast þjóðir
því gligt hinnug sigla.

Nú eru taldar í stuttu máli nokkrar skynsemdir til þess, að framför landsins hefir svo lítil orðið.

11. Enn er hún öðru sinni
allfal handar sali[18],

1) *rega:* röð, lína. 2) toppuðum hestum. 3) annar. 4) að benda til með fingri. 5) Islands. 6) *fèin:* peníngarnir. 7) gladdi. 8) sannr. 9) sem staðnar flautir eðr staðnaðar. 10) hofmenn, vildismenn. 11) þeim móttaka skulu. 12) *fenja:* ör. 13) eyðandi, frádragandi. 14) fyrst, því að. 15) naktar (berar, auðsjáanligar). 16) tældir, gantaðir. 17) Island. 18) föl handsali.

boðin at heyranda hljóði,
hlutað í fimtán staði[1];
käup rein ríkja Danum
rið ólm Garðarshólma,
neisu-geri Nikulásar[2]
nokkurr ei þeima degi.

12. Utį tèr Ymis grátr[3]
eylandi vað heila,
þoku dregr upp fyrir eikur
atast manna gatur;
býðr öld, hafnar auðar
ern tólf[4]; þiðri gólfa
nú vildu nokkrir halda
nánd hángs[5] oru landi.

I tveimr seinustu vísum er talað um síðara uppboð landsins þann 6ta December 1758, og hvörsu viðraði þann sama dag.

13. Vatn ok hindr-vitni
varð lopt háfa jarðar
boðreifenda[6] ræfr[7]
ragndul hallar[8] magna;
veit ek at sjóli man vita
vetmímis[9] stað ok tíma,
algerða[10] viðr[11] er orðum
alheims stærast[12] halir.

14. Tók tvíbura ríkis
tiggi, þá er nyrðra liggr
blá umbergis[13] ægi,
bjarnar vast á hjarni[14];
*Friðrekr* hefir enn hèðra
hólpit búa stólpum[15],
mörg af buðlúngi bjargast
börn und leiðarstjörnu.

Hèr segir að ekkèrt hafi orðið af uppboðinu, en konúngrinn hafi tekið höndlunina.

15. Enn veitk-a, hvat vinnr
varðhald fóstr-jarðar,
borit hafa sult ok seyru
Sif menn jökul ennis[16],
sex er verðúng vissi
vetr hvörs er at geta;
lokit er ljóst fyrir ríkum
landsvell vala strandar[17].

Þetta er kveðið um hallæri og peníngaleysi landsins.

16. Þrumu þorska grímur[18]
þjóð lá-hjálma tróðu[19]
björkum[20] undir en jarka
ein látin hóf kveina;
máttu þá svá at mettist
maldr[21], vistir gjaldast;
sekir gerast snápa makar
snauðs úfeitis dauða.

Hèr er talað um höndlunar fèlagið, hvörnig það hafi höndlað, og um óbóta-sakir því gefnar.

17. Skipt er um skreið fyri
þóptum,
skrefum fullum þar til brèfa
formenn vísa vârir
velært svá þeir telja;
skilfingr mælir mjölva
mærr eingan þeim færi,
meltan við fisk án malta[22]
með þrifum vel lifi.

18. Alvaldr sendir þó sálda[23]
sjö þúsundrat þundum
voga lands tjalda veiga
vildis af Dana mildi;
vel rakkir vega þykkjast,
veit gnð hve þeir heita
frumvörpuðir, er á verpa
vârt land skæði[24] bandi,

Landsins höfðingjar hafa skrifað sumir, að litið eðr ekkèrt þurfi mjöl til landsins, en kóngr sendir þó 7000 tunnur.

19. Ráð ok hrittu reiði
ragnvaldr himin aldar!
syndugu lýðs af landi

---

1) Höndluninni var skipt í svo marga staði. 2) Nikulásar messu ber jafnan uppá þann 6ta Dec. 3) regn og þoka og saurugt fyrir fæti var þann dag. 4) eptir uppboðið vóru tólf hafnir óseldar. 5) *þiðr hángs gólfa*: skip. 6) hreifenda boða, nl. þeim er uppá buðu. 7) *ræfr háfa lopts*: is. 8) hallar rögn, *aulæ numina.* 9) *vetmímir:* himin. 10) allra verka. 11) með. 12) verða miklir. 13) það bláa haf, er liggr umhverfis. 14) Island. 15) bændrnir. 16) Islendingar. 17) landsins gull eðr silfr er burtu. 18) Islands höndlunar fèlag. 19) Islenzkir. 20) *jarka björk:* fótur. 21) korna matr. 22) malað korn. 23) tunna. 24) skaði.

ljúg-fróð ilska kúgist;
settu döglinga drottin
dagþing guðleysingum!
upprættu dygða drottin
dygðaleysu af bygðum!
20. Guð! mantattu góðum
gleyma' í þessum heimi;
trauðr em ek óðar
iðju þik at biðja,
verðleik minn er ek virði
vettugi. Guð fyri þetta
Islands óvinum haslar
ángr[1] villu at gángi.

Til lyktar er falin í þessum 2 seinustu vísum bæn til guðs, að hann vilji taka burt frá landinu þess syndir, en miskuna því og straffa ei góða með þeim illu.

# Rúnu-Galdr.

*Um þá töfrunar íþrótt, með hvörri náttúran hefir gædt kvennkynið.*

Rúnu[2] galdr ek
ramstan vissak,
sá hefir flestum
á knè komit;
kvennlig fegurð
ok kurteysi,
hæverskt allfrjálsligt
æði[3] rúnu;
fögr augu,
munnr ok mund,
skært málfæri,
meyligr vöxtur,
fljótt sú kýngi
fyrst töfrar
líkams alla limu;
fylgi vitrleikr
vænleika,
mannkostir ok
íþróttir,
kænlig dyrfð, en
klókskapr
falslaus annat
allt drýgja mun,
nýtir ok prýðir;
nú er allr
sá framiðr seyðr[4].
Fyrr[5] kýngi laðar
líkams girnd,
svå mun öndu
seinni veiða;
man ek eingan svå
mikillátan,
horskan ok
harðgjörvan,
illan ok
einráðan,
stiltan ok
stöðiglyndan,
vitran eðr
velkunngan[6],
at hann eigi við
atkvæði þau
forviðri færi.
Heimr allr
hniginn liggr
fyrir þvílíkri
fjölkýngi;
þá tel ek rúnu
ragna fyllda[7],
þann er galdr gelr.
Fyrri munu töfrar
fól æra,

1) þraungr vegr, *líka:* fjörður. 2) *rún* eðr *rúna* er kona í fornyrðum. 3) *æði:* eðli, eiginligt háttalag. 4) *seyðr* er galdra tegund, sem guðirnir gáfu gyðjunum, en karlmenn máttu ei brúka; meiningin er: nú er eg hèr búinn að frambera allar þær töfra tegundir, sem konurnar brúka. 5) sú fyrri kunnátta eðr töfrar kvenna, sem í líkams háttum eru fólgnar. 6) kunnáttu-mann, vellærðan. 7) sú kona er full af andargift og krapti guðanna.

seinni hygginn
helzt vinna
hal, samfara
hvorttveggja bezt
þó mun vitran vèla.
Heimskliga svinnum
hvörgi sák
fyrri vera
verða í nokkru[1];
þó mun spakr maðr
mest dylja
öll sín afbrygði;
hittir rúnu þá,
hvorttveggja kann
góðu heilli getinn.

# Fullsæla Martíalis.

*Snúin á Islenzku eptir orðunum.*

Sællífi gjörir
(ek segi) þetta:
mætsti *Martíalis!*
erfiðar eignir
heldrenn aflað fè,
ekrur áburð launi;
sí-nægð arins,
aldr ei þræta,
sjaldan málasókn;
kyrð hug-kofa,
krapta frelsi,
líki þat er heilbrygð hefir;
vitur einfeldni,
vinir jafnteknir
ok auðfenginn matr,
án brjálsemi
borð; nætr án
ofdrykks ok umhyggju;
óhryggt hjónaband,
þó hreint; stytti
svefn-ró svartnætti;
at þú vilir
vera hvat ert,
ok ei girnist annat;
hyrðattu hræðast
þann enn hinnsta dag,
bið ei at hann bráðum komi.

# Fridreks Drápa.

***Um sorgligan aldrtila, dygðir og söknuð Friðreks konúngs ens Fimta, kveðin í nafni Islendinga og tileinkuð Kristjáni konúngi Sjöunda, 1766.***

**I.** *Upphafið. Hrygð yfir allt við Friðreks konúngs æfilok.*

Vakna fugla frækn at hugli
farnar tams í arnar hamsi,
reynir svif at hunángs höfum
hugr minn til fluga þinna!
Són í botn, ef seynir jötna
súpa, frýs ok drjúpir ísum?
endr berat andi mærar
eigur skálds úr veiga sáldi!
2. Þiðna sèr ek Boðnar báru;
bið er laung á griði saunga;
mæðist tröll at mjaðar vellu
megi sleppa legi greppa!
hvata muni' í hvítum dúni,
hviðu mærðar iðu færðu!
fljúgðu, dreyr í flagða byri

1) öðru enn þessu (kvennafari).

fræða víni' á ræðu mína.
8. Herja pati hvörju sætir,
hrygða boð ok frygða voði?
vestan blæfar bezta lífi
burtu tið ok urtir friðar;
norðanvindr, virðum grandar,
vægra sjót á dægra mótum,
kvöld ok morgna kulda stirðnuð
kveljast blóm at heljar dómi.
4. Eystrasalt ok ostru hviltir
Eyrarsunds á leiri fundust,
gángast mót í straungu striti
strandar bárur landit gára;
tamin vötnuð þruma þrútnar,
þrammar hler á gamma veri,
sjá at bónda bæum sendir
ballr gjálfr í hallir sjálfar.
5. Eptir liking aptr takið
æði vinds ok flæði strindar;
lukku þurð oss gekk at garði,
guðlig nauð í buðlúngs dauða.
Hróðra skamti *Friðreks Fimta*
feigða sótt, er beygði dróttir!
*Friðreks* hafnit hróðrar efnum
háleit önd í máli vöndu!
6. Vilsu sótt ok heilsan hittust,
hel ok líf í seli tifa;
seinast þreyttu' um Dana drottin
deyð ok fjör ok neyðir kjöru;
hafði stundum lofðúng landa
látinn þegn í gráti fregnat,
eptir heilan aptr kvalinn
öðling kvilla stöðla milli.
7. Heyrið staðir, harrar, lýðir!
hljóða radd, er þjóðan kvaddist;
bjöð und högfa bauð úlifgum
bjarga mold at fargist holdi;
hremmi fölr hrammi svalum
höfuð Dana jöfra bani;
þeigi vargr vægir mörgu;
vesæl drótt þat lesi' ok óttist.
8. Kvittr áðr, satt fer siðan,
sjóla deyð, er jólum eyðir;
feigðar orð á hrygðir herði,
hvorgi þrjóti sorgar nótur!
skógar, fjöll ok skagar allir
skundi vakin undirtaki,
skatá dauðu skot ok leiði,
skýla drauga býli' í haugum.
9. Öld er skarð í skildi vorðit
skynja menn ok stynja nenna;
bjartar sveipast sorta kápum
sveitir ræsis teiti læsa.
O! at tröll af trúar villum
týrum refðis dýrum hefði
vestr einu eðr austr spannat,
æskja þeir ok ræskja fleira.
10. Drottins reyfið réttu lofi;
ríkis-stjórn á líki fjórnar
jöfn er höfuðs himna, gæfu
hærri jafnt ok smærri skamtar,
þakkaleysi þekkir hræsit,
þegna syndar hegnir yndi;
kónginn bjóg um lánga legu,
lifna rèð í hifna gleði.
* *Hróðrar skemti! Friðreks Fimta*
*fellr hrör ok spellar fjöri*
*lýðar! hafnat hróðr-efnum*
*háleitt önd í máli vöndu.*

*II. Lofræður um Friðrek konúng og hans góðgjörðir.*
*Söknuðr.*

11. Oss er hitt, at missa máttum,
mærik enn ok bæri penna,
skjöldúngs dygð ok hildings hegðan,
harma ljóstr í varmu brjósti.
Ynglings sinnis engla könnuðs
æskiliga gæzku tregum!
Danir, Norðmenn, vinir virða
vísa hrós í þvísa ljósi.
12. Era þjóða þeirra nauðr,
þoptar mærð at optar færðum;
súngu fyrr ok sýngja nærri
siklings þrátt um miklan hátta.
Viljum heldr velja skáldi
vislig þing sem Íslendingum
bragnings hefir hugnan ofit,
Hræfa svelgs at æfi velgist.
13. Fyri sex ok fjórum hugsak
fræðar árum kvæði bárust
kviks af gjöfum, klaka sefi
kennt þat fèkk, en prentat ekki.
Smjaðralaust kná *Friðreks* fóstrar
fagr nefna bragar efni;
anna leyfit en vèr hafim
yfir farins klifan spara.
14. Dánir allir Dana stillar
dygða hljóm í bygða rómum
Ísa vánga fúsan fengu,
flotnar enn ok gotnar kenna;
frömuðr hvörjum fremr þeirra
*Friðrekr* samt af iðra skamti

meldr Gróttu valda veitti
vern ok hjálp at ernir stálpist.
15. Glasis klerkar kusu bjarkan,
kjöru fleiri' af örum meira,
vella fundu fullar hendr,
frèttu mætar rètta-bætr;
snauðir verði fjáðir firðar,
fæðist múgr gæðings rúgi;
saknit veikr lækna líkis
ljóna gildir fróna vildi.
16. Lærðir kaus at verði vísi
valda bragnar ald at gagni;
náttúrligri nýtta þægri
njóti bændr ótal vænda;
handar-yrkjur endr-verkist,
ofnir dúkar lofnum hjúki;
feldar aktist aldin-ræktir,
ax á búi vaxi hjúa.
17. Slíkar þótt í þoku nátta
þjóðans hyggjur móðar liggi,
vaknar láð ok viknar hauðr,
verkin frýn er merki sýna;
kóngr himins húngr beimum,
hreggja nauð ok seggja dauða,
smala fall ok smyla villur
smeltu brendar eltu, sendi.
18. Ef at blessan ofan missum
ekki tír at hnekkja ríran;
ef at guð oss gæfu reiðir,
gott er allt ok totti' í salti.
Mönnum anda sinn ef sendir,
sannleiks orð, ok þanneg skorðar
Kristr ráð til reistar ljóða,
rekkar vándir ekki granda.
19. Sorgar unnur mörg er manna,
mæring látinn kærir grátr;
kættu spár und' kletta múrum
kyrða rans oss hyrðulausa;
reiðir slógu guðs ok geigar
gálaust hold ok brjál í moldir;
skipumst vel, er skapi sólar
skepnum bending heppna sendir!
20. Æ! hve fölr, æ! hve svalr
ertu, stillir! kerta milli;
hvar er sjón, er fjöra frýnar
forða stönd á norðrlöndum?
Hlægir oss, at eigi missum
ástar gram í skárstum hami;
feðr negg er niðar hyggins,
njótum þess ok móti blessum!
* *Hróðrar skemti; Friðreks Fimta* o. s. frv.

*III. Ulfarar minning konúngsins.*

21. Lifðu gylfi, leyfðu fölvan,
lengi vel, at þengil fela,
*Kristjarn!* sif í gesta grafir
gísla þing oss Íslendingum!
Þúngu hríðar þengils dauða
þat með böli' ok harmi svölum;
svaslig *Friðreks* sýslan hèðra
sál í munaðs háleik uni!
22. Nás er allt í húsa hviltum
hilmis svart ok dilmit hjarta;
byrgja kann-a sorgir sinna
sjóla lík á stóli ríkis;
burt er krónu birti steina,
bjaðar hrörna glaðar stjörnur;
gull í skatna skrölli hvítnar,
skilfings blekkist silfr rekka.
23. Hilding smyrì fjöldi fíra!
fúa vant af trúar panti
skuld hèr lífi' um aldr ok æfi
öðlings lof ok röðlum ofar!
Vefjist inn at rifjum runnit
ræsis hold í æsu moldar!
flóni kærleiks funa gerla
freðinn nár í geði váru.
24. Ylfing, meiðir elfa glóðar,
undirsettar grunda stèttir
leiði, sem at ljóði sæmi,
leggi til af neggja skili;
beini rúfa græn[2] til grafar
grjóta lín úr hnjóti sínum,
brunnin ei nè finnum fúnuð
fáu lök í náa þökum.
25. Hilmi Garðars-hólma virðar
Heklu gler án eklu beri;
dökkan steypi stokk at hjúpi
storkit fjall í orku gjalla;
bráðin feiti bjaðar lauta
blossi glampa' úr ossum lampum;
Dana ljómi' at dvínan heima
döglings hrer í þöglu veri.
26. Norvegs klettar hverfir hitti
hjarla varð, er karlar jarða,
höggvast láti hryggvu ritum
harma sýn ok marmara rýni.
Meiti Finnar fitu tanna
fagra grein at hagra steinum,

1) *Gróttu meldr* og *Glasis bjarkan:* gull. 2) *græn rúfa:* Grænland

gróðr-setl ok leiði láti
lofna girða stofnum hirðis.'
27. Danir safni dánar efnum,
dyggir grafar bygging hafi,
reisi meir enn Másóls harra
minnisteikn er inni reiknat;
döglings halla dregli gulli,
dýrum þvitum ýrið glitri;
ástar mörkum mestu styrkist
mærings nafn ok æra jafnan!
28. Nú er hafit háa jöfrs
hold, at út til foldar lúti;
þjón í ópa þínum svipi,
þengill! bylgjum lengi fylgir;
af því getit höfðum heita
hildings ást ok mildi dásta;
síðan þinn sæði hlýni
snífin þjóð með lifi' ok blóði!
29. Lávarðs uppi lof á klöppum
lifi rist ok skrif í kistu;
feðra jörð sè *Friðreks* varði
fjalla stoð, sem allir skoði.
Sjáum gögnum skýa skygni
skjöldúngs mynd um kvöld úyndis,
vetrar slóð er glitrar gæða
gjörn við menn ok stjörnur henn-
ar.
30. Lifir eik þó lanfit fjúki,
lifir skati' í hifin-bata;
Kristi venzluð, hreyst af hunzli
hans er önd úr sansa böndum.
Lèttu brastið litt af dusti,
leiðis hellur! reiðis vella,
mosk er yðar ósk ok heiðr;
æðis spenjum gæðings menjar!
* *Hróðrar skemti!* o. s. frv.

*IV. Til Kristjáns konúngs hins Sjöunda.*

31. Kæfist sorg ok sefist ergi,
syrgit menn of myrgin þenna!
bragnings sunna sögnum rennr,
sætis ekka gætir ekki.
*Kristjarn Sjöndi* lyst er landa,
leið í *Friðreks* reiða viðri;
hlýddu orum Eddu færis,
úngr jöfr!, túngu gjöfnm.
32. Þínum feðr einatt áðr
óska brag und' brjóski flaga
skatnar völdu' at skytnings gildi,
skeyttum keppt ok breyttum eptir;
munnr snáði *minna* röðum
móður vessi hlóðyn blessar;
leyf þik mærum, lofða stjóri!
líka bónum ríki gróni.
33. Tölum Dana mál ok muna,
merki forn í verka bornum;
gramr virðst at geyma stærsta
gersim, úngr, þersa túngu!
Faðir þinn var góðr gunnum
ginnu svells í hrima felli;
nauðr enn er náðar þinnar,
nauð er beygjumst dauða-teygjum.
34. Valla, gylfi! gull ok silfr
gagn er ort í fagna skorti;
blessi guð þá ossum auðar
ítri spinnst í vitru þinni!
Hirðis vit er verði hetra;
veit oss auð, er neyta snauðir!
siðir fornir, guð er girnast,
gæða land í mæðu standi.
35. Friðrissúngar, smjaðrá
saungar,
sufl á braut ok kuflar þranta!
*Friðreks* arfi' í æðra stirfinn
orði dróttins skorðar þótta!
*Friðreks* ymr stríðra strauma
stúra grandit múri landa!
*Friðreks* söknuð saðra læknar
sonur þegna vonar megni.
36. Guð þèr vesi gleði, ræsir!
geri tára ver at klárum
hvötu vötnum! biti batni
bygða vigr í dygða sigri!
Heitmey þinni þótti sennjur,
þetta dis úr, Bretta visis,
sælar varar hvela hrærir
hrjóðra miði, góðri biðr!
37. Ekkjur kónga klökkar fángi
kæti náðar ætið báðar!
Hunángs kæran konúngs hlýra
Kristr geymi' í vistum heima!
Dættr kónga ok ættar ángar
Aldinborgar, faldir sorgum,
hressist, blómgist, hnossum timg-
ist,
heimi stofn unz eima rofnar!
38. Riktu, kóngr! ræktu lengi
rètt ok dáð, ok pretti hrjáðu!
tundr lína fènda fjónar,
fjötra svik í tötra biki!
Ráðgist sæll ok auðgist elli,
ólgu vítis dólga sliti
*Kristi-jarn*, er kosta barna
Kristr, skárna vistir, árni!

39. Kveðr sveit at kvæða þroti
konúng, feðr, sona geði!
kveðr *Fimta'* at friðar skemtan
*Friðreks* sál í þiðra máli!
vætta kunnum vettugi henni,
vist ok hafn er Kristr sjafni;
kónglig aska' un engla páskir
endrlifnar, send at hifnum!

40. Astar gert í gusti björtum
greppa flaust úr kreppu nausti
sigli fullum seglum hyllis
sinnis af óminnis hafi!
færis hitti varir votta,
verði' í ljóða ferða hljóðum,
öld í hjá, er aldri deya,
ofsa vikit lofs í ríki.

# Ofsjónir

*við jarðarför Lóvísu Drottníngar*[1] 1752.

*I.* Fyrst sáust tvö fjöll uppúr sjónum; það fyrra, til vinstri handar, var jökull, hvítblár að lit, með grænum gjáu og svörtum klettum, sem hèr og hvar gnæfðu uppyfir ísinn. Þetta fjall var neðantil svartleitt og sumstaðar mosa vaxið. Hærst yfir jöklinum sást í loftinu þessi skrift:

Þetta trafið þínar sjónir hylr,
Ísland hefir ekki við
utan þetta sorgar snið.

*II.* Hitt fjallið til hægri handar gýs eldi og eimyrju; það er allt af brunnum klettum, með hraunsteinum, djúpum gjám og hvössum tindum; sá mesti af þeim, sem stendr í miðið, spýr rauðleitum eldi með þykkum og svörtum reyk, neista-flugi og steinum. Yfir fjallinu sjást þessi orð:

Sorgar blys með sorgar dymmum hljóðum
kveikir, stynr Hekla hèr,
hún grátkonu nafnið ber[2].

*III.* Amillum fjallanna opnast víðr dalr, sem hækkar meir og meir fram til eins háls eðr þverfells, lángt burtu; eptir dalnum fellr ein á, og nokkrir lækir út til sjóar. Skamt frá sjónum sjást grænar engjar og fagrir fletir, huldir sumstaðar með reyk og gufu, sem uppstigr af hverum og laugum; hèr geingr fè og allskonar smali með smalamönnum. Uppyfir stendr:

Þó engin grói, græðist fè og dafni,
hvera gefr þokan þykk
þessum blóma sorgar skikk.

*IV.* Leingst uppí dalnum, þar sem áin kemr fram, sitr kona nokkur á steini; yfir höfði henni stendr skrifað *Island;* hún hefir yfir sèr svarta kvennskykkju þraunga; undir stuttan niðrhlut, og silfrbelti um sig, þunna skó á fótum, litinn stinnan kraga um hálsinn, hulið höfuð með svörtu silki, og kvennhatt með silfr-

1) Sjón þessi var mynduð og dregin á pappír (af Skáldinu), þá íslenzkir lærdómsiðkarar í Kaupmannahöfn vildu, að dæmi borgarmanna, láta í ljósi harm sinn yfir fráfalli drottningarinnar; en fjárhagr þeirra leyfði ei útfærslu málverksins (sem krafði hèrum 500 rda. kostnað), samt var lýsíng þess prentuð á latínu og dönsku, en síðan útlögð á íslenzku, einsog hún nú finnst hèr prentuð.
2) *Grátkona:* svo kölluðu enir gömlu Rómverjar konur þær, er þeir leigðu til at fylgja sinum framliðnu vinum og vandamönnum til greftrunar, skyldu þær gráta og halda lofræður yfir þeim.

skildi; þessi kona hefir með öllu sorgliga ásýnd, styðr vinstri hönd undir kinn og horfir upp til himins; til hægri handar standa nokkrar kýr og blína á hana, sem þeim þækti hún að látum og limaburði óvenjulig; hjá þeim sèst þessi yfirskrift:

Bragð er að, fyrst baulur þekkja líka,
að Island bregðr sínum sið,
svoddan nautin kannast við.

*V.* Ofan frá jöklinum kemr andi nokkurr í manns líki; sá hleypir í loptinu steingráum hesti, og er allr í elds loga; þessi andi er einn af þeim fornaldar álfum eðr fjallvættum, sem fyrir stórtíðindum, manns látum, eðr öðru, sýndist í loptinu, viðlíkt og frá þessum hèr er sagt. Hann lítr elliliga og illúðliga út; er í dökkum búníngi og loðnum skinnkyrtli, sem tekr honum niðr á lærin; hann hefir mikið og grátt skegg, og kofra á höfði svartan, haldandi taumnum hestsins með annari hendi, en með hinni miklum eldibrandi, hvörjum hann skjóta ætlar yfir til hins brennandi fjalls; á hans hægri síðu, sem að snýr, hángir skjöldur, hvará sèst þessi kveðlíngr:

Nú er í moldu
nár horfin
drottníng *Lóvísa*
Danabót.

*VI.* Konan, sem les þessi orð, svarar honum, rètt ofantekin, með annari vísu, er stendr á bók þeirri, sem hún heldr á í hægri hendi, svo hljóðandi:

Hvað? *Lóvísa* lokað nösum hefir!
æ! þú segir sorgar-föll,
svoddan á við þessi fjöll!

Þareptir segir hún við sjálfa sig, harmandi sín ósköp:

Feiknar harmr frosna konu limi
brennir; frjósa brendir af
brúðar hrygð við tára kaf.

I tilliti til jökulsins á hennar hægri hönd stendr á nefndri bók enn ein vísa, hvar með hún talar til þeirra, er á horfa, á þennan hátt:

Þið munuð halda ís að ísi gjöri
tárin sölt; en saltið frekt
sízt er frosti vinnanligt.

En í tilliti til hins eldgjósandi fjalls, á þá vinstri hlið, sèzt önnur yfirskrift á spjaldi nokkru, er konan hefir frá sèr kastað niðrá jörðina, þannig hljóðandi:

Þó jökul-fjöllin fram að höfði mínu
skúti, trúa máttu mèr,
meiri vætta funinn er.

*VII.* Fyrir neðan fjöllin sèst það brúsanda haf, uppæst af stormviðri, hvar einn af þeim gömlu norðrlanda sjóar-guðum (Hlèr eðr Ægir) teygir sitt gráhærða' sköllótta höfuð upp ámilli báranna; hans ásjóna er slí-græn og reiðuglig, en munnrinn froðufellir. Inn ámilli þeirra tveggja fjalla geingr vík nokkur, hvar áðrgreind á og lækir falla til sjóar, er þar illt við og brimsamt. Þeir íslenzku fiskimenn eru að hleypa sèr upp til lendingar; sumir hafa hálf-fellt og hýma, hallandi sèr fram á keipana, hræddir af þeim nærverandi sjáarháska, og fyrirburði þeirra reiðu sjóar-guða; þeir vandræðast hèrum sín ámilli og segja:

Illviðrið, sem okkr hvörgi varði,
löginn blandar lopti með,
(lízt mèr þverra gamanið).
Æsast bylgjur, brimið fer að landi,
þar er bátum varla vært,
verst er þeim á sjónum fært.
Ægir, Rán, með öðrum hafsins goðum,
brenna' af reiði, sýna sig,
sjónum skvetta hræðilig.
Nær mun þessum neyðar undrum linna?
nær mun fiskast aptr eins?
aldrei verðr það til neins.

*VIII.* Þessar sjónir girðtust í

kring á þennan hátt: til beggja hliða vóru tveir stólpar, að ofanverðu samteingðir með tvíbendum boga; neðantil, skamt fyrir ofan sjómál, sèst í myrkum skugga rið eitt, eðr tröppugángr; þar upp kemr norðrlanda vítisgyðja Hel; hún er hálf náföl og hálf með hörunds lit, berhöfðuð, í blám kyrtli og knèsiðum niðrhlut; hún herbergjar sóttdauða menn; garðr hennar sèst öðrumegin riðsins, í dymmri þoku; hann er fornfáligr og lítt vandaðr, en þó háar girðingar umhverfis. Hel geingr upp eptir tröppunum, og lítr fyrir ofan sig drottningarinnar nafn, hún segir:

Hvert er komin
kona ríkilát?
mínir væri salir
vistarligir.

IX. Á baki við fjöllin og allar þessar sjónir sèst himininn með skýunum, í hvörjum þeir tveir bogar ná saman (eðr í hvörjum sá tvíbendi bogi er); undir þeim liða í loptinu tveir svipir, sem hafa ámilli sín drottningarinnar nafn með kórónu yfir og þessari áskrift, sem þeir svara Hel með:

Hún með lifendum
lifandi fór
til hins lifanda,
sem lifir of aldir.

# Drápa

*eptir Guðmund Sigurðarson, sýslumann í Snæfellsness-sýslu (móðurbróður Skáldsins).*

Mik hafa vættur vittan,
vegþings fór ek hingat
illu heiman heilli;
hvör atkvæði dura[1]
lásu mèr daprar dýsir?
dýr-jó-belti[2] lóu
fyrr; en nú Sviðris svarri
sefa[3] klakkandi gefr.

2. Fallinn er fur elli[4]
fyri borð, und' storðu,
fer ek hryggleika fari,
fer ek ofr heiði þvera;
en glikt er sem bönnuð
öll sè gánga mín þángat,
sem nú dyggiligt liggr
lík við trefja briku.

3. Æðlingr brá bráðla
bundins ró Guðmundr,
önd hefir farit til fundar
frjáð[5] stirn-harra láða;
hveim fást fegri dæmi
fyri nægð dauðans hægðar?
snælog leið fyrir augu
líf höfðingja snivit.

4. Veit ek minn vinur er látinn,
val munaðar sala
bazt hefir gjört, frá gestum
gekk um reit til hirðsveita;
Kristi hjá, sem hreystan
hafði gæðing í mæðu,
skilinn frá synda fúlum
fnik til himinríkja.

1) *atkvæði dura:* dyra dómr; hann var líkr nokkuð gestarètti nú; var hann samstundis stefndr, settr, uppsagðr og framkvæmdr. 2) *dýr-jó-belti: f.* jó-dýr-belti; nes og eyar kallast hèr belti sjóar, einsog sjór kennist landa belti; jódýr er hestr, hestr mar, mar er sjór, og kallast þvilikt rekið. 3) huga, talandi með ekka eðr grát í kverkunum. 4) áðr enn ellin kom. 5) *f.* friuð.

5. Hvar ro' hnáglæpa[1] sýrur[2],
hásillendr[3] illa
við þján í þýar raunum[4]
þorri flámælgi snorra[5]?
hèr-'ro fjáendr fjærri,
flokkr öfundar bokka;
hèr ráða man mærri
mín ást geði sinu.
6. Hvat æpa konur ok knapar?
karl, æpattu snarla!
hyggit af harma döggu
hverjan syrgja myrgin!
brott er hann, munu vèr hitta
himingólf[6] yfir sjólfan[7]
hlíra! mans er í meinum[8]
mátalaust at gráta.
7. Orum man fremri færa
fegins dag muna[9] regin
skuggsjá gerðir glöggust!
getr sýnt öðru betr,
vårs liki vinar hvörsu
vel liða man síðan;
manngi sælingja saunga
sjá meir, þá er hann heyrir.
8. Drjúpir heldr ok hrapar
heiðsvell á Snæfelli,
gugnaði sveit við sagnar
sif-trauð mærings dauða;
horfinn er stýrir starfa
stórkuðr hels fyrir orku;
þat stök lafði[10] þreyði
þreir góðmenni fleira.

9. Aldrei kvâm í kveldi,
(kveld heims fyrnist heldr)
öldúngr annar gyldr
yrmiskers við þersan;
ýmissir verar vesi[11]
vald hafandi maldrs
snjóa-gnúps fenju freya;
fá þeir ei slíkan sem áðr.
10. Far heill vinur vera
vegbraut, undrænu þrautum
frá til sjunna sjótar
sunnu grams! vèr unnim
dýrðlings iðn eðr orði
á spor feta þorim,
þannng spyrja[12] kjöl kunnim
kyrran til himins fyrra.
11. Brátt, nuz heilir hittumst
hvað ratandi þaðra,
brátt þars höldum háttu
heimspekings á þingi;
vemál vitringar dæma,
vemál fæða sálir;
guðs er hugr, en hæga
hvíld dýrðlinga vildum.
12. Hèðra lák; eri[13] lokit,
lín gulls, harmi þínum!
nár und' foldu fari
fann önd gleði-ranna;
helft rèðk tveggja tylfta
telja nákviðar helju;
bundin tel ek öll á enda
orð dræplingi forðum.

---

# Um Hallgrím Pètrsson,

*kveðið að bón* Þorvarðar *prests* Auðunarsonar, 1762.

Mik bað um messuklæða
mistilteinn, er ek gista,
hrós-vinnandi[14] vísu,
varð þat at Þorvarðar.
*Hallgrímr*, einn fyrir öllum
álm-spennendum sálma,
reynslu knátti Krists pínslar
kveða þing Islendíngum.
2. Varð altara verði
við Hval-ángrs siðu

1) hnáar eða knáar til glæpa. 2) *sýr:* gylta. 3) *hásillendr:* hátt eðr drjúgum hángandi, liggjandi eðr hýmandi við eitthvað. 4) *í þýar raunum:* í þrælkanar mæðu þessa heims. 5) *snorri:* snerrinn, óþýðr. 6) *himingólf* staðr á himnum. 7) sjálfan. 8) það er breiskleiki stúlknanna. 9) hnga (sjá Ol. k. helga sögu). 10) húsfreya. 11) veri. 12) rekja sporin. 13) *f.* veri. 14) æruverðugr.

góðum bygð af guði
gengis hans tilfengin;
stýrði við ástar orðum
íðulum hærstan biðja,
þann er ósk-maga[1] minnist
myrkr án þeirri kyrkju.
3. Kenni- mætstr -manna
mærð guðliga færði,
marga' er af meini borgit
mjök fèkk andar rekkum.
*Pètrs* leyfir unz lifir
land *son;* hallar[2] andsa[3]:
minnis, Is-fyldir[4]! unnit
aldrtila því skáldi!

# Vísa

*um lát Páls Bjarnasonar Viðalíns, sem dó í Lipsigu,* 1759.

Fregn kom, fór ígegnum
feigðarlok úr þokn:
*Víðdæll,* sá er veitti góðan
varning, arfi *Bjarna,*
bóknám brást láhimins
bjóð lètti við þetta
*Páli* mold hveim und' hylr
hand saxversku landi.

# Vísur

*um Jón biskup Arnason.*

*Arnasonur* um Isaland
upp nam fræðum halda;
hann ef væri' ei hèr íbland
hvörs ætti' hann að gjalda?
2. Siðugr, lærðr, lasta-var
linna tærði sessum;
hvörsdagliga hreinn og spar
hlýddi saung og messum.
3. Dramb og ágirnd firrtist frá,
flærðar sneyddr málum,
elskaði guð, og aldrei sá
eptir drykkju-skálum.
4. Því skal mæla makligt hrós
moldum guðs þènara:
kveikti' hann upp í landi ljós,
sem lýðir eiga' að skara.

# Kvedlíngr

*um enn sama.*

Eptir lifir mannorð mætt, þó
maðrinn deyi;
veröld gjarnan vill þó bægja
vinum guðs óg hrósið lægja.
2. Þar er nú einn, sem þessa
bók[5] í þokka gaungum
öðrum reit til uppfræðingar,
ef þeim verði mentir kríngar.

1) óskasona, óskabarna. 2) klettarnir. 3) svara (með bergmáli). 4) *Is-fyldir* (af fold, eða land): Islendingar haldi ætið uppi minníngu þessa skálds. 5) orðabók, sem *Jón* biskup *Arnason* samdi og ætlaði að láta prenta, en endtist ekki til.

3. Samt er hún litið sæls af verkum sæmdar herra,
hvörs eg verðugt les og læri
lof við þetta tækifæri.

4. I kallan sinni valinn var, svo virðar núna
játa færstir jafnast muni
*Jóni* biskupi' *Arnasyni*.

5. Embættis var yðjustőr, það undrum sætti;
styztu tíð ei tapa mátti,
tómið litið hann sem átti.

6. Vanda nam hann verkin stærri' og verkin minni
fyrr og síð, sem fremst hann kunni
fyrir guði' og samvizkunni.

7. Ekki var hann einsog þeir til embættanna,
að sletta' á mynd og slá burt önnum,
sleppi þeir frá heimsins mönnum.

8. Hyrti hann aldrei heldr um hvað heimr ræddi,
gekk sinn veg og guði hlýddi,
geislum dygða lífið prýddi.

9. Hvörsdagsliga hreinn og spar og hollr maðr,
drykkjuskap og drambi reiðr,
drýgði landsins gagn og heiðr.

10. Jafnan siðavandr vakti vömmum liddi,
kristni spjöllin myrti og mæddi;
myglaða presta þetta hræddi.

11. Eitt er það, hann eitr-drykk frá Isalandi
taka vildi', og tóbaks stundan
tók í messu og lestrum undan.

12. Guðhræðslunnar merki mörg hèr mætti telja;
skyldt er öllum þau að þylja,
þjóðkunnug, af góðum vilja.

13. Frómleik Krists og fagrt líf hann fann og rækti
lángt yfir almenut aldar slekti,
illr vani sizt hann blekti.

14. Karla bæði og konur fræddi Krists í skóla;
hans harna lærdóms bækr tali,
sem hlessuðu stýrðu menta vali.

15. Þessa biskups þarflig rit eg þarf ei nefna,
ljósast merki lærdóms safna,
láta þau ei hans minning kafna'

16. Aumum mönnum gjörði' hann gott, sem góðir vóru;
hinir ekki' úr býtum báru,
þó beiddu þeir með hræsni-tárum.

17. Fjandans linkind forðast vann, hann fjölgar vömmum,
og stjórnleysi' er allar skammir
eftir leynt og hefir í frammi.

18. Prestaköll og kyrkna rètt hann kunni skorða,
sæmdi' og bæði' í sínum ferðum
sanngjarnliga í öllum gerðum.

19. Almúganum aldrei þýngsli' hann eirði að búa,
eingu vildi' af vellyst sóa,
varð því landsins heill að gróa.

20. Blessaði guð hans bú og fè um biskups veldi;
til guðs þjónustu af góðum höldum
gaf hann mest á þessum öldum.

21. Var hann því (eg vil guðs orð til vitnis taka)
biskup mesti' og bóndi líka;
bágt mun vera' að hitta slíka.

22. Veraldar álit akta' eg minst og æru hlynna,
þó skulu vitrir verða' að sanna
verðleik allra slíkra manna.

23. Dagfar hans í drottins ótta dugnað sýndi,
frítt og skýlaust fram til enda,
frjálst af vöflum óhreinunda.

24. Hvörgi tiðkaði ónýt orð, og illan frama
hèlt að þræta um heimsku tóma
og hnýsa guðs í leyndardóma.

25. Heimsins speki hlekkjaði' undir hlýðni trúar,
ekki treysti á mátt og megin,
þó margir elski þennan veginn.

26. Allri bitinn fordild frá og flærðar grobbi,
villu slaðri' og drykkju drabbi,
þá deilan geingr einsog krabbi.

27. Svoddan heims og holdsins líf var honum fjærri;
kæran hafði' hann kross síns herra,
Krists, sem lèt ei megnið þverra.

28. Heldr geymdi göfgan mann til góðrar elli;
hraustr við sitt verk og kallan

var á fótum daginn allan.
29. Síðan guð hann sæfði' og
tók til sinnar dýrðar,
sem bróður elsku borgar forðum
biskupinn í skriftar orðum.
30. Kominn er stólpi' í kyrkju
guðs með kransi sóma,
þar um eilífð hefir heima,
herrans nafn skal á sèr geyma.
31. Hans sálar fèlag gæfi guð
nú gætu margir
foríngjar presta, firrtir sorgum,
feingið uppá himna borgum!
32. Nú hefi' eg mína meiníng
sagt og minníng sanna
*Jóns* biskups, þó ljóðin linni,
lifa mun hún fyrst að sinni.
33. Telst hann bezti mönnum
með og mesti kendr
þeim, er vóru í þessu landi
og þjónuðu guði' í sínu standi.
34. Því hann var, sem postul-
inn *Páll* í pistli segir:
í starfi sínu' óstraffanligr;
stærri finnst ei manna vegr.
35. Ísalands því mjög svo
mætti' í minni byggja
*Guðbrands* nafn og *Brynjúlfs*
beggja,
biskups *Jóns* á til að leggja.
36. Dugnað höfðu, holdsins vel-
lyst hötuðu þessir,
viljugir fylgdu Kristí krossi,
köfuðu' aldri' í lasta fossi.
37. Samt ónefnda sneiða ei vil
með svoddan lofi;
fleiri mannvöl guð hefir gefið,
þó geti' eg ei nefnt í þessu stefi.
38. En slíkir munu' ei margir
sjást í messu týgjum;
færst er hreinsað gull, þó glói;
grænir mosar sízt eru frjóir.
39. Verðsligir guðs veldismenn
er vert að stæði,
illum framar á auðnu blaði
og ónytjúngum, vegsamaðir.
40. Svo menn þekktu svart og
hvítt í svikulum heimi;
guð oss kenni kristinn frama;
kvæðið endi við það sama.

# Vidrkenníngar-sálmr,

***um spilling náttúrunnar og um kristiligt liferni, kveðinn 1768.***

Eg vesæll maðr ekkèrt finn
í náttúrunnar gæðum,
sem þýði' og stilli þánka minn;
þessháttar speki-fræðum
eg sleppi fús, því eðli spilt
arf syndar hefir fyrir mèr vilt;
ónýtt er vit og orka mín;
af því leita eg þín,
guð! sem í trúar gæðum skín.
*Guð* einn og þrennr gjörla veit
geð mitt og lífið auma;
hvörsu eg hefi farið á leit
fánýtra speki-drauma:
Við lista nám, á lukku stig,
lèzt eg fullkomna sjálfan mig,
síða lærdóm og sèlig verk,
sem öðrum þóktu merk;
sjálfselskan við það varð of sterk.
*Góðmennsku* þá, sem vana-vit
virti siðlátra manna,
mèr hèlt eg nægja', og menta-glit;
meinti' eg að trúin sanna
innbirlíng væri blind og máð,
sem bar eg titt um herrans náð;
eins þá samvizku settust að
syndir í leyndum stað,
yðran trúaðra þeinkti' eg það.
*En* drottin minn! þín elska bar
umsjón fyrir sálu minni,
yfirgefin því aldrei var
útaf í fráleitt sinni;
hefðir þú alla veitt mèr vild,
veraldar lukku, makt og snild,
væri eg orðinn vitlaust dýr;
vizka þín um býr,
með hegníng mannsins heimsku
lýr.
*Ráð* er öllum, sem rækja nú

ráð sitt og heimsins speki,
að snúast til guðs með sannri trú,
sjálfbyrgíngsskapinn reki;
heimspekin annars heimska tóm
hjá þeim verðr, og yðja fróm
að synd og vondri viðrstygð;
verkar ein með hygð
rèttkristin trú þá rèttu dygð.

*Trúfesti* þína, faðir kær!
finn eg í minnu hjarta;
sál mín aldrei fullþakkað fær
fyrir það ljósið bjarta
þíns náðar anda, svo èg sè
synda kám mitt og ránglæti,
já, hvörja götu' eg hèðanaf skal
halda um eymda-dal,
að villi mig ekki veraldar skjal.

*Orð* þitt, minn guð! það er svo dýrt
á þessum villu-tíðum;
því án manngreinar-álits skírt
öllum sýnir það lýðum
þann eina lífsins þraunga veg,
þó finnist holdi reisan treg,
og heimrinn ætli' í hægðum á
heilagra land að ná,
þinn andi lèt mig annað sjá.

*Lausnari* góðr! eg leita nú
líknar og gæzku þinnar;
þú veizt þá ofr-veiku trú,
og vanefni sálar minnar,
að hold og blóð það herðir sig,
þá hugsa' eg til að nálgast þig;
djöfullinn gjörir marga mynd
mèr að hneixli og synd;
uppsprettu vellr eitruð lind.

*Af* því fýsist eg, frelsari minn!
að framast í þínum skóla;
en eg em daufr, og dymmviðrin
draga fyrir birtu sólar;
athugaleysið olli því,
og vonzkan, sem eg flækist í;
vantrúar freistni þrátt óþýð
þúngt gjörir mèr stríð;
hjálpar þinnar eg, herra! bíð.

*Föstur* og aflát fæ eg ei
framkvæmt, svo skipist eptir;
ósigrað holdið ansar, nei!
andans djörfúng það heptir,
nema þú gefir nægra styrk;
nýlæknuð trúar sjónin myrk
festi nú á þèr augun rètt,
að sálin verði mett!
holdið þá vinn og heiminn lètt.

*Sjálfsþótta*, ment og syndugt geð,
saurugan verka blóma,
allan verðleika líka með,
ljósreykugan hegóma[1]:
þann kóngulóar versta vef,
vörn og afsakan, fángið gef,
og fleigi því undir fætr mèr,
til fóta krjúpandi þèr,
herra Jesú! sem hjartað sèr.

*Sjálfr* veiztu það, son guðs! bezt,
sè èg og viðrkenni
dagliga hrösun mína, mest
mèr er þó böl að henni!
gjarnan vilda' eg hinn gamla mann
geta sigrað og bundið hann,
fjandans og heimsins forðast tál,
frelsað mína sál;
haldandi jafnt þín heilög mál.

*Overðugr* eg, kristr! kem
krossi þínum að hneigja;
unntu mèr þeirrar æru, sem
eg kýs, og vil mig beygja
ljúfr undir þitt okið sætt;
á mèr verði þín huggun rætt,
að sè það mèr bæði sætt og lètt,
svo èg verjist rètt,
og fái það hnoss, sem hefirðu sett!

*Náð* þíns anda mèr ætíð ljá,
ó guð! og trúna hreina;
þú ert minn guð, og auktu þá
afl minna veiku beina;
verðskuldan mín er vítis-rírð,
verðskuldan þín er himna dýrð,
afrekuð mèr til arfskiptis;
ei lát mig fara' á mis,
herra Jesú! þíns hjálpræðis.

1) hègómi er eiginliga það svarta, veika og lètta hjóm eðr óhreinindi, sem finnst uppyfir ljósi í vetrar-húsum, og er ekkèrt annað í sjálfu sèr, enn vefr þeirra svörtu kóngulóa, hvörjar almennt kallast fiskikallar og af sumum dorgdinglar; hèraf er það komið í vorri túngu, að hvörr fáfeingiligr hlutr og eingis-virði kallast hègómi, og á það ei sízt við í andligum efnum.

# Öfundar-elta,

*um fácin brögð Öfundarinnar og aðferð hennar þénara við þeirra sakadólga eðr þá, sem öfundaðir eru.*

---

Heyrðu nú, Öfund! orðin mín,
eg skal þora að bíða þín,
og hopa *héðan* ekki;
erindi þitt eg vita vil;
vilja þinn eg annars skil,
og kvenndygð þína þekki!

2. Náttúrliga í geði grá,
grimm í sjón og andlits blá
læðist eptir lautum,
og finnr spor um fjöll og tún,
framanað mèr ei geingr hún,
nè oss förunautum.

3. Um sig hefir í fyrstu fátt,
fer með kyrð, en síðar hátt
grenjar af grimd og æði;
hún fer um bygðir ekki ein,
elr börn við stun og kvein
á sínu sultar-fæði.

4. Mannfundi sækir Öfund ill
með arfa-fjölda, sem hún vill
sker úr málum manna;
hún sitr daga-dómum í,
dygðin fjötruð sektast því
milli mellu tanna.

5. En stundum skiftir hömum hún,
hrygg og sett með þúnga brún
allvel stillir orðum;
sakagiftunum kemr í kríng,
kænliga glepr lög og þíng,
sem fornmenn sumir forðum.

6. Hún ekkju grímu brigðul ber,
en bregðr henni strax af sèr,
ef hún finnr færi;
þar ýlfu-belginn undir má,
einnig klær og tennr sjá;
hún þýtr og heiptir hrærir.

7. Fyrndin Öfundar ærið vel
útmalaði hjartans þel:
blauð sem bytja[1] stæði,
Gorgons höfuð á búknum bar,
bitrir snákar hárið var,
þeir nöguðu brjóstin bæði.

8. *Ovída* lesum skálda-skraf:
skrímslið horað hann málar af,
blátent, bleikt í sjónum:
innantil bríngan galli græn,
grómuð túngan eitri kæn
hlær að annara meinum.

9. Í heiðnum dómi margir menn
*máttu sanna*, að Öfundin
vitrum varð að falli;
hennar börn af því máttu meir,
miklu sterkari vóru' enn þeir,
hún stóð á gyðja stalli.

10. En kristnin síðan kennir öll,
að kefjast eigi þetta tröll,
sem drepr niðr dygðum;
þó verðr á því önnur raun,
Öfund blótar fólk á laun,
og krýnir Krists í bygðum.

11. Dáligust þessi drottníng kann
dugandi lands að hamla mann
frægan, fyrr enn varði;
áðr hún rændi lífi ljóst,
leynt nú dæmir hels við þjóst,
og fjörbaugs greipir garði[2].

12. Heyrðu því, Öfund! stutta stund:
starað hefi' eg þetta mund
á þig, athugandi
hvörnveginn þú frá fyrstu tíð
fróman hefir kúgað lýð
hèr á hèlu landi.

13. Upptalið marga góða get
garpa, hvörjum töfra hret
laustu, Margerðr! móti;
þá vildu löndum gjöra gott,
þú gjörðir að þeim háð og spott
og grýttir á þá grjóti.

14. Vorrar þjóðar það ólán er,
að ætíð stormr kom úr þèr

---

1) *bytja* eðr *bythja:* kvennskratti. 2) gjörir útlægan.

móti þaunkum þeirra,
svo ávalt veslist Ísaland,
en aldrei komist neitt í stand,
heldr hrörni meira.

15. Ætlan þessvegna var það
mín,
í vísu-korni' að minnast þín,
Öfund! einusinni;
þótt eg viti, að þjóðin flest
þinn ólundar sjái brest,
sem ferskr er mèr í minni.

16. Veit eg og þína við oss art,
vil eg ei þarum tala margt:
skreiðstu lágt í leyni,
innanlands og utan gjör
öll vor raktir daglig för
og þefaðir; það eg reyni.

17. Vofu þína èg varaðist ei,
væri, þeinkta' eg, ófröm mey,
sem kæmi' ei nærri köllum;
en síðar fann eg annað allt,
af þèr stóð oss veðrið kaldt
áttþóptunum[1] öllum.

18. *Invidíu* nafnið segir sè
*Cicero* komið af starsýni,
þú horfir manns á hagi;
tilgjörðin verðr ekki ein,
eingum þótt hann gjöri mein,
og lifnað kyrran lagi.

19. Að hjartað synda beiskju ber,
bresti slíka drottin sèr,
þú kannt það ei smakka;
hitt, að mann nefnist lastalaus,
líka ber upprèttan haus,
það er guði' að þakka.

20. Nú skulum, bræðr! drýgja
dáð,
og dygða rækja' í landi sáð,
Öfund svo verði verra;
henni batnar ei fyrir brjósti lètt,
berum oss því að gjöra rètt,
fyrir hjálp vors herra.

# Heim-sótt.

*Um girnd útlendra manna að vitja aptr föðurlandsins, einkum Íslendínga og annara, sem á fjöllóttum löndum eru aldir.*

Viðkvæðið.

*Ut ertu við æginn blá,*
*eg er hèr á draungum,*
*blóminn fagr kvenna klár!*
*kalla' eg laungum, kalla' eg*
*til þín laungum.*

Erindi neitt eg ekki kvað
um þá deilu heima:
hvört því veldr óvit, að
Íslands girnumst heima,
mitt í sælu staddir stað
stundum þángað helzt að gá,
*hvar þú ert við æginn blá!*
heyrða' eg eingan hal um það
hreifa fyrri saungum.
*Eg á draungum, eg er hèr á*
*draungum*[2],

2. Þar sem unnar fagr freri[3]
færði nafnið móður-ey,
sólbræðandi, glikr gleri
Golnis háa lýsti mey,
og Gýmis þrúðr[4] þvottinn keri
þínum fótum síð og ár,
*blóminn fagr kvenna klár!*
getinn var eg á grænu skeri,
girðu djúpum aungum.
*Kalla' eg laungum, kalla' eg til*
*þín laungum.*

3. Augna-köstin ítra fyrst
innbirlingu gjörðu,
sólarfjöll með lángri lyst
leit eg á minni jörðu;
skýin bjóð á bast og tvist
breyttum yfir myndum slá,
*hvar þú e. v. æ. b.*;
strandar marinn málaðist
mjög af fjalla-taungum.

1) ættmenn, fèlagar. 2) Hèr meinast turnarnir í Höfn, sem eru háir drángar. 3) hafísinn. 4) Ægis kona (Rán) þ. e. sjór.

*Kalla' eg laungum. k. e. t. þ. l.*
4. Meðr hálsa mörgum lit
mig breytingin gladdi,
blá, hvít, dökk, með grænku glit,
gul, rauð, augun saddi;
náttúran það vakti vit,
væri' eg borinn slíkt að sjá,
*hv. þ. e. v. æ. b.*;
gekk eg ei fyrir utan strit
eptir hlíða vaungum.
*Kalla' eg laungum, k. e. t. þ. l.*
5. En þegar eg utanlands
eygði fróníð slètta,
náttúran mèr stefndi í stans,
stakt mèr virtist þetta;
er svo skapað eðli manns,
umbreytingu vill hann fá;
*út e. v. æ. b.*;
jöfnur æ fyrir augum hans
ollu leiða straungum.
*Kalla' eg laungum, k. e. t. þ. l.*
6. Einsog hinn, sem flötu frá
fróni borinn kemr,
fjalla sèr hann sveitir há,
sízt þar yndi nemr;
jötna bygðir þykja þá
þar sem við þig sýngr már,
*bl. f. kv. k.!*
þó fæðingjar fjöllum hjá
fá meir heima laungum.
*Kalla' eg laungum, k. e. t. þ. l.*
7. Af því landið er þar mest,
sem innbirlingu hrærir,
barna sjón við sjóinn flest
sífeldliga nærir,
ei má reikna rænu brest,
þó rosknir gjöri slíkt að þrá,
*hv. þ. e. v. æ. b.*;
göfgar þjóðir fèkk það fest
fyrr í sinnis-aungum.
*Eg á draungum, eg er hèr á dr.*
8. Rómverjum og Grikkjum gekk
girndin slík að höndum;
margr bana fús'ri fèkk
fýr í þessum löndum,
en föðurlands að firrast smekk,
feðrum vorum eins við brá,
*hv. þ. e. v. æ. b.*;
Schvissar heima svosem þrekk
sveia Frakka praungum.
*Kalla' eg laungum, k. e. t. þ. l.*
9. Norðmenn, Svía, nefni' eg ei,
nóg er um þá skrafa,
eingir til þess ansa nei,
sem eptirþánkan hafa;
hinir kalla ganta-grey
garp, er staðinn vill ei smá,
*hv. þ. e. v. æ. b.*,
og kann ei þvilíkt kontrafrey
keyra' úr þánka-gaungum.
*Eg á draungum, eg er h. á dr.*
10. Ef líkaminn ekki væri, við
vorri sálu' að halda,
lá það skyldi láta-snið
lukkan hvörs má gjalda;
hins eg lasta samt ei sið,
sem þar getr verið frá,
*hv. þ. e. v. æ. b.*,
og uti löndum eyrð og frið
á með gullhlaðs-spaungum.
*Eg á draungum, eg er h. á dr.*
11. Víðast finnr föðurland
firða hvörr í heimi,
þar hann ekkèrt getr grand,
grípr lán með seimi,
hitt þó drottin stifta stand
stöðugt rèði þjóðum hjá,
*einsog þèr við æginn blá;*
annars væru þær orðnar bland
orðulaust fyrir laungu.
*Eg á draungum, eg er hèr á dr.*
12. Þar sem gallið svarta sitr
sinnum fyrir, hófi með,
höldr þögull, var og vitr,
vigtar, sækir djúpt í geð,
rækir allt, er rænan flytr,
rækt á löndum aldri fjár,
*bl. f. kv. kl.!*
geti' hann ei, þá gránar litur,
grennist hold á vaungum.
*Kalla' eg laungum, k. e. t. þ. l.*
13. En hvar blóðið yfirhönd,
eða glyttan hefir,
lèttlyndan ei beygja bönd,
biðr hinn og sefr;
gjörvöll þessum þóknast lönd,
þótt þeim heppnist gæfan smá;
*út e. v. æ. b.*;
samt er bezt, ef auðnast önd
æðrur taka' að faungum.
*Kalla' eg laungum, k. e. t. þ. l.*
14. Svo gekk mèr, þá fór eg fyrst

framandi land að kanna:
æskan nýa lèði lyst,
leit eg snildir manna,
og ótal, sem eg undraðist
og ekki nenni hér að skrá;
*út e. v. æ. b.;*
gleymda' eg minni gömlu vist,
girnd og ferða-baungum.
*Eg á draungum, eg er hèr á dr.*

15. Vel ánægðr þeinkti því,
þángað kæmi' eg aldri;
Höfn eg vildi vistast í,
en vissi' ei af þeim galdri,
sem þú kveðr kyrr og frí
knapa hvörjum, er þig smár,
*bl. f. kv. kl.!*
slíkum seyddum kven í kví
kemr inn frá maungum[1].
*Kalla' eg laungum, k. e. t. þ. l.*

16. Girnti mig að finna Frón
fyrst, að gamni mínu;
eyar hreppti síðan sjón,
sæfar lètti pínu;
lítið merkti' eg lystar tjón
landsins kannske víst að ná,
*hv. þ. e. v. æ. b.;*
en nú líðr undir nón
æfi, í vafa þraungum,
*hèr á draungum, hvar eg er á dr.*

17. Nýúng æsku stöðnuð sterk
striða þánka geldr,
eyrðarleysi', og eigin verk
ei mèr geðjast heldr;
hvar eg grip í sjálfs míns serk,
segja hlýt eg við því já,
*út e. v. æ. b.;*
Höfn ei fellr muna merk,
mislíki það aungum,
*hèr á draungum, hvar eg er á dr.*

18. Þess eg óska þennan dag
þrátt í vöku' og draumi:
firrast mætti' eg borgar brag,
en berast fyrir straumi,
þartil huginn leggst í lag,
lít eg þínar hýru brár,
*bl. f. kv. kl.!*
til þín vil eg taka slag
tigldum úðar haungum.
*Kalla' eg laungum, k. e. t. þ. l.*

19. Leiðist við að liggja hèr
leingr glaum og skelli;
trautt erlendr unir sèr
í steinlímdum helli;
hugurinn einatt hvarfla fer
hèðan bóginn norðr á,
*hv. þ. e. v. æ. b.;*
Hafnar sæla' ei heldr mèr
hjá þeim gylltu draungum.
*Kalla' eg laungum, k. e. t. þ. l.*

20. Auðlegð dregr ekki mig
Íslands til að vitja,
elligar sælan yndislig,
er eg hugsi' að nytja;
minnr þeinki mans á stig[2],
maktar von eg seinast á,
*hv. þ. e. v. æ. b.;*
heldr að fá að faðma þig,
foldar prýdda þaungum.
*Kalla' eg laungum, k. e. t. þ. l.*

21. O! mitt fróma föðurláð
fá eg þrái' að smakka,
þetta vitta voða-ráð
vil eg til þess hlakka;
guð hann yðr gæði náð,
grandið fènda verði' að snjá;
*út e. v. æ. b.;*
okkar lukku' í leingd og bráð
lít af Kata raungum[3];
*eg er hèr á dr.;*
þaðan mæðu þýðist gráð,
þegar eg em frerinn nár,
*bl. f. kv. kl.!*
sökka[4] hrekkjum svið er háð[5]
sýslað hesli-staungum.
*Kalla' eg laungum, kalla' eg til
þín laungum.*

---

1) hún (*kven*, þ. e. Ísland) dregr þá inn til sín burt frá mángi eðr samvistum við aðrar framandi þjóðir. 2) nokkra vissa heitbundna konu, eðr tilætlaða. 3) skipinu. 4) *sökki:* fjandmaðr. 5) þeim (fjandmönnum þínum) er afmarkað svið, útúr hvörju þeir mega ei fara.

# Islands-sæla,

***um það, hvað miklu betra og hollara sè Islendíngum (flest-öllum) að staðnæmast á ættjörðu sinni, heldrenn í útlöndum.***

### Viðkvæðið.

*Utum sveitir Isalands*
*yndis stundum tíma,*
*einga lángar útum heim að blína.*

### Inngángr kvæðisins.

Fari þèr[1] til Vikivaka,
vinnu-not og hvíld að taka;
Hafnar-sæla sè tilbaka;
sitjið bræðr teitir!
*útum sveitir*;
hvörgi skal oss hèðan aka,
hugurinn er að prísa
*sveitir Isa.*
Ylir[2] jóla kann við klaka,
kveða bændr hátt við dans
*útum sveitir Isalands;*
ilja vermi veikir jaka,
vinnan ornar sprundum,
*yndis stundum;*
um margt er kveðin minna staka,
meðan laung er gríma,
*yndis stundum tíma*;
á sumrum skal til verka vaka,
þá vallar blómið prángar,
*einga lángar;*
meðan fuglar kviðra og kvaka,
kastar þjóðin sútum,
*einga lángar útum;*
seggr hvörr með sínum maka
setr faungin uppá reim,
*einga lángar útum heim;*
fjörgyn etr þorska þaka
þannig arfa sína;
*einga lángar útum heim að blína.*

### Kvæðið sjálft.

1. Sólin rennr hýr í heiði,
hverfr burtu þögn og leiði;
hauðrið gyllir, hnoðrum eyðir,
hlær þá flest í geði manns,
*útum sveitir Isalands*;
skýin fjalla skautið meiðir
skirt, sem eldr Rínar;
*einga lángar útum heim að blína.*

2. Skartar hlíð með hvörskins liti,
hèrmeð björgin, sem þèr vitið;
krysthallar í grænu gliti
geta batað jöfra krans, *ú. s. I.*;
vötnin klár í veltu þyti
veðrabrigðin sýna; *e. l. ú. h. að bl.*

3. Sjórinn einsog silfr-slètta
sómir vel og á við þetta;
fyrir landi fiskar spretta,
fjöldinn leikr eya-bands, *ú. s. I.*;
nöldrar brim að nesja kletta,
nórúngarnir[3] ríma; e. *l. ú. h. að bl.*

4. Veturinn þó vari leingi,
við hann semr öllu meingi;
kulda gefr yðjan eingin
undir skemtun lesarans; *ú. s. I.*;
vakan liðr, volgt er engi
viðr langa kvína; *e. l. ú. h. að bl.*

5. Um það skeið, er skiptist dátum[4],
skeiðhestana járna látum;
hjarnið skemtir hlustum kátum,
hrekr myrkrið túngla glans,
*ú. s. I.*
með allslags myndum, listum, látum
ljósin norðr skína; *e. l. ú. h. að bl.*

6. Matargæðin viss á vetri
verðug eru' að sjást í letri:
hvörgi freðinn fiskinn betri,
flautir, vín[5] og kálfadans[6], *ú. s. I.*;
borðar hvörr í sínu setri,
saknar þessa Kína; *e. l. ú. h. að bl.*

7. Þegar liðr gamla Góa,
góðs er von um land og flóa,

---

1) Islenzkir. 2) *Ylir* hèt í forneskju nýárs- eða jóla-mánuðr. 3) úngir selir. 4) um jóla-tímann. 5) *vín*, kallast flauta-mísa. 6) ábrystr.

vorið bræðir vetrar snjóa;
verpa fuglar einherjans, *ú. s. I.*;
úngum leggr eins hún tóa
úr því fer að hlýna; *e. l. ú. h. að bl.*

8. Mál er að fara senn til sjóar,
seggir eptir fiskum róa,
þeir[1] hrygna, gjóta, hrognin flóa[2],
hlaupa' í greipar hásetans, *ú. s. I.*;
einnig laxinn aptr-mjóa
elfar flækir lína; *e. l. ú. h. að bl.*

9. Tjaldrar sýngja' um tún og móa,
tildrar stelkr, gaukr, lóa,
endar hörkur hljóðið spóa,
hreiðrin byggir þessi fans, *ú. s. I.*;
æðarfuglinn ángra kjóar,
eru þeir að hvína; *e. l. ú. h. að bl.*

10. Sæt og fögr grösin gróa,
gleðja kindur, naut og jóa,
engjar tún og auðnir glóa
eptir boði skaparans, *ú. s. I.*;
að stekkjar-fènu stúlkur hóa
og stökkva' úr því við kvína;
*e. l. ú. h. að bl.*

11. Alftirnar með saungum sveima,
sólskríkjurnar ei því gleyma;
þá máríuerlan hèr er heima,
hafskip sjást á brúnum lands,
*ú. s. I.*;
spár hún vetr vistir heima,
en vill sig láta brína; *e. l. ú. h. að bl.*

12. Grösin eru full af fræum,
fólkið heyar allt á bæum,
verða hjúin hýrð með slægjum,
heimtist fèð og ættin svans, *ú. s. I.*;
móti vetri hressir hlæum,
haustið gjörir dvína; *e. l. ú. h. að bl.*

13. Veit eg sumir muni mæla:
mèr lízt þvílíkt eingin sæla,
svipað eðli það er þræla,
að þreyta sig fyrir utan stans,
*ú. s. I.*;
þá er heldr Hafnar gæla
hofmannligri' að tína;
*e. l. ú. h. að bl.*

14. Hvörr sem vinnr, yndið eykr,
yðjulaus er jafnan veikr;
í höfðinu' á þèr Hafnar reykr
hefir aflað vizku grands! *ú. s. I.*;
það er sèrhvörs list, er leikr,
láta verkin pína; *e. l. ú. h. að bl.*

15. Þarum skal eg þylja fleira,
þú munt vilja til mín heyra,
tala skal um matinn meira,
margir finnast rèttir hans, *ú. s. I.*;
meðan eg les, þú legg við eyra
og lás fyrir túngu þína;
*e. l. ú. h. að bl.*

16. Jörðin færir gnægtir gæða,
gróa berin upp til hæða,
rauðu víni vökvuð blæða,
vantar aðferð bruggarans, *ú. s. I.*;
hvannir, sveppar, súrur, kræða
selja rètti fína, *e. l. ú. h. að bl.*

17. Skarfakál er skyrbjúgs hræða,
skírir blóðið þolinmæða[3],
bezta lækn og bezta-fæða;
blóm og rjómin úthagans, *ú. s. I.*
manna kunna mein að græða
mörg, er á þeim hrýna;
*e. l. ú. h. að bl.*

18. Um drafla vil eg rauðan ræða,
rart er ekki hvítu að snæða;
mun af smjöri mikil stæða?
Magnús biskup[4] gefr ans, *ú. s. I.*
tvítug leingdar, tvíeln hæðar
telst þar mörg ein skrína;
*e. l. ú. h. að bl.*

19. Hángið kjöt er sætt af sauði,
salti firrt og líka brauði;
höldr-sæll í sínum auði
synjar eingum krása blands
*ú. s. I.*;
mysa bætir mjaðar nauðir,
mjólk í staðinn vína;
*e. l. ú. h. að bl.*

20. Margt berst gott að sjáfar sandi
sælgætið í þessu landi:
heilag-fiski fyrir sandi,
fjöldi lifrar, kútmagans, *ú. s. I.*
öðru þesskyns óteljandi
ei vildi èg týna; *e. l. ú. h. að bl.*

21. Af öllu sliku þrífast þegnar,
þeim með úngum börnum vegnar

1) fiskarnir. 2) pna að hrognunum, og verma þau með ókendum hætti. 3) fardagakál (*Patientia*). 4) Uppsala erkibiskup.

enn nú skárr, ef gestum gegna,
greiðugir leiða þá til ranns, *ú. s. I.;*
blessan skortinn má hèr megna
meðr nægð að krýna;
*e. l. ú. h. að bl.*

22. En sætindum annara ríkja
aldrei skal við þetta líkja,
eigurnar þau af oss svíkja,
orsök gjörast heilsu-banns, *ú. s. I.;*
þurfa skáldin ei að ýkja
um þann matinn fína;
*e. l. ú. h. að bl.*

23. Borgar skulum lífið líta:
lofða granna, bleika, hvíta,
hárið mjúkt og lángt má lýta,
líkjast konum ullar brands, *ú. s. I.;*
hraðbergs tennr hviklar sýta,
holdið er sem dýna; *e. l. ú. h. að bl.*

24. Islenzkir, sem aptr vitja[1],
ytra gjörast farin rytja,
mjólkr skulu njóta nytja
og nærast gæðum landbúans,
*ú. s. I.;*
hinir frjálsir fyrir sitja
og fastholdaðir grína;
*e. l. ú. h. að bl.*

25. Því er betra kál í koti,
enn ketill stór af borgar floti[2];
hlutinn virði' eg hans af noti,
hált er eðli sjúks og granns, *ú. s. I.;*
náttúran kann í skúma-skoti
skapa limu frýna; *e. l. ú. h. að bl.*

26. Opt er flagð í fögru skinni,
flöskum ekki' á Islenzkunni,
ormr býr í blómgum runni,
bliðmælin ei geta sanns, *ú. s. I.;*
þörf er ei á Islands munni
útlands þrekk að klína;
*e. l. ú. h. að bl.*

27. Þóað margr upp og aptr
Island niði búðar-raptr,
meira má enn kvikinds kjaptr
kraptr guðs og sannleikans, *ú. s. I.;*
sigurinn enn er eigi taptr
eskju blæju dýnar[3]; *e. l. ú. h. að bl.*

## Niðrlag kvæðisins.

Framandi sæla fá mun enda,
í fári skömm og heimsku lenda,
Spán-heims sjáum silfrið brenda
og siða-piprið þar í Frans,
*útum sveitir Isalands;*
Mógol[4] lát í metum vendast
móti steina brýma,
*yndis stundum tíma;*
Indar meiga og Afrar henda
yðjulausir gull og seim,
*cinga lángar útum heim;*
ágirnd lát og óvit fènda
yfir slíku gína; *e. l. ú. h. að bl.*

Löndum sendi' eg mjöðinn mæra
meðr fæð af Kvásis dræra,
efast höfum hann að færa,
hlutr móti streitir,
*útum sveitir;*
vaninn seini vill ei læra
viðr skaða' að rísa
*útum sveitir Isa;*
en eg sönnu samt vil tæra,
setjum vitið fyrir skans
*útum sveitir Isalands;*
skal oss prjálið órètt æra
ekki' af Frakka grundum,
*yndi stundum;*
heilir sælir, karl og kæra!
kvæðis liðr ríma,
*yndis stundum tíma;*
ótal mætti meiri hræra
málin sælu-fánga,
*einga lángar;*
senn eg finn ei fleira að mæra
Fjalars kjalar hrútum,
*cinga lángar útum;*
hegðan dygða deyr hin skæra,
dæmist nema sóminn þeim,
*cinga lángar útum heim;*
vansi lands er leirug[5] æra;
lykta' eg diktan mína,
*cinga lángar útum heim að blína.*

1) ættjarðar sinnar. 2) betra er kál í koti með kyrð og ró, enn fullr ketill af floti í fanta kló. 3) Islands. 4) svo kallaðist fyrrum Indóstanna keisari, ríkastr kóngr í heimi; hann lèt á hátiðum vega sig móti gimsteinum og dýrgripum. 5) lands vani er lands æra.

# B. Kímilig kvæði.

## Hafnar-sæla.

Viðkvæðið.

*Utum strætin Hafnar há*
*hryndum stundar mæði,*
*leingr einginn Ísa tregi gæði!*

Förum vèr til gleði'[1] að gánga,
gaman þar og lyst að fánga,
hvörgi þarf oss heim að lánga,
hèr er allt, sem þeinkjast má,
*útum strætin Hafnar há;*
þó vèr bærum belgi svánga,
bruggar skemtun fæði;
*leingr einginn Ísa tregi gæði!*

2. Lundar fagrir, lögur hlaðinn[2],
landið slètt fyri' utan staðinn,
akrar feitir, engi taðin,
yndisskógr nærri hjá, *ú. str. H. h.;*
hirti, svín og sauðfènaðinn
sjá menn öðrum þræði; *l. e. I. tr. g.*

3. Nær vèr erum utan porta
(af því margir kunna' að gorta)
má þá glöggt í mugga-sorta
miðjum turna-gullið sjá,
*ú. str. H. h.,*
þá mun færsta faðm á skorta
forna Babels hæðir; *l. e. I. tr. g.*

4. Siki stór af völdum virða
veggjum meðr staðinn girða,
líkum hálsum Heklu byrða,
hvörgi slík eg verkin sá,
*ú. str. H. h.;*
mála-kappar hliðin hirða,
hrysta vopn í bræði; *l. e. I. tr. g.*

5. Okunnugr í götu grúa
gumpi valla kann að snúa;
húsum í, sem björgum, búa
borgarar, við lopt að sjá,
*ú. str. H. h.;*
glugga kollar fylla frúa,
sem fugl á hyllum stæði;
*l. e. I. tr. g.*

6. Sumir ríða, sumir aka,
sumir flestir gaungu taka
áfram, þvert og eins til baka,
ekkjur, píkur til og frá,
*ú. str. H. h.;*
fyrir mángi kvendin kvaka[3],
kaup í augum blæðir; *l. e. I. tr. g.*

7. Hvort menn hittast úti' eða' inni,
allslags munað hygg eg finni,
nær þeir hafa' í hendi sinni
hödduljósin stór og smá,
*ú. str. H. h.;*
þrotið líf ef kaupast kynni,
kryppill hvörr því næði;
*l. e. I. tr. g.*

8. Ljótr, skakkr, aumr, armr,
umhleypingr, tossa-garmr
jarla verðr vin og barmr,
vizku, göfgi, fríðleik á,
*ú. str. H. h.;*
bráðum eyðist halnum harmr,
heppnist bjarmi græði[4];
*l. e. I. tr. g.*

9. Fagrar píkur við hans veldi
vikna snart, sem kvikni í eldi;
undir mjúkum marðar[5]-feldi

1) skoðunarleika, sjónarspila (kómedíu). 2) þ. e. Peblínga-sjórinn (Knapa-vatn), sem liggr skamt frá staðnum. 3) kvennsniptir, er hrópa með varníng. 4) *græði-bjarmi:* gull. 5) *mörður* (á latínu: *Martes scythica* eðr *Zibelina*): dýr, af hvörju dýrmætt skinn (safali) er tekið, er brúkast af ríkismönnum til fatnaðar á vetrardag.

meyðóinurinn siglir þá,
*ú. str. II. h.;*
ótal feingi' á einu kveldi,
ef hann þeirra bæði; *l. e. I. tr. g.*

10. Bragnar þeir úr bitum hafa,
burgeisliga vita' að skrafa,
matar, auðs og kvenna-krafa,
klæðin lituð einsog pá[1],
*ú. str. II. h.,*
skjótt úr djúpum skorti kafa
skrautbúnir um svæði; *l. e. I. tr. g.*

11. Allar sveinum opnar standa
íþróttir til munns og handa,
feingið geta fjærstu landa
fregn og sprok í hvörri krá,
*ú. str. II. h.;*
aptrgaungur, forna fjanda,
firrast Hafnar stæði; *l. e. I. tr. g.*

12. Veturinn ekki varir leingi,
vermir ofninn frúr og dreingi,
kuldinn merkist minni' enn eing-
inn,
í matinn grænar jurtir fá,
*ú. str. II. h.;*
snjórinn öku gefr geingi[2],
gjalla bjöllur æði; *l. e. I. tr. g.*

13. Sumarið kemr brátt í bæinn,
bragna og dýra lífgar haginn,
leingir sól og lýsir daginn,
lifnar skógur, blóm og strá,
*ú. str. II. h.;*
eplin vaxa við þann blæinn,
vaknar akra sæði; *l. e. I. tr. g.*

14. Skipin fallig skríða' um
sjóinn,
skartar af þeim Austr-flóinn,
höfn í sigr siglu-klóinn,
seggir uppi staðinn gá;
*ú. str. II. h.*
falan láta linna-móinn,
lög og kramið bæði; *l. e. I. tr. g.*

15. Nætrgalinn grímur allar
í görðum lysti staðarins kallar;
aðrir fuglar ýmsir gjalla
og ofrfallig lætin tjá, *ú. str. II. h.;*
papagói og spakrar[3] spjalla,
spaugslig birtast æði; *l. e. I. tr. g.*

16. Titlingarnir tamdir heima
töktum skógar öllum gleyma,
sýngja, vinast, varpið geyma,
vex upp úngi' í hvörri rá,
*ú. str. II. h.;*
svölur tvennar hjá mèr heima
hljóða morgun-kvæði; *l. e. I. tr. g.*

17. Hentisemi' eg hef svo rara,
hvörgi þarf eg út að fara,
lít á götum gumna skara,
garpar blása' og streingi slá
*ú. str. II. h.;*
mèr í dyrum vist og vara
væri föl, ef þæði; *l. e. I. tr. g.*

18. Matar verð eg gæða' að
geta:
göfgir vínið brendt ei meta,
súpa þeir til fullra feta
franskan lög úr klösum blá,
*ú. str. II. h.;*
tóbaks blöðin ef þeir eta,
að því margr hæðir; *l. e. I. tr. g.*

19. Grjóna'- og bauna- grautur
valinn
gröfum með er rèttum talinn;
hèra-steik fyrir heilan dalinn,
hafa verðr rètti þrjá, *ú. str. II. h.,*
kandel víns og karpinn alinn,
krásir fleiri ef tjæði; *l. e. I. tr. g.*

20. Hafnar sæla menn eg meina,
margt eg kynni fleira' að greina,
þessu rúmið lætr leyna,
leyfir ekki fleira' að skrá,
*ú. str. II. h.;*
virðar bezt það vita', er reyna,
vitnast mun sú fræði, *l. e. I. tr. g.*

21. Nú kem eg til Íslands aptr,
er því lyst og hugi taptr,
skiptist um minn skildings kraptr,
skemtun aðra þar eg sá,
*ú. str. II. h.;*
frónskr trènast randa-raptr,
rètt er hèr hann æði[4]; *l. e. I. tr. g.*

22. Hafs í bylgjum harma þulda
hlýt eg svæfa fornu skulda,
volkaðr í vosi' og kulda,
var ei Sjólands meir að gá,
*ú. str. II. h.;*
jöklum lít eg hæðir huldar,
hranna brim og flæði; *l. e. I. tr. g.*

23. Eptir skil eg öldu-stokkinn,
annað kemr hljóð í strokkinn,
Ísa-múga finn eg flokkinn,

1) páfugl. 2) akfæri; þá er ekið í sleðum, hestarnir eru kögri og bjöllum settir. 3) skaði, fugl hrafni líkr. 4) þ. e. hvildi, hætti.

fina málið burt er þá, *ú. str. II. h.*;
hissa skrill á rauða rokkinn
rekr augun bæði; *l. e. I. tr. g.*

24. Turfur heim í bygð mig bera,
bið eg mèr að lofa' að vera;
fljóðin typpt[1] mig þurlig þèra,
þorna- lystug burt er -gná
*ú. str. II. h.*;
fiskinn harðan skal eg skera,
skamtar maginn græði;
*l. e. I. tr. g.*

25. Kerin blökk og fötin farin,
fornfálig og sundr-barin,
moldar-veggir; skatna skarinn,
skraut og glaumr leggst í dá
*ú. str. II. h.*;
knörum auðr allr marinn,
utan báta ræði[2]; *l. e. I. tr. g.*

26. Miðjar nætr verð eg vaka
veðurin þegar húsin skaka,
máfar, ernir, krummar kvaka,
kálfa baul og hunda gá;
*ú. str. II. h.*
lít eg í draumi lángt til baka,
loptið þar sem væði; *l. e. I. tr. g.*

27. Heim að garði geingr vetr,
gránar rót, sem kindin ètr;
í þá kemr korku-tetr
kvendin hvörjum sögðu já
*ú. str. II. h.*;
vantar ofn, er vermi setr,
vantar bjarnar klæði; *l. e. I. tr. g.*

28. Ekki þarf eg allt að tína
Islands vesæld til að sýna,
síðr Hafnar sælu fína,
sem eg laungum gjörði ná,
*ú. str. II. h.*;
hvörr einn lofar hýru sína,
hèr um eins eg ræði; *l. e. I. tr. g.*

29. Þar og hèr eg var að vísu,
vendi' eg stundum ránga-lýsu
breiðar yfir brautir ísu;
báru-dýri gjörðag á *útvið str. II. h.*,
hvar eg um það orkti vísu
utan túngu skæði[3]; *l. e. I. tr. g.*

30. En vèr nokkuð nefna bönnum,
náttúran hvað veitir mönnum;
prjálið betra gefr grönnum,
gambri flestir eyrun ljá,
*ú. str. II. h.*;
við það lýk eg öllum önnum,
enda þetta kvæði; *l. e. I. tr. g.*

---

# Sótt og daudi Islenzkunnar,

## hinnar afgömlu móður vorrar;

### í tveimur kvæðum framsett.

---

## Kvæðið fyrra,

### um sóttarferli og meðala-leit.

*I. Islenzkan boðar til sín börn sín, segir veikleika sinn og hans orsök.*

Um þá tíð, sem er í dag,
yrkja vildi' eg stuttan brag:
Islenzkan er orðin sjúk,
iðrastemmu þarf í buk,
því frúnni leingi fallið hefir fæðan mjúk.

2. Ef halr nokkurr í heimsku spur,
hvarfyrir eg sè *sprokverskr*,
orsök til þess orðalags
alla skal eg greina strax;
hinkri menn og hlýði bángi hljóða slags.

---

1) þ. e. með skautafalda. 2) þ. e. smábátar einir á sjó. 3) illr munnsöfnuðr.

3. Islenzkan hefir borið börn
bísna mörg um aldr hvörn,
við útlenzkum þar utanhjá
átti' hún líka króga smá;
af skilgetnum eptir lifa ærið fá.

4. Blendíngr, sem vonligt var,
varð þvílíkrar tímgunar,
allslags siðu átti' og mat,
útlend *sprok* og *takta* hrat,
en kerling hrum við harka þann
ei hjarað gat.

5. Fylgdi' á eptir feikna kíf,
fèkk hún niðrhlaup í líf;
en þó sóttin herti hart,
henni varð ei ráða-margt,
ekkert meðal móðir fèkk við
meinið *rart*.

6. Nokkurn tíma enn leið um,
útsendi' hún á dögunum:
sínum gömlu börnum bauð
*besæking* í þeirri nauð,
að hinnsta vilja vissi sinn þá væri'
hún dauð.

7. Þau við hennar standa stokk,
starir kerling á þann flokk;
*súkkuðu* þau og sögðu' um leið:
sár er, móðir! yðar neyð;
hvað er það, sem hótar yðr hörð-
um deyð?

8. Eg hefi, sagði' hún, áðr fyrr
etið leingi graut og skyr,
hrært við búttr[1] sikr, salt,
sötrað ýmist heitt og kaldt,
í Frönsku, Dönsku' og flatri Þýzku[2]
farfað allt.

9. Því er opnað iðra-rann,
einginn magi standast kann
svoddan lepju sullum-bull,
svo þar ekki verði drull;
þó er bjöguð Þýzkan innst við
þarma full.

10. Hèr er ekkèrt annað ráð,
utan lækning feingi náð,
hvarvið styrkist maginn minn,
með því hressist iðurinn,
í satýrs[3] slefu svoddan bati súp-
ist inn.

11. Feingi' eg ærligt íslenzkt
mál,
eins tilreidt og súpu-kál,
vösk eg mundi verða' í stað,
væri' eg ekki dauð um það,
forlög banna, feigðin ef að fer
mèr að.

*II. Islenzkan talar um sendiferð sona sinna og leggr fyrir þá hvað þeir skuli útrètta.*

12. Flestir kjósa firðar líf,
fór hèr eins um þetta víf:
leita vildi' hún láta grant,
hvort lækning ei nè *próviant*
til næríngar um nokkurn lands-
ins næði kant.

13. Sínum til þess sonum lèr,
sem ei vóru laungetnir,
vegaseðil og vitnisburð,
ef verða kynni lagt í skurð,
bændr landsins bað hún hennar
bæta þurð.

14. Þið skulu tala (innti' hún
enn)
við alla landsins hefðar-menn,
lærða bæði' og lýðinn hinn,
hvort leggi þeir fyrir sig *mál-
sprokin*,
sè það, bið eg sálgist þau fyrir
sjúkleik minn.

15. Ef þið finnið einhvörn stað,
hvar ei sè málið fordjarfað,
þar vil eg hafa bygð og ból,
byrjist aptr heilsu-jól;
Islendíngum upp þá rynni' hin
aldna sól.

16. Hafr-fætta finnið þèr
fjallavætti, þeim frá mèr
kveðju berið skírt með skikk,
þeir skuli senda greindan drykk
úr öllum stöðum, að mèr lini' í
einum rykk.

17. Kaupa skuluð skrár á prent,
skrifuð blöð og pergament,
með óblandað Isa-mál
að endrlífga mína sál;
feingi' eg stöppu af þeim inn,
það eyddi tál.

---

1) búttr (*butyrum*) smjör. 2) flöt Þýzka (*Plattydsk*), þ. e. Niðr-lenzka. 3) satýrar: skógargoð; af þeirra nafni kallast satýrskir (*satyrici*) þeir menn, er lasta ósiðu veraldar, hvort sem það er með kímni eðr í alvöru.

*III. Islenzkan sendir sonu sína um land allt; þeir fara austr, vestr, norðr, suðr, og skygnast að málfæri manna og siðum þar að hnigandi, samt leita móður sinni lækninga.*

18. Þeir fóru af stað, sem fregnin gekk;
færstum leizt sú breytni þekk,
Þökk[1] grèt mörg á þeirri leið
þurrum tárum sagða neyð,
af því flestum Islenzkan var orðin leið.

19. Brosuðu sumir þètt að því,
þvílíkt kváðu *narrari;*
aðrir lètust inna já,
ættar-blygðin deyfði þá;
en virðar færstir viðkomust eða vættu brá.

20. Austr í Fjörðum ferðin sást,
fannst þar túngan eiuna skárst,
útlhreinsan var ei þó gjörð,
allra-sizt við Reiðarfjörð,
sama Vogs-[2] og Vopnafjarðar vottar jörð.

21. Herrar þeir, sem hèr við land
höndla' um fisk og sokkaband,
*hafa innsigt í hof-vesen*,
haldnir kóngsins vildarmenn,
*kompliment* og *klèna* túngu kenna' *ígjen.*

22. Norðr, vestr, austr, er
allt hið sama viti þèr!
hvað sem kennir búðar-Bent,
brúkað er og sett á prent,
Islenzkan er *ofrslètt* og ei *bevent.*

23. Sögunnar aptr vitja vil:
Vestfjarða þeir komu til,
þar var brúkað, annars auk,
engelskt sævar-túngu mauk,
siuum þeir ei siðum breyttu' og svo því lauk.

24. Nú fara þeir í Norðrland,
nágaunglir við herra-stand,
lög og bóka litu flikk,
sem ljónar höfðu sett á *þrykk*,
Islenzku var ærið *brokað* á því *skikk.*

25. Til vara skráðu verju-hljóm,
vorrar móður hræddust dóm,
fornyrðin því færa ryg,
*fyrirstendr þetta sig;*
sögubók var send því kvendi sæmilig.

26. Hèðan snèri sveitin öll,
suðr riðu Kjöls á fjöll,
hornótt mörg og hafrfætt
heiðar þessar bygði vætt[3],
sendi beðið, samt varð ekki sorgin bætt.

27. Forgefins eptir *útrètting*
allsherjar þeir sóktu þing,
hugðu að stíl og hegðunum,
hèr nam kasta tólfunum,
af því segi' eg ekki parið, utan — hum!

28. Prótókollar utan ef,
innlegg, stefnur, gjörnings-brèf,
Dönsku tjáðu meinguð mál,
mjög aflagað Frönsku prjál;
Latinan þar líka sýndi lærdóms brjál.

29. Ur öllum stöðum Isa þar
árliga finnast höfðingjar;
nú er ekki á verra von,
verða tók á kæti lon,
því yfirgekk hvörn Islenzkunnar ekta son.

30. Tala bræðr svo fyri sig:
soddan venjur undra mig,
fátt er nú til fulltýngis,
föruu loksins suðr á nes,
*innrèttingar* eru þar við inni Hlès.

31. Sagt og gjört; þeir geingu burt,
gátu naumast komizt þurt
á veguin úti fyrir frönsk
flögin aura, þýzk og dönsk,
svensk og jullenzk, já, latinsk og jafnvel spönsk.

32. Hèraf ráða meingið má,
hvað muni vera bæum á,
þvíað trappna-tausir ei
talað gátu já eða nei,
utan væri' úr útlenzkunni eitthvað grey.

33. Skerðisk, ryk og eldhúss úr[4]

---

1) gýgr sú, er ekki vildi gráta Baldr úr helju. 2) Djúpavogs. 3) ádrgreindir satýrar, er svo áttu skaptir að vera. 4) *úr:* yrja, meinast hèr sótrigningar og eldhúss-reykjar suddi.

aldrei nefndu greindar frúr,
ljón og rök, að bera' á borð,
brúkuðust ekki þvílík orð,
eða' að flytja yfir um sjó og uppá
störð.

34. *Talerk*, *stöf* og *kikkin*
kann
kæta betr skrafarann,
*löfe*, *vinr*, *ljósagarn*,
likt að *dekkja* og *setja*[1] gjarn,
*rèsón* merkir rètt[2], eg tel; það
rækalls skarn.

35. Þóað *fattist* varla vès,
sem *valindèri* um Suðr-nes,
ótal þvílikt orðalag
ekki get eg sett í brag,
lángsamt yrði' og leiðinligt það
ljóða-stag.

*IV. Aptrkoma og erindislok sendimanna; Islenzkunni duga ei tilsend meðöl; henni þýngir meir og meir; endíng kvæðisins.*

36. Svo skal ljúka þætti þeim:
þessir piltar komust heim,
móðirinn verðr við það hress,
vænti snarligs hjálpræðis,
en það brást, og yðr greinist efni
þess.

37. Um vistina hvörgi varð til-
reynt,
hvar væri málið gott og hreint;
íslenzkt fèkk hún ekki prent
eða dugligt pergament,
og einga hliðrun almennings, það
allt brást þrennt.

38. Eitt það hennar eymdir jók,
í fyrrgreindri sagnabók
ei *fullriktugt* æði fann,
orðin, stil, nè skrif-mátann,
*pokrs* bagað, prentað rángt, það
prófast vann.

39. Með lygasögum landi *pènt*
í lærdóms nafni sett á prent
sögðu nefndir synir, en
sumir danska kennimenn
ljónar vilji, lög í Dönsku' og let-
urin.

40. Var nú kerling við það
skraf
vitinu nærri geingin af,
pindi sótt og harmr hart,
hún gat ekki talað margt,
andlitið varð ýmist blátt og ým-
ist svart.

41. Meðölin send þeir setja
fram,
sem hún tók og bergja nam,
þó samt dugðu þau ei neitt,
þurfti meir enn litið eitt;
miklum sárum mikil græðsla
mundi veitt.

42. Nú er eyddr arnarleir,
af henni dregr meir og meir;
fyrst svo vera verðr, mann
viljugr beri hlutinn þann;
forlögunum fresta, en ekki farga
kann.

---

## Kvæðið síðara,
## um æfilok og undarliga útför Islenzkunnar,
### samt meiníng diktarans þarum.

*I. Öll börn Islenzkunnar og annað hennar skuldalið vitja hennar á banasænginni; hún spáir um sín og þeirra forlög eptir sinn dauða.*

Aptr vildeg byrja brag
og brúka við hann Trölla-slag;
en það *passar* ekki' í dag,
öldin má þess gjalda.
Bætir fyrir bolfötum
brókin varla nokkuð um;
sama verðr — hum og hum —
hrygðar-slögin valda;
brosligt smátt þó blandast skal
við bísna tal,

---

1) *setja* kalla Sunnlendingar nú, eptir Dönskunni, að flytja yfir um fjörð eðr sund. 2) rèttsyni, þar *Raison* þó merkir fyrst og eigin-

svo blóðið hitni kalda.

2. Af heima-muna mèr var sendt
mikið sèrligt testament,
girnist eg það gæti' á prent
geingið hèr í landi;
en því fylgir ángrs-nauð:
Islenzkan er loksins dauð;
mèr þau kynna málin bauð
meðan hún var í standi,
útför sinni segja frá
og setja í skrá
sèrhvað aðlútandi.

3. Þegar sáu í sinnis-mörk
synir hennar dauðamörk,
fallin lá sem feyski-björk
fyrir dauðans porti,
viðum kringum sæng í sal
sitr grátið manna val,
eingin þreyta þorði tal,
þá var lokið gorti;
óskilgetnum eins við brá,
þeir undan sjá,
en þá rænu skorti.

4. Eptir svana sætri lund
sýngja þeir bezt á dauðastund;
upp við dýnu ágætt sprund
til orða tók og sagði:
verið hress og hryndið pín,
hjálpar ekki, börnin min!
forlög nein að syrgja sín,
sem náttúran lagði,
túngur fleiri firrtust munn
og fèllu' í grunn
fyrir sama bragði.

5. Yðr, börn! sem elskið mig,
innt sè gleðin vissulig:
gegnum heljar stirðan stig
eg stig í lærðra minni,
þar mun eg heil og haldast við,
hjá þeim einum kjósa bið,
sem verðugir eru að sjá minn sið,
svo þeir fræðast kynni;
útlendingum eins er það
í allan stað
unnt af hálfu minni.

*II. Islenzkan segir sinn síðasta vilja, eðr testament, í fám orðum; hún gjörir hina laungetnu syni (að segja) arflausa, en þeim líkar það illa.*

6. Síðast bið eg: brennið ei
bera mig, nær útaf dey,
stokkr ei nè Onars mey
andaðan kroppinn hylji;
letrum smyrjið líkaminn,
úr leðrinu gjörið trumbuskinn,
stjaki reistan straungulinn
styðji, hrið þó bilji;
hjartað etið, hreitið slâng
um hauðrs váng;
hèrmeð skèr vor vilji.

7. Laung er ekki' að tala tíð:
taki hrafnar augun fríð,
en þèr skuluð ár og síð
yfir kroppnum vaka;
eptir hundruð árin tvenn
af yðr helgidómurinn
skrínleggist; þèr skuluð enn
skerfinn beztan taka,
úr þeim mikla Mímis haus,
sem mærðir kaus,
mælsku þyggja staka.

8. Þegar hafið þèr á fold
þannig breytt við látið hold,
loksins yfir minni mold
minnis-spjald tilbúið;
þar sè rúna-letri lypt,
líka brúkuð almenn skrift,
og, svo flestum eitt sè skipt,
í latínu snúið;
klappið tal á töblu steins
með teikni veins —
trèð kann verða fúið.

9. Hjábörnin og múga manns
málið heyrða rak í stans;
arfi sneyddir óskuðu hans,
en hún kvað til þeirra:
brugguðu þið mèr banasótt,
byrjast tekr dauðans nótt,
ófáinn (eg ansa fljótt)
yðr skal tilheyra,
þið mitt erfið glósna gróm
og garna hjóm;
hún gat ei talað fleira.

10. Með færstum orðum teikn-
að tal

ligast mannliga skynsemi, rænu (*rationem*); þetta orð er og kynvillt orðið, því það er í raun rèttri kvennkyns, en talast þó hèr sem karlkyns.

testamentis vera skal,
að ei fari um viljans val
villt þeir eptir lifa;
kringumstæður þulu þrátt
þrætur geta' á allan hátt;
hèr var skrafið skírt og fátt,
svo skyldi' ei um það klifa;
letrið arfar lögðu' út samt
með lærdóms skamt,
ljóst þar um eg skrifa.

III. *Dauði Islenzkunnar. Stutt ræða um merkilig forlög og æfi þessarar víðfrægu og velbornu frúar. Exsecutio testamenti. Erfis-máltið og líkvöktun sona hennar, með öðrum fleirum undarligum viðburðum, sem skeðu við andlát og útför þessa líks.*

11. Öndin varpast yfrið hart,
augun bresta nokkurn part,
andast gat hún ekki snart,
um það sveinum kenni;
höfðu þeir með heimsku brall
hosur geymt við reykjar-fjall,
þetta bætti kunn'gr kall,
er komst að orsökinni:
við höfða-lagið lagði skó,
svo loks hún dó;
lètt sè jörðin henni!

12. Svoddan dauða sókti nú
svoddan eðla tignar-frú,
sem kóngar, jarlar, herrar, hjú
heiðruðu norðrlanda;
útlend varð við yzta skaut,
Islands múgr hennar naut,
yfir hvörja' hún skjóli skaut,
þeir sköpuðu henni vanda,
óvirtu sitt ættar líf
og ófár-kíf
itri lètu granda.

13. Hèrum mætti skrifa skjal,
skyld'ra þykir annað hjal:
hvörsu testamentis tal
tírar exseqvera;
hennar arfar strax í stað
stöldruðu' ekki neitt við það:
kroppinn volgan hefja á hlað,
húðina burtu skera;
sú var teygð á trumbu grind,
eg tel það hind,
tákn mun hljóðið gera.

14. Smurðu þeir með lærdóms list
líkið, svo það forvarist,
sem Egyptar festu fyrst
framleidt hold með limi;
múmía[1] varir minnisklár
mörg hundruð og þúsund ár;
hertr fúnar neinn èi nár,
nær samlitr hrími;
vöðvar, æðar, sinar sjást,
með sanni tjást,
sízt þeim eyðir tími.

15. Bræðr eptir samið sjá
siðum Gaura'[2] í Persiá:
dauðir úti staf við stá,
en stúrnir erfi brugga:
kemr þá fugl með fiðrið svart,
flýgr hann þeim í augun snart,
því þèr vitið vera' hans art
að vitja sálar glugga[3];
ef þann vinstra vill hann fyrr,
um velferðir
vinar dauðs þeir ugga.

16. Rètt eins hèr, þá rann upp sól,
reist var lík á breiðum hól,
stofnuð einninn erfis-jól
öllum bygðum fjærri;
að þá drógust ógrynnin,
allskyns fuglar, dýr og menn,
hrafna-flokkr fáskiptinn
falligr sat þar nærri;
hægra augað einn með hast
nam áráðast,
er það gleðin stærri.

17. Vinstra augað annar greip,
er það hvorki skrum nè geip,
sinn við báðir sátu keip,
sá það allr lýðr;
annar skrillinn af því fèkk
ofr-lyst, og þángað gekk,
sem framliðið líkið hèkk,

1) svo kallast þeir í fyrndinni smurðu og jörðuðu eðr niðrsettu líkamir, sem enn finnast á Egyptalandi. 2) afgamalt fólk í Persiu, sem nú að mestu er þaðan rekið. 3) svo hafa nokkrir spekingar kallað augun.

lukkast þessum síðr;
kannske grikkr komi' ámót,
sem komu-sjót
og krásina fyrirbýðr.
18. I því bili brast upp org,
breytiliga gjörði sorg,
flýr þá allt um tún og torg,
tjáði ei hèr að fiska;
en Islenzkunnar ekta þjóð
óttalaus við kroppinn stóð;
það var töfrað trumbu hljóð
talaði Mímis vizka;
Hússítum gaf hels í nað
sama' heilla-ráð
höfuðsmaðr *Ziska*[1].
19. Meðan buldrið mesta var,
móðurinnar erfingjar
kroppinn nálgast, kviðinn skar
knífr uppað brjósti;
út vóru tekin einkar brátt
innýflin og skorin í smátt,
dreifð um landsins alla átt
ekki' af neinum þjósti;
hèraf nokkuð múgnum mun,
að mínum grun,
í mellu leifast gjósti.
20. Almenningr tók þá trú,
tákna mundi breytni sú,
að samanlesa seinast nú
sagða þarma bita;
góðr sèrhvörr geinginn er,
gjörði það að sannast hèr;
áðr kepptist einginn grèr
Islenzkuna' að vita;
nægist tægjur þessar þeim
í þvogla geim!
þarum meir ei rita.
21. Einsog hljóðuðu' hennar orð,
hjartað strax var lagt á borð;
í hvirfings átu[2] stóðu um storð
steikt við yðnis funa;
trumban harin buldrar frekt,
borðhaldið var konúngligt,
en hjábörnum þeigi þekkt,
þarvið skulu þau una;
fornyrðum var piprað þrjál
og perments-kál,
praktína flestir muna.
22. I Sviþjóð köldu virðar víst[3]
vegligs dæmis hefðu fýst,
ormunum þeir muna sízt
að eta frændur dauða;
sjálfir heldr kviðs í krá
kostuliga jarða þá,
erfis-rètti þarf ei þá,
þarfnast geta sauða;
litli krummi' um veg þann var
til Valhallar
veifðr, loftið auða.
23. Máltíðina þegar þraut,
þegnar báru hlut í skaut:
fyrsti likið hópr hlaut
hálfan aldr vakta;
upprètt stendr aldra tvo,
er það fyrri vottað svo;
trumbu-slög þeim verða vo,
sem vita' ei slíka takta;
leggst það seinast skreytt í skrín
í skatna sýn,
er skapnað kroppsins akta.

*IV. Grafarskrift eðr heldr Yfirskrift Islenzkunnar.*

24. Yfirskriftin efst á staung
er, sem fylgir, valla raung:
STATTU VID, ÞVÍ LEID ER LAUNG,
LÚINN FERDAMADR!
ISLENZKAN HÈR ÖNDUD STEND,
EKKI GRAFIN, HULD NÈ BREND,
ALDIR MARGAR MÖNNUM KEND,
MUDAR HÈT MINN STADR;
FYRIR BÚKHLAUP FALLID HEF,
Á FÓTUM SEF;
FARDU, MUNDU, GLADR!

*V. Ályktunarorð í alvöru, um yfirstandandi ásigkomulag Islenzkunnar, hvað því spilli,*

1) Þessi *Zizka* var kappi mikill, eineygðr; hann gjörðist forîngi Hússíta móti Sigmundi keisara, og vann margar orrustur; þetta var hèrum 1420—1430; húðin var af honum flegin dauðum, eptir hans fyrirsögn á deyanda degi, og brúkuð á trumbu Hússíta, sem geingu berserksgáng, þegar þeir heyrðu hljóð hennar, en óvinir þeirra urðu felmtar-fullir og flýðu. 2) þeir stóðu í hvirfing eðr hríng, og átu svo. 3) Massagetar í Schytiu átu sjálfir sína framliðnu.

*og hvörnig bætast kynni; upphitatníng af dæmum annara þjóða, og seinast forfeðra vorra, hinna gömlu Íslendinga.*

25. Nú er endað æfintýr
efnis-stórt, en sögnin rír,
alvaran hèr eflaust býr
undir gerðar nafni;
sár þó virðist sannleikinn,
sönn og góð er meiníngin,
veit eg allir vitrir menn
veita dygða safni:
túngu rètta telja snild,
að tala skyld,
taka ei allt í gamni.

26. Bæði hrygð og hlátr er
hvað vèr gjörumst sprokverskir;
almúginn bagað fleipra fer
hvað frambera hinir illa,
ef þeim þykir ósnotrt
í Islenzkunni að gánga þurt,
þá er hitt af brautu burt,
bannsett álfa villa;
merkis-sprok að muna vel
eg mentir tel,
málinu þarf ei spilla.

27. Þeir, sem kunna túngur tvær,
tali hreinar báðar þær,
Frónsku' í dag, en Dönsku' í gær,
dulli þeim ekki saman;
en mig grunar, góðir menn!
það geti færstir; segi' eg enn:
til hvörs fer þá fordildin
að fá sèr spott og gaman?
eða mun það útlenzkt skikk,
þótt eyrar-gikk
á það finni' eg taman?

28. Vilji þið ekki fara' í Frans
og fremdar-staði Þýzkalands,
gefa munu þeir yðr ans,
öðruvís þeir haldi;
og eg nefni þó ei það,
(því eg hefi' í öðrum stað)
hvaða brestum innlend að
orða-brygðin valdi;
Norðmenn sama náðu tjá
í Nevstriá[1],
numið er það af spjaldi.

29. Burt er hin gamla Grikkja-þjóð,
gugnað fólk á Róma-slóð,
hvörra túngan hermist góð
herfáng allra landa;
lærdóm, stöðugleika-geð,
listir, sið og hreysti með
mistu, þegar málið rèð
í marglætinu stranda;
útlendíngr upp þá tók,
hvað aldin bók
öllum talaði handa.

30. Undantek eg orða-hvarf,
er annara túngna leita þarf;
*Cicero* þau segir í arf,
sèst hjá honum griska;
en svo margr yggr kjóls
affektinu leitar skjóls
í þeim reglum, helzt til hóls,
en hót vill ekki' ágizka;
óþörf glósan ílendist,
þar útlægist
öllu góð máliska.

31. Nú segi' eg eigi það af því,
eg þykist sjálfr vera frí,
inn af sliku margt sem ný
hjá mèr og öðrum læðist;
umgeingnin svo mæðir mann,
má það valla forðast hann;
þó sem áðr þekkja kann
og þvinga, nær það fæðist;
sízt honum lofa byrjar beint,
að bert og leynt
blönduð túngan ræðist.

32. Sèrilagi sè það oss
sannhvetjandi blygðar kross,
að Islenzkan er haldin hnoss
hjá Evrópu lýðum;
reikna þeir hana rarítet,
rètta móður, kjarna-hnet[2],
geymandi' hennar (mest hvað met)
mál í bókum friðum;
en vèr hana eigum frí,
og apari
öktum smáðr[3] tíðum.

33. Flestum leiðr fugl er sá,
færi' eg híngað glósu þá,

1) Rúðujarlar í Norðmandíi. 2) *kjarna-hnet:* nyt með kjarna.
3) þ. e. sem áðr.

dygðarlaus, sem drjúgum á
drýtr sjálfs síns hreiðr;
Islendíngar, áðr fyrr
öðruvísi sinnaðir,
málið hyrtu, manmar-byr
mestr var það heiðr;
lifði einhvörr af þeim nú,
það er mín trú,
yrði hann foka-reiðr.
34. Ef að stæði' upp andað lík
Ingólfs bónda' í Reykjavík,
molduga hrysta mundi flík
Mána göfgr afi;
piparatarts þá skylfi skran,
skrumarar mundu verða jan,
haugbúans við hússvitjan
hræddir falla' í stafi;
góðir hálsar hræðist ei
þá hræðu, nei!
hættum þessu skrafi!

# Tvídægra,

*eðr sambland draums og vöku, leiðslu og líkams sjónar, sem varaði í tvö dægr; skírt í nokkrum kvæðum af einni ókendri þjóð, er nefnist Sukkudokkar[1]; það fólk byggir þau héröð, er liggja norðr um múrana við Miðgarð, og tekr nafn sitt af fiðrilda veiðum, því það bjargast og framdregst í öllum athöfnum með þeirri íþrótt.*

## Fyrsta kvæði,

### um ýmsar heimsins forynjur og undarligar þjóðir.

*I. Um innlendan fróðleik og heimspeki.*

Heimspekin lömuð haltrar út,
heldr sjóndauf og niðrlút
þrammar í þessu landi;
himin og stjörnur hvörgi sèr,
horfir einatt í gaupnir sèr,
jörðin er hennar andi;
eg sný af því
ofaná bóginn, elti plóginn
undan skúrum,
stundum eg sofna með drauma dúrum.
2. Margbreytin vofa birtast kann,
breytilig sýnist náttúran
vera í vöku' og svefni;
en eg vil hafa fátt um flest,
fjölhæfni trúi' eg auglýsist
hennar í hvörju efni;
eg finn um sinn
hærsta dýr í heimi býr,
sem heitir Maðr,
mörg er þess athöfn og merkistaðr.
3. Islenzkar hefi' eg sögur sèð,
segja þær stundum mannkynið
skapað í skrauti ríngu:
með þremr höfðum þussar sjást,
þarmeð höfuðlaus tröllin fást,
sem hafa hvoft á bríngu;
samt verst sýnist,
það á sumum griðargumum
grói saman
aptantil maginn en endinn framan.

*II. Um annara heimsparta mannakyn, skrítinn skapnað og eðli.*

4. Satýrar hafrs hafa strí,
hestar að neðan Centauri
skrifast í skruddum Grikkja;
*Plinius* segir suðr um slóð
sè Skugga-fætla kölluð þjóð,
ilbreiðir þessir þykkja;
fyrir sól fá skjól,

1) ψυχοδοχοι þ. e. fiðrildaveiðarar.

borðstólar ilja búkinn hylja
breytiligan;
skil eg ekki þeim leiðist legan.
5. Athafnir þjóða veit eg vel:
veiða Skrælingjar kampa-sel,
Islenzkir fisk og fugla;
*Rúfus* austr í Indiá
*Alexanders* hernaði frá
mjög kunni margt að rugla;
ein þrá þjóð smá
tyrfings annir telr hann við
trönur eigi,
og stundum varla við þeim megi.

*III. Sèrílagi um Sukkudokka.*

6. Þegar eg aldrs fregna far,
fælist eg slikir meistarar
sízt geta Sukkudokka;
Grikkir og Róma merkismenn
meina' eg um þessi hèröðin
aldrei færi með flokka;
sú þjóð, þus-óð,
undarlig, á ýmsan veg
er öllum fremr,
líkamans piprleika nemr.
7. Aðr enn hermist öðru frá,
yfir höfuð eg greina má
lítið af þeirra leiðum:
þeir hafa feingið nafnið nýtt
nógu sniðugt og Grisku prýdt
fyrst af fiðrilda veiðum,
þartil, þú skil!
þeir sem kanna risa ranna
rekstr úra[1],
fundu þá norðr við Miðgarðsmúra.
8. Nú kynni' einhvörr að hugsa
í bland,
hvörnig í Sukkudokka land
komst eg svo lángar leiðir?
snart mun eg hitta svörin brýn,
segi' eg, náttúran, móðir mín
bar mig um björg og heiðir;
máske svo sè,
feril þenna fleiri kenna
fái' um heiminn,
náttúran dul er og nógu geymin.
9. Já, ef heimspeki-þáttinn þann
þagað er um, sem foristan[2]
við-unir vorra landa,
fljótt mundi vitið fara' á kreik,
forstand og mentir verða' að reyk,
en dygðin dáðlaust standa;
skuggsjó skír þó
öðrum mönnum er að sönnu
athöfn hinna,
bæði sem gott og gagnlaust vinna.
10. Til dæmis set eg þessa þjóð,
þar hefir eingis hyggju-slóð
áf-vitað áðr forðum;
þarfyrir ekki víst eg vil
vanti, sem á að leggja til,
svo skrifin standi' í skorðum;
sí-hnauk að auk
Sukkudokka lètt mun lokka
leti-slinna
betr að gæta búa sinna.

---

# Annað kvæði,

## um fund Sukkudokka-lands og ásigkomulag þeirrar þjóðar.

*I. Um nóttina farið í leiðslu til Sukkudokka-lands.*

Eg svaf í föstum drauma dvala,
djúp og víðáttu skygndist um;
yfir um fjöll og fjölda dala
fleygðist minn andi' í hamförum;
loksins, af allra veðra vind,
varð eg staddr á nokkrum tind.
2. Gullroðna sólin gjörði hnúka,
gáfu jöklarnir silfr-skin;
flatlendis vötn af varma rjúka,
vóru þar flestra gæða kyn;
fjalla hleðslan sem veggr var,
virtust mèr þetta nýúngar.
3. Ofan eg leit á ýmsar síður
ögrin[3] fögru með vötn og lón;
forsælu lækja blóminn blíðr
blindaði minna þánka sjón,
svo að eg ekki gaf um grand,

---

1) villinauta afrètt. 2) þ. e. fyrirmenn; Islenzkir hafa leingi helzt stundað fornfræði og sagnafræði. 3) litill fjörður, vík.

gladdi mig fagrt eyðiland.
*II. Dagrinn byrjast; verðr fyrst vart við Sukkudokka og þeirra athæfi.*
4. Innan stundar eg upp nam vakna,
óminnisdrykkju fann eg lykt,
augun draumleiðslu sýnar sakna,
sá eg niðr í dalnum kvikt,
mikill fjöldi þar fuðra rèð
fram og aptr um slèttlendið.
5. Þau dýr af Adams sýndust sæði,
sá eg manns form og athæfin;
þeir höfðu farar flasligt æði,
fálmaði hvörr um þverran hinn;
því hvarf til min sú hugsan veik,
hvort að þeir væru' í blindings-leik.
6. Eða bardagi vopnum velti,
varð eg þó síðar efandi;
hlupu þeir, þóað einginn elti,
útum buskann, sem vánkað fè,
og gripu höndum hátt í lopt,
hittust stundum og biltust opt.
7. Nýúngin úngan nærir huga,
nálgast vildi ëg þetta spil;
niðr úr hnúknum bratta buga
bogra gjörði ëg, þángaðtil
eg komst á sjónar hægan hól,
hrís-runna lim mig allan fól.
*III. Veiðiskapr Sukkudokka.*
8. Nú sè eg glöggt í sólarskini,
hví seggja mergðin hlaupa fer:
loptið er fullt af flugna kyni,
sem fiðurildi köllum vèr;
vösuðu þeir um víðan geym,
veiddu mikil ósköp af þeim.
*IV. Sjón Sukkudokka.*
9. Stundum hlupu þeir hvörr á annan,
hèldu samt ekki stríðin nein,
harða botnveltu hlutu' að kanna,
hnjótuðu' um marga þúfu' og stein,
aldrei vildu þó aptra sèr;
eg hèlt þeir væru sjónlausir.
10. Því vilda' eg hetr gefa' að gætur,
gat ekki leingr stöðvað mig;
úr greindum runna fór eg á fætr,
fetaði nærri allt á svig,
svo eg fyndi upptök og art
í svo skrítnum piparatart[1].
11. En mèr varð það, eg varð of nærri,
varð eg því fyrir mörgum stökk;
betra var mèr að fara fjærri,
fèkk eg makliga ganta þökk;
forvitnin trautt er haldin holl,
hlupu mig sumir nærri' um koll.
12. Samt urðu þeir ei við mig varir,
vöður fiðrilda tóku sèr,
af stóru eygðu ekki parið;
af því hèlt eg með sjálfum mèr,
þeir gætu naumast nokkuð sèð,
nema sem væri dálitið.
*V. Sveitarlag Sukkudokka-lands.*
13. Þar vóru mikil leiti' og lágar
lýngi vaxnar, en fifla jörð
smápolla girti, gaf óbágar
gilðrur fyrir svo kvika hjörð;
hèr flugnatekjur allar enn
áttu fyrrgreindir veiðimenn.
*VI. Þeirra skapnaðr og temperament*[2].
14. Þeirra sköpun og líkams læti
lítust mèr æði nýstárlig:
trosnaðar allar tær á fæti,
teygðr fingurinn hvörr um sig,
hakan á mörgum heldr slètt,
höndin bognuð og nefið brett.
15. Þó má ei guði þarum kenna,
þeim er eiminngis skuldin hjá:
hvað leiðar sem þeir leiðir renna
lita þeir aldrei veginn á,
heldr keppa með ærsl og ys
eptir sínum *principiis*[3].
16. Þaraf hlutu þeir limu ljóta,
líka barðist í kroppinn sigg;
smá-rispu græðslu feingu fljóta,
fundu trauðliga verk í hrygg;
mjög vel í þessum veiddu stað,
verð eg að tala meir um það.
17. Sama var ferðin ei á öllum,
ólíka veiðar höfðu ment,
olli því háttur, hvörn vèr köllum;
holdsvökva eðr *temperament*;

1) skjótligu affarasniði. 2) líkamans ásigkomulag, eptir hvörju lunderniö fer. 3) geðslagi og lundernisreglum.

óðfluga sumir fóru beint,
færðust hinir með leti seint.
18. Hópurinn fyrri fánga slýngi
fjölda mikinn í lopti tók;
en sum fiðrildin sátu á lýngi,
seinni manna það veiði jók;
höndum og munni hendtu þaug,
hugða' eg í fyrstu væri spaug.

*VII. Borðhald og nautnaræði Sukkudokka.*

19. Í knefum feinginn gjörðu geyma,
gamanið mest að þessu var;
geymdu þeir varla helmíng heima,
hitt fuðraði' útum neiparnar,
því samanklemmast kunnu' ei nær
krepptar og opnar vóru þær.
20. Munnrinn hèlt því hafði feingið,
hávaði þess í magann fór;
verkaði flugna flögtið leingi,
fiðríngrinn varð ofur stór;
kropprinn ónáð illa fèkk,
upp og niðr með hixta gekk.
21. Síðan hrepptu þeir mikla mæðu:
meltist það hysmi valla neitt,
kroppinum litla lènti fæðu,
losaðist ekki burtu greitt,
gaf miklu síðr hold og hams,
húngraðir gjörðust innan skamms.

*VIII. Höfðíngja-stèttir, rèttargángr og þrætur hjá Sukkudokkum.*

22. Tók eg eptir hvort rekkar ræktu
ráðstefnur og höfðíngja-stand,
elligar rèttinn sjálfir sæktu;
sá eg þá nokkurn mun íhland,
og að þeir vóru metnir mest,
sem mergð fiðrilda veiddu bezt.
23. Þeir átu líka miklu meira,
mettuðust seint í hvört eitt sinn;
þrifnustu fuglar þeim tilheyra,
það eru kaupmanns-fiðrildin,
vóru þau feit og flugu verst,
fylltu þá, svo eg undraðist.
24. En eg meinti þeir yrðu galdir,
orrustu vöktu, dans og leik;
sumir af þeim, sem ei vóru' aldir,
eta vildu fiðrilda steik;
eg undirstóð ei svoddan sök,
sýndust mèr skiptin verða lök.
25. Einvígi, þrætur, alla dóma
afgjörðu þeir með sama lag;
brúkuðu hvorki skjöld nè skjóma,
skilmuðust aldrei nokkurn dag;
fiðrildin lètu fljúga skjót
fullum lúkum hvörr öðrum mót.
26. Gjörðu þau mörgum íllt í augum,
eyrum og nösum mesta tjón;
undarligri þeir urðu draugum,
einkum þegar þeim glaptist sjón,
skilníngarvitin mistu magn,
máttu þau ekki vinna gagn.
27. Lýng-grúblarar og loptafarar
lag eins höfðu við sóknirnar:
þegar prósessinn skreið til skarar,
skilmuðust þeir, sem veðra par[1],
hinir með þrá og þoku bopp,
þessir með gönur, ið og hopp.

*IX. Kvennfólksins veiðiskapr.*

28. Þar vóru bæði konur og kallar,
konurnar miklu færri samt;
hèlt eg þær væru ekki allar,
aldrei varð þeim svo veiðitamt,
hæverskan olli þeirra því:
þær hoppuðu' ekki loptið í.

*X. Túngumál Sukkudokka.*

29. Málfæri rart í kyn þeim kippti,
kunni' eg ei skilja framburðinn;
trúligt: við Babels túngna skipti
tal hafi lært í fyrsta sinn,
Norrænu, böguð nefni' eg ok[2]
Norðrálfunnar flestu sprok.
30. Og annað fleira fór þar eptir,
flest-allt var hjá þeim breytiligt;
margar numdi eg fleiri frèttir,
fæ eg það allt uppreiknað tregt;
en þeir, sem koma eptirá,
umbæta, hvað mig vanta má.

*XI. Nú kvöldar. Erfiðislok og náðir Sukkudokka.*

31. Nærri því var eg orðinn ærðr,

1) hrútar (tveir og tveir). 2) og.

undraðist þetta manna skikk;
vilda' eg þó gjarnan verða lærðr,
var hún Minerva feit og þikk;
hugrinn fèll, því heim til mín
hugsaði eg með sorg og pín.
32. Menn draga' ísur[1] og kolli
kinka,
komið var undir sólarlag;
fiðrildin tóku mjög að minka,
miklu var slátrað þenna dag;
því lagðist niðr öldin óð
ofaní grasið, þar hún stóð.

33. Eg gjörði líka likt hið sama,
liftjóna hlýri sókti mig;
varaðist ei hans ruskið rama,
rakst eg á grimu kyrða stig;
mörg forynja þar mæta rèð,
mest-allt af því eg hafði sèð.
34. Heita skal eg á tíð og tíma,
taki èg morgun snemma' í vakt[2],
um þessar landsins áttir skýma,
upplýsa hvað eg hefi sagt;
þó drauma tiðin nú sè naum,
nóg er komið af þessum draum.

## Þriðja kvæði,

### um ætt og uppruna, fyrri atgiörðir og álög Sukkudokka.

*I. Seinni nóttina birtust guðin; það var fjöldi landvætta, álfa og haugbúa Sukkudokka-lands.*

Dauðabróðir blekkti
búk og heila-torgir,
lá eg í einni laut;
himins her eg þekkti,
hjá mèr álfa borgir[3],
samt eg náða naut;
opnast sá eg hæðir, björg og hóla,
hvaðan vættir, tröll og dýsir róla,
buldra, hljóða, hlæa, skrækja, góla;
hræðast gjörða' eg læti slíkra dóla.
2. Ur mèr ei var rokið
æði dagsins fyrra,
hjá mèr fyrst eg fór;
ei var leiknum lokið,
leizt mèr ekki kyrra:
styrjar efnin stór;
kveið eg því við þungu rauna
blandi,
þóktist aldrei ná því fyrra standi;
álög röm með umvillinga grandi
eg hèlt væri rík í þessu landi.
3. Fjöldi bjarga-búa
brunar í ýmsum myndum
hauðrið, lopt og lög;
sauða, svína, kúa
sjóar meðr kindum,
flögta dreka-drög[4];
inni fjöllum ljósin log, 'á borðum,
lýsa þeim, sem eyði ráða storðum;
Heimskringla það hermir ljósum
orðum,
hvörnig birtust landvættirnir
forðum.

*II. Landvættir vekja upp þau deyddu fiðrildi, sem sækja að Sukkudokkum.*

4. Hoppuðu huldu-kindur,
hjá mèr ekki töfðu,
slóu þær annan slag;
þángað vofna vindr
vóð, sem itar höfðu
fuglað fyrra dag;
þeirra lík, sem drepin vóru, vakna,
við það hinir með andfælum
rakna;
dauða-barma böndin á þeim
slakna,
brutust um og nætr-hvíldar
sakna.
5. Dags þá dreymdi læti,
dreingir umlið jóku,
álfar espa spil;
sumir sjást á fæti,
síðan reyka tóku,
mistu magn og il;
um mig fór, eg óttast rèð í svefni,
ef eg lýg, þess steina-goðin hefni,

1) dotta. 2) geti eg snemma vaknað á morgun. 3) hamra.
4) eyðifjöll.

og mèr fyrir fimtar-dóm innstefni;
fólkið hlýði, hèr er spán-nýtt efni.

*III. Fornmenn (hvörra sælustaðir eptir dauðann eru í björgum og hólum hjá landvættum) koma fram og forlysta sig um sín hin fyrri landnám.*

6. Loga bjarga-bygðir,
brimi guða-ranna
nóttar svipti sút;
allar hvurfu hrygðir,
hópar fornra manna
þustu þaðan út;
ofanum landið ferðum gjörðu flýta,
fyrri tún og óðul vildu lita;
einn af þeim, sem eggjum beitti rita,
að mèr gekk og kveðju greiddi nýta.

7. Sá var mikill maðr
margra vegna kynja,
bar hann Bölverks eld,
vænn og vel limaðr,
vafði kroppinn brynja,
yzt bar fata feld,
skjaldar hvylftin skýlir handar veggi[1],
skeggið trúi' eg niðr um bríngu leggi,
leista-brækr síðar vóru' á seggi,
svörðinn hjálmr, spángir klæddu leggi.

*IV. Einn haugbúinn gefr sig á tal við dreymandann.*

8. Spurði' eg hal að heiti;
hann rèð aptr svara:
Njáll er nafnið mitt;
ligg eg í nærsta leiti,
lyst hefi af að fara
nótt um námið fritt;
sè eg glöggt að, gestr! ertu mæddr,
gakk með mèr og vert ei parið hræddr,
fyrir vættum fyrst eg er kýngi gæddr,
fleku Sörla' og beztu hlífum klæddr.

9. Eg skal vin þinn vera;
vel eg nam því taka,
líka þakka þýtt,
á fætr búkinn bera;
brátt eg spurði saka:
hvað er hèrna títt?
hvörjir veiða hvatan fugla grúa?
hvört er landið? hvörjir í því búa?
er þeim sjálfrátt? á eg mèr að trúa?
eða hvörnveg kann eg heim að snúa?

10. I senn öllu svarað
ekki get eg, maðr!
heyrðu hvört um sig;
þá við komum þar að,
þinn sè minnis-staðr
heill við heyrna stig;
lofa eg því, og læt hann um það skrafa,
lýðir við óminnis haf er grafa;
af fiðrildunum, fyrst hann greindi' án vafa,
fróðleik þenna skáldin numið hafa.

*V. Haugbúinn byrjar sína sögu á uppruna Sukkudokka.*

11. Oðin, alda-faðir,
austan kom úr heimi
niðr á Norðrlönd;
Æsir óku glaðir,
auði með og seimi
bygðu breiða strönd;
af þeim komu mikið margar ættir,
mergðin fólks og margra kynja þættir;
allir þóktust öllu góðu bættir,
sem af þeim feingu vina-brögð og sættir.

*VI. Fyrst byggt Sukkudokka-land.*

12. Liðu lángar aldir,
landið þreyngjast naði,
fólkið fjölga rèð,
njótar naumla taldir;
nokkrum varð að ráði
burt að flytja fèð;
bústað nýan bragnar sækja gjörðu,
bárust fyrir loks á þessi jörðu,
bjuggust um, og einga hluti spörðu,
að þeir gætu lífi bjargað hörðu.

1) síðunni.

*VII. Ríki landvætta, og vandfærni við þá.*

13. Hæðir fjöll og hamra
helgar bygðu vættir,
sem að gesti sjá;
vopnin glóa og glamra,
glimu-sköll og slættir
fældu' í fyrstu þá;
kynligt er það kynið foldar-goða,
kann í mörgu þjóðir samt að stoða,
þeim er styggja þúngan birla voða,
það má bezt af fyrri dæmum skoða.

14. Þegar í þinu landi
þegnar bygðu vegi,
lögin banna brýn:
gyni með gapandi
garpar skyldu fleyi
leggja lands í sýn,
að landvættir ekki fældust viðr;
*Egill*[1] geymdi þessa reglu miðr;
*Hafr-Björn* sú guða-gæfa styðr;
grimdin þeirra kom í hripi niðr.

*VIII. Sukkudokkar vingast í fyrstu við landvætti, en óvingast síðan, smá þá og guðlasta.*

15. Þeir, sem höfðu hingað
horfið, gjörðu sama;
í fyrstu náðu náð;
þessum guðin þinga
þrif og missir ama,
fyrst þeir drýgðu dáð;
en þeir stóðu ekki fastir leingi,
utan færstir; hinir[2] annað meingi
misti lán og vætta vina-feingi;
var ei kyn, þó síðan illa geingi.

16. Því þeir sögðu svona:
svoddan barnalæti
eiga minnst við mig;
kann eg, einsog kona,
að kalla' á slík ótæti?
sjálf þau eigi sig!
guðhræðslan er hugleysingjans hæli,
hún á stundum ræðr af og tælir,
alla menn í framkvæmdunum fælir;
frjálsir hafa vit og eru sælir.

*IX. Guðin reiðast og hefna sín.*

17. Goð í reiði gegna:
galdir fölsku kálfar
álög fái föst!
dökkar dýsir hegna,
dragi svartir álfar
at þeim kýngi-köst!
sælir aldrei sitji þeir um aldr!
sættum spilli, firri lifi hjaldr!
á þeim hrini seyddr synda-galdr!
sanna dóminn Odin, Freyr og Baldr.

*X. Osköp, eymdir og ómennska Sukkudokka.*

18. Osköp á þá striddu,
upp frá þessum degi,
að hvörr annann drap;
meðr morði niddu;
margr hygg eg deyi
viðr trygða tap;
sveitadráttr brennir bygð og eyðir,
bregðast arin, gras og fiskaveiðir,
gjaldið vantar, vaxa spjöll og neyðir,
verða býsn og tiðkast drauga reiðir.

19. Þjóð í korku kalda
komst af sultardómi,
mannskap misti burt;
eingir vopnum valda,
venst það af í tómi,
förlar frægð og kurt;
mátti sjá, hvað megnar apa-grilla;
miklu kann þó vitleysan að spilla!
innbirlingar þegar þrekkinn gylla,
þrá sèrvizkan fullkomnar hið illa.

*XI. Guðin aumkast yfir þá, og vilja lina á þeim straffinu, en þeir vesna því meir, með tvídrægni morðvígum og öðrum niðingsskap.*

20. Helgar vættir vildu
vægja þessum mönnum,
ef þeir sæi' að sèr;
þviað eingir þyldu
þúngar plágur hrönnum,
ef ei upp-styttir;
goða reiðin rèði' um sinn að sjatna,
sefast heipt, en aptr lifna skatnar;
árin betri, líka veiði vatna,
virðum gefr orsök til að batna.

1) *Egill Skallagrímsson* særði landvætti í Noregi til ófara *Eiríki* konúngi. 2) *f.* hitt.

21. En þeir eingu' að síðr
áfram smáðr[1] halda,
þektu' ei þessa líkn;
vesnar landsins lýðr,
löstum flestum valda,
sízt er nokkur sýkn;
þó var ekki það með fornum hætti,
þol og kraptar nú eru burtu rættir,
harkan linuð, horfnir vopna slættir,
hjálmar, brynjur, skildir sundr-
tættir.

22. Um er öllu snúið,
önnur vopnin brúka,
halir í hinna stað:
bragða-refði búið;
bana-skeytin fjúka
gyllt um galla-vað;
Heimdals-sverðin, hert í eitri slíta,
hjarta manns, og æru-nými flýta;
dirfsku meðr sárt á baki bíta,
blóðið hleypr útum vánganu hvíta.

23. Fjærri þykjast þrælum
þeir, sem framan gánga
með orða bitr brögð;
skilmast hart með hælum
hinir æfi lánga,
jöfn er listin lögð;
vitrir heita' og viðsjálir í máta,
vesælingar þeir, sem undan láta,
eðr þegja, þegar aðrir státa,
þá má kalla fífl og eptirbáta.

*XII. Guðin úthella sinni bræði yfir Sukkudokka, taka frá þeim mannligt eðli, og leggja á þá fiðrilda sókn, óþrif og óþola.*

24. Þetta' er skírt að skilja,
skildir þú vel íta
miklu manndóms hót;
þú munt vita vilja,
vættir hvörsu líta
á þá yfirbót;
reiðast þær, svo rifna fjöll og
brenna,
reisist hafið, skjálftar landið
spenna;
lýðir þegar slíkra krapta kenna
keppast við, og dreift í felur
renna.

25. Guða þrumur þjóta,
þeir í leiptri gánga
fram með hríða-foss:
heyrið, helju-þrjótar!
hafið þið æfi lánga
mjög svo móðgað oss;
allar skepnur ykkr móti vitna,
af því gæfa lán og hagr slitna;
til ónýtis þið ætið skuluð svitna,
á ykkar hryggjum sár álögin bitna.

26. Þèr hafið illsku iunsta
og það sízta valið
fyrir lán og fè;
kallað mest hið minnsta,
margar heimskur talið
frægð og forsjálni;
vorar gáfur vanbrúkað í tómi,
verkin niðings haldið væru sómi,
anað fram með eingum sælda
rómi;
af því skulu þið mæta þessum
dómi:

27. Eyðist eyrðir góðar
eyðist forða vissa,
matar nautn og nyt!
annarra eðli þjóða
allt þið skuluð missa,
hreysti, vald og vit!
veiga-minnstu munum dýrin
sýna,
megi þið annað ekki sjá nè tína,
en þau skulu innan magann pína,
iðra-verk og fiðring láta' ei dvína.

28. Iþrótt ýmsa ræki,
annars herinn blindr,
með fiðrildin mjó!
að í svefni sæki
svoddan orma kindr,
vöku raski ró!
hysmið brúki fyrir vetrar forða,
fyllist minnst af kergi scyðar-orða!
með hègóma ver og veiga-skorða
verði þetta lèttmetið að borða!

*XIII. Sukkudokkar missa sína fyrri náttúru, og verða fiðrildafángarar.*

29. Dómnum allir ugðu
að, sem núna greindi,
trylltust týrar strax;
búskap öllum brugðu,
bannið ei sèr leyndi
goða galdra lags;

1) sem áðr.

á sumrum gjörðust uppkomnir
og óðir,
en á vetrum svefnugir og hljóðir,
niðr á kvöldin leggjast máttu
móðir,
morgundaginn röktu sömu slóðir.
30. Það eru þessir flokkar,
þú, sem litið hefir,
maðr minn! í gær;
seggjum Sukkudokka
sýsla nafnið gefr,
orðið vitum vær;
loks er kominn tími til að venda
talinu burt frá þessum hópnum
kenda;
í stuttu máli svo er sögð á enda
sagan þeirra, og hèrna skal hún
lenda.

*XIV. Haugbúinn greinir um afstöðu Sukkudokka-lands, segir þar byggi og nokkrir mennskir menn, sem ei hafi orðið fyrir álögum, og kennir ráð að komast burtu.*

31. Þú hefir vegi vaðið,
viltr, jötna-bygða
lángt í þetta land,
sem er hömrum hlaðið,
hauðr sælu-brygða,
geysir maðka grand[1];
Miðgarðr norðr hátt við hliðin
liggr,
hèr er opinn frosts og èla glyggr;
úr miðjum heimi mestan hita
þiggr
mærin Hárs, því fyrrum sat þar
Yggr.
32. Kanna máttu meiri
manna-bygð og ríki,
sè þín sókn ei lin;
því hèr finnast fleiri
fýrar, öðrum líkir,
sem við eru vit og skyn;
nú er dagr, nú er burt mitt yndi,
nemdu hvað eg sagða þèr í skyndi;
ef þú sofnar upp á þessum tindi,
eflaust kemstu burt með hvirfil-
vindi.

*XV. Haugbúinn hverfr; seinni dagrinn byrjast; kannað landið; finnast fleiri menn; konur Sukkudokka; þeirra heimaverk.*

33. Sem hann þetta sagði,
svefni nam eg bregða,
daginn lýsa leit;
halrinn hvarf að bragði,
hjá mèr var ei tregða,
reykaði' eg um reit;
allan daginn breiða bygð eg
kanna,
birtist margt af skikki hèraðs-
manna;
hvað mèr sagði haugbúinn eitt
og annað,
horfði' eg á, svo reynslan fèkk
það sannað.
34. Mennska menn eg þekkti
marga' í þessum sveitum
hinum flónsku frá;
af Sukkudokka slekti
sumar[2], líkar geitum,
klyfra kletta' uppá;
af fiðrildum aðrar hysmi safna,
á það setja' og vetrar-skamtinn
jafna;
látum skjóta Sukkudokka dafna;
Dvalins bila fley, en eigi kafna.

# Smá-kvædi.

## I.
## Höfðíngi með heimskum.

Hvörr er haldinn mestr
heims í dára fjöld?
hvörr er hölda beztr?
hvörr á þessari' öld
vit og mætar mentir ber?
mun eg ætíð svara mèr:
hvörr er gætir sízt að sèr,

1) vetrar-ríki. 2) konurnar.

og sýnir lætin göld.
2. Aðr merkis-maðr
mestr fyrrum hèt,
sem hreystiverkin hraðr
hvörgi vanta lèt:
líkt sem eldr fyllti frjáls
fasið, veldi' og orku máls;
dygðir seldu blossa báls,
bölva feldu hret.
3. Nú er orðið annað:
almenningr þann
kallar mestan manna,
sem minnst og lakast vann:
sinnið úngar svika-burð,
sætu túngan eitri smurð;
dygða gúnga þessa þurð
þroska nefna kann.
4. Gjöri gleði-konum
gautr eptir spaug,
heimskir það á honum
hofmanns kalla taug;
kompánligan halda hinn,
sem, hvörgi tregr, skálk og hvinn
að sèr dregr; orðin svinn
einginn vegr þaug.
5. Svoddan kempu kostir
kallast þetta mund;
alvarleikans losti
lastast hvörja stund;
þeir á sínum vizku-veg
verða' að svínum, ætla èg;
heitin fín að halda treg
herra sýnist lund.
6. Hvörr er, fráðu flatr,
fremstr höfðíngi?
sá, er hvörgi hvatr,
heldr blauðr sè;
af því strikin narra nem,
nettust svikin eins þèr tem!
sá er mikill maðr, sem
mætast þykir spè.

## II.

## Grílu-kvæði.

Hèr er komin hún Gríla,
sem gull-leysið mól,
:|: hún er að urra' og ýla,
því af henni :|: kól.
2. Hún er að urra' og ýla,
því ein loppan fraus,
:|: þrjár hefir hún eptir,
en það eg ei :|: kaus.
3. Þrjár hefir hún heilar
og hlakkar, sem örn;
:|: hún ætlar at hremma
þau íslenzku :|: börn.
4. Það var hann *Skúti Marðarson*,
hann svarði við það,
:|: að hennar skyldi' hann hyskið
högga niðr í :|: spað.
5. Að hann skyldi brytja það
og borða við saup;
:|: heyrði það hún Gríla
og hèlt það væri :|: raup.
6. Heyrði það hún Gríla
og gretti sitt trin:
:|: ekki munu þeir grákiæddu
leggja til :|: mín.
7. Settust að henni dýsir
og sálguðu' henni þar;
:|: hróðigr var hann *Skúti*
og hálf-kendr :|: var.
8. Þá mælti það *Tuga-sonur*,
tirrinn og blár:
:|: koma munu þau Grílu-börn
til Islands í :|: ár.
9. Koma munu þau Grílu-börn
og kveða við dans:
:|: kyrkjum við hann *Skúta*
og kumpána :|: hans!
10. Glöð urðu þau Grílu-börn,
og geingu af stað:
:|: aldrei skal þeim Islendíngum
eyra við :|: það.
11. Ekki skal þeim Islendíngum
æfin verða laung;
:|: margan heyrða' eg óvætt,
sem undir það :|: saung.
12. Margan heyrða' eg annan,
sem undir tók þau hljóð:
:|: nú mun ei þeim Islenzku
æfin verða :|: góð!
13. Aptrgeingin Gríla
gægist yfir mar;
:|: ekki verðr hún börnunum
betri', enn hún :|: var.

## III.

# Vínleika-bragr.

*Um þær hátíðligu gleðir víngoðinu Bakkus[1] til dýrkunar, sem fyrst vóru byrjaðar og haldnar í Grikklandi af konum þriðja hvört ár, á nætrþeli, en síðan eru uppteknar og haldnar í flestum löndum af bæði körlum og konum árliga, og opt á ári hvörju, nætr og daga, og það ekki sízt (eptir efna-skamtinum) hèr í landi.*

Farið á fætr brátt,
frestin[2] er ekki par,
vinviðs hefjendr[3] hátt,
hofgyðjur Bakkusar!
eins, hvörja signdi sèr[4]
sá Guð við ölva dans,
upp skuluð allir þèr,
eyþyggjar Thýla-lands[5]!
2. Sjá! Dvalins-leika'[6] í salt
sigin er oss í frá,
en bróðir hennar[7] allt
andlitið lætr sjá,
og vorir vinir skjótt
vakna við lætin blið;
nú er hin lægsta nótt[8],
nú er hin bezta tíð.
3. Því, meðan til er tóm
tíðki þèr slíkan leik!
hèrtil með hásan róm
hratt sýnið þánka-reyk,
eins þeirra seggja sið,
sem ykkar athæfi,
þó klasa-vökva við,
viðlíkjast, ekki sè.
4. En svoddan sjóna hýsn
sízt rýmir tíðin naum,
helzt þegar hölda fýsn
heyrir og sèr þann glaum;
tíminn með geysi gár,
gefr ei leiknum stað;
nú er það þriðja ár
því nærri fullendað.
5. Sver eg við Sviðris fjón,
sver eg þèr, Freya! með:
hèr eru svipuð hjón:
hèr er rètt ákomið[9];

---

1) *Bakkus:* svo diktuðu skáldin um þenna höfund drykkjuskaparins, að hann hefði verið sonur Júpiters og Semelíu, dóttur Cadmusar konúngs í Theba-borg, tvisvar borinn; því þá Júpiter var búinn að lofa Semelíu, að veita henni bón þá, er hún beiddi sig, þá bað hún þess, að ráði Júnónar gyðju, konu Júpiters, að hann vildi liggja hjá sèr eina nótt, einsog hann lægi hjá Júnóni, en það var ei við dauðligs manns eðli; þó veitti Júpiter henni bónina, heldr enn að gánga á eiða sína. Semele brann af skrugguleiptri því, er jafnan fylgdi Júpiter; en hann lèt skera kvið hennar, og taka þar út fóstrið, var það látið í lær Júpiters, og fæddi hann það, nær það var svo vaxið; það var Bakkus, sá er herjaði í Austrveg, og lagði undir sig Indíulönd; batt hann þá til sigrmerkis um höfuð sitt og manna sinna vínviðar-greinum; hann fór fram, hvar hann kom, með miklum drykkjuglaum og hljóðfæra saung, í hvörs minning Bakkanalía komu upp í Grikklandi; síðan var hann guð haldinn, og diktaðist að vera skegglaus, rauðleitr og bústinn, akandi í reið með tigurdýrum. 2) nú brúkast „frestrinn"; tíminn er stuttr. 3) *vínviðs-hefjendr* o. s. frv.; konur einar vóru hjá Grikkjum prestar Bakkusar, var þeirra merkigrein, eðr stafr, umvundinn með vínviði, og báru þær það jafnan í leiknum. 4) *signdi sèr,* helgaði til þjónkanar (drykkjunnar). 5) *Thýle* eðr *Thúle* er eyland, sem fornir ritmeistarar kalla Island, þó meining þeirri hafi síðan mótmælt verið. 6) *leikmey Dvalins:* sól. 7) máni í fyllingu. 8) Bakkanalía vóru haldin um nætr. 9) þar Drykkjuskaprinn (Bakkus) giptist Heimskunni.

ljósmóðir gæzkugjörn
glöggt veiztu, Júnó rík[1]!
þeim hjónum þeirra börn
þó muni verða lík.
6. Hvað segir eyrað í
örlög-spá Fatúa[2]
sínum stallsystrum, frí
saungskara-kvennanna?
hvað Fánus[3] frètta-skipt
fèkk Bakkó hvíslað um?
hvört er hún Heimska gift
harðsinnuð kallinum.
7. Sjáðu hèr saung og glens,
sástu fyrr þvilíkan?
öldúngis impótens[4],
en faðir samt er hann;
og móðir ófrjófsöm,
ekki' er það minna verdt,
vond skrýmsl, að villa töm,
vínguðnum fæðir bert.
8. Það hyski hreiðrin sín
hefir vætt alltsaman,
eyar og fjöllin fín
falsað með ólyfjan;
einsog eitraði fyrr
óvættr Lernu-sveit,
Hýðru[5] við heljar-styr
Herkúlis orka beit.
9. Sjái þið saungvarugl,
sem krummi[6] strandaði' í,
hann var fyrst himna fugl,
helgr Apollíni;
hörundið hvítt og bjart
há lýstu sólar-ve,
en það varð illt, og svart,
af því hann krúnkaði[7].
10. Þá hljóta varla víf
vínguðsins betri kjör,
af hljóðum hás og stíf;
himneskra ljósa fjör
vita þau ei hvað er,
upphafið svartan lit
af nætr-niði ber[8],
neitt er ei daga strit.
11. Svo verið sið og ár
sækendr hrafna-geims[9],
sem boða feigð og fár
flestöllum dýrum heims!
nátt-hrafnar nefndir hjá
náttkendum föður víns[10]!
náttsetjist[11], nátt ei má
neita þeim mána síns!
12. Samt fagrt sólar-goð[12],
sem á Hvítbjarga-tind[13]
konstmeyum[14] birtir boð,
bogfimr hörpu-grind
stillir við sætan saung,
svartnættis-gylva raul,
þó bassa brysti faung,
brúkar hann ei það gaul[15].
13. Burt! burt Semelíu sveinn!
sízt hafðu leingri bið,
kostr er ekki neinn,
að þú hèr standir við;

---

1) hún var haldin verndargyðja sængrkvenna og barna í fæðíngu. 2) *Fatúa* skírlíf norn, er sagði kvennfólki fyrir forlög sín; hvað mun hún segja þeim glaumfullu vinkonum? 3) *Fánus*, kóngr í Italíu og bóndi Fatúu, spáði karlmönnum; hvörju mun hann hvísla að vínguðnum (drykkjumönnum)? 4) kallast sá, sem er ónýtr til barngetnaðar. 5) óvættinn *Hýðra* við Lernu-vatn, ógrligr eitrormr með 50 höfðum; þegar *Herkúles* hjó eitt höfuð af honum, komu fram 2 aptr, vann hann þó orminn um síðir. 6) Hrafninn var í öndverðu á himnum, og vakti goðin; hann var helgr *Appollíní* og Júpíter. 7) goðunum þókti krummi halda ofsnemma tíðir og sýngja ofopt; skiptu þá um lit hans. 8) þær hafa frá fyrsta verið svartar, því allt er í myrkri svart. 9) sækið samfèlag hrafnanna! 10) hann hefir án efa feingið nafn sitt af nætrbramli. 11) kyrrsetjist af nóttina. 12) Appolló. 13) Hvítbjörg og Gunnlöð mega vera oss ístað Parnassi og Músarum, en Mímisbrunnr ístað Aganippi. 14) Appolló er forseti þeirra 9 konstmeya, er Músæ kallast. 15) þó að Appolló (er einkarvel kann að boga, saunglist og hörpuslætti) vantaði bassasaungvara, mundi hann varla taka svartnættiskonúnginn, Plútó, myrkragoðið, sem á Próserpínu, eða túnglið.

eins þinna þerna lið
það hefir landið sveingt,
æ! hèðan eigið þið
öllsaman heimangeingt.
14. Eða', er það ekki nóg,
að, þó þið farið burt,
öll draga ykkar plóg
einþykkni, flas, ókurt?
vín drukkið vökvalaust
verkar allt bygðarlag;
vor, sumar, vetr, haust,
vitleysa nótt og dag!

# IV.

## Flösku-kveðjur.

*Mjúk og skemtilig satýra, sýnandi inngáng, framgáng og útgáng drykkjuskaparins.*

Enn skal enni hlúna,
ertu komin núna,
flaska! fleyti-búna,
full uppundir tappa!
til þín vil eg vappa?
:|: skrúfið af af af! :|:
skrúfið af, fyrir utan vaf,
æ, eg verð að klappa!
2. O, mín flaskan fríða!
flest eg vildi líða,
frostið, fár og kvíða,
fyrr enn þig að missa;
mun eg ei mega kyssa
:|: munninn þinn þinn þinn? :|:
munninn þinn svo mjúkan finn,
meir enn verð eg hissa.
3. Fríðast flösku hjarta,
flaskán mín hin svarta!
hvort mun hrundin skarta
hvít og nett í orði
betr enn þú á borði?
:|:þín brjósta-mjólk mjólk mjólk,:|:
þín brjósta-mjólkin fyllir fólk,
sem fýrugt drekka þorði.
4. Æ! eg allr loga
af þeim mjólkr-boga;
þig skal tutla og toga
trútt með vara-kampi,
mitt yndi, ljós og lampi!
:|: eg ángr bíð bíð bíð, :|:
eg ángr bíð, nema' allan tíð,
ár og síð þèr hampi.
5. Af því öllum mönnum
auka gjörir hrönnum
þorið ótt í önnum,
afl og vit úr máta,
því mun þegninn játa,
:|: ör með smakk smakk smakk, :|:
ör með smakk, sem af þèr drakk,
og ærið gjörði láta:
6. Minni mýkir flaska,
munninn lætr vaska,
augnaráði raska,
ramba' á báðar síður,
svo fer ekki síðr;
:|: eins og dans dans dans, :|:
eins og dans fer eðli manns,
allt í þoku líðr.
7. Unnustu þótt eigi
eina, sem eg þreyi,
henni ann eg eigi
eins og þèr, mín flaska!
þú ert tælin taska!
:|: gefr vín vín vín, :|:
gefr vín að gamni þín
og gleðr lyndið kaska.
8. Vaknar vès og glaumr,
vellr horna-straumr,
tæmist tíminn naumr,
talar flaskan þekka:
meira máttu drekka,
:|: þar til út út út, :|:
þar til út af þessum kút
þornar yndi rekka.
9. Fáðu fylli staupa,
frá mèr skaltu' ei hlaupa,
elligar aðra kaupa
enn þú fastnað hefir,
hún þèr hýru gefr;
:|: haldtu' um mig mig mig, :|:
haldtu' um mig, en helltu' í þig,
hvað sem þorstinn krefr.
10. Þú ert þriflig kona!
því lætur'ðu svona?
eða viltu vona
mín verði bygð á sandi?
nú er eg nokk' í standi;
:|: fyrir þræl þræl þræl, :|:
fyrir þræl eg hopa' á hæl
hvörgi' í þessu landi.
11. Og þótt allir saman
að mèr kæmuð framan,

eg held yrði gaman
ykkar hrygg að sveigja;
skrýtin bónda-beygja
:|: mundi þá þá þá, :|:
mundi þá fyrir menn að sjá,
sem mættu frá því segja.

12. Augun fljúga og fljóta,
fallig orðin hrjóta
stömuð hátt til hóta,
höfuðið er í ryki;
túngan hál með hiki
:|: tæpir á á á, :|:
tæpir á og fer í flá;
færist eg með diki.

13. Mjúkt eg finn til fóta[1],
föntunum vil eg blóta,
hendr happa njóta:
þeir hlaupa' að augnabliki,
og standast ei við striki;
:|: alltíð má má má, :|:
alltíð má èg meira þá,
ef mæti' eg eingu sviki.

14. Mýking[2] liðamóta
mèr er helzt til bóta,
því skal bramla' og brjóta,
bölvun þó að jyki,
bifast borð og kriki;
:|: augun grá grá grá, :|:
augun grá í svima sjá:
mèr sýnist húsið kviki.

15. Þá skal fiðlan þjóta,
því èg verð að gjóta
augum enn til snóta;
eingum held eg þyki
vert, eg illu viki
:|: að þeim; há há há, :|:
að þeim há mun heillin gá,
þó hèr eg nösum lyki.

16. Leiru-lækja-blómi[3],
ljúf og skær í rómi,
hnoss að hölda dómi,
hlaðin sjóar brima!
ó, að einhvörn tíma
:|: feingi þekk þekk þekk, :|:
feingi þekk á brúðarbekk
böndin teingd[4] að stíma!

17. Birtíngs lauga ljómi[5]!
ljós að allra dómi,
hvört í tæku tómi
tæki sá því næði
úngr, ef honum stæði
:|: tilboðin[6]-in-in, :|:
tilboðin með karfa-kinn
og kristalls-augun bæði.

18. Íslands ítra meya
eingra stelpu-greya,
heldr hefðar-freya,
sem hvörgi sómann flekka,
mun eg minni drekka;
:|: fái þær þær þær, :|:
fái þær æ fjær og nær
frið og heill án ekka!

19. Samt, mín flösku-feima[7]!
fyrst ei má þèr gleyma,
þú ert hjá mèr heima,
hvar sem ölið stendr;
nú er eg nokkuð kendr!
:|: enn vill sál sál sál, :|:
enn vill sálin eina skál,
er eg til þín sendr.

20. Hvað er helzt til frètta?
hvörju gegnir þetta?
viltu vin þinn pretta,
veslings arma greyið!
eg get ekki hlegið;
:|: illa fer fer fer, :|:
illa fer að enda þèr;
ofvel hef' eg þegið.

21. Þá mig gæðum gladdir,
góðu víni saddir,
hóf eg hærstu raddir,
hraut mèr stöku vísa
pitluna mína' að prísa;
:|: þú ert tóm tóm tóm, :|:
þú ert tóm með þurran góm,
þèr má èg svona lýsa.

22. Það er ei þarmeð búið:
þú hefir öllum snúið
mèr, svo rækalls rúið
rak mitt vit á flótta;

1) því dofi er í þær kominn. 2) hræring. 3) Lækja-sóley, þ. e. kvennfólkið. 4) eðr: teind; hjá Rómverjum, hvaðan málsgreinin er tekin, var það siðr, að brúðurin skyldi bera á brúðkaupsdegi sínum belti um lifið, er merkja skyldi meydóm hennar, og mátti einginn það uppleysa nema brúðguminn. 5) gull. 6) stæði til boða. 7) mey.

síðan öðrum ótta
:|: af mèr bauð bauð bauð, :|:
af mèr bauð; eg arma gauð
öllum sýndi þótta.
23. Bæði skenti' og barði,
blót og klám ei sparði;
öldin á mig starði,
óðan vera sögðu,
færstir þarum þögðu;
:|: asna-par-par-par, :|:
asna-par, þeir inna, var,
og ótal slíkt tillögðu.
24. Hvað er eptir annað?
öll eg hefi sannað
klækyrðin, og kannað
í kaupið harða spýu,
fæ èg fúla klýu;
:|: einsog svín svín svín, :|:
einsog svín eg æli' og hrýn,
uppseljandi' að nýu.
25. Illt eg hefi' í hausi,
hællinn ærulausi
á mig trúi' eg ausi
öllum þessum baga;
mèr er illt í maga:
:|: ekki èt èt èt, :|:
ekki ètið grand eg get,
glópsku þá èg klaga.
26. Þú skalt öðrum ekki
optar sýna hrekki;
þitt eg núna þekki
þel og hóru-sinni,
flagð í fögru skinni!
:|: þú dyrfðir þig þig þig, :|:
þú dyrfðir þig að drepa mig
með drykkjar-illsku þinni!
27. Svei þèr bytta bjóra,
bönnuð dreggjar hóra!
fáðu fallið stóra
frygðar eitrhola!
þú skalt dauðann þola!
:|: straffið þá þá, :|:
straffið þá èg strax legg á,
og steyti þig í mola!
28. Pín er æfi þrotin,
þú ert sundr brotin!
Makinn[1] labbar lotinn,
landa sína hvetr,
og sama dæmi setr:
:|: breytið eins eins eins, :|:
breytið eins, en missið meins,
mun þá fara betr!

---

## V.

## Te-flösku vísur.

Flaskan segir svört á kinn:
sælir ætíð, Vatnar[2] minn!
í heitu vatni sælan sè,
sè èg þú vilt hafa te.
2. Ef þú gætir ofaní mig,
aðkomandi! vara þig:
hálsi mínum hrygla' er í,
hússbóndi minn veldr því.
3. Var eg áðr valin mær,
vínið seldi til í gær;
ofrhart kom í mig pot,
af því varð eg píku-brot.
4. Sprændi við þá vondu sút
vínið, svo èg tæmdist, út;
farin píka veik og veil
verðr aldrei síðan heil.
5. Nú er heldr skipt um skreið:
skörnng er eg, svört og leið,
þó bresti svuntan byrgi ljós[3],
ber eg ekki meyar hrós.
6. Líttu brotna mína mind,
mundu dæmið, stúlku-kind!
brestr þinn, ef brúkast kannt,
bætist ekki' á nokkurn kant.
7. Svuntan hvít þitt sakleysið
sinir ei, nè hjálpar við,
nema við þá mála-mind
máske viltust augun blind.
8. Nú skal ei þig angra meir;
einatt brotnar veikr leir;
hvað opt konur henda rèð
hússfreyan það vitnar með.
9. En þó brákan berist á,
brestina ef ei margir sjá,
vertu glöð og gaungu-frjáls!
geing eg til hins fyrra máls.
10. Á mèr bóndinn annur sá,

---

1) fylgimaðr flöskunnar. 2) sá sem opt vatn (tevatn) drekkr, eðr vatnar sèr. 3) vísurnar vóru skrifaðar á hvítan pappír, er límdr var utaná þessa brákuðu flösku.

eptir það mèr hlektist á,
bar sig litt, þó bæri hljótt,
bæta vildi' hann mína sótt.

11. Vin sinn einn hann um það bað,
andvarpandi mælti það
góði mann, þó geingi tregt:
gæti það verið mögúligt. —

12. Ef nokkurr vegr væri til — :
(vifileingju brúkast spil
og margvísligt orða-put,
ef menn biðja' um stóran hlut).

13. Þá skal stynja' upp þeirri bón:
þarft er illt að hefta tjón:
feiginn vild' eg fá það bætt:
flösku-tetrið yrði grædt.

14. Bóndinn hætti', en hinn tók við;
hagliga, það sjáið þið,
lagði hann á mig líknar-hönd,
lækníngin er harla vönd.

15. Linið[1] hvitt tók þegninn þá,
og þandi brostin kviðinn á;
hitt var meira' af hlíni sax,
að holdgróin var svuntan strax.

16. Hef' eg nú feingið hundraðs bót:
hymna dylr meinin ljót;
má þar ei sjá magann í,
meydóms-spjöllin valda því.

17. Eitt var það mig ángrar mest,
eptir það eg læknaðist:
bóndinn við mig kátr kvað,
kínska fúkann[2] geyma bað.

18. Meina eg það myglu-te,
sem margir ætla sælgæti,
sólgnir í þann frugga-fans,
fyrst hann skapast utanlands.

19. Af því hraki' eg hósta fèkk,
hryglu, þurk og beyskju-smekk;
geingið er mèr hið góða vín,
geingin líka píkan mín.

20. Hússbóndanum sagði eg svo
segja vil eg hluti tvo:
það er eitt um þetta te,
sem þjóðin vill að drukkið sè.

21. Það er illt og það er hart,
það er bæði rammt og svart;
betra' er að èta breyskjuð roð,
betra' er uppi garði moð.

22. Þó að gestum þínum vel
þetta smakkist, illt eg tel;
á danska túngu' (eg tala' ei meir)
tremilinn allan èta þeir.

23. Annað: held eg happa-ráð,
hagkvæmara' í leingd og bráð,
íslenzk blómstr að þèr sè
öllu betra' að hafa' í te.

24. Þeirra dygð mun virðast væn;
veitirðu mèr þessa bæn,
lát mig geyma grasa-bland
göfugast um Ísaland.

25. Mun það selja fagra fugt
fyrir augu, smekk og lukt;
tilgáng hefi' eg annan enn,
er eg skal þèr birta senn:

26. Allir vita' að urtir þær
eru meyar niðri tær;
þarfyrir taki' eg af þeim inn,
í mèr hefi' eg meydóminn.

27. Kynni' eg jómfrúr kaupa tór,
kostnaðrinn er ekki stór,
fleira' er enn til ágætis,
ef þú, bóndi! neytir þess.

28. Pella-þöll og piltr hinn,
sem píkn-mistu' og svein-dóminn,
ef drekka svoddan blóma-bland,
breytast þau í fyrra stand.

29. Seldu nú þann dýrðar drykk,
drjúgt mun verða sveitar-skikk
úr þeirri flösku' að þiggja te;
það er höfuð-dáindi!

---

## VI.

## Sá breiski heimspekíngr[3].

*Dæmisagan er þessi: úngr maðr, er áðr hefir lifað sem almenníngr, tekr fyrir sig, að halda sèr frá öllum líkamans*

---

1) þ. e. pappír, sem gjörðr er af líni. 2) þau migluðu og skemdu te-blöð austan úr Kína. 3) Satíra yfir þá, sem ímynda sèr, að þeir með lærdóminum geti öldúngis upprætt náttúrligar tilfinnanir; sumpart útdregið úr: *l'jeune philosophe.*

*girndum og vellystum, en yðka heimspekiligt líferni; hann afsver og rekr frá sèr unnustu sína Phyllis, skilr sig frá öðrum mönnum, ráðgast við sjálfan sig, og flýr til fjallsins Parnassí. Þar kemr hann sèr í þjónustu hjá Apollini (Phœbus) og þeim 9 gyðjum, sem eru meyar og systurdætr Júpíters og Memoríu, og ráða þar yfir allskonar íþróttum. Hann fær þeirra vináttu, og lastar sitt eð fyrra líferni, en hvað helzt inn góða Kúpido, son Júpíters, hvörn hann hyggr vera þann (með sama nafni) vonda vætt, son Vítis (Erebi) og Nóttar (Noctis); en í því bili var hann lostinn öru af þeim, er hann lastað hafði, og endrsleginn með ást ennar dygðaríka Phyllis, er verið hefir að leita hans, og nú er komin í fylgd þeirra þriggja þekktar-gyðja, dætra Júpíters. Þær meyar eru systr, og nefnast Charites eðr Gratiæ. Maðrinn sèr þá, að hann hefir ofgjört, og talar um, hvað lángt megi komast með heimspekinni. Hann tekr Phyllis til sín aptr, og kemr henni í stallsystralag þeirra fyrrgreindu 9 lærdómsgyðja.*

Hvað viltu gjöra?
hví viltu standa við?
láttu mig vera!
láttu mig hafa frið!
laungum gjöri' eg loforðin:
líkamans girnd að smá;
skal eg, Phyllis! optar enn
eiðrofi verða þá?
nei! nei! mín kæra!
nú skal eg annað læra!
:|: þú staldrar enn, mín ástin björt!
æ! eg má fara burt. :|:

2. Því gladt sig getr
geð mitt við annað nóg,
víst uni' eg betr
við eyðifjöll og skóg;
lærdóms-gyðjur ljósar fæ
lystugt í samfèlag,
þeirra ást og yndi næ
eg bæði nótt og dag;
Phœbus enn eykr:
á sitt hljóðfæri leikr;
:|: feiginn vil eg finna því
forsælu Parnassí. :|:

3. Nú hefi' eg feingið
og fundið sem eg bað,
því skal mig einginn
úr þessum lokka stað;
Phyllis skal mig optar ei
elskulig tekið fá;
lærdóms hefi' eg lofazt mey[1],
sem lýsir dygðin há;
hverjar heims lystir,
sem hugann eptir þyrstir,
:|: lasta þrjózkar þeysa stig;
þær hafa gantað mig. :|:

4. Eg hèldt þær væri
yndæl og heilög dygð,
strax fann eg færi[2],
flutti' eg í þeirra bygð;
í gulli loga leizt mèr öll
leiðin, sem geingu þær;
blærinn hunángs- færði -föll,
fannst mèr ylmurinn kær;
eitt þó eg þreyða:
þeirra sæld gjörði leiða —:
:|: alltíð þá eg eina fèkk,
annarar vild' eg smekk. :|:

5. Af því eg þekkti,
þeirra frygð hvikul var;
blinda mig blekti

1) Lærdómsgyðjurnar eðr Músæ vóru þessar 9: Clíó, sagna- og fróðleiksgyðja: Callíópe fyrir kappakvæðum og rímum: Melpómene fyrir harmatölum og hrygðarljóðum: Thalia ræðr gleðum sjónarleikum og jarðaryrkju: Erato mansaungum og lofkvæðum: Evterpe stjórnar hljóðpípna-saungum: Terpsicóre harpslátt og dansleikum: Pólýhymnia látgæðis og hermileikum: en Urania ræðr fyrir stjarnvísi. 2) þ. e. til að flytja.

blóðs og tilfinníngar;
hyggjan sofin vakna vann:
varð mèr til litið fyrst
hvar nákvæmust náttúran
nýa mèr færði lyst
án umbreytingar,
ei sína vini þvíngar:
:|: hreystir, gleðr, söm við sig,
sannleikans kennir stig. :|:

6. Lærdómsins gyðjur
leiddu mig betr fram,
ég hjá þeim yðjur
ágætra menta nam;
við þann saung eg vaki' og sef,
verðr mèr tíðin stytt;
líkamanum ei grand eg gef
gott, nema' uppheldi sitt;
öndin, svipt önnum,
unir í friði sönnum,
:|: hugsar þó og höndlar það,
sem heill og gagn er að. :|:

7. Yfir og undir
eg mestu fegurð sè:
sól setr stundir,
samt lýsir jörðunni,
hennar[1] skepnur horfi' eg á,
hagleiks og krapta gnótt;
stjörnurnar lit eg leingra frá,
lýsa þær hvörja nótt;
allt yfir geingr,
er eg framhugsa leingr:
:|: hvör af þeim sè veröld víð,
varandi sína tíð. :|:

8. Frá þessu ljósi[2]
fæ èg til baka[3] sèð:
sem gufa gjósi,
geingr bygðinni með
losta-þoka leið og svört,
lykjandi fjölda manns,
er ráðleysið ætlar hvört
uppsprettu sannleikans
og sælu sanna;
sè eg vitleysu manna;
:|: ó, hvað sæll eg segjast má,
sem komst þeim galdri frá! :|:

9. Kveð eg að enda
yðr viðhafnarlaust;
bókvísar benda
brúðir með fagri raust;
ykkar dró èg okið þúngt
um mína beztu tíð,
við það spilltist eðlið úngt,
en eg raknaði síð;
gleymt er það gaman;
girndunum öllum saman
:|: fyrirgef eg þetta þó,
þèr líka, Kúpídó! :|:

10. Þin skeytin þekku
þau eru viðrstygð,
einbúa brekku[4]
byggi èg frjáls af hrygð;
aldrei meir, þinn armi! — Hvað[5]?
öndin mín burt er hálf!
er hún Phyllis ekki það?
æ, jú! þar er hún sjálf;
nál-svipum barinn
nú er eg allr farinn!
:|: hennar elska hrein ei dvín,
hún er að leita mín! :|:

11. Ofsjón og órar
ei skyldu villa mig,
eru ekki fjórar?
undan mín þekkilig
Phyllis geingr, griðar-byr[6]
gjörvallan fjötrar sú;
aldrei var hún áðr fyrr
ástúðligri enn nú;
ferð fylla slíka
fáklæddar[7] gyðjur líka,
þær eg ætla systr sè,
sem heita Gratiæ.

12. Thalia[8], Aglaja[9],
Evphrosýne'[10], heita þær,
fals-frygðum bægja,
fegurðin á þeim hlær;
innra dygða skartið skín:
skírlífi, trygðin góð;
Phyllis hefir haldið mín
í heimboði þessi fljóð;
ef hún ill væri

1) jarðarinnar. 2) skilnings og lærdóms upplýsíngar. 3) til míns fyrra ástands. 4) í fjallshlíð Parnassi. 5) fer að sansa sig. 6) þánkana. 7) Þokkagyðjurnar lètu skáldin vera naktar til merkis uppá hreinlyndi og skilriki. 8) nefnist svo af grænkun, því hún er jafnan eins þekkilig. 9) af góðlyndi, því á henni liggr ætíð vel. 10) hefir nafn af lystisemi og ánægju.

ei þær með henni færi,
hvörra faðir eg veit er
hinn æðsti Júpiter.
13. Hans vilja hlýðum,
hann sínar dætr bjó,
hann hjálpar lýðum;
hans son er Kúpídó,
hvörn eg fyrr óvirða vann,
villtist eg heitum[1] i:
líkt sem nyðji nefnist hann
Noktis og Erebi,
hvör höldum kindir
hór og saurlífis girndir;
hreinar ástir eblir hinn,
er hann kostberi[2] minn.
14. Heimspekin hefir
helgað mig sèr einni;
hún girndum gefr
gyldrur og fángelsi;
þó skal eingin ætla, það
ofbeldi meðr hart
náttúran temjist strax í stað;
stillist hún nokkurn part,
en vonzkan værist,
við það manndygðin stærist[3];
Phyllis! gæða verði vild!
við sèum aldrei skild!
15. Allt okkar æði
ódygða missi keim;
við skulum bæði
vera saman hjá þeim
níu meyum núpnum á,
sem nóga kunna ment;
þessara skaltú fèlag fá,
fátt er þèr betr hendt,
afbragðið sprunda!
ertú gyðjan tíunda,
Phyllis! sem eg ætíð ann,
aldrei þèr gleyma kann!

## VII.

## Píku-skrækr.

*Um breiskleika og ólíkindalæti karla og kvenna í Amors-sökum.*

**Formáli.**

*Múnkr og Nunna*

*mannligar kunna*
*freistíngar að fá;*
*ef að dæmið*
*eitt hèr kæmi,*
*eingin þá*
*þessu má*
*neita; það er lángt í frá;*
*bæði karl og kona*
*kunna að láta vona;*
*hèr er dæmið eitt,*
*hafi þið það fyrir ekki neitt;*
*færstir neistum[4] ná.*

1. *M.* O, mín
hjartans ástar baugabrú!
til þín,
þvíað eingin er sem þú,
hug-trú,
hef' eg gefið, heyrðu mig!
:|: viltú
afmá þann, sem elskar þig? :|:
2. *N.* Þó èg nei
kveði við ó-kjassmálig,
vil eg ei
afmá þann, sem elskar mig.
*M.* Samt þín mök
hrífa líf á heljar-stig.
*N.* :|: Mín er sök
ein ei nein, þótt ærir þig. :|:
3. *M.* Hana þá
skemstu vegu skal fara:
eg vil sjá,
hvört það er þín alvara!
*N.* Skil eg þig:
að þú níðist á mèr frekt
:|: að fella mig,
það er æði karlmannligt? :|:
4. Stattú við!
*M.* Má èg eigi; mèr er annt.
*N.* Dálitið!
*M.* Hitt skal reyna' hvað þú kannt!
eg vil sjá,
hvört þèr verðr við mig bilt!
*N.* :|: Hana þá!
gjörðu við mig hvað þú vilt! :|:
5. *M.* Þekktum vær
kvenna sinni kænligast:
hvekktu þær

1) nöfnum, því hann heitir einsog sonur Noktis o. s. frv. 2) sem gefr mèr slíkan kvennkost. 3) vex. 4) smásmugligustu vígvèlum Kúpídós.

opt það, sem þeim er kærast:
hafa stór
blendin undanbrögð og gums;
:|: þèr eins fór:
þú lèzt sem þèr væri drums! :|:
6. *N.* Þekki' eg meir
úngra dreingja eðlis-hátt:
okkar þeir
einatt reyna veikan mátt;
yðja sú
opt viðskiptis ablar vott;
:|: fyrr enn nú
vissa' eg ei það var svo gott! :|:
7. *M.* Sèrðu fljót
það er ekki' að æra sig,
únga snót
þó eg teygi' á þenna stig;
megið þið
okkr þakka, kvendin keik,
:|: eigi grið
að við gefum í þeim leik. :|:
8. *N.* Það er satt,
leingr einginn leyni því:
með sinni glatt
karlmanns ok eg undir sný;
mæli' eg um:
hrundir undiroki ver!
:|: stúlkunum
öllum líkar einsog mèr! :|:
9. *M.* Fyrir sann
slíkar píkur geðjast oss!
*N.* Að bera mann
þekkr okkr þykir kross,
því raunar
hold og blóð er hvör um sig;
:|: stúlkurnar
aðrar fiðrar einsog mig. :|:
10. Tvisvar[1]
fnikar[2] aukið æxli sprakk;
tvisvar
braga rýgar blæu stakk;
landi á
Ægi þrá og þreytu jók,
:|: vargi sá
áðr við í eldi tók. :|:

---

# VIII.

## Tvísýni á kvenn-heillum[3].

Hvað er blíða brúð' að eiga?
það i kviða dúði veiga,
hlað í striði búð á beiga
flúðir feiga
fara vara ei ber;
glaðan níðings húði leiga,
laðar griður húðar fleiga,
hraðr flýðeg hrúður deiga,
súð á seiga
svoddan skal eg meiga;
maðr síðr trúðu teiga
þrúður þeiga
svara mara mèr;
meðr ljónslappa
ljósri mun eg klappa;
jurta-blómið bjartri sómir
bert að rómi kappa;
haldi verk happa,
hvörr sem vill, að klappa!

---

# IX.

## Sú íslenzka Matarsæla.

*Satíra yfir ýmisligt og misjafnt matarœði landsmanna hèr.*

Landið stendst ei fyrir utan smèr,
eðr hángi-kjöts borðanir,
mjólk er bezt barna-gæla;
tóbakið er ambrosiá[4],
en brennuvínið kalla má
sè goða-drykkju sæla;
hvað vil eg nefna heiðin disk:
hrossa-slátr og úldinn fisk;
rammi-stæka skatan rètt er fín,
rarari er hún enn brennuvín;
hvört mundi verða sálin sjuk,
ef safnaðist þetta' í pappírsbúk?
fái það fjúk!
fái það fjúk!

---

1) í þessu seinasta erindi er innifalin tvöföld ráðgata: uppá útfarir Kúpidós og undireins nafn þess, er kvað. 2) þ. e. ódann. 3) efni gátublandið (með nýu lagi). 4) goðavist.

# C. Kvæði í Gamni og Alvöru.

## Lærdóms-undr.

*Höndlar um það, hvörsu furðanliga lærdómr heimsins er, eptir flestra sögn, vaxinn og umbreyttr, einkanliga í náttúru- og búskapar-fræðum, hvað sjá má af ágripi náttúru-sögu, er Karl Linné gjört hefir, sem og annarra spekinga, er viðlíka aðferð brúka.*

O, hvað mannvitið vaxið er!
viðundur há það af sèr fæðir:
bókvitið helzt því flýta fer,
fjöllin, hamra og dustin[1] bræðir;
alheims forvirkin elli-ljót
uppsteypast verða' í betra mót.

2. Náttúran karar sezt í sess,
samt vill að börnin nokkuð læri;
verkstjóra greindan þarf til þess,
það er hann *Linné*, sem eg mæri,
hún fyrst að sjónar hafði mein,
hann valdi fyrir augnasvein.

3. Hann lætr gánga' um heiminn rit,
Herjans diktað á Sænsku bóli;
það plantar nýtt í virðum vit
vaxandi fyrst hjá Bjarma póli;
svo leiðarstjarnan, *Linna* trú,
lýsir náttúru-ríkin þrjú.

4. Sú drottníng er, þótt ágætlig,
undir herra[2], hvörs fæst ei líki;
„hann (segir *Linné*) setti mig
of Sindra- grasa- dýra-ríki".
En hósti nokkurr honum gögn[3],
hann brosar drjúgt að þeirra sögn.

5. Skósveinar hans þann skilja hnykk,
skjöld bera fyrir höggin sama,
úthrópandi sem heimskan gikk
hvörja sem dýrka ei þeirra frama;
*Linné* gelthunda mýlda[4] má
með sinum konstrum[5] gjöra þá.

6. Fèkk Oðin[6] sama forðum gjört,
fleiri nýmæli *Linné* skapar;
það er frásagnar varla vert,
þó verði' hans fèndr skrýmsl og apar;
nú skal viðundur nokkr ný
nefna, sem skóp hann ríkjum[7] í:

7. Jörðin er þúng og þykk og dauð,
þó gat hann *Linné* rogað henni,
og safnað fjöldar öllum auð
á boðstólu, svo hvörr einn kenni;
þess stóra líkhams lag og mynd
lukti' hann í flugu beinagrind[8].

8. Nokkuð í þeirri bygging brást:
bragnar ei sjá, þó trúa vilja;
stærstu beinin að sönnu sjást
samteinginguna færstir skilja;
án trúar kerfið eða sèr
einginn við bezta sjónargler.

9. Náttúru grasa greina skal:
gjört hefir *Linné* þrek við hana,
það er hèr hvorki skrum nè skjal,
skautar nú Flóra lángt af vana;
en *Linna* blómstra brúðkaups stíl[9]
böklærðir sumir leiða' í tvil.

1) er rèttara enn dupt. 2) náttúran er guði undirgefin. 3) gegn. 4) múlbundna. 5) afbagað fyrir konstum, lævísi. 6) í Heimskringlu talast um fjölkýngi Oðins. 7) náttúrunnar. 8) hans Syst. Nat. yfir regn. mineralium er stutt. 9) aðgreining kall- og kvenn-blómstra.

10. Um burkna[1], mosa, söl og svepp
samræðis efnið byrgist heima[2];
þó *Linné* komi' í þeirra hrepp,
þau hjón hann ei til brúðkaups teyma'
kurjelið[3] þykist óvirt, að
einast' maðk-smugu gjörði' hann það.

11. Við dýrin fèkk hann dýrðir gjört:
dýr er hann sjálfr, því má játa
rit hans útbreiða ræktar snert
rifkandi sum í allan máta,
mannkynið auka' og virða veit
við Troglodíta'[4] og apa sveit.

12. Og svo líkingin verði væn,
við oss bætir hann tveimr fótum;
svo dýrin verði framan fræn,
fá þau hendr með vexti skjótum;
samt, einsog vèr, — það er ei spaug —
aptrfótunum halda þau.

13. Hvölunum eykr hvæstan móð,
hvað hann nýliga við þá sagði:
þèr skuluð haldast hrossa stóð
hèðanífrá; og þar við lagði:
þeir eigið, skildir fiskum frá,
ferbeindum dýrum sæti hjá.

14. Skjaldpöddur, eðlur fröskur fax-
fegruð og leggjuð[5] kyn ei hræri;
háköllum skötum störum strax
stefnt var að fiska landamæri:
þeim ljótu kindum lágan rètt
*Linné* gaf í skrið-orma stètt.

15. Fiskanna kvartar helgr her,
hvað illa *Linné* við þá skiptir,
höfuð-fylkingar tvær[6] hann tèr;
tekr það dýr og frá oss sviptir,
fannst ei kvikindi fyrr svo ríkt
á föstu landi', að þyrði slíkt.

16. Þeir gjöra ugga' og sporða spark,
sprettina mátti' á landið heyra,
varð állinn næstr við það hark;
vel bað þá *Linné* sèr að eyra:
fremstum áli við fiska safn
fagrar Helenu skeinkti nafn.

17. Slíkra veitinga verð og tal
verðr ei sagt í stuttu máli,
þarfyrir fyrnskan þakka skal
þessum herra, með tíðar brjáli,
hvörnin hann hefir ýngt það er
úr minni gleymt og horfið mèr.

18. Heiðin Rómverja' og Grikkja goð
getr á ný hans skilnings kraptr:
Kúpiði fyrstr fær þau boð,
fjaðrast hann nú með hænsum aptr;
Phaeton, sem að forðum datt
fugl er orðinn, og það er satt.

19. Þær mæðgur Díóne' og Venus vel
vistaðar eru niðr í sjónum,
byggja samloku sæta skel;
sökkva máttu með gras í skónum,
biðill! og djúpan vaða vog
vara þig, Thetis er þar og.

20. Tríton og Dóris með þeim mant
marka Nereiði fóta-ríka[7];
tröllaukin skrýmsl þar kenna kannt
Kymru, Medúsu' og Hýdru líka,
sæ-guða fyrir utan ætt
ýmsa þar *Linné* setti vætt.

21. Haf-froðu dýsin[8] hèr til þíngs
heldr með nefndum orma kyndum,
Atlas þarámót er og Svínx
endr-borinn í flugna myndum;
en hvörr sem ferðast um þann geym
Oedipum þarf að mæta þeim.

22. Hreistr-vængjaðra[9] fylla flokk
fornir Tróar með Grikkja múg-
um:

---

1) *filices.* 2) er hulið í ávextinum. 3) *curalium* — hèr *lithophyta* yfirhöfuð. 4) nafnið er tekið af *Plinii hist. Nat. lib.* 5, *cap.* 8. *Linné* kallar svo nýtt mannkyn, er hann segir búi við landamæri Blálands og víðar, hálfu minni oss, loðnir, dagblindir, eru á ferli og sjá á nóttu, tala með blístri og s. frv. 5) sem fætr hafa. 6) *plagiurorum* og *chondropterygiorum.* 7) með mörgum aungum. 8) Aphrodite. 9) *lepidoptera.*

Achilles farinn í flugu smokk
finn. Hektor í loða[1] drjúgum;
hvörsu þeir jöfrar uni við
eðli fiðrilda, geti þið!

23. Nógu skemtiligt svo þeim sè,
setti þar *Linné* niptir hallar:
þar eru góðar Gratiæ,
gyðjur Parnassí þar með allar,
og svo lærdómsins fjölgi frjó
forsprakkinn sjálfr Apolló.

24. Mörg skepnan hami nýum nær
(náttúran ekki til þess lagði)[2]:
óskabjörninn þau álög fær
olnboga-skel hann varð að bragði;
enn fleiri teldi' eg undrin klók
ef vísan skyldi fylla bók.

25. Fyrir slík þrekin feikna stór
fèkk *Linné* nafn er sómann styðr:
hann er í Þýzkra klerka kór
kallaðr Jóvis sona niðr,
en hann sjálfr fyrir utan výl
útmálar þau í skálda stíl.

26. Myrkvið náttúru gegnum gekk,
gjörvöll var leiðin þyrna klúngr;
ásóktu dýrin illa þekk,
af sèr hann barði slög og stúngur;
gæðum náttúru hlaðinn hann
heim komst og bæ sinn auðga vann.

27. Lærisveinarnir síðan fá
sýnishorn öll á *Linna* garði,
náttúru þurfa' ei sjálfa' að sjá;
svoddan ómak þeim bóndinn sparði:
með vígðum þræði villta fús
völundar- gegnum leiðir -hús.

28. Enginn hlutr svo frægr fæst
að finnist hvörgi slíkr annar:
því kom hann *Linné* þessu næst
á þara-strönd og djúpið kannar,
undurlætið hann yfirtrað[3],
ei sá hann fyrri slíkan stað.

29. Marglyttur, krabbar, kross-fiskar,
kubbar og sýli' um botninn geingu,
á sölvum, slíi, þángi þar
þrútnar Neritur sváfu' og heingu;
kallaði *Linné'* um saltan sand:
sjá hèr veraldar spán-nýtt land!

30. Eitt þó èg til að lyktum legg:
— lærðir úr greiði' en ekki þegi —
*Linné* guðlausan segir segg,
sem ei vill spyrja þessa vegi,
einsog guðs náðar orðin ber
apturábak hann lèti sèr.

31. Hvörjir í andlits sveita síns
sitt eta brauð um æfi lánga,
og komast aldrei hèr til hins
í herra *Linna* skóla' að gánga,
náttúru-vizku flæmdir frá,
fordæmdir skyldu verða þá.

32. Prestar svo strángir eru ei
eptir biblíu meiníngunni,
heimspeki vit ei nefni, nei!
nóg hygg eg reynslan dæma kunni,
lærdómrinn það sjálfr sèr,
sem nú dagliga vaxa fer.

33. Allslags lærdóm í línum fám
læra nú börn að vörmu spori,
gnóttir heimspeki gripr nám,
get eg embætti taka þori
fyrr enn þeim skapast skárar hrís,
skjótt er heimrinn orðinn vís!

34. Af hinum forna bóka brunn
bragnar ei leingr þurfa' að ausa,
spekin var áðr ei svo grunn;
af-gamlir marga stúngu hnausa,
grafandi bæði leitt og ljúft,
lá þá vatns-æðin harla djúpt.

35. Nú hrapar spræna' af hvörjum tind,
hvaðan úngmenni svölun fánga,
gruggast þær fyrir veg og vind
vatni standandi frá nær gánga,
hvört vegfarendr mæðir mý
mikil dagferð er upp að því.

36. Bókvísir hafa lært það lag
lærdóm að binda' í styzta tali,
á móður túngu múg í hag
mestu þeir skipa kunsta vali[1],
aðrir smíðorð upphugsandi,
að misskilníngr burtu sè.

---

1) loðkubli — fiðrildishami. 2) það kemr henni ekki við sem diktað er. 3) gekk yfir hann.

37. Minnistöblur í öllu, ef
átillu fá, þeir láta prenta,
úngum er veit af þessum þef
það til bráðvaxtar sýnist henta,
tólf vetra barn í öllu er
orðið fullnuma, sjáið þèr!

38. Búskapinn allteins binda' í
hnút
bræðr *Linna*, sem margir eru;
þeir hálfu guðir greiða' hann út,
gripr þá hvörr í sinni veru
litið[1] og sár í leyndum stað;
landið strax verðr rikt við það.

39. Eingin slik vizku frægðin
finnst
fyrir þá, sem sig ætla' að menna;
skoðum hèr aldar skapið innst
skelfiska brynjur sem að kenna:
Róms harri fángnar guði gaf[2];
gátum það Engla svörkum[3] af.

40. Alls þessa frama nefni' ei nyt;
nóg er að prestar veginn rata:
dygð og prjállaust alvöru vit
veraldar smekkinn sýnist hata;
komast þau varla klaklaust af
krappsjóað gegnum lærdóms haf.

# Honesta Venus,

eðr

## Hreinar Astir.

*Um ærligt tilhugalíf til fróðleiks og uppörfunar þeim, sem giptast vilja, framsett í dæmisögum og öðrum lærdómum með ýmisligum skemtiligum og alvarligum orðum og talsháttum, skipt í tíu mansaunga eðr kvæðisflokka.*

*I. Um musteri þess minna heims, hvörsu undarliga það er innan byggt, afkarmað og ásigkomið, og í hvörs forbyrgi N. N. s.[4] finnr unnustu sina.*

Eg og mínir þess óska títt,
að vinir, sem við er blítt,
væru hèr nálægir;

2. Annað slagið, elligar, vær
værum þeim vinum nær,
þá vert að finnast er;

3. Hvort utan- eðr innanlands,
skjótir til skemtarans
skrafs og ráðagjörðar.

4. Oskuðum vèr af öllum þeim
fyrsta þig híngað heim
að hafa' á jólunum.

5. En eg hefi mig umhugsað,
sè nú (èg sagði það),
sem er og komið var!

6. Það væri' að freista þín og mín,
og saurga meir hjörtu sín
á svoddan helgi-tið.

7. Eg þarf ei kvarta; èg hefi' eitt
hús,
opt þángað fer eg fús
að finna vinina.

8. Sá hærsti kóngr hefir það byggt
og handa sèr sjálfum vígt,
sett það heima hjá mèr.

9. Af fjærstu sveitum frændur
þurt
og löndum lángt í burt
leita' híngað dagliga.

10. Já, þetta veiztu, vina mín!

1) korn og sáir. 2) Kaligúla safnaði skeljum á herför sinni til Englands, sem hann offraði Jupiter, þegar heim kom. 3) hús-freyur í Englandi er sagt fyrstar hafi skeljapráng feingið af bændum sínum til að prýða stázsali með; þessi og þvílikr hègómi hefir síðan víða útbreiðst. 4) *N. N. s.* og *N. N. d.* er: *Nefjúlfr Nerason* og *Nanna Njálsdóttir.*

þar kynnis-vist er þín;
þó vil eg útmála:
11. Musteri kunnugt mönnum litt,
hátt djúpt og harðla vítt,
hagliga' er afkarmað:
12. Undirhúsið er útgrafið
jarðar grundvöllinn við;
vist mín er leingstum þar:
13. Karmar margir og krókótt gaung,
allslags verkfæri' og faung
finnast geymd inni þar:
14. Sem Gyðíngalands grótturnar[1]
og katakumburnar[2]
kjallari þessi sè.
15. Allslags myndir og málverk ber
fordyrið; ótækt er
allt það að framtelja.
16. Mitt svefnherbergi bókum með
gjört er við gaflhlaðið,
getr stytt tímana.
17. Yfirbyggíngin eykr skraf,
fyrst kyrkjan innaraf,
er mest skal viðhafa.
18. En framaf er forsalrinn,
hvar vini' og frændr finn
fyrir mèr dagliga.
19. Þú hèr í miðri þyrpíng ert,
þig allir þekkja bert,
þarfyrir sproksetja.
20. Vita þeir hvað við höfum gert,
segja mín að þú sèrt
systir og vinkona.
21. Kærliga stundarkornið hvert
lít eg til þín um þvert,
það milli verkanna.
22. Nú sèrðu hvörnig háttað er
fund vorra vina hèr,
og viðtalinn með.
23. Hugskotið er musteri mitt,
þar eg um tilstand þitt
þrátt hugsa' og vinanna.
24. Í myrkra-dvöl og drauma-tið
þessi biðlund er blíð,
blandast vel samtalið.
25. Nú skal eg inna, feima fríð!
dæmin dálitla hríð,
drýgjandi gamanið.
26. En þú svoleingi þeig og hlýð,
tilhugalífið líð,
laung skal ei verða bið!

*II. Samtal* A. *og* B.[3] *um fyrirtæki* E.

1. Eg hlýddi' á vina tveggja tal,
heyrandi' í holti lá,
hvað þessir minntust á,
2. Vestan komnir og austan að;
lofðum lángtalað var
um lands gagn og nauðsynjar.
3. Að nýum rómi ræðan hnè,
um þeirra þriðja vin;
það bragarefni sè.
4. *A.* Hefir ei, bróðir! borið fyrir þig,
hann *Evarr* ætlar nú
að fara' að gifta sig?
5. *B.* Hinn kvað það aldrei satt, og sór,
hann munu' ei hèðanaf
hæfa kvenn-ásta spjór[4].
6. Fyrir mörgum árum meiri frá[5]
líkindi ljósliga
lètu sig heyra' og sjá.
7. Þú veizt að kvonfáng þar og þar,
(sem ryktið sagði frá)
sæmiligt ætlað var.
8. Filósofía fyrir hann rèð,
þar seymaþöllunum
þènað var ekki með.
9. Hann vildi' ei stíga í drósadans,
um fjöll og fyrnindi
fór hann og utanlands.
10. Vissi' eg hann stúlkna flýði fund
þá æskan mátti meir,
miklu' heldr þessa stund.
11. Blóðið er sett og ólgan úr;
með kvenna-mönnunum
meinlausar sitja frúr.

1) Hellar, húskyrkjur og kapellur, úthöggnar niðri jörðunni á Jórsalalandi, í fyrstu kristni. 2) Þeir krókóttu undirgángar í Vallandi. 3) *Ans* og *Brúna* um fyrirtæki *Evars*. 4) *spjór*, þ. e. spör, skotvopn. 5) þ. e. frá'g, frètti èg.

12. *Evarr* hèðanaf held eg ei
fertugr fái lyst
að faðma nokkra mey!
13. *A.* Og þú fer samt á skeiði
skakkt:
*Evarr* ei efar meir,
eg veit hans sinni rakkt.
14. Kvennsterkr var hann, vittu
það!
svo vifum gjarnan gat
geingið í karlmanns stað.
15. Ei heldr deyfði' hann eðlis-
frost,
svo fyrir því feingi' ei lyst
að fá sèr góðan kost.
16. En Filósofia fyrir hann rèð,
það eitt þú sagðir satt,
sanna vil eg það með.
17. Eðr heldr þess hæsta ráð
geigvænum giftingum
gjörði hnekking í bráð.
18. *Evar* vandfýsnis efi dró,
því fegurð ætt og auð,
ei hèlt hann vera nóg.
19. Skirlifi, spekt, skynsemd og
trygð,
guðrænknis-klæðum klædd
kaus hann að væri dygð
20. Heitmeyar sinnar umfram
allt,
og rataði' óska mið
eptir svo lánga bið.
21. *B.* Segðu mèr, vinur! hvör
er hún,
sem vinur vor skal fá;
við það mèr lèttist brún.
22. *A.* Þarf eg ei mæla það á
laun,
nóg sagt: hún *Evars* er
ímynd í sjón og raun.
23. Nenni' eg ei fleiri telja teikn;
það, sem eg nefndi nú,
nægir, svo vitir þú.
24. Því eingin kona' um þetta
land
á nú slík auðkenni,
eg hygg það tvíllaust sè.
25. *B.* Hættu, vinur! eg hefi nóg;
hvörn gest og heimamann
heyrða' eg um ágætt man
26. Taka til orðs af sjálfum sèr,
að *Evars* systir sè,
svosem hans bilæti.
27. Hvar fá nú dreingir dæmi'
uppá
hjóna svo sterkan svip?
segðu kunningi! frá.
28. Það er merkiligt, það er satt;
en eg þó miklu meir
met hennar dygða-skart.
29. Samgleðjumst vorum vinum
nú!
óskum þau eignist með
eins gott og farsælt bú.
30. Allt gott vèr óskum vanar án,
ó! brullaup, eina sæng,
ánægju, barna-lán!

*III. Sendibrèf C.*[1], *hvarí hann afræðr E.*[2] *að giftast.*

1. Frá góðum vini fèkk eg brèf
gagnleiðis sendt í gær,
geðið mitt að því hlær.
2. *Grímr* sagði mèr (segir hann)
kallinn, sem brèfið ber,
breytiligt þókti mèr,
3. Að maðr nokkurr hafi sig hitt
(tè hann sèr um það annt
einsog það væri sannt);
4. Og sagt, hann *Erpr Ofeigsson*
fús hafi' í fjærri sveit
farið í konuleit.
5. Drauminn, þó hann sè drauga-
skraf,
fæ eg ei fullu rírt,
fyrst þèr var lýst svo skírt.
6. Letra'g ei meir um leiðslu þá,
lát sjálfan sjáandann
segja þèr drauminn þann.
7. Þó ef að hèr er hæfi til,
svo að þú ætlar nú
að taka konu' og bú;
8. Fellr mèr ketill allr í eld
því vallarar[3] höfum vær
verið fyrir utan mær
9. Um lánga hrið og ljósareyk
sopið í bókasal[4],
svoddan mig ángra skal.
10. Búraligt er við bú að fást,

1) *Kristfara.* 2) *Erpi.* 3) gaungumenn, pilagrímar. 4) sagt er um þá, er mikið stúdèra, að þeir gleipi bóka ljósreyk.

hræri' eg ei hróðr um,
hokr að konunum.
11. Oráð sýndist þèr ætíð fyrr
að setja saman bú,
samt er það bág'ra nú.
12. Landsins náttúra' er lin og dauf
á jörð og útum sæ,
eins manna' og dýra fræ.
13. Kostlítil mjólk og lítil er,
gjör-dofnað gras og hey,
græðist peníngr ei.
14. Smjörið er burt og mörinn með,
við gám-aska[1] lifa land,
og lítið drykkjarbland.
15. Af faraldrinu fèð er dautt,
ekki nein ull í föt,
ekki til matar kjöt.
16. *Adams* skinnkyrtill skamma hríð
dugir, hann drafnar upp;
drífr á beran hupp.
17. Fólkleysi vex, þú fær ei hjú,
eingin tilbera trú
torefni bætir nú.
18. Hafísinn fjötrar haf og land,
þinn eðlis-vökvi víst
við það mun hitna sízt.
19. Hekla fyllir með svartan sand
utan- og innan-til
allsháttuð rúm og bil.
20. Eg óttast þú verðir vikr-stoð
úttauguð full með ís,
ef líkamans vökvinn frýs.
21. Þótt únga stúlku getir ginnt,
sem bjarnar á sèr yl,
eldheit og þarmeð til;
22. Þótt undir æðardúni dátt
hún þrísti' að þinni hlið
og þeki viðbeinið;
23. Þó límí sig þèr við hægri hlið,
lifr, gall, lúngablað,
og lángabytnu stað[2];
24. Þó viðr þína vinstri hlið
járnofn eldrauðr sè
af bezta fýrviði:
25. Uggir mig samt það ónýtt sè,
nema þitt lærdóms líf
látir ei fyrir víf.
26. Af því breyttu, sem breyttum fyrr:
við lærdómsgyðjur laf,
lyst og móð við þær haf!
27. Gefa þær línum hold og hams;
þær gefa þetta mèr,
þó sem fimtugr er.
28. Minn þurri fnjóskr fnasar[3] hátt,
ef nokkur kvennakyns
koma vill mèr til hins.
29. Vort föðurland er farið um koll,
þú, gifting þín og snót
því vinnr litla bót.

IV. *Draumr og leiðsla G. um H. I. og K.*[4] *o. s. frv.*

1. *Grímr* bóndi vill byrja ferð
og um gagnheiði gá,
þó grimmt sè veðrið á.
2. Loptið var bæði þykkt og þunnt;
skammdægris dymmviðrin
drauma fályndi og slen
3. *Grími*, sem öðrum, gjörðu drjúgt;
þá nótt, fyrrenn hann fór,
fèll á hann leiðsla stór:
4. Hann þóktist vera' á veginum
um fjarðar feta grjót,
fèll hann um margan hnjót.
5. Samt datt hann mjúkt og meiddist ei;
loks um Botns-skóg hann skreið
skrykkjótta villu-leið.
6. Máni kvöldsettr síðla skein;
hann skreið úr runni' í runn,
rjóðrin vóru' ekki kunn.
7. Um Botna-reinglu' og stýfðan stofn
fèll opt og fótinn reif,
frá sèr hann lítið þreif.
8. Um síðir hitt á gljúfrin gat,
klyfrar hann klettana,
komst uppá brúnina;

---

1) *gám-askar:* golþorskadiskar. 2) þetta liggr allt hægra megin í manni. 3) þ. e. fauskr fussar. 4) *Gríms* um *Hallfreð*, *Isríði* og *Kolfinnu*.

9. Og þóktist nú kominn krögg- um úr;
götuna gekk hann um
á glúfra-börmunum.
10. En, þá minnst varði, framaf fèll,
einn kipp af öðrum seig,
af þessu fèkk hann beyg.
11. En fyrrenn niðr kallinn kom,
einhvörr bjargvættur var
veitandi liðsemd þar.
12. Dintið það var svo drjúgt og seint;
lund hans í lopti gljúp,
leit á það mikla djúp.
13. A lopti *Grím* í greipar tók
maðr um miðjan hupp
mikill, og bar hann upp.
14. Túngls-ljósið gjörði', að *Grímr* sá
skrautligan skikkju-mann,
skelfdist því siðr hann.
15. Honum við síðu sverðið hèkk,
skreytt með hinn skirsta málm,
skein á gullroðinn hjálm.
16. Stóran á silfrbelti bar
garpr velgjörðan knif,
gullkross á rauðri hlif.
17. Nefbjörg andliti lokin frá
harðligu, skeggið hvitt,
hrokkið, breitt, ekki sitt.
18. Kappinn svipstór, en þekkr þó,
með hærri mönnum var,
mikill um herðarnar.
19. Heill vertu, kompán! kvað hann, og
dróttkvæða-visu kvað,
kannast hinn litt við það.
20. Hann kveðr aðra og þriðju þá;
en *Grímr* gapti við,
gat ekki forstaðið.
21. *G.* Ertu' ekki, segir hann, íslenzkr?
Hinn kvað: íslenzkr eg
em þó á margan veg.
22. *H.* Þú munt nýkominn utanað,
útlendr ekki kannt
íslenzkuna svo grant.
23. *G.* Trú mèr, segir hann: þú tekr feil,
en þitt ókenda mál
engin lifandi sál
24. Skilr, eða þótt þú skældir greitt;
hvað heitirðu', herra minn!
hvaðan ertu' aðkominn?
25. *Hallfreðr* er mitt heiti rètt,
*Vandræðaskálds* eg vil
viðrnafn hafa til.
26. Sjöhundruð eru' og sjötíu' ár,
síðan eg fèkk mèr far
fram í Suðreyar.
27. I Kolmbandsey[1] mitt klaustr er;
þar á èg væra vist,
þó vitji' eg hingað ýmist.
28. Hjá ábóta mínum opt eg fæ
orðlof Island að sjá
og mína vini þrjá:
29. *Gunnlaug* og *Odd*[2] eg get um fyrst,
og *Sturlu*-nið[3] þriðja þann,
þann sagnameistarann.
30. Hafa þeir allir herra mins[4]
lífssögu letrað vel,
list eg það mikla tel.
31. Um fóstrjörð þeir fræða mig,
allt hennar tilstand og
annað þeir leggja' á vog.
32. Þriðji sagði mèr þetta nú,
hann *Erpr Ofeigsson*,
átti èg sizt þess von:
33. Heitmeyu feingið hafi sèr,
*Isriðr* er það sprund,
eg sókti' á hennar fund.
34. Hann *Snorri* lèt sèr hugað um,
báðum þeim gæfan góð
gefi sitt nægtaflóð.
35. Og mèr er eins í hug um hann;
síðan *Isríði'* eg sá
sama' ann eg henni' að fá.
36. Mèr hefir *Erpr* margt í vil
og vorum vinum gert,
víst er það orðið bert.
37. Vorum skáldmælum heldr hann

1) eyan helga St. Kolúmbani. 2) *Gunlaug* og *Odd*, múnka. 2) *Snorra Sturluson.* 4) *Olafs Tryggvasonar.*

með ljóðum sinum á lopt,
líka hrósar þeim opt.
38. *Isriðr* er sú merkismær,
að ann eg ei annari frú
*Erp* að vefeingja nú.
39. *Kolfinna*[1] var mèr kær um hrið,
þá líkams losta sinn
laðaði vilji minn.
40. Af vellu blóðs hún blómlig var,
feitleikurinn var frjór,
en fegurðin ei svo stór.
41. Augun mólituð lèku frjáls,
og piltakrókar í;
ei skal eg leyna því.
42. Andlitið var ei nógu nett,
nef þykkt og vörin var,
vartan ei bætti par[2].
43. Brjóstin ofgróin gægðust út,
þvílikt óhreinan eld
uppblès um morgna' og kveld.
44. Hún var glaðleit og lystug nóg,
það mèr þóknaðist allt,
en þess eg seinna galdt.
45. Nú er þornað mitt blossablóð,
og visnir vöðvarnir,
sem völdu frygðir mèr.
46. Því kann eg vif á velli sjá,
fyrst blóðið er mèr frá,
forsjálligar, enn þá.
47. *Isriði* hefi' eg í krók og kring
skoðað, því *Erpr* á,
ágæta snót að fá.
48. Hún er lík klárri klaustramey,
ástir í andliti
og dygðir líka sè.
49. Tillitið stillt og trygðafullt,
friðleikrinn sómir sèr,
sýnir hvað hjartað ber.
50. Virðuglig ásýnd vifsins er,
en litilætið sèr
leynir þó ekki hèr.
51. *Erpr* að vísu villt ei fer,
himna-lukka' honum lèr
lán, og ógæfu ver.
52. *Erpi* segðu þau orð frá mèr,
og heilsan bliða ber;
burthlaupin tiðin er.
53. Eg kem til hans í annað sinn,
austr, fyrir óttusaung,
eg skal, reisan er laung.
54. Rastir hálft annað hundrað er
vegurinn, er eg á
á lakri stund að gá.

*V. Skáldaleikr D. um E. og I.*[3] *útaf nokkrum sundrleitum náttúruverkum á Íslandi.*

1. Þá *Grimr* hitti greppa tvo
og *Hallfreðar* hermdi mál,
hafði þeim brugðið svo:
2. Skáldskapar andinn fæðu fann
af mjaðar einni skál
Oski[4], sem byrla vann[5].
3. Misjöfn var þeirra mærðargift;
*Friðleikr* latinskt brjál
ljóðaði' í sinni skrift.
4. Islenzku *Dýri* dikta tók,
og fèkk ei minna prjál
útúr náttúru-bók.
5. *D. Elfreðr* var á sumri, sem
falljökull frá og til,
fjarlægt eg efni nem.
6. Þótt hann nálgaðist græna grund,
sólar fann eingan yl
um klára miðdagsstund.
7. I næstu vetr vaxa nam
átján og tvo þar til,
tók sèr við kulda fram.
8. Lèt hann náttúru leyndan dóm
við íss- og eldaspil
ei verða læti tóm.
9. Hans ís og vatn þó væri rennt,
undirjarðeldr nú
upp hefir leyst og brennt.
10. Sólskinshitinn ei á hann beit,
innan gat ást og trú
opnað hans hyggju reit.
11. Eptir svo lánga dægradvöl
bifast hans sinnisbú,
bál þýðir efni svöl.
12. Einsog þá jarðeldsneyti naum
mörg þurfa magnast ár,
með ógna ger og kraum.

1) fylgikona *Hallfreðar*. 2) hèr er sagt, að hún hafi átt að hafa vörtu á kinn. 3) þ. e. *Dýra* um *Elfreðin* og *Isbjörgu*. 4) *Oski* er Odinsheiti. 5) þeir feingu lyst til að yrkja.

13. I landsins iðrum svella' um sið,
hrystist fjallgarðr hár,
hrystist og bygðin við,
14. Þartil ísfjöllin opna stig;
glóð æla jökla gjár,
gleypandi vatn í sig
15. Þiðnað, sem espar eldinn bezt,
hvört aptr, einsog sjár,
eykr vatnsflóðið mest.
16. Jafnt uppúr vötnum eldurinn
og hafsins ólgu gár,
einsog við lýsi brenn'.
17. Ein líking er hèr ennú sèn:
þá hafis brotinn blár
brennir upp rekatrèn;
18. I sjónum freðin, sölt og vot,
opt kveikir eldr þrár,
einsog þau væru flot.
19. Klakaðir selja klettar eld,
þó fjúki frost og snjár,
fullreynt og sannað held.
20. Slík eru dæmi ný og nóg,
Hekla þau helztu í ár
hèrtil og ísinn[1] dróg.
21. *Elfreðin* hefir efalaust,
þá Hekla gaus upp glóð,
glúpnað þaraf, í haust.
22. Hans ís að lokum leystr er,
og frosið blotnað blóð,
blossi meyar það lèr.
23. *Ísbjörg* heitir, sem *Elfreðin*
þiða rèð, þetta fljóð,
þarum er bragurinn.
24. Hrærði' hún ei til þess hönd nè fót,
þegjandi' á þokka-slóð
þiðir hans liðamót.
25. *Elfreðins* veri' hún óska-snót,
og við það lýk eg óð,
ís-björg og meina-bót!

*VI. Skáldaleikr F.[2] um Eos og Iris, þ. e. Morgunroðann og Blálíljuna.*

1. Júpíter sá, að Iris opt
með ljúfum gráti lopt
litaði falliga.
2. Því helgri mær á höfði var
regnbogi, þá hún bar
boðsending guðanna.
3. En Phœbus, sem er Sólin nú,
bjó handa bliðri frú
bogann þrílitaða.
4. Og Eos kom þar einninn til,
svo geingi góðri' í vil,
með gylling skýanna.
5. En Morgunroðinn: Eos, á
norrænu nefnast á
núna karlmannliga[3].
6. Af vegaleingd og leiða móð
einatt hún Iris stóð,
og sveittist dagliga.
7. Svita-gufan og grátsins með
leið hátt í lopt, og rèð
leggjast til regnboga.
8. Af því boðar sá bogi regn;
en Iris vill gæf og gegn
græta' ekki mennina;
9. Heldr sólskina færa fregn,
gleðjandi þræl og þegn,
það varð og skjótliga.
10. Því sína líkn Júpíter jók:
Iris hann ofantók
úr sudda skýanna;
11. Og gróðrsetti' í grænum lund
blálílju líking und;
lyst var hún jurtanna.
12. Eos hana þar aptr fann,
og sína vinu vann
vekja tímanliga.
13. Blálilja þá með blómið rart
bjó sig í skraut og skart,
skrýddi sína' átthaga.
14. Morgunroðann hún mynntist við,
Sólin lagði þeim lið,
ljós gaf í veizluna.
15. Regnboginn úða veru við,
því Sólin lagði lið,
lífgaði rótina.
16. Regn gaf Eos sinn roðma við
mjög hlýtt um miðdegið
milli blómlaufanna.
17. Morgunroðanum mest til gekk,
það Iris fræin fèkk,
sem fèllu' í moldina,
18. Að hvört eitt hans og hennar gaf

1) hafísinn. 2) *Friðleiks.* 3) *Morgunroði* er hjá oss karlkendt, *Eos* kvennkendt.

líking, sem óx þaraf,
og skrýddi foldina.
19. Mín blómstr Jóvis musteri,
sagði' hann, til prýði sè,
sè það vild guðanna!
20. Heiðinna skálda' eg hefi' í dag
diktan og dæmi' í lag
dregið til annarar
21. Meiningar, sem eg sýna mun
og draga' af allan grun;
*Isríður Hallfreðar*
22. Og *Ofeigs* niðr, vinur vor,
reki mín spjalla spor
til speki þýðingar!
23. Þá dæmisögu' í dikt til sín
kaus Hugi: kvæðin mín
komi' ei til ríngunar!
24. Af sönnum guði gæfan fín
auðnist þeim, utan pín,
ekkèrt til þvíngunar!
25. Gefi' hann þeim blómstrin góð og frýn,
ávöxt, sem aldrei dvín,
allskonar tímgunar!

*VII. E. svar uppá brèf C.*

1. Brèfi þínu èg svara svo,
til sums ei svara vil,
samt nefni' eg pósta tvo:
2. Sá fyrri' höndlar um harðindin,
annar um lærdóms-yðn
og hitt, sem fèll þèr inn.
3. Harðindin þó að þreyngi' að oss,
náttúran ennú er
ekki komin til þrots.
4. Menninnir þóað falli' og fè,
þó sæki' á sóttirnar
samt önnur fádæmi:
5. Skeð hefir forðum annað eins,
og skikkun skaparans
skeinkti' aptr bata meins.
6. En þótt að sè, hvað sízt eg kaus,
og móti' ei mæla ber,
mannfæðin dæmalaus:
7. Snart kann að fjöldga fólkið enn,
ef herrans blessan blíð
bæta vill landsins men.
8. Skal eg nú leggja' og landarnir
allar árar í bát,
eptirfylgjandi þèr?
9. Og fyrst eg hefir híngaðtil,
ektaskap, einsog þú,
afrækt, það múnkaspil:
10. Villtu' eg til elli þreyti þá,
svo vilja guðs og vit
vinni mitt heimsku þrá?
11. O nei, vinur! það er ei sett,
þó fyrir leiti þitt,
þú hafir máskę rètt
12. Að halda þèr frá þeirri stètt,
ef dautt er eðli þitt;
ei hræri' eg slíkan klett.
13. Hvað mig snertir, þá hefi' eg frètt,
þaraðauk brèfið þitt,
það útliðar svo nett:
14. Að blóðs og hjarta slenið slètt
og frjóleiks frostið mitt
fyllt hafi lyndi þètt.
15. Þó utantil sjáið eingan blett,
Lofn kann með sinni sitt,
samt gjöra leyndan prett.
16. Nær öllum blöðum upp er flett
(þèr er kunnugt um þitt)
þitt er ei skygni brett.
17. Þegar hún Venus verðr grett,
lætr hún færstum fritt,
fyrrenn hún verðr mett.
18. Nú þó vönd girnd sig fái fett,
og ófrjófsömum á sitt
saurindum eðli slett,
19. Og Venus glatt úr spori sprett:
ei fær nema' illan kvitt
eptirá sínum rètt.
20. En nær siðlátum gjörir glett,
hún fær ei miðið hitt,
nè hratt úr ausu skvett.
21. Og þó að falli lostinn lètt,
hepta þeir holdið sitt,
hreinan matbúa rètt.
22. Veit eg þú lastar, vinur! þá,
er stolið elska brauð
og í laun-pukri fá.
23. Jafn tveit eg, að þú elskar þá,
sem frómliga fá sèr brauð
og frjálsu korni sá.
24. Þessara flokk eg fylla vil,
fyrst eg uppá mig finn,
fari vel, styrk þartil.
25. Annars þykist eg yðja rángt,

ef eg enn leingr tef;
er það ei nógu lángt
26. Að tefja meira' enn tuttugu' ár?
nú hefi eg færi fyrst
feingið, og það er skár.
27. Orsakirnar þú vita villt,
því èg kaus þetta vif;
þartil er efni gyldt:
28. Hún er guðhrædd og dygðug drós,
skynsöm og skirlíf til,
skapar það henni hrós.
29. Mýkt er orðin í mótlæti,
auðsveip og eðlishæg,
er þetta' ei betra' enn fè?
30. Hún, ættað vel og vanið fljóð,
hún minnar ættar er,
ærligt er hennar blóð.
31. Jafnframt þessu, sem þó var stærst,
enn tel eg aðrar þrjár
orsakir þessu næst:
32. Hún er mèr lík, og háttalag
allt mitt hún á svo við;
af því við nýan hag
33. Vona èg bregði manna minst
báðum, þá reisum bú;
bágligar öðrum vinnst,
34. Sem leingr þurfa' að venjast við
hvort annars ólíkt geð,
aðferð og hvörndags sið.
35. I annan máta' eg á það leit:
hennar foreldrar fyrr
fóstr hafa mèr veitt;
36. Með ást og trygð (eg tel það eitt)
til minnar mönnunar
mikils kostuðu greitt.
37. Orsökin þriðja', að bú og bæ,
góð er, þó met eg minst,
með þeirri snót eg fæ.
38. Nú hefi' eg, vinur! hafðu þar
orsakir taldar tólf
til minnar kvonbónar.
39. Og þú mátt af þeim sumum sjá:
eins kann eg einga mey
á þessu landi' að sjá.
40. En máske samt þú efist um,
og segir: margt ósèð er
í stúlkna-kaupunum!
41. Það er nú, vinur! það eg veit
framyfir flesta nú,
sem fara' i stúlkna-leit:
42. Frá barndómi' hefi' eg brúði þekkt,
sem mína systur, og
sýslað við hana frekt.
43. Nærri þrjátýgi vetra vott
tel eg þá ristils raun,
reyndi' eg ei nema gott.
44. Hvörsvegna èg hugsaði mèr
fyrir tíu' árum að,
ef eg staðfestist hèr,
45. Hennar eg skyldi freista' að fá;
sagða èg eingum samt
svoddan tilhuga frá.
46. Nú fyrst það uppúr dúrnum datt,
að henni' og öðrum með,
óvörum, það var satt.
47. Leið var tvísýn, og laung sú hríð
til þessa tíma, sem
Tróiumanna stríð.
48. Nú er mèr kært í kyrran stein
að setjast sætu hjá,
sú leiðin þókti bein.
49. Svo hefi' eg öllu svarað þá,
sem að markverðugt var,
vinur! i þinni skrá.
50. Nema hvað las eg lærdóms tal
um Parnass-fljóða flokk,
fljótt eg þèr ansa skal:
51. Eg býst ei við, ef get eg gjört,
að leggja' af lærdóminn,
lukkan er hvít og svört:
52. Sú bjarta lukka bæknar
gefr að lesa lyst;
en lærdóms-gyðjurnar,
53. Þú sem meinar og þeirra fjall,
hvar á Islandi sè,
inntu mèr, fræðikarl!
54. Eg hygg það raunar Hekla sè,
því ljós nú lýsa þar
laungum á nætrnar.
55. Af því mig dámar ekki þar,
minst eg meina þar sè
Músur, heldr púkar.
56. Apolló vera skólinn skal

Kastalíus[1]; eldfoss er
í svörtum vikradal;
57. Pegasus[2] er þar eingum kær;
mjög hræðiligr hrafn
hefir járn-nef og klær.
58. Nú bið eg fyrir vinskap vorn:
far ekki til þess fjalls,
feig vill það landsins börn.
59. Og þar hin vonda Venus er,
hvörja þú hræðist mest,
hún kastar eldi' að þèr.
60. Hún skóginn forðum hefir brennt,
fyrir því fnjóskr þinn
fá mundi' á sliku kennt.
61. Eitt sinn á Heklu-fjall eg fór,
og þaðan aptr heill,
af því varð gleði stór.
62. Því ræð eg eingum uppfrá því,
að keppast hæðir á
íslenzka Parnassí.
63. Kom heldr, vinur! heim til mín,
nær eg em seztr að,
og drekk þar skáldavín!
64. Lærðómsgyðju èg eina á,
hún skal þá skeinkja þèr,
og skemtan ærna fá.
65. Þessi' er sú mey, þú minntist á,
heitin á hausti mèr,
hana verðurðu' að sjá.
66. Svo muntu loksins sætta þig,
og birta betra geð
bæði við hana' og mig.

*VIII. Um tvær ástarfylgjur N. N. d. og N. N. s.*

1. Breytiliga nú bregðr við:
eg veit ei hvað það er
eitthvað, sem fylgir mèr.
2. Eitthvað, sem klappar innan til,
eg veit, og ekki veit,
ef eg þess fer á leit.
3. Eitthvað, sem rær innan stokks,
eg skil, og ekki skil,
skynsemd litla þartil.
4. Mín hálfa lyst og hyggja mín!
sú fylgja sást hjá mèr,
síðan eg var hjá þèr.
5. Skygnir hana' ekki skulu sjá,
fyrr enn sú, sem hana' á,
sjálf er mèr inni hjá.
6. Hún einsömul veit hvör það er;
allt þú það einnig veizt,
þú, sem eg unni bezt.
7. Þá skal draga dulkofran af,
lètt falla lostverkin,
lètt fellr bragurinn.
8. Mansaung orkti èg aldrei fyrr,
eittsinn verðr allt fyrst,
áðr hafði' eg ei lyst.
9. Því eingri gaf eg ektatrú,
þó færi feingi til,
forðast hlaut eg það spil.
10. Nú er svo komið, sjái menn!
þin fyrsta fljóðs eg bað,
fèkk svo „já" uppá það.
11. Svo er nú komið, sjái' menn!
fertugr fljóðs eg bað,
fèkk „já", og svo er það!
12. Hann, sem því rèð og okkr á,
sem allan heiminn sá,
sem það boðorð og já
13. Hefir ályktað himnum á
(gott allt er guði frá),
gefi til blessan þá!
14. Það hvörr einu góðr gjarnan frá,
það gleðja brún og brá
brúðar og sjafna má.
15. En þóað vondir vilji fjá,
og möðru[3] sæði sá,
sem öfund kann þeim ljá;
16. Þó köldu falsi fari' að spá:
ei skal oss ótti slá,
eða trúgirni þjá.
17. Að vorum ferðum guð vill gá,
svo steyti stein ei tá,
striðviðrin falla' í dá.
18. Þin kæra fylgja' er komin í dal,
og sinn kviðboga ber
bjartleit á herðum sèr;
19. Hans titr-streingr stynr opt
þá vetrarviðrið blæs,
vellr upp ólga sæs.

---

1) *Castalius* hèt skáldabrunnrinn. 2) Apollinis vængjaði skáldhestr. 3) *maðran* nefnist þrætugras.

20. Þvíað þín fagra fylgja hèldt,
hvörn og einn vetrar-vind
vondrar forynju mynd.
21. O nei, mín ást! það er ei svo;
skamdægrin dvína skjótt,
dymma þá birtir nótt.
22. Vetrar-rosinn mun valda því,
að vorsins blíði blær
betr verðr þèr kær.
23. Lángnættis bið og lognviðrin
verði þèr dýna vær,
voð mjúk og koddi nær!
24. Svoað þú getir sofið við
svöfn-gaman árið út,
eyðandi leiða' og sút.
25. Hugi minn skal við hvílu þín
óvættum verja hreinn,
vinhollr jólasveinn.
26. Skiptist svo fylgjur okkar um:
mín sè þèr minn í stað,
mèr sè þín natin að.
27. Skiptist svo fylgjur okkar um:
mín sè til þægðar þèr,
þín sè til hægðar mèr.
28. Til þess finnumst og fáum gjört
eitt, sem var áðr tvennt,
ástin það getr kennt.
29. Til þess finnumst og fáum gjört
tvennt, sem var áðr eitt,
ástin því getr breytt.
30. Sá guð, sem hreinar ástir á,
ávaxtar þeirra verk,
verkar þau góð og sterk.

*IX. Um tilhuga-líf og þaraðlútandi.*

1. Skal eg þá ekki leiða' í ljós
seinasta samtal vort?
þú segir það er hrós,
2. Og byrgir þínar þánka-dyr;
þá segi' eg samtal vort,
sem einginn vissi fyrr,
3. Og nota kann að komist upp;
ætli það einginn gort,
að því dragandi skupp!
4. Fríðla, sem hafa í hyggju sín
brúðar bindindis skort,
bata kann ræða mín.
5. Eins kynni' hún síða sætur, nær
afglapinn einhvörr burt
ætlar að heilla þær.
6. Þar í guðhræðslu góðum sið
tilhuga- laga -líf,
lærdómsins þurfa' ei við.
7. Samt þykist eg í þaunkum ei,
þó talað hafi trútt,
tárhreinn, eg játa: nei!
8. Eg var ei bitinn fljóðum frá,
síðan mèr sextán ár
söfnuðust bakið á.
9. Baráttu marga' og freisting fèkk;
en herrans náðar-hönd
hamlaði, svo það gekk.
10. Þrótti minum eg þakka sízt,
hann nógu vondr var,
vekjandi saurga fýst.
11. Þó maðr sè fyrir mönnum skír,
hvörr veit af heimsins þjóð
hvað í hans þoku býr?
12. Eg vildi hreinan halda mig,
og forðast fljóða spell;
fyrst veiztu sjálf um þig,
13. Svo opt fundunum saman bar,
í orði' og atvikum
aldreigi sástu par.
14. Eins síðan bundum ekta-trú
að frænda viti og vild,
var okkar regla sú:
15. Ei skyldi meira' enn munni' og hönd
hvort annars hræra við,
hrein geyma trygða-bönd.
16. Sem nafþa[1] klár á kaldri lind
brann okkar ástar-ljós,
utan bálandi vind:
17. Sem agatusar[2] eðli þægt
vondt yfirvinnr lopt,
við það hann logar hægt.
18. Nú, síðan skildum, stærri straum
óð eg, því þaunkunum
þá gaf eg meiri taum.
19. I fjarska þeinkti' eg hvorugu hætt:

1) *naphtha:* klár jarðarfeiti, sem finnst ofaná nokkrum uppsprettum. 2) rafr, líka vor svarti agat.

svo lygnt og fagurt flóð
fullreyndum mundi vætt.
20. Mitt kalda vezl það vellr um of,
því volgnað undir er;
óttast eg jarðar-rof;
21. Því senn er orðinn úr því hver;
jarðeldr yppir sèr,
og gegnum vatnið fer
22. Til nöfþu-flots[1], sem ljósið lèr;
ofauvatns verðr mèr
varla þolandi hèr.
23. Min dýs ætlar eg yl-laus sè,
því blæs hún loga þann,
þig og mig elskandi.
24. En við hvort annars vitum geð:
þarf hvorugt þess, að sè
þeim ástum kveikja lèð.
25. Jafnt eg til þín og þú til mín
hugsar um hèröð laung,
heiðar og fjöllin brýn.
26. Við óskum ljúft í leingd og bráð
nú fyrir herrans nafn
njótast með æru' og dáð.
27. Fyrst hans við brúkað höfum ráð,
látum nú stýri' og stafn
stjórnast undir hans náð.
28. Ottumst mótlætis ekki gráð
nè sumt báginda safn,
sem fólkið af er þjáð,
29. Þó sýnist ekki' á enda kljáð;
guð kann oss gæzku-jafn
gefa blessunar sáð.
30. Kom nú, mín heill og lauf-guð lind!
blíðviðri blómgast í
blessunar regni synd.
31. Við þig heimspeking breisk-an bind,
kærari' enn kvæði ný,
kveð hann á lærdóms tind!
32. Þig mun hans Parnassi lífga lind,
þann rètt, sem bera bí[2],
býðr hann, af því skynd!
33. Að yggja guð er sök og synd,
hans föður-náð sèr frí
farborða sinni kind.
34. I faðmlög hans þú fer ei gind,
hræðst ei við vatna mý,
verðr það allt með hind.
35. Morgundags hyggjan mjög er blind,
frelsarinn fyrir því,
fordæmir slíka girnd.
36. Min hálfa sál og sjálfa mynd!
sláðu nú þínum því
þaunkunum úti vind!
37. Innbirling svarta-settu' í grind,
örvænting alla flý,
óttanum burtu hrynd!
38. Nú hefi' eg rædt í stuttum stíl,
okkar tillaga-líf
leidt kann að verða' í tvíl.
39. En það er nóg, að þú veizt sjálf,
allt hvað eg sagði', er satt,
sjáandi' úr Hliðar-skjálf[3].
40. Eg veit þín blíða brennr hrein
til mín; eg þekki þó
þinn landamerkja stein,
41. Sem fornmenn undir föld u kol;
þar kom einn neisti þó,
því hann fann litið hol.
42. Svo þinnar hægðar þurru kol
brenna með byrgðri ró,
brúðurin hefir þol;
43. Til þess að kveikir loga-ljós
á minn og meyar dag
Maríu-veðr í Kjós.
44. Síðan vorn kærleiks eld sem eld
dafnandi dróttir sjá
dag og nátt, morgna' og kveld.
45. Hjörtu vor samlynd hallast að,
sem eins höfuðs augu tvö,
æ líta' á sama stað.
46. Nær annað lítr eitthvað við,
hitt þángað horfir, og
hæfir á sama mið.
47. Hugsum nú fyrst að verða vigð,

1) til nefndrar jarðfitu, sem er ofaná vatninu. 2) hunáng. 3) fyrir *Hliðskjálf*, meinast hèr hjartað.

síðan í eina sæng,
svo þjónkan guðs sè drýgð.
48. Vellyst holdsins, það viti menn,
temprist, og umfram allt
uppbyggist himininn[1].
49. Þann texta skal eg skíra þèr
og betr þýða, þá
í þann stað komið er,
50. Hvar verið hefir (vit í ár[2]!)
enginn kvennmaðrinn
um fimm og þriátýgi' ár.
51. Þá skaltu ein af öllum fyrst
vígja þann vígða stað;
vil eg þar aldrei tvist
52. Ölsóttar-lyktin ami þèr,
eða beisk eitr-jurt[3],
sem yðkar þjóðin hèr.
53. Heldr skal eg með klapp og koss
æ gáðr þrista' að þèr,
það bið eg veitist oss!
54. Við ótímgunar illu mein
þorni nú þeigi hjón,
þverri sú villugrein!
55. Afsökun raung, átylla nein,
okkr sízt teygi' í tjón,
nè töfradillan ein!
56. En herrans orð og hylli bein
lög vorri segi sjón,
sáðkorni fylli rein!
57. Oss helgi' og sæfi kvilla kvein!
mikið sú megi bón,
minki svo grillu vein!
58. Guð helgi styrki' og stilli vein!
mín ást þá eigi bón,
óska- trú gylli -stein!

X. *Nýársbragur N. N. s. til unnustu sinnar að kvæðislokum.*

1. Þá árið kom að enda sín,
hugsaða' eg helzt til þín
og hóf upp kvæðin mín.
2. Við sólstöðurnar þögðu þaug,
mörsugr úr þeim saug
samt ekki nokkra taug.
3. Hans mikla frost ei mátti par;
fylgja þín við mig var,
vekjandi Músurnar.
4. Hún gjörði það og miklu meir,
hún gjörði það, að þeir
þánkar, sem Oðins leir
5. Fljótvirkir nýta vildu sèr,
flest-allt báru, sem ber,
burt og skoluðu' af sèr.
6. Hún gjörði síðan mikinn mjöð,
skáldskapar skeinkja glöð
skamtaði' og setti í röð.
7. Hún gjörði meir': sinn eiginn eld
kveikti, svo veigin veld
varð hvört eitt drjúgum kveld.
8. Sú hitu-sterka mjaðar-must
gaf ærinn þánka-gust
og góðligt heila-dust.
9. Af sögðum efnum, sæta fín!
kvað eg nú kvæðin mín,
kveðin hèðan til þín.
10. En síðan veittumst varar á
næstliðnu sumri, sjá:
sízt nam eg gáfu þá.
11. Fyrr enn sólin með lægsta lag
stytti þann dymma dag,
diktaði' eg ástarbrag.
12. Nú er enn komið árið nýtt,
þinn hjá mèr þánki hlýtt
þá gjörði frostið stritt.
13. Því eg hugsaði' í þetta mund:
er næst kemr nýárs stund,
nálgast hvort annars fund.
14. Höfum við þá að herrans vild,
vor ætlan verðr fyld,
vandræðin mörgu skild.
15. Þó, slíkum grillum sleppi' eg á skóg,
því að nálægra nóg
nú er á annan bóg.
16. En það er fyrst og fremst: um þig
hugi minn sveitir sig,
sem þú gjörir um mig.
17. Að ekkert þèr til ángrs sè,
að verði' á vondu hlè,
velferlin mættu ske.
18. Þess bið eg fjærri' á fjalla-nöf:
guð sè þèr nýárs gjöf,
gæzkuríк inni töf!
19. Arið nýa þú nýan fær
dugnað, mín drósin kær!

1) með því að uppala börn sín guði til handa. 2) vit það tímanliga! 3) tóbak.

drottins blessun það ljær.
20. Svo mun yfir þig skína skær
hans miskun, meiri' og nær
á morgun enn í gær.
21. Við hækkun sólar gaungu glær
dagr drýgist, og snær
drýpr lángnætti fjær.
22. Þannig nú hressast muntu, mær!
betr og betr fær
birtist þín hyggja vær.
23. Þèr nýárs vinnan verði bær,
þèr líki bú og bær,
blessist þèr jörð og sær!
24. Þèr heppnist kýr og þarmeð ær,
þèr mikið mjólki þær;
matvæla nægtin sær
25. Öllum verðr, og aflaklær
lukkast, þá fiskinn fær
fólkið, ef að það rær.
26. Heya mun sá er heyið slær;
guð það, sem fellir fær,
fárið áburtu þvær.
27. Mín ást! ei leingr hrygðir hrær,
mína nauð ekki nær,
nýárs gleðina stær!
28. Til þess í vor þig finnr frær
hinn varmi vestanblær,
vellandi spóinn hlær.
29. Það er að skilja, þegar vær
söfnumst, og sáðið grær,
sofnaðar vakna lær.

# Markadar-Ríma

## um Islands ásigkomulag, höndlununni viðvíkjandi.

*I. Um höndlunar lærdóm Islendínga.*

*Merkúríus* gekk um grund,
gáði' að kaupum manna;
Intressið[1] hans fór á fund,
fjöldinn[2] má það sanna.
2. Af honum hafa margt og mikið
meiðar vesla numið;
hvörnig þeim sè við það víkið,
vottar greppa skrumið.
3. Höndlun þjóða vángs um veg,
vitnast ljósum orðum,
gjörvalls til er gagnsamlig,
guðs sem ótti forðum.
4. Islendingar þurfa því
þetta strax að læra,
til þess heima fá þeir frí
frænings-bólið skæra.
5. Framandi menn þá fræða' um kaup,
flest þeim gefa tíma;
er sá draumr einsog hlaup
eða þessi ríma.

*II. Uppboð Islands þann 10da Maí 1758 (vóru vísurnar kveðnar meðan á uppboðinu stóð í Kammer-kollegió í Kaupmannahöfn).*

6. Veðrið fagurt sýnir sig,
seggja lifnar hagr,
en nú rennr yfir mig
Islands merkidagr.
7. Öðrum verði vært og rótt,
værð hefi' eg litla feingið,
erfitt hafa nú í nótt
nokkuð draumar geingið.
8. Upp um horn í Hafnar stað
heingt á mótum gatna
skoðar prúðr pappírsblað
prentað þorri skatna.
9. Hvörr vill eyrar[3] hreppa stand?
hvörr vill að því gánga?
upp er boðið Ísaland,
ekki kem eg þángað.
10. Aðrir bræðr yfir þess
aumleik heilir stumri,

1) Kaupmanna-hóprinn. 2) landsmanna varð varr við það.
3) kaupstaðar-stand, höndlun.

meðan þriðja mæri' eg vers
Miðkudag í sumri,

11. Hvar er landsins lukka[1] nu,
lofuð drjúgt í fyrra?
enn sè èg standa kálf í kú,
kann það hræddan skirra.

12. Fyrr þín gæði fýsilig
fjöldi sókti þjóða,
nú vill einginn eiga þig
ættar-jörðin góða!

13. Einginn grætr, einginn hlær,
einginn rís úr sæti,
einginn býðr, einginn slær,
eða' um kaupin þrætir.

14. Þótt ei takist þetta sinn
þína lest að skerða,
muntu enn í annað sinn
á boðstólum verða!

15. Máske það sè kant og klárt,
kynnt var hitt til vara;
lin-maungurum sviðr sárt,
samt þeir verða' að fara.

16. Þessir leingi vóru' og vel,
verri komið geta,
hvörjir færa máske mèl
minna' um velli Beta[2].

17. Sami verstr saurinn er,
seint oss heppnast þíngin;
þótt ei betri kæmi kjer[3],
kærst er umbreytíngin.

*III. Islands seinna uppboð þann 6ta December s. á. (visurnar kveðnar um uppboðstímann á sama stað).*

18. Dymmra runnin dægra sól
drýgir efni stunda,
eðlu meiðirs merkir ból
Miðkudag sjöunda.

19. Rætast fara forlögin
flutt um drauma vominn:
þú ert enn í annað sinn
á boðstóla komin.

20. Varstu móðir! nú í nótt
nærri hvílu minni;
þó þú við mig hefðir hljótt,
hljópstu mèr í sinni.

21. Búnir fylgðu þínir þèr
þekktir augna sveinar,
brúnir ýgldu mjög að mèr,
meinti' eg drauga reynar[4].

22. Ísland kallar hljóðum há;
hennar ansa þjóðir:
hvað skal bralla? hvað skal slá?
hvað skal tala? móðir!

23. Heyrið Danir! heyrið mèr
hertir Íslendingar!
èg málsháttur orðin er,
um mig sèrhvörr þíngar.

24. Hvar eg kem, í hvörri krá
höldar togan spinna,
hvörjir skuli frera fá
foldar máng að vinna.

25. Aðrir sleppa tökum tjá,
til þess blöðum fletta
mèr að hleypa hjarnið á;
hvaða dygð er þetta?

26. Loksins kominn seggir sjá
settan dag til rètta,
þoka' og væta eir honum á,
ei mèr geðjast þetta.

27. Aur og saur er úti' að gá,
aflar hosum bletta,
samt þá skjótast marka má,
í miðju kafi' er detta.

28. Hjónabandið heppið þá
hamíngjan láti flètta,
sem í þoku þaufi kljá
þátta bobbann stètta[5].

29. Hátið er til heilla skárst,
huganum töpum eigi,
nýúng skyldi nokkur fást
Nikulásar-degi.

30. Hugsa' eg opt með hrygga lund:
hvað mun verða' úr þessu?
skal mèr nauða nefnast stund
á Nikulásar-messu.

31. Heyrðu nýti Nikulás!
nauðin ber að höndum,
samt þèr eingan sel eg dás,
sem þeir úti löndum[6].

32. Sagt er oss af þinni þjóð:
þú með helgi vörnum
færir þíngin þæg og góð
þeirra litlu börnum.

---

1) sjá bls. 67. 2) sækonúngs heiti. 3) *f.* kjör, ástand. 4) *f.* raunar. 5) sem deila skulu hin vandasömu landsstjórnar-mál. 6) kerti, sem pápiskir tendra hjá bílæti hans.

33. Þótt eg feingi' í rèttri raun
Rinar-málminn færri,
á hvört höfuð eina baun,
eða litlu stærri.
34. Nægð og sátt í svoddan hag,
sætan innti kalda[1],
þinn eg mundi messudag
merkan síðan halda!
35. Allir svara' á eina lund:
efanum skaltu sleppa!
margr þegn á þess'ri stund
þig er um að keppa.
36. I fimtán staði farin ert,
festir nokkrir eru;
um hina verðr hèðanaf bert,
hèr næst þína veru.
37. Veit eg Sveinki! vífið kvað,
vildi' eg þegja kynnir,
heppin loks ef hættir að
heimsku flíka þinni!
38. Þú mèr taldir tuggið draf
titt úr öðru svíni;
þið eruð galdir orðnir af
innbyrlínga víni!
39. Þið eruð blindir! yðar eymd
enn ei skynjað getið,
brúkið laust og burtu streymd
bezt þið vötnin metið!
40. Komum, sofum keyminn út!
kaupin látum vera!
mitt í rofum margan hrút
mun oss betra' að skera!

*IV. Um framvarpið fyrsta til nýu höndlunar árið* 1757 *og aptr* 1759.

41. Katla gaus upp ógnar urð
árið hitt eð fyrra,
fjöllin vildu fæða burð
fyrðum þókti' ei kyrra.
42. Vildu minni verða sízt,
við það laungum gjalla;
í almúganum óttinn brýzt,
en hann skynjar valla.
43. Jörðin umdi, hristust hús,
hætt þeim varð að detta;
fjöllin loksins fæddu mús,
furða sýnist þetta.
44. Sumir brostu sama dag,
sumir glöddust eigi,
að þau komust aldri' í lag
uppfrá þeima degi.
45. Undr slík og ógna hljóð
eskju vöktu kalda;
vegs-ummerki finnr fljóð,
fólkið má þess gjalda.
46. Ofvitin[2], hún innti þá
uppúr djúpum kafa,
diktaðan skulu dvergum frá
dauða Kvásirs hafa.
47. Geldr vángr geddu þaks
gyldru fánginn vafa,
annað máng er ei til taks,
enn aptrábak að skrafa.
48. Að oss dregr dár og spott
drafnar fress[3] er yðja;
jöfr æ vill gjöra gott,
guð hann virðist styðja!
49. Ef hann[4] víkr oss ífrá
af því vèr hann smáðum,
hvað úr verðr, hermdu þá,
höfðingjanna ráðum.
50. Hauðr föður biðr böls,
böndin landar herða;
sex ei munu kvigar kjöls
krists að fiskum verða.

*V. Niðrlagið; um æfi þessarar rímu og fleiri kvæða, samt fátt-eitt um aldarháttinn nú, og hans smekk.*

51. Nú er komið meir enn mál
markaðinn að enda;
Gjalars skyldi skútan hál
við skruma bryggju lenda.
52. Kaupstefnunni kominn frá,
kostum beztu hlaðinn,
ofsa-vind og ógna-sjá
út hefir leingi staðin.
53. Hún ef finnr hvörgi traust
hæli við að liggja,
kjalar setjum kið í naust,
kallað byrgi tiggja.
54. Eg hefi mörgum Bifrs bát
beitt á minnis veri,
hvar þeim leyfist höfn og sát
hamingjan með þeim veri!
55. Hvort þeir allir einsog èg
afla þeinkja rèði,
elligar hrekjast annan veg

1) Island. 2) *f.* ofvitarnir. 3) mar-köttur; svo kölluðu sumir það þáverandi íslenzka höndlunar-fèlag. 4) guð.

í ósvifrúnga[1] geði.
56. Sá er ráði gáfur gaf
gáfna notum öllum,
hvort þær lýttar koma' á kaf,
eða krýnast rits í höllum.
57. Nú hefir öldin annan smekk,
einginn má það lýta;
helzt er bágum[2] hræsnin þekk,
í hælinn nær þeir bíta.
58. Sannleikr og lærdóms-list
ljós fyrir hundraðs aldri
kappar vilja kviksetjist
í kjapta-magni og skvaldri.
59. Segja' og gjöra satt og rètt
sínum fèlags grönnum:
einfaldligt og ofr slètt
er það nú hjá mönnum.
60. Guð oss veiti greind og ráð,
gefi betri tíma;
þá er illa' á enda kljáð
ei Markaðar-ríma.

# Heimildar-skrá,

eðr

## tileinkun sagna og kvæða til kvenna á Íslandi.

Fyrst að blaðið autt var eitt
og eptir stund af vöku,
vilda' eg, heldr enn vinna neitt,
vefa þará stöku.
2. Skoðaðu hvaða skruddan mín
skáldalæti sýnir;
skemtun verðr þetta þín,
þegar svefni týnir.
3. Agæt skáldin eru hèr
aldar fyrr-verandi,
beiða hljóðs og heilsa þèr
á höfrúngs-þekju landi.
4. Karlar seint því gefa gaum
sem greppar að þeim hvísla;
þeim er tíðin nógu naum,
nú er stærra' að sýsla.
5. Kvendin heldr vor eg vil
vökva Boðnar liði,
þau hafa litilæti til
og lyst að smakka' á miði.
6. Bezt þau stíla brèfin nú,
bezt þau málið skrafa,
bezt við skáldin binda trú,
beztan smekkinn hafa.
7. Þó eg fái' ei fremri laun,
fjærri sambúð kvenna,
samt er eg kominn að rettri raun
um ræktar kostinn þenna.
8. Þó fái' eg hvorki klapp nè koss,
konunum skál eg hrósa,
því eg veit að virðir oss
vífa mergðin ljósa.
9. O! að hefði eg ærinn mjöð
elfar sí-rennandi,
vífin skyldu vær og glöð
verða' á klaka-landi.
10. O! að hefði' eg Asa jukk
í því bezta standi,
vífin skyldu við þann drukk
verða samkveðandi.
11. Þegar hjá þeim húmar að
og hjarnar ljós í ranni,
margt þær raula rímu-blað
og reka hrygð frá manni.
12. Drósir jafnt með dygð og ást
dýrum hlýða sögum,
að feðra vorra frægðum dást,
er fyrri vóru' á dögum.
13. Má þá snóta marka þel,
máli birt í lausu:
illa líkar eða vel
eptir hvörja klausu.
14. Sauma, greiða, karra, kljá,
kappið sagan eykr,
spinna, prjóna, þæfa þá,
það er einsog leikr.
15. Á þeim hvörgi svefninn sèr,
seggir tíðum heyra,
lesarinn þegar letjast fer:

1) óvildarmanna. 2) mótstöðumönnum.

lestu núna meira!
16. Sjö-stjörnu spyr einginn að
inní bóndans garði;
hún er komin í hádegis stað
hálfu fyrr enn varði.
17. Þegar háttum þokast nær
þrátt eg heyra kunni:
bezt er að fara, birta þær,
að bæta sèr í munni.
18. Slík þó sýnist vinna væn,
við það öllum semr,
yðju dagsins endi bæn
áðr svefninn kemr.
19. Skamdægrin með svoddan sið,
sem þær laungu nætr,
vetrar þrek og þorra grið
þannnig stytta sætur.
20. Bið eg hvörn, sem hugsar heim
heiðrs stúlkum leita;
verðugt er að vilja þeim
vel, er svona breyta.
21. Eigi þó að útlenzk sprok
eikur- brúki -hringa,
viss'ra' er þeim enn fjaðra fok
fornt mál Íslendinga.
22. Því skal ætla þvílík ljóð
þöllum marar loga;
til Íslenzkunnar ágæt fljóð
ekki þarf að toga.
23. Eg skal minnast æ til góðs,
uppfrá þessum degi,
burðar fagra bjarka sjóðs,
bregðist þeim það eigi.
24. Heimıld taka, tel eg, óðs
tróður vells hèr eigi;
skyldan rennr ber til blóðs,
bragrinn vil eg þegi.

# Hegra-kvædi.

*Um einn vondan óvætt, sem fornmenn í heiðni kölluðu óminnishegra, og trúðu hann sækti mest á drykkjumenn, út af því, sem Oðin hefir sagt í Hávamálum; en hann er raunar illr andi, sem ræðr yfir þeim náttúru vötnum, er Veigar heita, og gjöra menn óða; verðr svo við þetta tækifæri drykkjuskaparins saga jafnframt sýnd í þessu kvæði.*

*I. Um sameign óminnishegrans og Oðins kóngs, eðr annara höfðíngja í heiðnum dómi.*

Oðin kóngr Asa var
afguð Norðrlanda;
fegurð krapt og kænsku bar,
kunstir vítis-fjanda
nam yfir mennska menn;
vakti drauga, deyfði sverð,
deildi sigurinn,
margra dýra mynd og gerð
mátti taka' í senn.
2. Galdr Oðins sagðr samt
sjónhverfingar vóru;
náttúru brögð með byrgðan skamt
blönduð villtu stórum
heiðinn heimsku-lýð;
hugar ákóf illska með
efldi töfra hríð,
en fjandmönnum var frelsi lèð
frekt á þeirri tíð.
3. Helzt eg eina tek hèr til
töfra kunst, sem Oðin
vissi' að æfa', og vinna spil,
við það byrja ljóðin:
hann í hyggju-tópt
anda vonda þekkti þá,
er þustu' um jörð og lopt;
margar þeirra myndir sá
mugguligar opt.
4. Til sín heimti' um hauðr og salt
Herjans muni púka,
sigraði þá og sendi' of allt,
sína vild að brúka;
einn var þeirra þó,
sem Oðin sjálfan yfirsteig,
og að honum drjúgum hló;
þannig vonzkan gjörir geig

og gikkar klóka nóg.
5. Fugls í líki ljótr ár,
líkr gráum hegra,
birtist Oðni bragða hnár,
buðlúng fýsiligra
hvatti teyga til,
að Hvítbjörgum þá hilmir sat
heitt við kvenna spil,
honum mjöðinn Gunnlöð gat
gefið og meira' í vil.
6. Fuglinn þessi flaug þar að
flatmaganda Grími;
drukkinn varð hann strax í stað,
steig í heila svími,
villti minni' og vit;
að vaungum fuglinn vængjum sín
vafði' og gjörði þyt;
öðlings við það orka dvín,
allan misti lit.
7. Þannig datt í drauma geym
djúpt, en hegrinn vissi,
að Suttúngr mundi sækja' hann
heim,
svo þar lífið missi;
fyrir því fljúga nam
útúr höll, en Oðin svaf
allt að nóni fram;
Suttúngs dóttir dúrnum af
daufan vakti gram.
8. Segi' eg ekki' af sögunni fleir'
segja kann hún Edda,
þó skal yðr minna' á meir
munnlig hjalta-gedda
þess lopt-anda list,
áfeingum sem yfir býr
öldri' og höfuðin bist
fjöðrum sínum fángin lýr
og falsar hjörtu þyrst.
9. Draga mætti dæmin mörg,
að dikta' um efni þetta:
fyrsta þá, sem hof og hörg
heiðruðu, gjörði pretta
vondr öldr-ár;
síðan kom á kristna þjóð
króki púkinn flár;
um það stefjum stirðan óð
stakligt ölva dár
10. Framanaf lífi Loki beið
laus við drykkju særi;
þegar að æfi-lokum leið,
lymskr þótt hann væri,
andi víns hann vann;
illa sínum orðum rèð,
þá *Ægis* gesti fann,
talaði feigum munni með
margt um söfnuð þann.
11. Einn var Hrugnir ekki rír
er honum Freya skeinkti,
forðaðist aldrei fjaðradýr,
fullr af gorti þeinkti,
að yfirgeingi' hann allt;
honum fèkk úr höfði teygt
hegri raupið kaldt,
lèt svo detta lífið feigt
lukkuhjólið valt.
12. *Alexander* mikli mest
matti' í heimi forðum;
ofdrykkjunnar andi verst
aptr ruddi' úr skorðum
kóngsins dáð og dygð;
*Tiberius* og *Neró* nóg
nam af þeirri frigð,
*Atla* það til dauða dró
í drósar hvílu-bygð.

*II. Dæmi úr Guðsorði o. s. frv. og meðal kristinna manna fram til miðaldrsins.*

13. Fleiri dæmi flyt eg ei
fram úr heiðnum dómi;
valla' er kyn þó vofu-grey
villti fólk í tómi
blindt og blundandi;
hitt er meira' að goðum gat
gjört sú lyrfa spè,
þegar hann dúfu fór í fat
og fyrir hyggna stè.
14. Rèttvís *Nói* datt í dá
deyfðr af orku vína,
og hinn frómi *Loth* er lá
leyndr dætr sínar;
á um einsetann
kunnugt dæmi drep eg eitt,
djöfull vèlaði hann:
drukkinn blóðskömm drýgði
greitt,
drap þareptir mann.
15. Ljós eru dreingjum dæmi
þess
drykkjuskapar anda,
er *Nadab* vildi' af víni hress
við altari standa,
einsog *Abíhú*
þorði' að höndla' um helgan dóm,
heyri prestar nú:

af eldi drottins eyddist tóm
óskamfeilni sú.

16. Þaraf kom og þörf er öll
það á minnið negla,
að þeir forðist ölva tröll;
eilíf prestum regla
af guði gefin er:
áfeingum skal öllum drykk
áðr í kyrkju fer
hafna sá, er heilög skikk
og herrans orð framber.

17. Ritning heilög reiknar þau
Rekkabíta dæmi,
sem firrtust þennan drykkju-draug,
drottni segir hún kæmi
það siðferði þekkt;
hann blessaði þá og lofa lèt
lukku þeirra slekt';
Júðum mætti mæðu-hret
með útlegðar sekt.

18. *Esaias* þeim biðr böls
sem bilast ei að drekka,
og *Habakuk* þeim með áburð öls
æra landsins rekka,
hvörra hvörr og einn
sumbla púka' er þarfr þjón
og þekkr lærisveinn,
landi fær og lýðum tjón,
lukku- og æru-seinn

19. Sjálfr Kristr varar við
vondu drykkju svalli,
sem höfugt gjörir hugskotið
og hörðu veldr falli;
postulinn *Pètr* eins
heiðið aktar undirlag
áfellingar veins;
siðr þrýtr dæmi' enn dag
drykkjuskapar meins.

20. Þó vil eg seinast segja *Páls*
sögn, þó miðr liki:
maðr guðs í máli frjáls
mælir, himnariki
sumblarar fái sízt,
bannar drykkju-mönnum með
mat að taka víst,
af því hann hefir á þeim sèð
andans vonda fýst.

21. Allt fyrir þessu, því er verr,
þeir sem kristnir heita
forðast ei það fjanda sker,
fárliga á því steyta
og drukna' í drykkju-skap;
aldaskipti samt eru sèn
sagt um veiga glap,
einsog blendu' í borðkerin
byrlar ölva krap.

22. Fyrst í kristni fólkið gott
forðaðist loðinn púka,
klaustra lið hann keirði brott,
kunni' hann ei að brúka
forna færð og slægð;
en þá siðavendnin varð
veik og fastan lægð,
kom hann heim á hvörjum garð
hýrr með ölva nægð.

23. Mönnum veitti vín og mjöð
virt og ölið sterka;
hjörtun urðu glöpt og glöð,
gleymdist trúar-verka
kristin kunst og dygð,
en í staðinn aptr kom
allra lasta frigð,
dáðleysi við drykkju vom,
drussa-þumb og stygð.

24. Þegar heiðnin höndluð varð
hèr á norðrlöndum,
Satan fèkk í skildi skarð,
skammir reirðust böndum,
kristið lýsti ljós;
aldrei brúkað vínið var
við það aldar hrós;
Oðins hegra' í hjarta skar
horna lygna sjós.

25. Siðan eptir aldir tvær,
ekki stóð það leingi,
varla nokkurr var sá bær,
vínið ekki feingist
að rífka bragna borð;
vellyst fylgði þjóða þján,
þjökuð feðra storð,
flokkadrættir, rèttar-rán,
ríkis-gyrnd og morð.

*III. Fundin þau brennandi Veiga-vötn ogsvo á Íslandi.*

26. En þá vissi vítis-ár
af vana fór að slakna
kraptr víns og veiga fár,
við úr svíma rakna
öldin ölvuð tók;
aptr nýan eitr-lög
árinn fann og jók,
hvörn hann bráðum leiða' í lög
lèt í venju-bók.

27. Þá vóru' árin Þízkum af
þrettán hundruð talin,
vínið brendt er gufa gaf;
getinn var og alinn
þessi vessi þó
ennú fyrr og út til Róm
úr Arabíu dró;
lífsins-vatn og veiga blóm
vitra hèt í gjó.

28. Efstir nefndir eru tveir
*Arnaldr* og *Lulli*,
báðir reyndir bragnar þeir
brennuvíns að dulli
fyrstir unnu framt;
þjóðverskir (svo leingi leið)
lagarins höfðu skamt;
leingr norðr-byggjum beið
brennuvín ótamt.

29. Þriðja vetur hundrað hálft
hefir nú vel í standi
brennuvínið verið sjálft
á voru föðurlandi,
þá *Lúthers* læring frið
páfatrúar-villu vann,
vakti drykkju-strið
andi sá, sem aldrei kann
eyra kristnum lýð.

30. Afeingan við eingan drykk,
einsog víniö brenda,
hegrinn gat sitt skaða-skikk
og skúmið óhreininda
látið í mennska menn:
þótt háska-pestir, hörku-böl,
húngr og dýrtíðin
dræpi, væri drykkjan föl,
þeir drukku' inn allt í senn.

31. Innan brann og utan fraus
öldin glópsku-ríka,
úr þeim blái blossinn gaus,
blès út öndin líka,
þartil útlenzk þjóð
blanda lærði vonda virt,
við það græddi sjóð;
Island víti' og auðnu firrt
eptir hissa stóð.

32. Hingað komin hermd er svo
hegra-sagan ljóta;
gjöri' hún fyrir grönum vo
garpa, sem hann blóta;
nálægt nauða-stand
öllum hygg eg orðið ljóst
um vort föðurland,
ekki síðstan ætla' eg póst
ofdrykkjunnar grand.

33. Vænsta til þess valda sjám
valdamenn og bændr,
prestar af þeim dróu dám;
dug og viti rændr
margr er minnumst vær,
sem annars hefði bú og börn
bætt í dag og gær,
orðið landsins lán og vörn,
lyst og sómi kær.

34. En, í staðinn alls þess góðs,
óþrif fóstrjörðu,
ósið, leti' og efni hnjóðs,
allskyns mæðu gjörðu
drjúgum hvörr sem drakk;
forstands-leysi og fremda-hrap
fór í dygða stakk,
oftók sig af afsaskap
og yfirkomið sprakk.

35. Úr karlmennskunni kjapta magn,
króka-lög úr rèttum,
lostasemðir, ófrjóft agn
úr ektaskapar stèttum
gjörði' hinn grái fugl;
úr setnings-speki gambr og gort
galdra-fas og kukl;
leidt er þetta um landið vort
lastastapp og rugl.

36. Þó er eitt af þessu verst
það sem yfirgeingr:
kristni forðum metin mest
merkist varla leingr,
andakt örfa sín
skárstir haldnir höldar við
heljar brennuvín,
til orðsheyrnar tóbakið
taka[1]; gættu þín!

37. Ótti guðs og elska sú
er í löku standi,
nær hefir fólk þá heimsku-trú,
að herrans fáist andi
viðr víniö brendt;
alt er sama' ef samvizkan,
sè henni' af guði bendt,
sefast á við sopa þann,

1) brúka tóbak um messuna, svo þeir sofni ekki.

Satan hefir það kendt.

*IV. Ominnis-hegrans ásýnd og athæfi.*

38. Svo er eg búinn öldr-árs
eðli' og ment að sýna;
nafnið fèkk í fræðum Hárs,
fleira skal eg tína
ásýnd púkans um:
þegar hann er við ölva dans
eykur braml og skrum,
en samdrykkjarar sitja í krans
og súpa' af glösunum.

39. Arann kallar óminnis-
Oðin kóngr -hegra,
því að drukknum gjörir hann gis,
gjörvallt lífið fegrar;
þeir þykjast meiri menn,
og taka sífeldt sèr um megn,
segja stóryrðin;
en nær þýtr gufa gegn,
gleymt er allt í senn.

40. Opt hefi' eg verið veigum að,
vína-drekku sætti,
lægst um nótt og ljósan dag
laungum að því gætti,
hvört sæi' eg ei hegra sjón;
en af því èg er illa skygn,
ónýtt var það gón,
hugsaði brögðin hyggja lygn,
horfði' á staupa-lón,

41. Eittsinn fór eg frægt í boð,
fyrðar komu þángað:
hafði þeirra hjarna gnoð
hegri tíðum fángað,
slíkt eg vissi vel;
skuggsjá litla' eg læt í barm,
í lófa stundum fel,
við sálar-spegils settr karm
sanna fregn eg tel.

42. A móti við það góða gler
glædt að mínu baki
skuggsjá leit í lófa mèr,
lypt var dular þaki
og hulins-hjálmi frá;
varaðist eingin vofa þau
vèlahrögðin smá,
luktan hèldu bráa baug,
er beint í gaupnir sá.

43. Húsið fullt af vættum vítt
varð að augabragði,
gegnum veggi og gólfið sitt
gægðist eg og þagði;
mörg-ein gufu mynd
hátt og lágt í lopti svam,
líka fylgju kind
dreingja hvörs er drekka nam
deildi þokka strind.

44. Afeingt hafa vildu vín
vænu byrgt í fati;
veitarinn lèt þá vötnin sín
vella' úr hana-gati,
spönsið spýtti í því
blárri gufu', er bráðliga
brá sèr líking í
fjaðra-dýrs, er fráliga
flaug að staupa-kví.

45. Ungr fyrst í annað sinn
*Ölmóðr* hinn gamli
breiðan tekr bikarinn,
býst að nætr-svamli,
fyllir fornum drykk;
settist fugl á höfuð hans,
hölda vissi skikk,
Móði skilar skeinkjarans
skál, í einum rykk.

46. Við það hegrinn vængjunum,
veifaði, sem skarfr,
og valkokar augunum,
einsog meinslaus tarfur,
úr hrukkum mjóan háls
rèttir upp og læri laung,
lèttir sèr til hálfs,
mýkir opin geispa-gaung
gufa staupa káls.

47. Nú skal fleira, nemi börn,
nefna muðar-akka[1]:
stendr hegri, stór sem örn,
með stirðan topp í hnakka,
vèl og vængir dökkt;
fætr, háls og haus og nef
hèllt eg bleki stökt,
kropprin grár og kinnt eg hef
kennimerkin glöggt.

48. Nema þessu næli' eg við,
nefndr toppr breiðist
út svo mjög, á alla hlið
úr þeim skúfi greiðist
þoka hvít og þètt,
sem rosabaugr krýpr umkríng

1) túngan,

kroppinn hegra lètt
nær hann sezt á svarðar lýng
og sumbla bruggar prett.
49. Sá èg drýsil-difilinn
dansa' á reikar-fjölum,
með vængjum feykti vondr hvinn
vitinu frá þeim öllum
og heila hjó í þak;
veiga-hlynr við það ærr
varð og greiddi blak
sessa hveim, er seggjum fjær
senda þústra rak.
50. Hegra dans eg hafinn leit,
höldar tóku saman,
á þá vondum auri dreit
ár, og þókti gaman,
espast þeir við það;
eptir skammar-orð og verk
og æði fullkomnað
yfirsvif fèkk illskan sterk
og ölva-sóttar bað.

*V. Hvörnig menn eigi að sjá við óminnis-hegranum.*

51. Svo hefi' eg yðr sögubrot
sýnt óminnis-hegra;
óska' eg hefðuð af því not,
þó efnið virðist megra
enn annað æfintýr;
framvegis munuð fregna þèr
um fjaðrað töfra dýr,
hvört það gat ei grandað mèr
við gríma[1] brögðin hýr.
52. En eg veit, ef veiti' eg á
vöndu þessu máli
úrlausn nokkra, fleira fá
fýsir yðr, að tálið
getið ölva-gamms
flúið um, og framvegis
forðast drykkjar hams;
segja vil eg til samlætis
svörin innan skamms.
53. Einginn leingr akta mun
áðr geingna villu,
fornmenn hugðust firrtir grun
fæla vondt með illu;
blóðgar rúnir reist
fjölkunnigr og lagði' í lauk,
lyndið varð þá hreyst;
Sigurdrífu drykkju-mauk
deyfa sèr hefir treyst.
54. Egill hefir af henni lært,
öldin þvilíkt kunni;
frá mjöðnum trúði megnið sært,
Mímis vizkubrunni
þakkaði þessi ráð;
sínum goðum signdi bjór,
saup óhult í náð;
hamars-marki', ef hèt á Þór,
helgaði drykkju gráð.
55. En það sveik þá opt og ríkt,
Oðin þeirra faðir,
sjálfr hefir sannað slíkt,
með sinn dæmi; það er
inut í upphafi,
hvörnig árinn á hann lèk;
eg vil lá[illegible]' í tè
ráðið mitt og til þar tek,
sem teitin ölva hnè.
56. Það eg m[illegible]rkti', er þriðja glas
þjóðin sopið hafði,
kom á hegrann ferða-fas,
er fjórða sveitin krafði,
haminu hristi strax;
til þess staupin tók eg seint,
tímum eyddi dags;
maðr eingi, gat eg greint,
gætti þessa bragðs.
57. Skálina þriðju samt eg saup,
sóktu fjórðu rekkar,
signdi' eg höfuð og síðan staup,
þeir sóru' eg skyldi drekka,
en merktu' ei merki kross;
í því til mín fuglinn flaug
flærðar-gjarn við oss,
signing fúlan fældi draug,
hann firrtist þetta hnoss.
58. Kom þá hnykkr árann í
einsog væri' hann brendr:
aldrei sá èg hann uppfrá því,
og ekki varð eg kendr,
þó feingi fleiri glös:
samt eg þeinkti' á sið og hóf,
þá sætti mjaðar ös;
þeir sem vilja' ei þetta próf
þrotni' í ölva-kös.
59. Ei mun rauðblár aðalsteinn[2]
öldur-tíli hjálpa,

1) *grímar* hètu drykkjuhorn. 2) *Amethystus*, á íslenzku öldur-tíli, því hann tálmar öldrunum, eðr því að maðr verði drukkinn, sem Grikkjar og Rómverjar trúðu.

heldr skulu þeir hvörr og einn
í hrosta[1] brimi dálpa;
en það er aflagt nú
meðr krossi' að marka sig,
mýgist breytni sú:
köppum þykir kotúngalig
Krists, ef merkist, trú.
60. Fullvel dugir Krists um kross
í kyrru' að hugsa brjósti;
þá dregst að lystar drykkju-foss,
drjúgum hvörjum pósti
hnekkir holds af girnd
öllum hjá, sem óttast guð,
hans allra dýrsta mynd;
er svo nokkuð útmálnð
óminnis-hegra synd.

# Mjad-drekka,

*hvaraf sèzt vegligt hrós, vegligr uppruni, margskiptar (níu) náttúrur, og nytsemdir mjaðarins, sem af öllum áfeingum drykkjum hollastr er Íslendingum.*

Heilagr hunángs drykkr!
hann verðr aldrei gikkr,
sem á þèr nærir sig;
af himnum ertu farinn,
ei nema bía-skarinn
fèkk mönnum færðan þig.
2. I himins hæða skýum,
handa fervængðum bíum
drottins þig drýgir hand;
mettað *Jón* helgan hefir,
hresst *Jónathan*; þig gefr
Jórsala lofað land.
3. I himins hæða skýum,
handa Valhallar dium
kaus þig fornaldar fólk,
og vissi' ei aðra gleði
Einherja nærri geði
meir enn Heiðrúnar mjólk.
4. I himins hæða skýum,
handa kotum sem dium
safnastu sumardag;
þig loptsins ferjar friður,
ferðu til jarðar niðr,
leitar upp bygðarlag.
5. I beztu grasa-blómi
býr að náttúru dómi
við fegurst frygða tjöld;
öll tún og engjar hillir,
ylmurinn loptið fyllir
morgun, miðdag og kvöld.
6. Fleygar matseljur senda
sitt líf fyrr enn þær enda
vax og hunáng í senn;
af miði meltan hægist,
maginn smyrst, frostið vægist
fyrr enn hann fær á menn.
7. Nú veit eg öld er önnur,
úr Njörfasundi könnur,
hvörr þrúgu-lagar þreyr,
og suðu-drop af salla,
sem lífsins vatn[3] þeir kalla,
þó lifið lesti meir.
8. Mörg inna mætti dæmi,
missa þeir vit og næmi,
þá blóðið espast allt,
af vondum bruna broddum
bipsast, sem nálar-oddum
pikkaðir væru' ávalt.
9. En vorir feðr fornir,
frjálsir og aðalbornir
einn drukku dia-mjöð,
þó sjáldan sögur greina
svall og vitleysu neina;
hvörr sat í sinni röð.
10. Því hann seðjandi sæfir,
svita lèr, ydda slæfir
drykki, þá drekkum hann,
mýkir öll liðamótin;
meðfylgir enn sú bótin:
eptirköst einginn fann.

1) *hrosti* eða *rosti* er heiti einhvörs áfeings drykkjar. 2) akaviti (*aqua vitæ*).

11. Þú rís upp heldr þykkr:
það er *já* kvenna-drykkr
og kerlinga *konfekt;*
það vill ei franska þjóðin,
það er *jú ekki' í móðinn,*
það er þorparaligt.
12. Ei má ég æðru svara,
illyrðin vilda' eg spara
mælandi vifum vörn.
Þú móðsins þyril-tetr!
þær skynja lángtum betr
enn Frakklands frillu-börn.
13. Heilagr hunángs drykkr!
hvörr mundi verða gikkr
af því hann elskar þig?
en komn veigar öndum,
einkum á norðrlöndum,
við skal hann vara sig.
14. O! að Islenzka þjóðin
upptæki gamla móðinn,
sem minkar minnis-skort,
huggar og frelsi færir,
forstand og mentir nærir
og lèttir lifið vort!
15. O! að Islenzka þjóðin
upptæki gamla móðinn,
sem minkar matar-skort,
þrótt og þolgæði stærir,
þartil ill-lyndi værir
og leingir lifið vort!
16. O! að Islenzka þjóðin
aflegði nýa móðinn,
sem miklar matar-skort,
þrótt og þolgæði særir,
þartil ill-lyndi hrærir,
og lestir lifið vort!
17. Kom hingað hunángs sæta!
híbýli vor að kæta
með þörfum bæar-brag;
burt, burt, óþarfinn allr!
uppfyllist sèrhvörr hjallr
með blessað búsílag!
18. Marglitar sikr-myndir,
missi' eg og þrúgu-lindir
gyltar um gylfa borð!
bresti mig bruggið skála
biskups og kardinála!
við mjöðinn enda' eg orð.
19. Hulinn af hunángs skýum,
hækkaðr krapti nýum
mærði ég stutta stund;
um hróðr ása-liði[1]
um hróðr feðra-miði
gól eg við Golnis fund.

# Sigurdrífu-mál.

Sigurðr reið uppá Hindarfjall ok um Vafrloga; hann sá þar lá maðr ok svaf með öllum hervápnum, þat var kona; þá tók hann brynju af henni, en hún vaknaði. Sigurðr settist niðr, ok spyr hana nafns, hún nefndist Sigurdrifa; þá tók hún horn, fullt mjaðar ok gaf honum minnisveig. Hún kvað:

Heill dagr,
heilir dags synir!
heil nótt ok nipt;
óreiðum augum
litið okkr þinnig
ok gefið sitjendum sigr!
Heilir karlar,
heilar konur,
heil sú in fjölnýta fold!
mál og mannavit
gefið okkr mærum tveim
ok læknis-hendr meðan lifum!

1) *lið:* áfeingr drykkr.

## Sigurdrífu-mál
### hin nýu.

1. Brúðguminn uppá Freyu-fjall
fýstist igegnum Vafrloga;
Minnis uppspretta við það vall,
af viti sprændi höldum boga:
svo tempraðist sá brunna blossi
brúðguminn eingan hreppti geig,
svefnþorni brá, en kven með kossi

kæra gaf honum minnisveig.

2. Dagurinn heill þau segja sè,
sem þessa munað-fundi gjörði!
dags synir. hingað sækjandi
sælir og heilir ætíð verði!
heil nótt í bliðum hyrjar flaugum!
heilt vort hið kæra föðurland!
vendið öll að oss vinar augum
svo verði dygð og óska-stand!

3. Heil veri þú sem heilar allt
og hvörri skepnu lífi tærir!
við hart og blautt og heitt og kaldt
himin og jörð í skorðum bærir,
getnaðar móðir guðs af lyfum[1]
gef anda friós[2] í þetta par,
og læknis-hendr meðan lifum
að láta rèna sóttirnar.

4. Þau hætta' að tala hèrum
meir,
hvörr þeirra vinur kýs hið sama;
vætta þess einnig aðrir þeir,
sem elska dygð og landsins frama;
svo tignuð læknis list er forðum,
lærdómr speki var og er,
með æru leið af æðri borðum,
almennings gagn hún verði hèr.

5. Heilög Ritning það helgar
mál,
hruma læknaði sjálfr drottin,
vèr heyrum segja Sánkti *Pál*,
sè skeinkr af guðs anda sprottinn,
og *Sýrak* með í mörgum greinum
meistara læknar eykr hrós;
þjóðirnar goðum eignuðu' einum
öndverðliga það heilsu ljós.

6. Apolló Júvis segja son,
síðan hans niður Æskulapi
með arfa sem hèt Machaon
meðala kunst að fyrstir skapi;
Pæon miðlaði mönnum bjargir
Melampus, Kiron, Ypokras,
Galenus einsog aðrir margir
erki-læknar, sem nyttu gras.

7. Um norðrlönd gekk sama
sögn,
sæmdum var hafin þvílík yðja,
menn ætluðu' að hana ættu rögn,
Eir trúðu hèti læknis-gyðja;
kappar dauðvona hvörgi hræddust
hennar kyn, ef hún meinin bjó,
af konum sárum einatt græddust
undir hennar *præsidió*.

8. Sleppum heiðingja tálli trú;
til hafa dæmi kristnar þjóðir;
konúnglig opt var yðja sú:
*Olafr* helgi' og *Magnús* góði,
læknuðu stjórar hers og hersar
heima' og á eptir sverða dans;
*Magnús* gaf mönnum tveimr
þessar
mentir, og niðjum Isalands.

9. Nú er sú ræða komin í kríng,
kóngurin bezti, sem vèr höfum,
veitt hefir græðslu velgjörning
vorum löndum í sóttar köfum;
að slíku þurfa' ei fól að flymta,
færst kunna þau með viti sjá,
þegar menn nefna *Friðrek Fimta*,
fólkið hans gæzku minnist á.

10. Kæri bróðir! eg kem hèr
inn,
kveðandi' á þínum heiðrsdegi;
þó er ei nema þánki minn,
þvíað líkaminn kemst það eigi;
stutt kveðja flyzt í ljóða-linum;
lifðu með vinum sæll og hress!
verðugr ertu þess af þínum,
það sè mitt fyrsta brúðkaupsvers!

11. Þú bauðst mèr í þitt hafið
hóf,
hefða' eg þess notið árið fyrra,
fann eg að ástin ei var sljóf,
en Venerem eg hugði kyrra;
hjartafeginn nú hyrfi' eg þángað,
hvorki vantar mig lyst nè þor,
mig hafa ríkar fylgjur fángað,
farið get eg ei nokkurt spor.

12. Þarum ei meir í þetta sinn,
þörf er eg heldr annað lesi:
heil bæði göfug brúðhjónin,
*Bjarni'* og *Rannveig* í Læknisnesi!
heill teingðafaðir! teingðamóðir!
teingðir og skyldir heilir sè!
svo margir stórir menn og góðir
með því ágæta samkvæmi.

13. Himininn, bróðir! brauð
og garð
blessi þèr fyrir úngu frúna!

---

1) *lyfum* eða *lyfjum*: meðölum, verkandi efnum. 2) frjóf-gandi anda.

það oss samt að óvöru varð,
vinur! þú skyldir giptast núna!
náttúran bendir til þess tíma,
þú teflir þetta lukkuspil,
og snortinn þægum brúðar brýma
bóndi verðir, sem stendr til.

14. Júngfrú *Rannveig* því orkaði' ein,
sem áðr kunni nein að gjöra
filósófiskan finna stein,
og fá þèr til að praktisèra;
hlauttu gull, er í húsi skini,
hljóðar svo þinnar vinu nafn,
ber hún og heiti' af bæjar vini,
blóðið hrærandi dygða safn.

15. Nær þessum kryddum konan góð
kemr í þína sinnis rètti,
sem eru trygð og ærligt blóð,
embættis rækt og lærdóms stèttir,
föðurlands ást með öðrum gæðum,
eptir sem færstr maðr lèk
í kreppta landsins kríngumstæðum
kemr upp Sýraks-apóthek.

16. En það, sem vantar við það enn,
(vèr kunnum eingir þvert að neita
brestr oss ýmist auma menn,
annars mættum vèr góðir heita)
alheims faðir þar bót á breiði,
byrgjandi klæða saurinn vàrn!
öfundar skrýmsl og ormar leiðir
aldrei þrífist við svoddan skarn!

17. Hafðu það, sem þèr hugsum vèr:
höpp og blessan með konu þinni!
þau göfugu hjón, sem gjörðu þèr
svo góðan skeink af dóttur sinni,
makligar skulu þakkir þiggja:
þeim auðnist ykkr leingi sjá
með góðum landið börnum byggja,
sem blessan drottins ríki hjá!

18. Að brúðkaups háttum helgað val
höfðíngja kveð eg manna' og vífa!
blómstrin sem vaxa' í Sauðlauksdal,
suðr í Viðey læt eg drífa;
hásumar-blóm á heiðrsdegi
hjónunum tákni sigr-prís!
þó sumum feyki' eg þángað eigi,
því brúðguminn er urta-vís.

19. Fari kælandi fjólu-lauf
og fagr-rauðr vetrar-blómi,
ærupris salti dægrin dauf,
og dygða þúsund-jurt í tómi;
orkiði' í brúðar faðm eg fleygi,
farðu' ekki mynt! úr sporunum,
en þörf er eingi þó eg segi
þèr, bróðir! ét *Nastúrtíum*.

20. Til lasta-sigrs grösin græn
gagnist hjónum við dygða smekki;
maðran í landsins vinnu væn
verki það, að þau lýist ekki!
þeirra lukka sè fjanda-fæla,
frjálsi þeim bæði líf og sál!
þeirra guðs-nað og þessi gæla
þeim verði Sigurdrífu-mál!

---

# Brúdkaups-kvædi,

***eða nokkrar vísur til að sýngja í brúðkaupum og öðrum samkvæmum á Íslandi, úttekin úr brúðkaups-siðabók eptir tilgjörðum ræðum, er þar standa.***

*I. Til aptansaungs eptir brúðguma-reið andligir sálmar, er við efnið eiga.*

*II. Kvæði fyrir velkomanda minni.*

Hrygðin á burt, en gleði' og gaman,
sem guði' og mönnum þekkast er,
komi til vor, er sitjum saman,
samhuga tali' og drekki hverr!
:|: því slikum smyrslum mega menn
mýkja veraldar andstreymin. :|:

2. Hvort sem vèr etum, eða drekkum,
eða hvað sem vèr höfumst að,

hófsemin skal með skamti þekk-
um
skilníngarvitum marka stað;
:|: óhófið beikan einatt gat
allrasætastan verkað mat. :|:
3. Sorg úr ofdrykkju gjörir gleði
gárúngaskap og þvíumlíkt;
auk þess er sóminn víst í veði;
vèr skulum ekki gjöra slíkt;
:|: þiggjum framborið vín og víst,
veri skynsamlig holdsins lyst! :|:
4. Velkomnir gestir verið inni!
velkomnir allir góðir menn,
þeir hingað komu' í þessu sinni!
þess biðr yðr húsbóndinn,
:|: að velkomanda virðið mál,
velkomnir drekkið þessa skál. :|:
5. Velkominn þú, sem kemr
híngað,
kærustu' að sækja festar-mey!
náttúran hefir þarum þíngað,
þetta hlutskipti bregðst þèr ei!
:|: hrundin þín biðr hýr á kinn,
hún óskar þú sèrt velkominn. :|:
6. Brátt líðr nótt og birtist dagr,
bið til þess rennr morgun-sól;
búskapar er þá búinn hagr,
brúðkaups til boðnum efnuð jól;
:|: gef oss, drottinn! það gángi'
í vil!
gef þar blessaðr lukku til! :|:
7. Velkomnir gestir verið inni
o. s. frv.
segir siðamaðr svarandi saungvurum,
sem hin erindin súngið hafa.
(Saung-kórar eru tveir viðhafðir,
annar af rosknum mönnum, hinn
af úngmennum, og sýngja þeir
sundum sèr og svara hvörjir öðrum,
stundum til samans; hljóðfæri
eru og viðhöfð ef til eru; á
þessu kvæði er jafnan niðrlagið
tvítekið.)

*III. Saungr við trúlofan, brúðgáng til og frá kyrkju og hjónavígslu er framinn með andligum sálmum tilheyriligum.*

*IV. Nokkrar vísur við brúðgáng í stofu, til brúðkaups máltíðar og gildis.*

1. Þegar himininn heiðr sèst,
hann ekki ský nè þykkni byrgir,
skín sól og jörðu skreytir bezt,
skepnan við hlær en ekki syrgir;
nú rennr sól um nætr-tíma,
nú er hreinviðri lukkunnar,
:|: guð lætr mönnum ljást þann
bríma,
látum oss kveikja þetta skar! :|:
2. Manndygðin, heimsins minna
sól
mannsins samvizku lýsir himin;
þarvið uppljómast þánka-ból,
þarvið afliðr hrygðar sviminn;
hún línar eymda frost og frera,
frádrífr heimsins illsku-ský,
:|: hún kann án enda gott að gera,
guðs miskunsemi veldr því. :|:
3. Hún er það bezta brúðarskart
bjartast meydómsins) ljós og prýði;
bjartasta kvenna )
hún vitran úngan eldi snart,
ei þótt hörundið við hann sviði;
þá sól og eld í þínum maka
þú faunst brúðgumi! hvörr um sig
:|: vèr undir glaðir viljum taka:
vel er það skeð hún brendi þig! :|:
4. Velkomin brúður! velkomin!
velkomnar bæði frúr og meyar!
við þetta batnar braguriun,
því bæði menn og konur segja:
velkomin híngað! sitjum saman
söfnuð við laðan húsbóndans;
:|: höfum kurteysi, gleði' og gaman,
gegnum velkomin boðum hans! :|:
(Þetta seinasta erindi er velkomandi
kvenna; má og sýngja
þenna eptirfylgjandi, með lag, sem
hinn, er fyrst var sagðr; meðan
súngið er, sezt kvennfólkið):
Velkomnar allar víðiskonur!
velkomnar í vort herbergi!
Þess óskar kvennmanns sèrhvörr
sonur
svo brúðkaups gleðin aukin sè;
:|: gleðjumst og drekkum, góðir
menn!
gleðjumst, sem býðr hófsemin! :|:

*V. Nær brúðr er mey, og hin fremsta forgángs-píka sýngr, þá má brúka þetta vers:*

1. Ljúfr og tregr

leið þessa gánga vann;
það er vor vegur,
það segir náttúran;
skaparinn hana skapti þó,
skyldum vær neita því?
ávöxtum jarðar feingið frjó
förlar og vex á ný;
ef villtumst eigi
útaf skaparans vegi,
förum vel, oss færir hans
forsjón til þessa ranns

Ungmenna kór svarar:
farið! yðr færir hans
forsjón til ektamanns.

Saungvarar með karlmanna-hljóðum sýngja lágt þessi eptirfylgjandi vers úr *þeim brciska heimspekíngi*:

2. Ofsjón og órar o. s. frv.
3. Thalía, Aglaia, o, s. frv.
4. Hans vilja hlýðum, o. s. frv.

jafnan ítreka úngmenni niðrlagið; og eptir það er súngið af siðamanni og boðsmönnum: Velkomnar allar vildiskonur, o. s. frv.; því þegar þessi saungr brúkast, þá er hinum fyrra (Þegar himininn heiðr o. s. frv.) sleppt.

*VI. Saungr fyrir heilsu-minni.*

O! hve náttúrligt er það líf,
er í kærleika menn og víf
fjöltvinni sitja saman!
ó! hvað friðarins eðla band
eflir og frævir hvörs eins stand!
því maðr manns er gaman;
hèr við samtekjur horna-flóðs
hvörr öðrum maðr óskar góðs;
vor sýngr raustin sagða bón,
sama hljóðfærin styðja tón:
heilir svo gestir hrindið sút!
heilsunnar minni drekkið út,
:|: en hana' ei út :|:

Niðrlagið ítrekast enn aptr.

Heilsa sálar við heilagt skikk,
hin við skamtaðan mat og drykk
:|: heil fær ei hnykk :|:

*VII. Saungr fyrir hjóna-skál.*

1. Hèr er að hjóna-minni
hjúskapar eptirsnið,
er geymt í sèrhvörs sinni
sè, vinir! framborið;
rækjum guðs ráðaneyti,
ráð vina bregðast þó;
hann beitir
hamlandi' í skerja-sjó.

2. Eg úngr lifði leingi,
leit eg giftingar á,
við þær hve manna meingi
misjafna lukku fá;
hatar eg brundir ekki,
hata mig ei vífin;
bið eg, svo mig ei blekki
blóðs hrekkir;
bið eg ógiftr enn.

3. Yðrar mig ekki', að hafa
efast og sèð mig um,
heldr enn í Herkju[1] klafa
hratað með flösurum.
Vel er að virðar giftist;
víst einginn dregr fisk
hins, eðr heillum sviptir;
hlutskipti
mitt er á mínum disk.

4. Illt er að efast jafnan,
illt er að flasa mjeg;
hvörr leiðir skip til hafna?
hvörr vísar rèttan veg?
sá gjört og sýnt hann hefir
sjálfr guð þrennr og einn;
hann vit og holl ráð gefr,
hvörgi sefr;
hann er sá leiðar-steinn.

5. Þann hafið þekkt og fundið
þið göfgu úngu hjón!
og samleið bæði bundið,
bregðst ykkr ekki' hans sjón!
hèr skal við hafnir lenda,
hèr skuluð gánga' á land!
sjá, guð mun lukku senda,
seint enda
sælligt hjúskapar band.

6. Ykkr að ykkar minni
annist og verndi guð!
sèu þið úti' og inni
af honum margblessuð!
eins giftum öllum mönnum
óskum vèr sama góðs,
sveinum og meyum sönnum;
svo af könnum
súpum staup veiga flóðs.

Þetta vers ítreka aptr úngmenni.

1) tröllkonu heiti.

*VIII. Annar saungr fyrir hjónaskál, styttri og lystiligri.*

1. Hèr er innborin hjónaskál;
hýrnar bragr, heilla-dagr!
heppnist þetta giftumál!
Ur *fullsælu mannsins í þessu lífi* (bls. 62):

2. Með helgum trygðum o. s. frv.
3. Gef henni hjarta, o. s. frv.
4. Siðan þú getir sofið o. s. frv.
5. Hèr er innborin hjónaskál (sjá fyrir ofan).

Siðamaðr birjar og boðsmenn taka undir:

6. Guð blessi þetta giftu-mál,
hýrnar bragr, heilla-dagr!
hjóna lukku drekkum skál!

Saungvarar itreka:
hýrnar bragr, o. s. frv.

*IX. Saungr fyrir frjó-minni.*

1. Guð mun ávöxtinn gefa
góðan í hvörri stètt,
ef þèr plantið án efa
og plantað vökvið rètt
í ótta' og elsku hans;
af smærstum fræum færist
fram hvað sem vex og bærist
skulda-lið skaparans.

2. Enn nærum girnda-grímu
gáleysið, úti lopt
fleygt er af feykir Ymu
frjóvi (hvað skeðr opt);
og hitt er órækt tún,
sem þorna og þistla bera;
þeir hönd, nær upp vill skera,
særa, við svellr hún.

3. Til er ei tóm að skrafa,
tèr skepnan nætr-vakt;
brúðhjónin annars hafa
hjúskaps grundvöllinn lagt
styrkvan, sem stendr æ;
í nótt og aðrar nætr
ávöxt skaparinn lætr
beztan þeim færa fræ.

4. Samt hvörjum góðum hjónum
hann gefi barna-lán,
er þau fyrir allra sjónum
uppfóstra vammar án,
landi til liðs og vegs
æxlist og farsæld finni!
frævanar drekkum minni
til yndis eiginligs.

*X. Saungr við brúðgáng úr stofu til sængr.*

Saungvara hópr byrjar:

Tvenn er tiðin daga' og nátta,
tekst vèr tónum saungva þátta;
sèst að sifjar menn,
svo kvað brúðguminn;
hann bað: bezt er að fara' að hátta.

Eptir þetta fer kvennfólkið að hreifa sèr; en við það kveða saungvarar:

Eitt vers enn skal raustin þylja,
en þess efni færstir skilja;
því grun gefa frúr,
gulls hrun bekkjum úr!
hvört mun meya skarinn vilja?

Þeir itreka: því grun o. s. frv.
Eins má itreka niðrlag ens fyrra erindis: sèst að sifjar menn, o. s. frv. Nær konurnar gánga út, sýngur siðamaðr, en gestir taka undir með honum:

Far vel fjöldi kvenna bliðr!
far vel! far, því timinn liðr!
svo vinnst vigi, nær
vinna minst hyggjum vær;
lángt finnst þeim sem búinn bíðr.

Ungmenna kór itrekar segjandi:
Svo vinnst vígi, nær
vörn hinst sleppa þær; o. s. frv.

Ef það brúkast, að brúðar forgángspíka sýngi, eða súngið sè í hennar nafni, þá má brúka þetta vers:

Vær gefum góða nótt,
gaungum svo lagðan veg;
vifum og virða drótt
verð gefist æskilig!
en vær sem lömb burtleiðumst;
leiðin er bæði greið og treg.

Karlmenn svara í sama tón:

Góð yðr gefist nótt!
gángið svo lagðan veg!
virdum með vifum fljótt
verð gefist æskilig;
yðr í lukku leiddum
leiðin sè greið og farsællig!

Ungmenni iteka:
yðr í lukku leiddum o. s. frv.

*XI. Saungr við inngaungu brúðguma til brúðar í sængrhús.*

1. Látum nóttina nálgast og

nátt-myrkrið safnast að
náttúru vild:
brúðguma tendruð lýsi log,
lyst hans í þessum stað
sè gæfu fylld;
hófsemi bezt
holds funa kynda má;
hèr hugleiðist
hvörnig fèll *Attilá.*[1]

2. Hèr opnast nýar heimsins dyr;
hugsið þèr úngu menn
hvört leikr sè,
einsog í yðar æsku fyrr!
ónei! því skynsemin
sjálf annað sèr!
þó brúkist sizt
brúðnætr *Tobiæ,*
viti þèr víst,
vellystin skömtuð sè!

3. Náttúran þeim með sjálfri sèr
borgar, sem brúka' hana rètt,
í sveita-sýn;
hinum straff sjálfgjört eins hún er,
er henni gjöra prett;
svo hefnir hún sín.
Þèr skuluð því
þá dóttur elska guðs,
aðgætnir í
aktan hennar fögnuðs!

4. Far nú brúðgumi farar-heill
fram þann þèr vísar vís
veg náttúran!
hún er guðs ferill! ver ei veill!
verðr hún, ef þú kýs,
þinn fylgðarmann,
lín-kona' á bæ,
ljósmóðir, fóstra vönd;
í nótt og æ
yðr hún sè við hönd!

Ungmenni ítreka:

I nótt og æ, o. s. frv.
(Fylgjandi 3 minni eru ætluð til miðdegis máltiðar næstfylgjanda dag.)

*XII. Saungr fyrir kóngs-minni.*

Biðjið, blessaðan kóngs að minni
blæs og anda gram,
stiðji stillir úti' og inni
styrkleiks klæddan ham!
frið með fyrir utan skamm
býti beztum herra
og blessi' í aldir fram!

Síðan sýngjast hið 5, 6, 25, 26 og 38 erindi úr kvæðinu *Friðreksvarði* (bls. 68), loks ítrekist næstundangángandi erindi, hvörs niðrlag (býti beztum herra, o. s. frv.) tvítakist.

*XIII. Kvæði að sýngja fyrir Islands eðr föðurlands-minni.*

1. Spyr eg yðr al a
Islands bygðar-menn!
hvað skal krapt þann kalla,
sem kemr við iðurin,
þegar velferð þess nefnist,
að þar vera viljum þó
vanti gæðin flest?

2. Guðs er vís án vafa
verkun þetta skikk;
betra' er heima' að hafa
helmings mat og drykk,
enn sælgætið utanlands;
aðrar þjóðir sama sið
sanna kærleikans.

3. Er það, Islendingar!
ekki guðs forsjón?
viltir þá víkingar
vísuðu' á þetta frón,
er hann hafði' í hafi sett
handa sekum heiðnum oss,
hælislausum rètt.

4. Að vèr skoða skyldum
skaparans verkin góð,
valin ef vèr vildum
vera' hans erfða-þjóð;
sína kenning sýndi' hann oss
og í fátækt ís og hreggs
allra nægta foss.

5. Það má furda þykja
það vær lifum hèr
einsog annara ríkja
innbyggèndurnir,
hvar er fíkjur vaxa' og vín,
fullt með silfr, silki, gull,
sikr, korn og lín.

6. Þeim ei þetta nægir,
þykir eingis-vert;
bráðasótt þeim bægir,
blóðugt stríðið hvert,

---

1) hann dó fyrstu nótt í brúðarsæng, árið 454.

voðinn elds og vatnaflóð,
engisprettur og annað böl
amar margri þjóð.

7. Vèr erum vel ánægðir,
vantar eingan frið,
höfum allskyns hægðir,
höfumst lika við
einsog þeir, með hold og hams;
greindum plágum frelstir frá,
fjörs ei njótum skamms.

8. Ekki' er þörf eg ýki,
eins guðs njótum vær,
hèrmeð himinriki
hèr erum allteins nær,
eydt vèr getum ei við þá;
mun þá verra vort tilstand?
víst er lángt því frá.

9. Island ögrum skorið,
eg vil nefna þig!
sem á brjóstum borið
og blessað hefir mig
fyrir skikkun skaparans,
vertu blessað, blessi þig
blessað nafnið hans.

10. Gleymt eg get þèr aldrei
göfugt föðurland!
þótt i þykkju kaldri
þetta trygða-band
fyrnast taki fyrir mèr,
vanmátturinn veldr því,
eg vil samt fylgja þèr.

11. Uppá það að enda
eg drekk þína skál!
guð oss láti lenda,
lifs nær endast mál,
himnum á fyrir herrans vörð!
unnum, þjónum þángaðtil
þessari fóstrjörð.

12. Island ögrum skorið, o. s. frv.

(niðrlagið er tví- eðr þrí-tekið: Vertu blessað, blessi þig o. s. frv.)

*XIV. Saungr fyrir bóndaminni.*

1. Að bónda-minni biðjum vèr:
bóndi nýr og bændr dýrir
búi vel á landi hèr!

2. Búskapar reglur ræki vel,
hvörjar góðum heppnast þjóðum;
heiðins manns eg nokkrar tel.

Hèreptir má syngja: Þú vildir Damon o. s. frv. (bls. 62); má þá, ef vill, undanfella það áðr er súngið: Með helgum trygðum, o. s. frv.; siðan byrjast:

3. Að bónda-minni biðjum vèr:
bændum öllum, brúðum snjöllum
búnist vel á landi hèr!

4. Að bónda-minni biðjum vèr:
blessan hljóti, brúðar njóti
bóndi hvörr á landi hèr.

5. Að bónda-minni biðjum vèr:
brúðguminn með brúðurinni
blessist vel á landi hèr!

6. Bónda' og húsfreyu gefi guð
i guði búa', á guð að trúa,
i guði verði full-blessuð!

(Þetta erindi má tvitakast.)

*XV. Saungr fyrir alþýðu-minni.*

1. Það er þó ei, sem meina menn,
að minst sè verðr almúginn;
því ef hann einginn væri,
mundu þeir, sem nú frægir fè
firðar kallast almúgi
og ei vera' öðrum hærri.

2. Elligar þó að það sè sagt,
það færi betr að jafna makt
allir ættu i landi;
þá væri öllum allt-eins hætt,
úr þá gæti' ei nokkurr bætt
annars eymda-standi.

3. Þá mundi fjölga rupl og rán,
rèttarleysi og stráka-lán,
en eingar duga dygðir;
þá væri einginn almúginn,
eingir heldr tignarmenn
og eingar bæa-bygðir.

4. Hitt fer þó betr heims i stöð,
að hvörr sè maðr i sinni röð,
eins þeir æðri og lægri;
efli siðan hvörr annars gagn,
af því framkemr bæar-magn
og handtök miklu hægri.

5. Því skulum hvörr öðrum óska hèr,
yfirsettir og búarnir,
allir með sama sinni:
það guð vor allra blessi bú,
bæði siðar og lika nú
að alþýðu-minni.

6. Fyrst veraldar illskan vóx i ár,
vizka drottins það hepti fár,
gjörandi muninn manna;
vitum því allir, að valdstjórnin

viðheldst, einsog almúginn,
hvort af völdum annars.
7. Því skulum allir óska hèr,
o. s. frv.

*XVI. Saungr fyrir velfarar-minni.*

1. Nú er tið, vèr skulum skilja,
skemtunin var laung og góð;
geingið hefir víst að vilja
veizla þessi meðan stóð;
eptir kemr umbreyting,
endað segjum gildis-þing;
hafið vinir! heilir setið,
heilir staðið, drukkið, etið!
2. Mannsins líf í öllum efnum
umbreytingum fullt er af;
æðri fyrir og undirgeinum,
er veraldar sigla' um haf;
umbreyting á illu' er bezt,
af misjöfnu þrifin mest;
í umbreytingum guð oss gefr
gleði-líf, sem þörfin krefr.
3. Enn vèr reynum umbreyt-ingar;
ekki' er hollt að sigleðjast;
þó vèr farið höfum hingað
hreifir fyrir utan last;
sýngjum, drekkum eingir æ
umhugsandi hvörr sinn bæ;
mál er komið heim að halda
og hófs veitendum þakkir gjalda.
4. Húsbóndinn og hjónin úngu
hingað boðnum þakkir tjá,
er með hegðan, huga' og túngu
heiðr sýndu' og lætin dá-;
óskum farar-heillin heim
heilsa' og nægtir fylgi þeim!
við það drekkum velfaranda,
veizlu-þrotin látum standa.
5. Brúðkaup vera birtum úti,
brúðhjónanna' er endað nafn;
úngum hjónum landið lúti,
ljái þeim drottin gæfu-safn!
fari þau, sem liggr leið,
lífsins viti markað skeið
forsjá guðs og fullan vilja
foreldrana við að skilja.
6. Eins er tíð, vèr skulum skilja, o. s. frv.
segir allr hóprinn; er saungvar-ar segja:
7. Húsbóndinn og hjónin úngu,
o. s. frv.

*XVII. Til saungs áðr heiman er riðið sýngist andligir sálmar.*

# Smá-kvædi.

## I.

## Brúðkaupsvísur,

kveðnar í Kaupmannahöfn, 1750.

At danskrar íslenzkr
átti brúðlaup í saupi
ár þá, sem bragnar bera,
brast þrjú hundraðasta
ept' þat kóngdóm með krapti
*Kristjern* tók enn *Fyrsti*,
af var fljóð yrkju sæðis
ok Snjálands verki talin.
2. Nú hefir æðstr jöfra
ekris náð *Friðrekr*
reyfit alna yfir
álagt hundraða mundu
á fimta tyg er ægir
Iðun Vetrliða;
ei manu síðan úsánir
sól-feðrs liggja beðir.
3. En jörð yrkta forðum
ætlik í kófi frjóvar,
utan eðlis væta
uppþorni sjá forna;
aldr ei sæði síðan
sjást man þerrir-blástr
arðr þó hrokkinnar herði
ham taugar í baugum.
4. Föl 'ro minni ummæli
móður ok Þórs gróðr
margfaldr vaxi' af völdum
Vetrliða í fleti,
sem yðja grænn geymr

gról hans sáð ok þróist,
meðr fjám kvanir fæði
Fjölsviðs ok Vetrliða.

## II.
## Vínsteins-mál.

Um vorið 1762 fór Sira *B.* með nokkrum mönnum að sækja járndrumb til Keflavíkr, er þar hafði legið lánga æfi, og einginn viðhrært fyrir þýngðar sakir. *E. O.* (skáldið) og *E.*, bróðir Sira *B.*, geingu á götu með honum; viku þeir að steini miklum, er stendr fram í dalnum. Barst það þá í tal, að nú væri burðardagr kon-úngsins; kom það mönnum að óvöru, og óskuðu þeir hefðu nú vín til að drekka minnið; þá þreifar einn þeirra til, og fór að draga nokkuð, svo sem kæmi það útúr steininum, var þar þá flaska, full af víni; nú drekka þeir allir konúngsins skál og yrkja nokkuð yfir; síðan hlóðu þeir vörðu uppá steininum, og kváðu hann heita skyldi Vínstein þaðanaf.

1. Arla dags erlan[1]
í vildu knýar[2],
fann-drifu funnu
fauk á sauð-lauki[3];
undan varð vindi
vegr ótregr,
eru að ísarni
ald[4] fýstist halda.

2. Gekk á leið lykkja
lètt að mel-kletti,
skal-at í skjóli
skafrenning hafa;
þuldu þrír aldr
þaðra mánaðar
Týss[5] og vel vissu
vendi mót enda.

3. Fljótt gaf að frètta
*Friðreks* Hárs þiðrum
þorps[6] að þögn yrpist
þagall burðardagr;
hall þrós veig vella
vættu frá knætti[7],
menn heilsu minni
mildingi gyldu.

4. Von af Vínsteini
vín seldi Rínar
burðardag dýrdar
döglings þrásöglum;
sæta' af þeim þvita
þrifa kná drifu;
lið smyrsli smíðað
smekkr vildi drekka.

5. Gjörðist á gómborði
glaumfullr draumr,
hávan hodd-tívar
hressir gr.m blessa;
samt *Eriðrek Fimta*
fagnað heims sagna
guð geyma báðu
góðan sínum þjóðum.

6. Ber Ymis báru
bein að Vínsteini;
varði vegferðar
var gjör á bjargi;
leiðbeina buðu
braut sýna lautar,
veg villtum segja
völlurum öllum

7. Jartegn berg birti
bræðrum, sem fæðast,
merki-dags dýrkan
döglings hróðr sögli;
brot varða bæti,
bragnings degi fagni
þjóð, er þá ræðr
þèr Isa-veri!

8. Viðr skraut skeiðar
skraf-stól og tafar
stutta stund mátti
(steig-a sol) eiga;
*Björn* kvað för fornu
farnast vel járni,
Dana-dagr láni
dýr mundi stýra.

9. Ut gánga' á götu
girntist með *Birni*
urð eyki-garðr

1) erill, erfiði. 2) menn. 3) á grasi því, er sauðrinn vill eta. 4) öld. 5) Marts-mánaðar. 6) *þorp:* þrír saman. 7) þeir óskuðu, að frá steininum mætti vella vín, svoað o. s. frv.

inn dal að Sindra;
fór barnir í byri
bessa för þessa;
skáld vísa vildu
val hefja tali.
10. Öðling um stuðlist
æfi-laung gæfa,
buðlúngs af öðlist
æfi land gæfu!
vín-strauin af steinum
standa' á Islandi
þorp bað góð-görpum
gefa fró sefa.

## III.

## Burðardags-vísur

til *Kristjáns* hins *Sjöunda* Danakonúngs, gjörðar í Kaupmannahöfn, á hans fyrsta ríkisstjórnar ári 1766 og sendar til gildis Islendinga.

1. Rennr í sorta sunna
sorgligs Dana borgum
aldr-tjóns og sker skáldi
skjótorð jöfrs storðar,
*Friðreks* farar til dauðra
foldar á nýa voldu
þraung áðr kæmi þángað
þjóð-nárúngr ári.
2. Mönnum er röðull runninn
randskærr Norðrlanda;
*Kristjárn* hellir af ærnu
itr gramr hrygðar viti;
fund vær enn fjögr-tánda
*Friðreks* heljar-dag teljum,
eptir fjórtán er aptr
or konúngr borinn.
3. Bið eg vald himins heiðar
hæð þann, er öllu ræðr,
skilvíngs fèndr að skelfist
skorði guðdóms orðum;
kætist æ Krists í bata
konr úngr harmi þrúnginn
gamlaðr unz á Gimli
guð-sjótar má njóta!

## IV.

## Hróðr bókarinnar
## *L'homme de cour,*

sem er útlögð úr spanskri á franska túngu og inniheldr nýar reglur, að lifa sem heimspekingr, og undireins klókliga og ærliga.

Minn bæklíngr
blindr ritinn' er;
blinda blindu sviptir;
þú sjáendum
sjónir lèr
skygna skygnu græðir!
Er-a þin efni
þjóðbraut á
litt und leyníngi,
heldr æðstum
alda föður
innst í brjósti borin;
lýð narúnga
lif ok óðr,
vist spekinga,
villtra leiðarsteinn,
myrkva log
ok maurildi;
minn bjargvættur
mann-raunum í!
en þú ert hulius-
hjálmi faldin
ok óskilin
all-flestum!
þinnar fegurðar
fár vitrínga
hlýtr nyt of heima;
því hafa flestir
þína dygð,
sem fólsku fráborit;
en þú getum
hefir öll um sveipt
orð ok atkvæði.
Rauðu gulli skyldi
glóa hvörjan
Draupnis höfuðr
hús-lás-stafa;
þín skyldi húð
ok hrygg-leðr
Fáfnis dún-beði
dregin vera,
en gimsteinum
greyptar allar
sjá lýsi síður.
Mig ger hólpinn,
mig læri þú
lifa launsliga!
Ver gugni, sem þinn

vít-mála
óleyfir ok lá;
hinn man þrifast,
ef þig aldrei
skýtr í skakkyrðum!
Vildak regin-
visindi skírð
túngu þín öllum
orri væri!
Nú hefir ek
hróðr-kviðu
skamma hríð of skráða.
Fyrr man Ymis
falla hjarna-
stoð, enn lof þitt liggi.

## V.

## Nýárs-vísur til *B. P.*

A nýársdag 1758 gekk *E.* til herbergis *B.*, en hann var útgenginn. *E.* knýði hurðina, en hún gekk upp, því kviklæst var; hann fann krit og ritaði eptirfylgjandi visur á borðið, gekk síðan út og lokaði dyrunum.

1. Þú hefir illa þinum lokað dyrum;
ætlar þú, að þjófa-lið
þennan daginn hlifist við?
2. Opnist þèr á þessum nýársdegi
eingu siðr einsog fyrr
ætið drottins náðar-dyr!
3. Blessan hans og bliðu goðra manna
nýa hljót og nýan hag
nýárs þennan átta-dag!

## VI.

## Vísa til *G. P.*,

skrifuð neðaná brèf, er *B. P.* ritaði Sira *G.* frænda sínum frá Kaupmannah. um vorið 1758.

Ritar á hymnu hvíta
hönd mín vini sinum;
lifir ek guðs at lofi,
lán mitt þakkar ek hánum.
Erlendis nem ek yndi
unna man ek þèr *Gunnar!*
vant ills veri þèr; unntu
vinur! *Olafs* syni.

## VII.

## Vísur um samkomu 4 bræðra í Kaupmannahöfn 1758.

1. Heppinn hvörr mig kalla kann
kominn í dag að sjónum,
ýngra bróður er eg fann
af þeim tveimr *Jónum.*
2. *Magnús* hitti sunda svín,
siðan aptr vendi;
fann eg brátt hann fór til min
færandi með hendi.
3. Dæmið þóað sjaldfeingt sè,
sizt þarf löndum ögra;
guð vill þessi skuli ske
skemtun okkar fjögra.
4. Mun og hins, sem máls er vert,
minning uppi standa;
fjár af skorti gat hann gert
gnægtir oss til handa.

## VIII.

## Svar uppá ljóðabrèf *S. M.*,

samstundis meðtekið þ. 12 Dec. 1750.

1. Margar raunir illr á;
er eg ei verri' enn skrattinn;
þóttú brigð mig berir á,
bretti' eg smáðr hattinn.
2. Þóttú nefnir dyrfð og dygð,
dreing ei skaltu mana;
ekki vil eg elska lygð,
illr rækir hana.
3. Þóttú vinum værir mót
valtr mörgu sinni,
vil eg ei fyrir hefndar-hót
hamingju spilla minni.

## IX.

## Vísa um Stundar-kot.

Öndverðan vetrinn 1759 dreymdi *E.*, að hann þóttist staddr útá Islandi, á Eyrarbakka, og vera þar veðrfastr; hann þóttist útgánga og mæta *B.* og spyrja hann veðrs; *B.* mælti: nú blæs á hana *Helgu* í Stundarkoti. *E.* vissi ei, hvör sú kona eðr bær vera mundi; en er hann gætti veðrsins, þá sá hann, að útsynníngs stormr stóð af hafi á land upp; hann þóttist þá kveða vísu þessa í svefninum:

Vindr stenðr stúlknna' á í Stundarkoti;
lifi hún vel á hrafna hrati,
hvört óæti verði' að mati!

## X.

## Um landskjálftann í Kaupmannahöfn 1759.

Landið skelfr, hrærist Höfn,
húsin bending sýna;
ei mun hefndin öllum jöfn,
annist drottin sína!

## XI.

## Um komuna til Hafnar 1757.

1. Ennú fèkk eg óskahlut
undir herrans nafni;
Eyrarsund fyrir aptan skut
er, og Höfn fyrir stafni.

2. Þriðja sinn eg þángað kem
þreyttr af ferða-bramli;
en hvört þar eg yndi nem,
annist drottin gamli!

3. Frændur og vini varð eg svo
við að skiljast hissa,
hèr að fyndi hlýra tvo,
hvörja' eg ætla' að kyssa.

4. Vænt er að hafa vina fund
og výli búrt að rýma;
gaf oss marga gleði-stund
guð til þessa tíma.

5. Honum þvílíkt þakka ber,
þartil lifið vanda,
tempra kæti' og sjá að sèr,
svo hun kunni' að standa.

6. Byrinn hægr bliðkar dröfn,
bregðr lauka hjúpi,
sólin skín á hús í Höfn
hjá Refs-hala djúpi[1].

7. Borgar turnar brjóta ský
bræðra vistar-túna;
ekki vita þeir af því,
það eg komi núna.

8. Fer eg af skipi sviptr seym,
saurgr, klæða-skerðr;
nú er eg kominn híngað heim,
hvað sem af mèr verðr.

## XII.

## Um siglíng frá Kaupmannahöfn til Islands, 1760.

1. Þriðja sinni fór eg frá
fögru veldi Dana;
föðurland mig fýsti' að sjá
fornum eptir vana.

2. Eru bræðr eptir þrír,
er mig hljóðir kveðja;
þur-kinnaðr hinn fjórði flýr,
fram á bryggjur steðjar.

3. Nærri landi furan flýtr,
fer upp dubl með streingjum;
breiðist voð, og byrjar nýtr
blærinn fagnar dreingjum.

4. Utum farnir Eyrarsund
Jótlands hittum skaga,
Noregs eygðum grýtta grund,
greiðara tókst að slaga.

5. Fugley varð á hægri hönd,
Hjaltland þokan væddi,
Orkna litum lága strönd,
laungum stafninn fræddi.

6. Höfðum fugl um Færa ver,
fnasa bárur kunnu,
sigldum undir Ira-sker[2]

1) flóinn fyrir utan Kaupmannahöfn. 2) Vestmanna-eyar.

eptir Hvítasunnu.
7. Örvaðist geð á allan hátt,
er eg numdi sjónum
föðurlandið heldr hátt
hafið uppúr sjónum.
8. Ferða-volk og heilsan höll
heim mèr tók að benda;
mín var hjartans óskin öll
af því strax að lenda.
9. Þiðr húfs mig þveran bar
þegn í búki siðum;
aðrir lofðar láu þar
lángs með báðum siðum.
10. Eptir þessu fleira fer,
flaug þá mèr í sinni:
markaðs hugur í þeim er,
yðju bágr minni.
11. Geirfuglaskers leingdi leið
logn í fjóra daga
á landsins hèruð horfði breið,
heiðar, firði' og skaga.
12. Síðan breiðan fór um fjörð
fyrir Látra tánga,
vann eg minna vina jörð
við af skipi gánga.
13. Ovart kom eg híngað heim,
heila frændur kvaddi;
lof sè drottni ljóðað þeim,
sem laungun mína saddi.
14. Þela-jarðar ásýnd í
að eg heilast næði;
frændur vorir fagna því
og færa landsins gæði.
15. Kossa lata' og klapp í tè,
kæta' af bylgju vominn,
þakka guði það eg sè
þó með heilu kominn.
16. Við það undrast manngi má,
mun þó fús að trúa,
landa túnum oska' eg á
æviliga' að búa.

## XIII.
## Um siglíng frá Islandi til Kaupmannahafnar, 1764.

1. Unnar göltur undir lá
átján fulla daga
sjóar bylgjum Fróni frá
fram um Vendilskaga.
2. Svaf eg vært þá bylgjan blá
braut yfir höfði mínu;
þunn og litil þilja má
þeirri varna pínu.
3. Svaf eg opt þá báran brött
báðar siður lamdi
og styrðr garðr strauma kött
streingdi, beygði, kramdi.
4. Svaf eg opt við sjóar kvak,
saung í hvörju bandi;
kunni' eg helzt við bresti' og brak
blunda fjærri landi.
5. Þó að háski sýndi sig,
sjós í miðju kafi,
veraldar hyggja mæddi mig
minst í regin-hafi.
6. Þó að kvöldi sorgin súr
sjómanns hjarta kendi,
sofið gat eg góðan dúr
guðs í náðar-hendi.
7. En það var í sjöunda sinn,
sigldi' eg milli landa;
á mig striddu storm-viðrin
stærri' enn eptir vanda.
8. Skipið opt á reiða rak,
rèði ei byrjar njóta,
varð á hlið um þorska þak
þröstur háfs at fljóta.
9. Pater noster skaða sker[1]
skipi' ei urðu' að grandi
atkerin drógust út um vèr
undir Svia-landi.
10. Lif-atkeri varpað var,
vill þat litið stoða;
steinn á grunni streinginn skar,
stóð þá fólk í voða.
11. Rak úr hættu rånga hund,
rann að viðum mari;
innum komumst Eyrarsund
á því lukkufari.
12. Michaelis messu grið
máttu' ei siglıng hafna;
skipið lagði' í lagi við
lending Kaupmannahafnar.
13. Merkidags skal marka raun,
mætti svo tilbera,

1) Svo kallast Skip-skaða sker fyrir Vestr-gautlandi, hvar margir sjómenn hafa lesið *Faðir vor*. 2) sem ásetti sèr leingra úti lönd að fara.

mín að tiggi lèti laun
lokin ekki vera.
14. Öfund knýr og eltir mig
til ókunnugra þjóða;
fæ eg ekki' að faðma þig
fóstrlandið góða!

## XIV.
## Um siglínguna til Islands 1766.

1. Heldr laung var Hafnar dvöl
hitinn ekki minni,
glaðr lèt eg fljóta fjöl
fram í átta sinni.
2. Linast sjónin lestrum af,
lífið deyfist síðan;
af því skal eg um Islands haf
ægis hesti ríða.
3. Nú er eg orðinn fyrsta frí,
fertugr að aldri;
helming fullan æfin í
efa syndti galdri.
4. Mín var ætlun mikið laung
meir enn fjórtán vetra,
eingin græddi' eg afla-faung
af því starfi letra.
5. Akurinn hef eg yrkt og sáð,
aðrir gróðan taka;
hyggjan orðin því er þjáð,
þúngum vagni' að aka.
6. Veröld slíka drýgir dáð
og dygðaleysið staka;
ef þekkti' eg ekki þessi ráð,
þreyting hefði' eg laka.
7. Heims vill lukka byrla bráð
bruggið sinna maka,
fyrir herrans hjálp og ráð
hún mun aldrei saka.
8. Þó mitt hjarta þryti' á ný,
og þorna loksins tæki,
hvörr veit nema' eg Island í
annað hjarta sæki.
9. Jeg hefi feingið jómfrúr byr
jafnan, hægan, blíðan;
eingan svo eg átti fyrr
æskiliga þýðan.
10. Náttúran er söm að sjá,
sækist skipa vegr;
leiðarsteinninn fjöllum frá
flaust að landi dregr.
11. Allar skepnur yndishót
inna' að mínu geði;
höfrúngarnir hlaupa' á mót,
hefja dans og gleði.
12. Landsins fugl um fiska tún
finnr hrelling aunga,
heldr mót oss hafs á brún
hefja kvak og saunga.
13. Skipurum nóttin birtu bjó,
brá ei vanda sínum;
Hekla lýsti lángt um sjó
lauka-fáki mínum.
14. Hátt í loptið hvörgi kyr
hygg eg ljósin brynni;
svoddan kveðju' eg fèkk ei fyrr
á fóstr-jörðu minni.

## XV.
## Svar uppá brèf Próf. *J. E.* í Sór

um hans preutuðu ræðu á burðardag *Friðreks* konúngs *Fimta* 1760.

1. Jeg skal rita játníng mína:
jeg hefi lesið tölu þína
fyrir Dana fínan smekk;
þú hefir sèð á siða róti,
sè hún ei með þessu móti,
varla nokkrum verði þekk.
2. Þú hefir feingið yrkisefni
ágætligt og það eg nefni:
*Friðreks* dygða-líf og ljós;
við þá sýn eg varð að hnerra,
vert er að lofa slíkan herra,
þarfan deili daga sjós.
3. Er það lán fyrir Islendingum,
er þeir mega tala' á þíngum
helzt um miskun hans við sig;
nefnir þú, að nauð hann bætti,
náttúran þá landið grætti;
en það nokkuð undrar mig,
4. Að þú getr ekki fleira,
er mèr sýnist lángt-um meira,
sem hann fèkk oss veslum veitt:
innrèttingum gaf hann gíngi,
gjaldið bæði vel og leingi,
þóað hafi þróast neitt.
5. Þótt í sessi liggi lama,
líkn er hans og náðin sama,
þótt 'ær fèndr nýði nú;

eingir vitrir vilja neita,
víst þær megi þarfar heita.
Aðfyndnin er önnur sú:
6. Að þú getr ekki fleira,
er mèr þækti vert að heyra;
meiningana muntu sjá:
þreif hann oss úr þ.... höndum,
það er kunnugt öllum löndum,
hvað sem kemr eptirá.
7. Nú hefi' eg sagt þèr meiníng mína,
mæri' eg smáðr tölu þína,
þó mèr sýnist þetta vant:
nær þèr vaxa vængja fjaðrir,
eg veit þú flýgr hátt, sem aðrir
og röksemd þína reyna kannt.

## XVI.

## Island með ermahnöppum,

eðr svar uppá aðfyndni nokkurra að málverkinu framan við *Friðriks - drápu*, tilskrifað Landlæknir *Bjarna Pálssyni.*

1. Islenzkan með ermahnappa,
af því sumir lófum klappa,
segistu hafa frændi! frètt,
hofmenn þykjast hvörgi skilja
hvað þau glingrin segja vilja;
hnútinn þann eg leysi lètt.
2. Hattrinn frúar feyknarligi,
furðar mig þeir nefna' hann eigi,
fyrir laungu lagðan af;
fyrst erma-silfrið allir þekkja,
ei vill hún því stázi hnekkja,
sem landið henni leyfði' og gaf.
3. Er hèr fleira falið undir,
fræða skal eg menn og hrundir,
lánuðum hatti hreykjum nú;
það er merki fyrri frægðar,
fornra dygða' og aura nægðar;
þèr mun líka þýðing sú.
4. Erma glingrið annað þýðir,
úlfliðina blóðin prýðir,
málmr hnappa' og látúns lauf;
hèrmeð skal hún heilsa granni,
hèr er allr landsins franni;
hyggjan sjálf er dumb og dauf.
5. Islenzkunnar ermahnappar
eru hennar litlu kappar,
dinglandi' hennar höndum á;
í lopti glampa laufin hánga,
ljúflingarnir allteins prúnga
og lukku-hjólið láta gá.
6. Þeirra vit og líkams læti
leikr samt á völtum fæti,
stopult mjög í storminum;
Islenzkan má þegja' og þakka,
það er nóg hún fær að smakka
stækan reyk af rèttunum.
7. Aura litla forðild færir
fylkis til og arma hrærir,
biðr hann að virða vel,
reiðst mèr ekki' eg fell til fóta,
föður þíns mig láttu njóta;
ekki' er gylfi gull í skel.

## XVII.

## Játníng eins *Melancholici*,

eðr heldr þess, er hefir óstöðuga lukku með óstöðugu sinnislagi.

Lukkan leikr sèr,
kjör vann kær að færa mèr;
sorgin bregðr blund,
ástin aðra stund;
snart hlýt eg hlæa,
hart sýta' og æa
snart sunna rennr sælulig,
svo lifna èg.

## XVIII.

## Lof-vísa um hornið.

I horni' er bezt að búa,
birtunni' undan snúa;
það má hlíðum hlúa
og hlaunum bæta lúa;
þaðan gestir grúa
geta litið frúa;
í horn er fínt að flúa,
og fám í ljósi trúa.

## XIX.

## Lukku-óskir

um þau tvö haffæru skip, er *Friðrekr* konúngr *Fimti* gaf Islandi, gjörðar vorið 1752 í

Kaupmannahöfn í því mastrtrèn vóru uppreist.

1. Mælti' eg þetta þokka lèn,
þegar ullar hringa
uppá settu siglu-trèn
súðir Islendinga.

2. Sá sem styðr efnið allt
ykkr rèttum haldi,
hlífi viðr Sindra salt
siglu-trjám og faldi!

3. Meðan hjarið safnið seim,
siglið út jafnóðum,
ætið farið heilar heim,
hrósið feingi góðum!

4. Þartil fúinn ykkar á
allan við að kili,
aldrei lúinn rakki, rá,
raung eða sigla bili!

5. Óskin þessi færist frá
framar öllum vonum;
sèr hún langan aldr á,
ef hún veitist honum.

## XX.
## Nýárs-vísa 1760.

1. Núna gaf mèr nýa stund
náðin guðs að líta;
hvar skal eg í annað mund
æfi-dögunum slíta?

2. Hafnar láta laung er hríð,
leiðin sýngr undir;
hefi' eg á þessa þriðju tíð
þreyð í Snóka-sundi.

## XXI.
## Vísa um sumar-komu,

gjörð 1742, á gluggann í Skálholts skóla (þá var skáldið 15 vetra).

Ný-tíðir nú fæðast,
nauð enda trauð kendi;
þar vetr er úti
að segja, hvað þreyum;
æ sumars sjá komu
snær rír, en blær hýrist;
saung gleði sýng friðan
senn lýðr, menn bíði!

## XXII.
## Um Góe 1754.

Hrönnum Góa grönnum snjóa færir;
fönnum móa mokar á,
mönnum flóa vill hún þá.

## XXIII.
## Vísa um Island.

Undarligt er Island
örvasa, lasið;
endann innan stundar
ekki sú þjóð fèkk;
aldrs sjáið, yfir mold
æði mun, í kvæði[1];
hefja mun guð í gæfu
gott stand það land.

## XXIV.
## Um leiða síns föðurlands.

Er það satt,
sem nokkrir telja mèr:
aldrei glatt
Islenzkum verði hèr,
sofnir, dofnir sí og æ
sitji þeir heldr,
ómennskunnar fýlu-fræ
frá èg því veldr;
útlenzk þjóð
þá villu styðr,
dreingja móð
drepr svo niðr,
illan ljóð
æxlar, því miðr!
fordæmt kalla föðurland;
hann er sæll, er svoddan mál
sig lèt ei tæla!
hann er sæll, er svoddan tál
sig lèt ei gæla!
hann er sæll, er svikin hál
sig lèt ei væla!

1) hèr er bendt til kvæðisins: Island.

## XXV.
## Um Viðeyar kyrkju, 1757.

Þú ert orðin fjala-fá,
fúinn sèrhvörr raptr;
hvað mun dagrinn heita sá,
hefst þín bygging aptr?

## XXVI.
## Um Bessastaða-kyrkju,

sem, þá hjá henni var geingið um sumarið 1757, var hálf ný-bikuð, en hálf skinin, skjallahvít.

Að við kyrkjur eins sè gjört,
ótal flettið blöðum:
norðan hvít, en sunnan svört
sèst á Bessastöðum.

## XXVII.
## Vísa, gjörð eptir 1 Hagg.

Himin regni hnekkir fús,
haudrið gróðri sínum,
fyrst þèr yðar hefjið hús,
hniðrið kyrkjum mínum.

## XXVIII.
## Vísa um *S. M.*

Um vetrinn eptir jól 1759 sendi *S. M.* brèfseðil til *B. P.* seint um kvöld; *E.* var þar fyrir, leit á og sá af skriftinni, að *S.* var litt gáðr; þá ritaði hann neðaná seðil þann, er *B.* sendi þessa visu:

I þèr vellr *Ægis* hver,
eins um daga' og nætr;
óska *S....* viljum vèr
vinið styrki fætr.

## XXIX.
## Um hernað Svía móti Prussum,

einkum árið 1758, þá almenníngi þjóða þótti þeim litið ágeingt verða, en almúga í Sviþjóð var litt umgefið að stríða móti Prussa-kóngi.

1. Hvar er Gauta gort og skrum?
gamanið hygg eg rèni;
sofa þeir af sèr sverða-brum[1],
soltnir inni greni[2].

2. Hefðu Danir allt-eins að
efnum farið sínum,
Gautar mundu gjöra' í stað
gis, með hlátri fínum.

3. Vindar betr vissu fyrr
vopn að spyrja Dana;
Svoldr gaf ei Svíum byr,
þá Svafnir[3] lá við hana.

## XXX.
## Um dauða *Ferdínants Sjötta* Spánheima konúngs, 1759.

1. Jöfri dauða Spána spann
sprakka lát af harmi;
það er nauð fyrir ný-giftan[4],
nipt að missa' af armi.

2. Vill ei leingr vizkan breið,
vini nokkurr þreyi;
því er nýtt um þetta skeið,
þannig sjólar deyi.

3. Frama nýan hann gat hitt
heims ei tignum feginn;
líðr hann ei að likið sitt
látið smyrjast megi.

4. Einginn knífr komi' á það
kistu hneppt í legi;
hjartað ei sè hrært úr stað,
hróflist þarmar eigi.

5. Jörðin hyrði hreisi nás,
holdið úldið feygi;
maðkrinn ekki missi krás,

1) orrusta. 2) Prussar sátu þeim mat í Stralsundi nokkra hríð til lands og sjóar. 3) Ormrinn lángi. 4) Því heldr fyrir kóng þennan, er giftur hafði verið síðan 1729.

nè moldar aukann tregi.
6. Sorgar keymr kennist neinn,
kanónurnar þegi;
loftölurnar einginn einn
yfir greftri segi.
7. Öllum báknar sjóli' í senn,
sig ei gylfar reigi,
þeir eru' einsog aðrir menn
uppá dauðans vegi.
8. Þó við steina' og gullið glatt
gildan búkinn vegi,
þeir eru guðir, það er satt,
en þarhjá líkir heyi.
9. Vörðum studdir en þótt í
opt sèr brynju smeygi,
krúnur[1], borgir, þegna, þý
þó með stáli beygi,
10. Dauðanum, einsog aðrir menn,
ætla' eg þessir hneigi,
þó heimrinn láti líkhaminn
líma smyrsla-greyi.
11. Þó veröld gelta vilji margt
og vísar geðið sveigi,
skilja þeir, að eingin art
er í slíku geyi.
12. Af því raupa lækna lát,
lífið að þeir teygi,
dauðinn samt þeim setr mát
á sínum komu-degi.

## XXXI.

## Um Jesúítana í Portúgal árin 1758 og 1759.

1. Ykkar kunst þó lýðinn lokki
og lèrept presta klæði skrokkinn heilaglig
þótt 'ið sèuð í þeirra smokki,
þið eruð ekki Krists af flokki,
það sè ég.
2. Völd ei sókti veraldar ríkja,
vildi' hann aldrei kónginn svikja,
svo sem þèr;
átti' ei kaup og elda síkja,
yðr skal ei við hann líkja,
hèreptir.
3. Rægði' hann ei, nè beitti bönnum
böl þó feingi' af vondum mönnum
fyrir gott;
þèr hafið verið í öðrum önnum,
illgjörðunum safnið hrönnum,
farið brott!

1) kóngaríki.

## XXXII.

## Vísa

um þann marglætis-löst, er nefnist *Polypragmosyne*, þ. e. Fjöllyndis-yðja, þá maðr vill vera allt í öllu, hvörskonar lærdómi, frumvörpum, handverkum, o. s. frv., snikir sitt frá hvörjum og gefr það út, sem sitt eigið, er hlutsamr og meinhagr, en gjörir þó ekki neitt að gagni, þá búið er.

Polypragmosyne
prjálligt hefir trýni;
skamvinnt hygg eg skíni
skartið á því svíni;
þótt í ræsum ríni,
ræsn og orma tíni,
dýrið djásna frýni
dygð eg ætla' ei krýni.

## XXXIII.

## Um bæ Kára á Breiðumörk.

Slöddu-kára breytt er ból,
Breiðamörkin forna;
eptir sèst á háum hól
hleifr jökla norna.

## XXXIV.

## Um prjónað ígulker.

Heila-þak yfir hylr
hærum sauðar, en eg mæri,
kveif alskipuð ofin
átta litar þáttum;
riðið hefir dýr við dáðir
dýs min bróður sinum

ígulker innis veigar
andlaust gjörníng handa.

## XXXV.
### Kokka-gæla.

Um framandi matar-tilbúníng,
sem landinu er óhentugr.

Hlæið að gælum hefðarlið,
hætti þèr ekki samt,
rugla þær annars ykkar sið
einnig kokkhúsa skamt;
með Dönskum hafa viljið við,
verðr því næsta tamt
illa skapað affara-snið,
en þótt 'er komist skammt,
hittið svo loksins húsgángs mið
hleignir af hveim, er fylgduð þið;
meini þèr fyrsta matar-smið
matreidt hafa því jafnt?
Islenzkan ber á aðra hlið
álaga kynið ramt:
telst það hún hefir tilbúið
tignum óhollt og rammt.

## XXXVI.
### Utlenzkr magi í íslenzkum búk.

Ef þú ètr ekki smjer,
eða það sem matur er,
dugr allr drepst í þèr
danskr Islendíngr!
hafðu salt og hafra-saup,
en hákalls kaup
herða tær og fíngur.

## XXXVII.
### Um Hrafnistu-list,

kveðið 1753 þá byr kom, á ferð frá Ingjaldshóli inneptir Breidafirði til Svefneya.

Hrafnistu frændur feingu
fleygi-byr, þegar segl við hún
í logni festu, góð geingu
gögl dælu veiga[1] hlès í tún;
kýngi frag fyrndin rètta,
formanns hag tel eg þetta,
það gæfu lag guð mun okkr rètta.

1) skipin.

## XXXVIII.
### Konu-kosníng.

1. Þú vildir hafa víf, en ekki veizt að skíra,
hvörnig bezt sè kosin kæra;
kanntu það, ef villtu, læra:
2. Orðin þessi þèr eg gef, sem þú mátt halda,
að þú getir anðar-hildi
útvalið, sem vera skyldi:
3. Hún á að vera vaxin nóg og vaskr svarri,
álits-fögur; eg vil heyra,
ef þú getr talið meira.
4. Hrundin hti hýrt til þín með hægu móti;
má hún vera', að minu viti,
mjúk og ljúf í hvílu-striti.
5. Ur huga mèr það fyrsta fèll sem færstir meta:
að hún sjálf í egta-sæti
allt til dauða vizku gæti.

## XXXIX.
### Ráðríki *Veneris*.

(Tvö fyrstu erindin eru gjörð við það síðasta, gamalt og al-kunnugt.)

1. Eg spyr, hvað dregr augun mín
í þennan skýa sess?
gætt ei skynsemin getr sín,
geingr líkaminn hress;
undarlig er hún Asa-lofn,
ei sè èg hvar hún hefir stofn
til þess.
2. Hvar er mitt vit og hreystin góð?
hvar er aðgætnin nú?
minn stöðugleika mæddi fljóð,
mèr brást kunnáttan sú;
ein ertu, sem mig yfirvannst;
ei gat eg dulist, mína fannst-
-u trú.
3. Gjarnan vildi èg, gullhlaðs grund
gánga leingra til þín!

feingi ég far yfir foldar und
fresta mundi þá pín;
una' augum, meðan á þig sèr,
allt-eins veit eg er fyrir þèr
til mín.

## XL.
## Um íslenzku stúlkurnar,

kveðið í Kaupmannah. á móti vísum nokkrum, er sagt er að *Steinn* Biskup og *Páll* Lögmaðr hafi gjört um stúlkur í Höfn, þegar þeir vóru þar að bóknámi.

1. Yndisverð á Islandi
eru víf mjólifuð,
satt er það:
ásján hvít, áþekk mætum
augu hrein gimsteini
í allan stað;
en þar eðli kvinnur
aðgreindar hefir í leyndum,
(eg kveð ei að);
er líf, sem yfirgnæfir
alla lífgjöf vífa,
þú veizt hvað.

2. Enni hvítt, karfa-kinnar
koma næst og varir glæstar;
því næst
mjall-hvítr háls, en hyllis
hefr skjöll brjóstin öll
á þöllum;
mjúkhendar, vel mynntar,
mikið hár Freyu tári,
sem gljár,
líkast er, það að tekr
ást-glóða linda bjóð
á fljóðum.

3. Fylgi bjargvættir borgum
bif-ættar funa! vættir
(þótt endi vers)
úngum Islendinga
eigni þrif svo lifi,
eg óska þess!
Ljós-álfar og dyggvar dýsir
drýgi giptu, svo giftist
(ekki á laun)
allar vel! burt villist
villandi píkna spillir
úti hraun!

4. Fóstri freka stöku
flutti' eg geirs ríkja siki,
gagngatan
meðr á kárs-hlýra klæðum
Kjalars og brima gýmu
sporanna
tvennra svo ábreiða' unnar
ofaná leggist rofin
hennar mann;
virði sem bezt metið verðr
viða skýlhöggvið smíði
dverganna.

## XLI.
## Um ofdrykkju.

Sumbl hefir öllum
aukið gamanið,
fýst fast, eptir
fèkk þeim ekka;
orð varð hölum hált
svari túngunnar:
vín var rúnum
våskeyta fyrirheit.

## XLII.
## Um sama.

Ofdrykkjan dauf, ekki
dávæna smá-hænist
að þessum lýð, lássa[1]
lèt margan hretvarginn;
fyrr seggir hjör hjuggust,
hèr beldinn verr eldir,
munnhöggr menn dygga,
mál sumbla[2] tál umlar[3].

## XLIII.
## Skálda-þökk.

Það mun þökk[4] fyrir kvæði
þeflaust skáldum gefa,
færa þau inn með örnum
*affekt* voru slekti;
mjöð skáldfífla meðr
mig láttu vera sáttan,
feingi' eg ei ragna ránga
raun að kvæðislaunum.

1) grobba. 2) drykkjuskapar draf. 3) talar óskírt uppúr kafinu, optast illt, svik og pretti. 4) gígr sá, er ei vildi gráta Baldr úr helju, og raunar var Loki.

# D. Gaman-kvæði.

## Kötlu-gyllíng,

*kveðin rètt áðr enn skáldið og B. P. geingu á Mýrdalsjökul, í leit eptir Kötlu-gjá,* 28 *Aug.* 1756.

Hvört er það satt, sem heyrum vèr,
hafi landvættir ætlað sèr
Mýrdælir-mót oss sjá,
svo komumst vèr ekki' í Kötlu-gjá
og kunnum hennar ástum að ná.

2. Vèr höfum þó farið vítt um land,
veisur, öræfi, hraun og sand,
fjöll, jökla, jökul-ár,
hellra, björg og gljúfra-gjár,
greiddist vel ferðin síð og ár.

3. Heklu vèr geingum hærst uppá,
hindrun samt einga feingum þá,
þó segði þjóðin tvist:
járn-nefjaða fugla fyrst
fyndum þar og gjörninga-list.

4. Snjóhvítan kysstum Snæfells vætt
snívins höfðum vèr frið og sætt,
annað þótt yggði lið;
Surtr jötun varð oss við
vel, sem bar hans höfðíngja-sið.

5. Hvera-nornir vèr höfum sèð,
hvítum auri þær bleiktu með
oss, likt sem urt og stein;
náttúran þeirra helg og hrein
hindrun einga gjörði nè mein.

6. Alfar, forynjur, eða tröll
oss gjörðu hvörgi ferða-spjöll,
fara mun allt-eins enn,
hvörs sem vænast heimskir menn;
hafi þeir steyt fýrir þvættinginn.

7. Sjaldan er, það eg segja verð,
svoddan konbóna spyrjist ferð,
allra sízt oss ífrá;
ef komumst vèr ekki' í Kötlu-gjá
klökkr[1] raust og hryggjumst vèr þá.

8. Katla er mest í meya-krans,
mesta viðundr þessa lands,
blossandi blóma-rós;
faldinn vefr vafr-ljós,
vitringar heimsins sýngja' henni hrós.

9. Þeir girnast konu þessa' að sjá,
þeir girnast hennar fundi ná,
þeir girnast þekkja fleir;
að mökum við Kötlu' ef kæmust þeir,
kvennligt eðlið auglýstu meir.

10. *Plinius* sama sókti girnd,
sjálfr á *Vesúvíí* tind
fituna færði' í lóg,
seinast andardráttinn dróg,
dygðin hans er frábærin nóg.

11. Því er ei undr, þó með lyst
þessa ljómandi hvera-mist
heimsækjum glatt við geð;
hefðar stúlkur vèr höfum sèð,
hvarfyrir sèst ei djásnið með?

12. Þú ert ei *Katla'* úr Þykkvabæ[2],

1) verðr af gráti kjökrandi. 2) Austanmenn hafa þá ógrundaða sögu, að *Katla* hafi heitið ein ráðskona á klaustrinu, mjög stórlynd og forn í skapi; hún myrti smalann þar, er *Skúli* hèt og kom honum í stóran skyr-sá; en fólkið vildi ekki èta skyrið þegar áleið; þá mælti hún: "úldna tekr skyrið af honum *Skúla*". Hún átti brækr, í þeim gat hún farið hvört á land, er vildi. Þegar

þitt eðli betr greint eg fæ,
ei drapstu *Skúla'* í skyr;
aldrei fèkkstu bróka-byr,
brást ei þínum skildaga fyrr.
13. Þýðversku landi ei varst í,
Islenzkir sumir játa því,
í ketil lèzt kýngju safn[1],
eytrað færði hann elda tafn,
af honum fèkkstu þetta nafn.
14. *Sæmundr* átti' að svíkja sprund,
svanninn borgaði' á þessa lund;
en Bragi bragðið sá,
katlinum fleygði' í Kötlugjá,
kom þar síðan eldurinn frá.
15. *Túngu-kötlu*[2] þú ólík ert,
en frá Reykhólum máske sèrt
ósköpum álfa firrð[3];
eld-jökul-fjalli feima byrgð,
færðu litinn svefn, eða kyrð.
16. Náttúran er þín móðir merk,
mjög ertu fögur, snjöll og sterk,
ógnarlig innanlands,
rekr alla rekka í stans,
sem reyna' og sjá þinn búverkadans.

17. Nú eru dagar síðan sjö
sjá vildum vèr þín hýbýli,
varnaði vindgr yr;
gef þú oss þinn griðar-byr,
vèr getum ei komizt til yðar fyrr.
18. Til yðar einginn færði fót,
finliga takið oss ímót,
heiman bein leið og heim!
mærast skaltu þöll! af þeim,
þinn skoðuðu fjallbygða geym.
19. Góðar vættir eg særi senn:
sjáið á þessa ferðamenn
með fornri fjalla-trygð,
yðar í friði blifi bygð,
bragnar yðar vegsami dygð!
20. Vondar eg særi vættir enn:
vilji þið þessa ferðamenn
ei láta framgáng fá,
ykkar viltar innum frá
útlagar skulu þið verða þá!
21. Upp, upp, vèr skulum fara' á fjöll!
forfeðra með oss giftan öll
og hamingjur helgar sè!
góðar dýsir veri oss ve;
virðing Kötlu látum í tè!

# Höddu-ríma,

*um ferð Höddu Ránardóttur til Kára og undrafullt samræði hennar við Hræsvelg jötun.* (*Þessi ríma var gjörð í góðum byr, á ferð frá Kaupmannahöfn til Vestmannaeya, árið* 1750, *á skipi því, er hèt Elizabeth.*)

## I. Um Rán og dætr hennar.

Elizabeth eltu Ránar allar dætr,
mynnast vildu vífin kátu
viðr snót, en náð ei gátu.
2. Af því gyðjum undan rèð
að ýta feimu
jötun ærr í arnar hami,

morðið varð uppvíst, fór hún í brækrnar og af stað; átti fyrsta spor hennar að vera í lág, skammt frá Þykkvabæ, annað á Kötlusandi, hvar hún týndi lyklunum, við Lyklafell, og þriðja í gjá, sem eptir þetta átti að spýta eldi.

1) önnur frásögn eins ógrunduð er það, að *Sæmundi* fróða hafi ketill sendr verið, fullr af ólifjan, af þýðverskri konu, er hann hafði lofað eiginorði, og prettað síðan; hafi hann farið með hann austr í Ver og gist á Þykkvabæ, hvilt sig á Kötlu-sandi og kastað honum síðan í gjána. 2) sem *Arnkell* goði lèt grýta fyrir fjölkýngi. 3) Þorkatla sú, sem umgetr í Landnámu og nafnfræg er af Kötlu-draumi.

af því verðr byrinn sami.

3. Þær veina eptir vænni frú og viðtals beiða,
en hún vill þeim ekki hlýða,
eða nokkurn tíma bíða.

4. Og fyrst rýgur eingu síðr áfram brunar,
allar-saman upp þær hrína
ákallandi móður sína.

5. Upp þá kerling Ægis leit og augun hvessti,
faldinn bláan bráðum hristi,
byrja tók, sem heyra lysti.

6. Ef vildi Kári vægja til, hann víst það kynni,
hann er skildr minum manni,
máske hann ekki þetta banni.

7. Þú skalt Hadda þeysa' af stað, eg þig vil senda
upp til ríkis æðstu vinda,
er það hærst við fjalla-tinda.

8. Beiðstu tals við lofðúng lands, sem lögin greina,
að hvörju feingnu, hans í sýnum,
heilsa Kár frá bónda mínum.

9. Segðu honum systra þinna sanna beiðni,
að hrímþússa lyddu loðna[1]
láti Kári' í flögti doðna.

10. Svo þær geti sèð og mælt við svanna keikan;
annars hún með hefndar sýki
hniðrar vorri makt og ríki.

11. Ottast èg hann okkar bænir ekki heyri;
af vanmætti veit hann orum,
vindum mót ei gjöra þorum.

*II. Hadda finnr Kára. Frá Kára og ríki hans.*

12. Hadda renndi lopt og lög í litlum kyrðum,
unz hún veifði votum börðum
til Vindlands uppað Kára görðum.

13. Finna beiddist fylkir lands og fram að tína
erindin með ásján græna,
að hún heyrslu feingi bæna.

14. Fylgt var Höddu' í háan sal þar hilmir storma
sat á stóli sviptur harmi,
sínum opnum heldr barmi[2].

15. Ei var Kári álits-rír með axla þunga;
skeggið huldi hnè og bringu
hvítt, sem snjór í skafrenningu.

16. Við er tjölduð vísis höll með vinda-skýum
hvítum, bleikum, grænum, gráum,
gulum, dökkum, rauðum, bláum.

17. Í þeim myndum sólin sèst og sumars úði,
heiðar stjörnur, máni meðr,
miklan snjós og frosta-veðr.

18. Snýst á hjóli buðlúngs borg, að breytíng átta,
eptir því sem Hræsvelgs hætti
hilmir storma forðum bætti.

19. Hadda Ránar hefr tal og hálsinn beygði,
áðr greindu orðin sagði,
eins sem móðir fyrirlagði.

20. Herra! sagði' hún, metið mig og mætan föður,
því hann er þinn eiginn bróðir
og þið líka vinir-góðir.

21. Yðar heiðr hefja skal og halda' á lopti;
frændsemin mun fara þar eptir,
fèndr[3] verða nauðum krepptir.

22. Ei var Kára um það tal, hann ýgldi brána,
augum gýtr uppá hana,
óðum blès í skegg-broddana.

23. Þín er dyrfska þeigi rír, nam þeingill spjalla,
ætlar vind að aftra kella!
eða mig frá löndum fella.

24. Hadda svarar: hèr ei gjör þig herra! reiðan;
kom eg til þín auðmjúk áðan,
úrskurðinn að þyggja bráðan.

25. Því èg hèldt af fati vera fjöðr eina,
þótt þú rèðir titling týna[4],
til að gleðja frændur þína.

26. Skellir upp og skeggið Kári skekr klofna:

---

1) Hræsvelg. 2) til að taka ámóti vindunum. 3) skipverjar, sem hælast um við mig. 4) drepa titlínga, depla með augunum.

það eg vinda völdin nefni,
viltu kalla gamans efni?
27. Ymsar hrærast áttir lopts
af ymsum gángi;
hvaða vindr, hvörsu leingi
í hvörri sè, því brjálar einginn.
28. Ef þú nennir niðr heims
á norðr-enda,
þar er upprás allra vinda,
sem yðar stjórn og mætti hrinda.
29. Eg fèkk þar settan Fenris
nið í fjöðrum ara[1];
sá vill Hræsvelgs heiti bera,
hann mun allan vindinn gera.
30. Farðu vif! ef viltu jötuns
vitja þessa,
en varast skaltu þytinn þjassa,
því hann hefir vængi hvassa.

*III. Hadda leitar Hræsvelgs og finnr hann.*

31. Hadda sèr ei henni þetta
hjálpa leingr,
úrskurð mundi' hún eingan fánga,
af því hrygg í burt nam gánga.
32. Norðr eptir landi leitar
Loga hlýra,
ef hún kynni eitthvað heyra
um Gallofnis[2] hætti meira.
33. Nú mun verða eitthvað á,
fyrst efnið versnar;
mælskan tekr min að visna,
mærðar dverga kerin gisna.
34. Steypist lögur Óma út og
óðum spillist,
utan þèttist aptr bollinn,
ef þá rynni vit í kollinn.
35. Heyrðu mærðar hærsta goð,
með heiti Braga!
æstu þytinn Ymu trega,
að mèr fari söguliga.
36. Því aldrei hafa áðr heyrzt
í óðum skálda
svoddan furðu-verkum valda
virðng goð, frá byrjun alda.
37. Fyrr mun verða Loki laus
og löndin brenna;
fyrr mun Surtr veröld vinna,
enn virðar þessa dæmi finna.
38. Mundi' eg ei, hvar áðr
skildist eg við Höddu,
af eyði-vegum einka hrædda,
örvænting og sorgum mædda.
39. Norðr stefndi' hún ávalt að,
ef ara fyndi,
þartil loksins lítr kvendi
Leiknu[3] nið og storminn kendi.
40. Ogurligr í arnarham, með
opnum skolti
augum snèri, vaungum velti,
vèlið þandi, súginn melti.
41. Fastr hann á fótum var,
af flögti móðr,
vængjum barði' á báðar síður,
blástr jókst og kuldi striðr.
42. Fyrir vindi feima nær ei
fara þorði,
því, í vegi ef hún yrði,
aukast mundi vanda-byrði.
43. Eðli Ránar allra dætra er
hið sama;
efað vindr á þær kemr,
ólmast taka lángtum fremr.

*IV. Viðreign Höddu og Hræsvelgs jötuns.*

44. Framan Hadda fara nam
að Fálu kundi,
því hún rèð sèr það ímynda,
þar væri helzt ámilli vinda.
45. Hún kallar hátt og kveðr
að: hann Kári biðr
að heilsa þèr á himna-bjóði[4]
Hræsvelgr í jötun-móði!
46. Skipar hann þèr strax í stað
nú storminn lægja,
allt þángaðtil öðling segir
aptr nær þú flögta megir.
47. Heyrði jötun hennar kall
og horska málið,
þóttist ekki þetta skilja,
það var móti' hans sið og vilja.
48. Undarliga Bauga brá við
brúðar líki,
að hann varð á augnabliki
umsnúinn með bernsku striki.
49. Hafði' hann áðr einga sèð
af ættum kvenna;
afgamall af æsku grunni
aldrei vissi' af giftingunni.
50. Einhvörr brendi brjóstið
kaldt, þar brast út logi;

1) í arnar-ham. 2) arnar-heiti. 3) *Leikna:* tröllkonu heiti.
4) þ. e. landi.

samt hann vildi þarum þegja,
það var kannske Lofn og Freya.
51. Þessar gyðjur, þegar eingir
þeinkja, tíma,
mest sèr af því meta gaman,
mann' og konu' að binda saman.
52. En Hræsvelgr meir og meir
af meyuni reyndist;
hefir verkan veðra fundizt,
varla fèkk hann orða bundizt.
53. Þvert ámóti, mærin þegar
merkti þetta,
lèt hún sem hún legði' á flótta,
lítil-sigld og full af ótta.
54. Svo er flestra svanna geð
í sömu klípu,
þær streitast við með ógn og ópi,
innra þótt á manninn hrópi.
55. Kallar þussi: komdu snót!
mig kvelr hiti;
hún leit um öxl og lèzt sèr flýta,
líkt sem vildi' hann ekki nýta.
56. Hann kallar aptr: kysstu
mig! en kæran fussar,
tendruð upp af Amors blossa
aldrei feingið hafði kossa.
57. Þó um síðir vèk sèr við og
vita lysti,
hvörsu mundi líka losti;
Ljótu kundr að því brosti.
58. Svarðar hæða loga ljós, á
loðnum kroppi
ýfðist fiðr, hrósar happi
Hveðru son í frygða kappi.
59. Samt sem áðr uggir mig
af Amors gleði
þau muni bæði þökkum eyða,
það vil eg fyrir sjónir leiða.
60. Hefði eg valið vit og ment
af Viðris drykki,
gæti èg, en annars ekki,
yrkt hèr um, svo fleiri þekki.
61. Ráða mega seggir samt af
sínum högum,
að farnar sèu suma vega
samfarirnar undarliga.
62. Eingan þolir Hadda vind
á hennar höfði;
sjóinn við ei vanizt hafði
Viðju bur, sem hitann kafði.
63. I samræði Svelnir Höddu
sína fylldi
meðr vind, sem búkinn belgði,
brauzt hann um og froðufelldi.
64. Gein af mæði Gemlir við
þá gleipti skýmið,
hefir garna gaulið kramið
gamlan dólg og vifui tamið.
65. Uppúr honum froðan fór
með fullum vindi,
önnur gusan aptr rendi
af því stórra meina kendi.
66. Hann rembdist við og brauzt
á bak, en barði vængjum,
stærri bilr annar einginn
áðr fyrr enn þá er geinginn.
67. En hún Hadda æ því meir
rèð upp að þjóta;
hvítnuð öll af bllja broti
burt hún flaug í einu skoti.
68. Kreinkt og ærð hún aptr
kom til Ægis garða,
lerkuð mest í hausi' og herðum;
Hadda kunni' að segja' af ferðum.
69. Hún hafði farið greitt um
geym og gjört sig þreitta
fyrir sínar systur átta,
sinnti' ei breytni dags og nátta.
70. Forvitnin var fyrsta sök í
ferðum hennar;
Elízabeth vildi vinna,
varð hún samt að láta minna.
71. Hún af níu niptum vildi
nýtust vera;
skyldi vinda skjöldúng heyra,
skynja hvört hún kyuni meira.
72. Aptra vind og ölgu sjós,
en yfirfalla
Sölva ríkja svarrann[1] holla,
söggva föt og amboðs þolla.
73. Varð hún samt að halda
heim, þótt hefði' ei unnið,
í því systrum öðrum minni,
að hún týndi píku sinni.
74. Náttúrligt ei nokkuð var í
notum yndis;
hefð það væri hennar standi,
hefði' hún orðið barnshafandi.

1) þ. e. skipið.

75. Furðuverk það orðið er hjá
öllum skáldum,
að Hræsvelgr gjörði gilja
gyðju sjós að beggja vilja.

76. Af því sýtir Ægir, Rán
og allar dætr;
Elizabeth undan setr,
óska' eg henni gángi betr.

# Titlínga-ríma.

***Um náttúru-sögu og ýmisligar íþróttir þeirrar titlinga-þjóðar, er ýmist kallast sólskríkjur, eða snjótitlingur, eptir tímanum; en sérílagi eru hèr til dæmis settir þeir tveir tamdir fuglar, sem í Videy vóru og þaðan sigldu til Kaupmannahafnar árið 1756, í höll Friðreks konúngs ens Fimta, í bezta haldi; og verðr hèr við hentugleika sýut, hvað ágætrar náttúru þessir litlu fuglar sèu, hvörnig með þá skuli fara, lækna þá sjúka og temja þá; líka hvör skemtun og nytsemi sè við tamning og umgáng þessara fugla.***

***I. Um titlíngana yfir allt, hvað þeim sè til hróss, eptir nokkrum dæmum fornaldar o. s. frv.***

Af fugla smærstu, fögru kyni
fátt skal greina,
til þess nefni' eg titlíngana,
er tæra með oss fræi lana

2. Mönnum gefa lærdóm, lyst
og líka gagnið;
þeirra skikkan hugsa' um hyggnir
herramenn og svannar tignir.

3. Góðra jurta flytja fræ úr
fjærri stöðum,
sumar og vetr ormum eyða,
sem eikur, gras og vistir meiða.

4. Dúfu-bræðr kærleik kenna'
og kyssa líka,
að einum hænast ektamaka,
aldrei vilja framhjá taka.

5, Kostnaðarsöm byggja ból,
þau blautu hreiðrin
hárum sinum flètta' og fiðri
flatmagandi' á dýngju miðri.

6. Hjónin bæði hjálpast að að
hýsa bæinn,
ástarbrögðin fánga fegin
frygðar-rík, sem þeim eru' eigin.

7. I blæa-logni baðar sól á
báðum vaungum
þá litlu morin sitja' og sýngja,
svo það gleðr Islendinga.

8. Að lìggja skiptast eggjum á
og úngum stýra,
skamt í munni matar færa,
meðr nefjum úngum tæra.

9. Þessir fuglar frægir vóru' á
fornum öldum,
spá um geiru grátnir seldu
Grykkjum nær að Trója hèldu.

10. Ljónar Róms þau litlu dýr
í letrum nefna.
Varri' í rití ræktar safna
riddara getr þeirra nafna.

11. Norðrlauda kóngar kunnu
kænsku máta,
titlínganna trausts að njóta
tilað mega frægðir hljóta.

12. *Dugr* spaki *Dyggvason* var
drottinn Svia,
titling átti tiggi spáan,
trúði því og hèldt uppá hann.

13. Sókti fregn í fjarlæg lönd
og fórst af steini,
kóngr hefna vildi' að vana,
viðfrægt er, hann hreppti bana.

14. *Haraldr* kóngr *Sigurðsson*
í Sikil-fjötru
sterka kunni' ei borg að brjóta,
beztu fugla varð að njóta.

15. Herrann ei þeim (hermt
er það í helgu máli)
gleymir, það er gott að skilja,
glatast neinir án hans vilja.

16. Veigalitinn vernðar fugl,
það vinnst ei ella,
að nokkurr kunni' á fold að falla,
forsjá guðs þá telr alla.

*II. Um hallæri það er varð með titlingum, og hvörsu þeir margir hertcknir og drepnir vóru, en tveir ejnir vel af komust.*

17. Nú èg hefir, höfuð yfir,
hermt af ættum;
titlíngana tjá skal fátt um
tvo, sem vóru' á suðr-áttum

18. Við það bar, sem verðr opt
í vetrar hriðum:
snjórinn byrgði hvamm og hauðr,
hvörgi náðist blettr auðr.

19. Mörva-sugr[1] sviptir björg-
um sauði' og hesta,
rjúpurnar í feikna frosti
feingu litla matar kosti.

20. Fiðri reifuð foldar dýr af
flestum ættum
dauðans húngr höfðu' í klettum;
hrafnar snýktu' á bæa stèttum.

21. Þá hin spaka spörra-þjóð
að spurnum leiðir:
nú þarf hitta nokkur ráðin,
náttúran þeim bannar sáðin,

22. Lángt var sendt um land-
ið út, að leita' að vistum;
hvörgi feingu fuglar nesti,
frans þá meir og veðrið hvessti.

23. Ormar, flugna úngum með
og eggja frævi
vatns og klaka kyrt í hrófi,
kúrir undir megnis snjóvi.

24. Örþrifs ráðið eptir var, sem
allir tóku:
mannabygða loks að leita
og lesa korn um heya reita.

25. Af því bændr ei til sæðis
um það hyrða,
titlingarnir fá þann forða
og fara glaðir öx að borða.

26. Vendir útí Viðarey sá vænsti
fjöldi,
akrlöndin skoða skyldi,
skemtan hafa' og veizlu-gildi.

27. Þar vóru nægðir taðna til
af túni góðu;
hyrtu' ei fjósamenn um moðið,
mætum fuglum var það boðið.

28. Saðning herinn fugla fèkk
á fjósa vángi;
nokkra daga gott þó geingi,
gleðin ekki varði leingi.

29. Grimmr Jóti'[2] í bænum bjó
með bónda nafni;
heljar gyðja segg í svefni
sýndi þetta krásar-efni.

30. Vaknar hann og veiðibrellu
vonða gjörði:
snjós í skygnum hallrar hurðar
hreitt var agn til niðrburðar.

31. Fæðu nýa fýsti smakka
fugla-meingi,
*Rasmus* þar í leyni laungum
lúra gjörði' að afla-faungum.

32. Kænn í morði kippir stoð
og kreppir inni
snotra fugla' á snjóa grunni
sniðugliga pretta kunni.

33. Otal vánga litlum ljósum
lúka hlutu,
sumir mættu beina-broti,
bisna margir láu' í roti.

34. Lifna þeir við ljótan draum
í luktu keri;
hinir allir flýa fóru,
fángaðir sem ekki vóru.

35. *Rasmus* fugla-byttu bar og
brókum kippir,
konan sèr og hrósar happi,
hælir bóndans veiði-kappi.

36. Hjónin vóru í geði grá og
girntust rètti,
drápu þá með driúgu spotti
dapra fugla' og suðu' í potti.

37. I einum bita bruddu hvörn
og beinin líka,
þeim var sæmri klintis[3] kaka,
enn konúngligan rètt að taka.

38. Titlinganna tjáir ekki' að
trega lukku,
sem með teiknum sorgar blökkum

1) Mörsugr: mánuðr, sem hleypr á December og Janúar og næstr er fyrir Þorra. 2) jótlenzkr bóndi, *Rasmus* að nafni, sem þar var þá. 3) klinti (*Lolium*); illgresi það nýtist og af fátækum til brauðs.

sèst í landsins almanökkum.

39. Fjórir af þeim fuglum
eptir fángnir lifdu,
gumi þá til gamans hafði,
grátið fjör í búknum lafði.

40. Miskun hrærði manninn
einn, sem man þareptir
og Litars fari' á flæði hleypti,
fugla tvo með verði keypti.

41. Hinir eymdum hlaðnir
flugu' í heljar mynni,
túngu-skorinn af þeim annar,
er náttúra málið bannar.

*III. Þeir tveir herteknu titlíngar fá góða vist og fara að sýna íþróttir.*

42. Hèr skal byrja hróðr nýr,
sem hamingjan unni,
af því friða fugla-tvinni,
fáheyrð saga' að ætlan minni.

43. Þaungla jarðar þeingill ey[1]
með þvíta skreytti
límða stofu', er líta mátti
lángt í burt í margar áttir.

44. Þrasta bræðr bornir vóru' í
byrgið sama,
litli krummi hèr var heima
hafinn út ámilli beima.

45. Herbergið var hvítfágað
með hörðu limi,
strokið útlands steina hjómi,
storkinn sem að væri rjómi.

46. Hæðin manns er hæðir tvær
að höfðum bita,
loptið, dyr og glugga-gættir
góðum litum steindt og brædt er.

47. Prýdt var töblum pentuð-
um með praktar myndum,
spegil-glerum, gullnum röndum,
gylltum stólum utanúr löndum.

48. Dáfalliga dvöl hèr áttu
depla hlýrar;
fóstri þeirra góð lèt gera
grindar-hús og máluð vera.

49. Vænir stólpar, vallenzkt þak,
og vír af járni,
tvöfaldt gólf við skitra skarni,
skáu og saur og fniki varni.

50. skrýdt var gólfið skrifara-
sandi skjalla-hvítum,
sem dreginn var á Dana bótum
en dustaðr út á vikna-mótum.

51. Lysti-skemmur litlar tvær
í lopti hèingu,
togaðar upp með tigla þingum
og teymdar niðr af hjóla hríngum.

52. Svo við glugga svamu þeir
í svölu ljósi,
varnar ofn að fagrir frysi;
fuglar eingir betra kysi.

53. Alla daga frömðu flökt á
fótum hrínga
um gaman-bita spreyta' og
sprrínga,
sprækir upp um mænir gánga.

54. Hèkk þar lind af gleri
gjör með glæu vatni,
aldrei trúi' eg í henni þrotni
ölið fugla niðr að botni.

55. Dagligan feingu ferskan
drykk og fæðu nóga;
þar var búið borð um daga,
bezt sem mátti gestum haga.

56. Hvörs kyns rèttir hvörn dag
vóru' á hvörs-eins diski;
aldrei þraut úr vista veski
vinzað korn í skutul-eski.

57. Bæði manna'- og búkhveits-
grjón og byggis agnir,
heilir af þeim hafrar flegnir
og hagligana' úr belgjum dregnir.

58. Íslands krásir ágætar þeir
einatt smakka,
beztu fræ sig borða lokka
barmar rindla'án hjálpar kokká.

59. Þristrendt sarpr súru fræ
til sumbla tekr,
við arfa korni kjálki leikr,
kjarni mels það gaman eykr.

*IV. Um athafnir og listir þessara fugla og um virðingar þeirra og eptirlæti.*

60. Enn skal fuglum inna frá
og athöfn þeirra,
kominna til kynna vorra,
kætast tóku með honum Þorra.

61. Þurt oss sýndist þángaðtil
og þeflaust vera;
sjaldan vængi sína hræra,
saunginn einga vildu læra.

62. Hræddir vóru' og hnýpnir
eptir handa volkið

1) *þaungla jarðar ey:* Viðey.

kvolaðir með kámi' og tólki
komu þeir frá juzka fólki.
63. En eg fór að þrifa þá og
þægðuni tæra,
fjaðrir laga, fiðrið klára,
fagra lèði grindar lára.
64. Loksins tóku' að lifna við
þær litlu kindur,
nokkru síðar hræðslu hrinda,
hèrnæst gjörðum fèlag binda.
65. Þeir flugu hratt um háan
sal úr húsum sínum,
gólfið ætla væri Vænir[1]
vildu gjarna sveima' um mænir.
66. Um síðir gólfið settust á og
sorpið grýtta,
kornið lèt eg drjúgum detta,
depla sifjar vildu þetta.
67. Nær eg sat og sá í bók,
þeir svifu' að borði,
kríngum stólinn gánga gjörðu,
gantaligir á mig störðu.
68. Öx, er festi' eg fingra milli
fysti' að hafa,
tíðum kornin lögð í lófa
lysti þá að taka' og prófa.
69. Ef matar-tíma mjög að leið,
svo maginn píndist,
dátt fyrir innan dyra grindir
dansa' og tísta fjaðra kyndir.
70. Höfði með og augum æ
þeir á mig stýla,
röskið korn í riran bela
rèttist þeim ámilli spela.
71. Sálminn borðs þeir súngu
lágt með sætu kvaki;
þèttmeti vill þyrstir drekki,
þó var hátt að neyzlu bekki.
72. Nær þeir feingu frjó á gólf,
sem fóstri tèði
(í leik er einginn annars bróðir,
og þó sýnist mátar góðir),
73. Hnakka brúkið belgðu þeir
og breyttu tóni,
skopuðust að, sem skæðir hanar,
en skamman áttu rómu vana.
74. Sáttir urðu' og samkveð-
andi' í sama bili,
feingu síðan jafnt af jóli,
jöpluðu hvörr í sínu bóli.
75. Þá er sila þorri leið af
þrautum lýngva[2],
fuglar höfu fagra saunga;
fèkk eg slíka' í húsum einga.
76. Sólskríkja bar hljóðin há
og hvell í máli
digur syrgði meir fyrir mali
magans, heldr enn rètta vali.
77. Vellystug hún var og fröm
og vistum unnti,
fljótar því með gjöfum ginntist
og greiðugliga við mig kynntist.
78. Snjótitlingr snirtinn meir
og snarpari henni,
klókr fugl með kinligt sinni
krása lystir hafði minni.
79. Aðgætinn og var hann var
í villi þrótti,
loks þó saung hann lagi rèttu
með lágum tón og ofr-nettum.
80. bragrinn fer að batna nú
hjá bræðrum erlu,
þeir dansa, hvísla, krymta' og
kvirla,
kæti sínum fóstra byrla.
81. Stórir vildu vakra sjá og
vendu þángað,
eins kom stjórinn hyrðar híngað,
hafði suðr á nesjum þíngað.
82. Dáðist hann og dáðust þeir
að dáða skepnum,
samt var gesta svakkið hnýpna,
saungr optar gladdi pípna.
83. Eitr-tóbaks urta brennur
ekki þoldu;
lands-köfðingjans hæversk mildi
hèrfyrir ekki reykja vildi.
84. Kötturinn líka kominn vildi
krásir þyggja,
síginn hittir húss í glugga,
hjartprúðir um friðinn ugga.
85. Brjósta þegar bergin óðum
börðust viðr,
högni sló við hjarna glóðum,
hnekkti fóstri dreira flóðum.
86. Blíðum fuglum bregða nam
við blóðlit klæða,
átti fóstrinn ólpu rjóða,

1) vatns heiti á vestra Gautlandi. 2) þegar mesti partr leið af vetrinum.

og í henni kom til lára-gjóða.
87. Lávarð sinn ei þekktu þeir
í þessu fati,
skelkaðir af leiðum liti
lagði nær þeir geingju' af viti.
88. Ramr (tjá þeir) risinn einn
til rómu borinn
fargað hefir fugla dreira
og farfað sig í blóði þeirra.
89. Vætt mun hafa vora þjóð
hinn vondi Jóti;
nú er tvillaust æfin úti,
okkr nema gæfan lúti.
90. Hriki[1] við það hempu varp
af hjarsa stofni,
svipti rauðu sorgar efni;
um svoddan ekki fleira nefni.

*V. Þeir tveir fuglar taka lángan sjúkdóm, og var við sjálft búið, að þeir mundu þá og þá deya.*

91. I svefni birtust svipir ljótir svarta grímu:
kettir, Jótar komu' og raumar,
kinja margir eptir draumar.
92. Hljóðin mátti laung og lág
í ljósi finna,
ef huldi vángr hárgan kjanna
heyrðu menn til aðsóknanna
93. Einninn verið aðrir draumar ætla' eg hafi,
sóttin þá með sorga kifi
setti nærri fugla lifi.
94. Gaukmánuðr grindhússþiðrum gat þann kvilla,
vor-tíminn því verðr öllum
viðr hættr sótta-föllum.
95. Dofnuðu fuglar, drógust
upp og daprir urðu
hnöggnir þögðu' og höfgir stúrðu,
hvörsdagliga niðr kúrðu.
96. Augu sokkin firrtist fjör,
en fèll á þrifna,
vængir löfðu' á lifrum dúfna,
líkams fiðrið rís og úfnar
97. Þá var tið að lækning leita'
og lífi bjarga;
nætrgala nauðir syrgir
nefa fóstri' og andlit byrgir.

98. Fyrst í súpu sjúklinganna
saffran látið
hjartað styrkir, búkinn bætir,
bugar verk og opnar sæti.
99. Hollr matr valinn var, sem
veikum hlýddi:
eggja-blóm og aðrar kryddir,
sem öllum meinum burtu ryddi.
100. Grindar-salr gjörðr nýr
í geimi stórum
með rúmi meiru' enn fyrrum,
meðal-girðíng hurð og dyrum.
101. Hvörr titlingr hvildist þar
í hvörjum karmi,
títt í gólfa geingu stormi,
á góðum bólstrum hygg eg dormi.
102. Herbergið var hvort um
sig með hjara-porti,
dansa-rár fyrir drifu murta,
drykkjar-ker og reinir urta.
103. Slotið síðan sett var úti
sólar-geisla;
sólarskríkjan hóf að hvísla,
hjarna við, í korni visla.
104. Þvert á móti hnignar hinn
af hori gugginn,
burtu stáz og búðar hyggja,
betra þókti kyrr að liggja.
105. Geðið samt og sinnið var,
þó sorgin beygði;
kven af leifum hans sèr hugði
hressast, en það ekki dugði.
106. Hann vill ennþá herra
vera' í húsi sínu,
ráða byrgðum, rúmi, konu,
ræríst meðan líf í honum.
107. Skríkja gekk í herherg
hans og hreytti' í svánginn;
bóndinn, sár þó sorgin þreyngi,
sèr það fyrst, en ekki leingi.
108. Stóð hann upp og stökk
á hana' úr stúra dúsi,
dregst hún frá, en fýr óneysi
fèll um koll af burðaleysi.
109. Aldrei fýsti fíkna mat að
fá þar optar,
depli skildum dvína kraptar,
dreggjar lífs að mestu taptar.
110. Upp og niðr öndin gekk
í ángrs hríðum,

1) jötuns heiti.

augun hörð í höfði stóðu,
höldar farinn vera kóðu.
111. Þá var sorg um sálar gólf,
er sýtti fóstri,
mörgu ráða brauzt í bjástri,
bjarga vill af hyggju skárstri,
112. *Bjarni* læknir bjarga vill
og brugga lifjar,
vinur í nauðum vill ei tefja
vanda sótt og harm að kefja.
113. Landfóveta ljós er hrygð
og líka frúar;
varð, af sútum sveina' og meya,
svört og döpur Viðareya.
114. Loks var ráðið hafið hollt,
að heita skyldi,
og peníngr aumum teldist,
efað fuglinn lífi hèldi.
115. Við það brá, sem væri
torfu vèlt af honum;
róta-sax af grösum grænum
gat hann neytt, sem fèkkst á
bænum.
116. Vonum bráðar hressist
hann og heitið endist,
*Þórarin* einn úr ægis löndum
ortug gripr báðum höndum.
117. Svona báða hefi' eg heimt
úr heljar rönnum
fóstra mína; fagni grannar!
fagni bæði menn og svannar!

*VI. Um margfaldan uppgáng, kunstir, skemtan og yndisveru titlinganna.*

118. Nú er prýðin hússins hèr
í hæsta toppi,
nú er gal og glaumr uppi,
gnótt af mat og þykkt á huppi.
119. Nú eru fuglar komnir á
kreik og kvæðin sýngja,
því èg vandist opt við únga,
er mèr kunnug þeirra túnga.
120. Dagligt kvak, og draums,
og borðs, og dauðans ótta,
nöldr skil, og herboðs hátta,
hróps og saungva: það eru' átta.
121. Af þeim raddar umbreyt-
íngum alla' eg kunni
þeirra skilja sögn og sinni,
þó sæng í byrgðr lægi minni.
122. Eins, þó væri' eg utan-
húss og ekki nærri,
ef heyrði' eg þeirra skrafið skæra,
skildi' eg hvað þeir höfðu' að kæra.
123. Eitt sinn helti hlutu þeir
og hinkra laungum
hefluðu þó á gólfi geingi,
gat það meinið fundið einginn.
124. Lagði' eg fugla lint á bak
í lófa mínum,
fann þeir höfðu skaða' á skónum
og skar hann burt af litlu klónum.
125. Frekt á sumrin fetað höfðu'
um fjalla steina,
nú var meira mjúkt við tána,
minna sleizt við timbr-rána.
126. Slíkt eg gjörði' og miklu
meir við mína gesti;
hvörskyns fèkk þeim hægða kosti,
sem hafa vildi þeirra losti.
127. Konúngligt þeim bað eg
bjó með bekki græna,
lesarinn þó á ljóðin blíni,
laugin var úr porsellíni.
128. Þar vóru blómstrin blá og
rauð og blika' af gulli,
allskyns plantan önnur milli,
ylmrinn bezti nasa-fylli.
129. Brekka gekk að greindu
baði grasi-vaxin,
beitarland fyrir jötunuxa,
er fuglar til sláturs hugsa.
130. Veggr er af gleri glær hjá
greindu baði,
utan svo þar ekkèrt veðr,
annað enn sólar verkan skeðr.
131. Fálkar heya flugu titt að
fránum lundi,
jöfnu grös og jurtir tíndu,
jafnan lèku' og nefin brýndu.
132. Tóku' að baðast titling-
arnir tindilfættir,
á vikna-mótum vatni skvettir,
votir einsog skolla-kettir.
133. Stóðu þrifnir baðs á barmi'
og bríngu difa,
höfði með og hálsi kafa,
hristu' uppá sig lindar safa.
134. Þeir með nefi þóu bak og
þeirra vængi,
brjóst og vèl og lærin leingi;
lystugt var að horfa' á dreingi.
135. Fiðrið kunnu' að kemba
nett með klofnu nefi,

líka fjaðrir laga' og þrífa,
lýsnar eins í burtu drífa.

136. Þartil biðu þar í sól að
þornar dúninn;
flugu síðan firrtir pinu
og feingu mat í búri sinu.

137. Af því gutli gusuðum
komu Gangis-mönnum
spörrar tærri' úr tèðum brunni,
sem tar-hreinir úr náttúrunni.

138. Nú er glaumr drykkja' og
dans í dverga bænum[1];
saungfuglarnir seiminn treina,
sýngja' á eptir lundir steinar.

139. Sumar-hiti' og sólar feg-
urð saunginn eykr,
snjallr hljómr snemma vekr,
snork og lúr í burtu tekr.

140. Lýtin hylr ástin ei, þar
eingin sannast;
öll er fegurð fugla minna
frygð og hygð og dygða svinna.

141. Síðan lifðu sjúkdóm af,
við saman unnutumst,
mitt til ásta geð þeir ginntu
og gumum eingum framar sinntu.

142. Mín umhugsun var þar
við, að vitja þeirra,
gæta' að þeim og þá að næra,
þarmeð allar kunstir læra.

143. Þeir vóru' að fljúga fram
og aptr fagrliga
úr heingi-slotum djarft um daga,
dýrliga sinum látum haga.

144. Milli blunda mána dýsar
morgna lánga,
nam eg þeirra sætu saunga,
svoddan skemtan fèkk eg einga.

145. Arsal kríngum einsog góðir
andar flugu,
sæta vöktu drauma drjúgum
dornikandi' á hvíni bjúgum[2].

146. O, hvað slíkt er ofr-lángt
frá illsku fúlum
draugagángi' og drauma fælum,
drúnga-sinni' og leiða-vælum!

*VII. Titlingarnir fara af landi burt; þeirra eptirsjón og söknuðr.*

147. Ei er kin, þó útlands
herrum einsog börnum,
ei er kin, þó kærleiks-gjarnir
konum finnist titlíngarnir.

148. Svo gekk hèr, að sèrhvörr
vill þá sjá og heyra;
augum nokkrir ekki þora
um að trúa fugla vora.

149. Sumir ætla suðr í heimi
sèrliga alda;
margir dóma meiri feldu,
mis-sýníngar vera hèldu.

150. Aðrir fýstust orra móðs
til eignar hafa,
buðu við þeim gull að gefa,
gjörnínginn að láta brèfa.

151. Kaupmenn danskir kepptu'
um það og knýar ymsir,
en þeir beiddust fugla frumsa
forgefins og urðu hvumsa.

152. Æðri tign þeim ætluð var,
sem enn skal greina;
ritað var úr veldi Dana
vegligt brèf um titlíngana.

153. Voldugr utan viggum heys
til veizlu býðr,
þvíað ryktið hafði' í hljóði
hrósað vorra spörra stóði.

154. Og sèrílagi tekið til um
tvo svo rara;
þessir, sem í Viðey væru,
víst af öllum fuglum bæru.

155. Tignar-boði vandi var að
vilja níta;
ferðast átti' eg lands í leitir,
leingi burt um ymsar sveitir.

156. Þá var einginn, þröstum
heys er þjóna knætti;
einginn skilja málið mátti,
nè matbúa, hvað skamtast átti.

157. Er því ráðin utanferð í
Örfars höfnum,
feingir nests og farar-efna
fluttir útá reiði stefna.

158. Líkr sækir líkan heim,
það lukkan skapar;
fylkis Dana frægstu gripir,
fálkar vóru' á þessu skipi.

159. Eðla fuglum fóstri þeirra
fylgði' að hafi;
stýrimaðr góðum gjöfum
gæddr var að hinnstu töfum.

1) þ. e. í steinhúsinu. 2) meðan þeir vóru að fljúga.

160. Vindr skildi voð belgjandi
vina milli;
dyggir fuglar drjúpðu kolli,
dapran minni þetta volli.
161. Stúrinn rèri' eg flaustri
frá um flæðar ólgu,
sjónar-ljósin lèt eg fylgja
ljúfum, þartil huldi bylgja.
162. Ægir! sagði' eg, ekki
máttu ítrum tapa,
elligar sjónum á þá steypa,
allra-sýzt þó skipið gleipa.
163. Svaraði Hler og svölum
hneigði svarðar túnum:
það mun verða' að þínum bónum,
þeir skulu'ekki drukkna' í sjónum.
164. Líka vil eg lita' á það að
lanar egðir
Islands hafið einginn skyggði,
*Ingólfr* síðan landið byggði.
165. En fyrst að þessir fundu
mig og fóstri þeirra
ljóða nam á lægis harra,
líka deyfi' eg Ægis svarra.
166. Enn eg þakkar ála gram
í ára bugti,
skauta síðan gagl með gjögti
gjalfr-rakt að eynni flögti.
167. Tíðindi spyrjast tóku breitt
um tilburð þennan;
virtist býsn í bygðum manna
burtu-sigling titlinganna.
168. Spyr það eins hin spaka
þjóð í spörra-veldi,
söknuðr þókti þeys í tjaldi,
þeim kom núna litt að haldi
169. Mögnuð von, um mikinn
plóg i manna-heimum,
þessa lands er túlki' í tómi
tamdir fyrir þeirra gómi.
170. Þiðrar mundu, þurra bands
i þekktu máli,
hjá yfirmönnum friðinn fala
og fagrliga við þá tala.
171. Fá þá til að leiða' í lög
með letr-orðum:
vetrargrið að hafa' í hörðu
og hjálpa sèr í stabba görðum.
172. En það *prójekt* orðið er
að einum vindi,
ef bolla lagnað lystir enda,
ljóna, hér þeim nýa' að senda.
173. Aptr kominn hingað heim
eg hýrra sakna,
steinar sýndust veggja vikna,
verða dymmt og loptið þykkna.
174. Allt var kyrrt og eydiligt
og eingir fegnir,
húsa skrúðið horfið, þagnað;
heyrði' eg ei til nefja sagnar.
175. Hvar eru frenju fóðra lær,
sem frægstar þóttu,
í heingi-slotum hljóðum breyttu,
húsið mitt svo gjörla skreyttu?
176. Að ekkèrt hús um Ísaland
þann átti glampa;
svört er á mèr hrygðar hempa,
hugrinn minn er lítil kempa.
177. Hvar eru fuglar? hátt eg
spyr með hvarma bólgu
í ólgu greinir grjótið tálgað;
gaman er ei, að það er málgað.
178. Svo er orðin sorgin stór,
að svara veggir;
nú eru mínir hafs í hreggi,
hætt er við þeim nærri leggi.
179. Nauða draumar náðum
svipta nátta tiðir,
svefna milli' eg sit óglaðr,
sem ný-orðinn ekkjumaðr.
180. Hana þá! mèr hjálpar
ekki hrygð og leiði;
eg skal fara' að renna' og ríða,
reka burtu sorg og kvíða.
*VIII. Þeir tveir titlingar sigla útí lönd og koma fram í höll Friðreks konúngs, hvar þeir lifðu til elli í mesta yfirlæti.*
181. Nú er komið veðrið vært
og varmt á brána;
frètt hefi' eg hve dýrum dúna
drjóna rèttar geingi núna.
182. Fimtán hundruð fimtíu'
og sex þeir fórn' af landi,
tilbót ef vèr tuga sendum
tuttugu, þá stenzt á endum.
183. Tókst þeim reisan tákna
vel, sem til er stofnað,
komu svo til Kaupmannahafnar,
kátir geingu' af ormi stafna.
184. Sóktir vóru sævar til og
síðan dregnir
af gulltoppum í gylltum vagni,
gleðina trúi' eg þetta magni.

185. Komu þeir uppí kóngsins
höll með kurt og blóma;
sofa þar af sèr sjóar vominn;
sagt er hyrð, að þar sè komin
186. Nokkur frábær fugla-hjón
af fræðar bandi,
norðast fædd á norðrlöndum,
nett af manna tamin höndum.
187. Fylgði brèf um fæðslu
þeirra fyrirskrifað,
eins af siðum lyst og lifi
og lækníngum í sótta kífi.
188. Lagt er til í letra söfn-
um lærðu Svía,
að hvörr-einn þeirra sögu sjái,
sem og máluð líki fái.
189. Þetta flaug um borg og
bý því hragnar koma,
aðalmenn og frúr og feimur;
fögnuðu' allir gestum tveimr.
190. Velkomnir þeir segja sèð
til sala vorra!
bezt það sæmir hánum harra,
hann svo njóti fugla rarra.
191. Þá skal greina gleði' og
sæmd, er gestir njóta:
ár og sið þá jöfr mætr
aðal-knapa vakta lætr.
192. Heingi-slot af heben-trè
við Hýmis spjalli,
krása-borð með krystalls fulli,
kafið allt í rauða-gulli.
193. Rètta mergð ei reiknast
kann: af Róa-bóli[1]
fært er vatn um fjórðu míln
forsiglað með vagna skýlu.
194. Sældar-eya fugla feingu
fèlag nettir,
turtura hnefar sátu sáttir
saman við þá daga' og nættir.
195. Því er ekki vegs um vant
í vísa túnum;
fleira' að tína' af titlíngunum
til þess efnis varla munum,
196. Utan það, að of-sælan þeim
ístru getr
hamps af fræi, svo þeir sátu
og solfáerað[2] ekki gátu.
197. Hljóðfærin þeir höfðu nóg,
sem heyra vildu,
lifðu svo við lystugt eldi
lánga hríð í Danaveldi.

*IX. Niðrlag rímunnar, um það, hvað í þessu efni sè alvarligt og til lærdóms og nytsemdar hafandi.*

198. Loksins bið eg lesarann
að líta' á kvæði,
þótt eg gjöri' að gamans óði,
gagnligt eitthvað finnst í ljóði,
199. Orsökin var, sem þú sèr,
að sýna' og mæra
nætrgala göfga hlýra,
gjörði lystin efni stýra.
200. Fyrst þeir lendtu' í Lank-
ar-ey, sem litli krummi,
og mèr tókst þeim stig að stemma,
stælta mátti' ei dauðinn hremma.
201. Æfintýrs þeim auðið varð
og ymsra þreka;
fram yfir aðra fugla spaka
fyrst má þá til dæmis taka.
202. Alvarligt í bragnum býr,
sem bót er gumna;
fullvel má því samausafna,
sèr með hinu líka gamna.
203. Skapara litum forsjá fyrst,
er fæðir spörra
snauða' og veika' á snjóa skara.
Þar snarpir menn til heljar fara.
204. Spörrar finna fræa gagn
í freku moði,
þó landar vorir ei því eyði
og allfærstir til nytja leiði.
205. Bætir sáðr brostið gras sá
blóma kjarni,
en oss, stórra stykkja gjörnum,
stór er skömm að verða' að börnum.
206. Náttúran er nokkursverð
og næmið þeirra,
að þær skepnur skuli þó bera
skyn, sem þykja minstar vera.
207. Þær að hafi minni, mál
og mæta saunga
hvörjir veki vif og dreingi
og vellyst inní hjartað þreyngi.
208. Þetta seinast gott er gagn
með greinum mörgum,
eyðir leiða, eymd og sorgum,
alkunnugt í frægstu borgum.
209. Spakir forðum merkis-
menn það mönnum rèðu,

1) Hróarskeldu (*Roskilde*). 2) súngið nótna-skil.

hvörja djúpr harmr lúði,
ad halda slikar fugla-búðir.
210. Spörra líf er lystugt allt
og lètt í sinni,
tefr opt með umhyggjunni
á að liggja súta grunni.
211, Fóstr-ást, sem flestir
menn við fugla leggja,
verkar, að þeir verða' að hyggja
vèlum af og með þeim byggja.
212. Titlinganna veiklig vera'
og vísan fína
nákvæmd gjörir víst að vana,
við er gætni bundin hana.
113. Er því gott fyrir únga
menn, sem inni starfa,
bækr við, eða þrátt óþörfum
þjást af leyndum hugar-störfum,
214. Sambúð litlu fugla' að fá
og frygðar þokka;
svarta-galls það svæfir ekka,
svahna-girnð og lyst að drekka.
215. Priðja nytin það er enn,
að þýðast frægðir
hæverskuna' og handa-brögðin
hög og nett yfir þussa' og flögðin.
216. Kóngar frægir kyrra námu
kænskuliga
skógar-fugla' og haukum haga;
heldst það enn um þessa daga.
217. Ungir herrar, aðal-sveinar, afbragðs meyar
einatt þannig undirbúast
öðru meiru við að snúast.
218. Grimmr hugi gæfist við
og geðið örva,
stirðleiki til hægða hverfr,
hrufur hurtu lempni sverfr.
219. Betra vildis því er þjóð í
þessu landi
skemtan slíka' að hafa' í höndum,
enn heya tíð í lasta böndum.
220. *Jón* postuli, Kristi kær,
oss kendi sama,
og með sínu sýndi dæmi,
svoddan yðn að haldi kæmi.
221. En þótt oss sýnist þurfa
stund til þess að hafa,
leingri' er bið í legu-kofum,
og leiðum verða' að drykkju-vofum.
222. Allan mann og æfina
hans sú yðja svelgir,
kvennmannliga kroppnum sálgar
og kyrkir önd í likams gálga.
223. Vinnumenn, sem við eru'
úti', á virkum tímum
hafa nóg fyrir hendr framan,
hlýðir þeim ei fugla gaman.
224 Heldr þeim, sem hermt var
um og hryggum mönnum;
slíkt eg fugla-meðal meina
miklu betra' enn náttúru steina.
225. Viturt er að villa sig frá
villu synda
í vellyst, sem ei sálum grandar,
en sjálfr guð oss fèkk til handa.
126. Það eru fuglar, einsog annað af hans gáfum,
sem vèr undir höndum höfum;
hrósa ber oss slíkum gjöfum.
227. Yndi það, sem oss hann
lèr og ekki skaðar,
reiknast má hjá mat og auði
meiri hluti' af vorn brauði.
228. Til eg eigna tölur þessar
titlinganna
ekkjum fyrst og ekkju-mönnum,
ókvæntum og liðugum svönnum.
229. Síðan öllum öðrum þeim,
sem efnið hlýðir,
óska èg þeir gángi glaðir,
góðum dygðum innlifaðir.
230. O, þú fagra fugla-kyn,
sem friðir halla,
landið sætum saungum fyllir,
sólar skin og lognið hyllir!
231. Lifðu bæði leingi' og vel
hjá löndum mínum,
fáðu gunst hjá körlum, konum,
kóngum einsog drottníngunum.
232. Avalt tímgist ykkar hjón
með ótal börnum;
fuglakónga', er kallast ernir,
kúgi þvílík óska-berni.
233. Ungum veðra leggi lið,
svo lömbin fjölgi;
sjálfir forðist friðar-helgir
fálka bæði' og hauka svelgi.
234. Krása hvörgi verði vant
um vetrar-ríki,
vermi þá í frosti' og fjúki
fullsælan í þeirra búki!

# Hrafna-hróðr,

*eðr erfis-drápa eptir Litla-krumma, sem var hrafn, á vöxt við dúfu, er fannst í Viðey og dó þar veturinn fyrir jól* 1753.

A mörgu spakir markið henda;
mun það sama hèrna lenda,
hann Litli-krummi lýsir því:
múrhús fyrstr Frónskra gisti,
fyrsta sál þar lífið misti
snjóa-fróns í fögrum bý.

2. Uti vildi beinin bera,
hrátt hann þóttist feigr vera,
þegar hann kom í þetta hlað;
norna sköp að áhrins-orðum
urðu, sem þær mæltu forðum
við hans tæpa vöggu-stað.

3. Hans er ætt með hærstum blóma,
helguð forðum sjálfum Oma,
lofuð yfir allan heim.
Rómverjar í glaumi geira,
göfugt liðið annað fleira
frábært trúði fuglum þeim.

4. Því þeir kunna frètt að færa,
fyrir-spá og -hyggju læra,
dráps og víga vita skamt,
halda bæn í klerka klæðum,
þó kunni þeir ei neitt í fræðum,
biblían það sannar samt.

5. Einnig vita þeir að þinga,
þrávalt hegna misgjörninga,
bjargræðið þá brestr seint;
skynja sveitar hússgángs hagi,
hèrmeð setja niðr á bæi;
finna kunna' og fela beint.

6. Og því skyldi' eg orðin spara
um þann helga fugla-skara?
mun ei flestum minnis-stætt,
að Island hefði einginn fundið,
ef þeir hefðu' ei kannað sundið
og að leiðum öllum gætt?

7. Heldurðu' ekki' hann *Hrafna-Flóki*
hefði sveimað einn á króki,
viltr útum viðan sjá,
en aldrei fundið höfn nè hæli?
hann komst af og það, eg mæli,
þessum fuglum þakka má.

8. Svo er, eptir ætt og standi,
aðalborin hèr á landi
nálæg önduð krumma-kind;
hans ei mátti hróðri leyna,
hèraðauki vil eg greina
litið um hans litlu mynd.

9. Líkr er, sem ljóst eg þekkti
Litli-krummi sínu slekti:
fjaðra lit og lima-hátt
ekki bar hann öðrum fjærri,
en hann var þó miklu smærri;
um nettleik hans eg nefni fátt.

10. Því hann kunni klènt að dansa,
kippa brókum, fljótt að ansa
með latínu máli bezt[1];
kjöt og mör hann murði saman,
mikið vel, svo það var gaman,
bliðum fugli borðaðist.

11. Astriða var á honum Krúnki,
að hann skyldi verða' að múnki,
tilað andast annars dags.
Viðey dauða vèlið kyssir,
Viðey grætr þennan missir;
allir honum unna brags.

12. Svarti fuglinn fiðr-búni
fannst um daginn úti túni,
flogið gat þá litt á lopt;
sótt og kuldi sóktu bæði,
svo hann tók ei drykk nè fæði;
sama verðr öðrum opt,

13. Miskunsamar hitti hendr,
hann var eingum manni kendr,
báru þeir hann auman inn;
náúngans þá neytti bliðu,
naut hann húss og varma þíðu;
svoddan dæmi fá eg finn.

14. Allt hans vöxtinn undrast meingi,
um það var að tala leingi,
hvort hann væri kráku kyns,
eða líkr öðrum fugli;

1) hrafna krúnk líkist mjög latínska orðinu: *cras.*

útúr slíku gátu-rugli
smærðin villti vaxtarins.
15. Fullvaxinn á vexti dúfu
virtist oss í skapi ljúfu,
hrafns ei geð í ljósi lèt;
samt í öllu öðru hrafni
álikr og þeirra jafni;
rètt-kallaðr raritet.
16. Hans virðingar höldar auka
hugðu strax, á mávi lauka
koma' honum úti Kaupinhafn;
hann svo, alinn æru meðr,
yrði' af stórum herrum sèðr,
feingi hrós og frægðar-nafn.
17. Ogæfan því öllu spillti,
um þeim lukku-stofni billti
niðr í dauðans heiptar haf;
þegar hann lifði bezt í blóma,
bæði drakk og át með sóma,
daudinn rèð hann dögum af.
18. Víst er lukku trautt að treysta;
tælir hún þá, sem hennar freista,
stopult hvarflar yzt og innst;
þá, er flest í lyndi leikr,
liggr margr sár og bleikr,
veltr þegar varir minst.
19. Þótt hún hafi' á þessum vetri
þjáðu banað krumma-tetri,
sízt kemr allt á sama dag;
fyrst hann komst í geingi glaðr,
gat hún ei sèð hann yrði maðr,
Tyrkjans heldr hafði lag.
20. Hvað, ef einhvörs auðnu kraptr
á hana gæti leikið aptr,
og hans krumma rífkað ráð?
einkum með því móti' hann feingi
metorð eptir dauðan leingi
af fróðum mönnum tind og tjáð.
21. Færum vigðan fugl úr sloppi,
flá skal hann af daudum kroppi
varligast sem verða kann:
fiðrið ei, nè fjaðrir haggist,
fuglsins hamr allr braggist;
látum husla[1] líkamann.
22. Svörtu bræðr, sviptir vafa,
sæmiliga líkið grafa
matlystugir, í sjálfum sèr;
eingan legstað eiga fegri,
eða' í neinu tiguglígri;
líksaungrinn alteins er.
23. Nú er hann orðinn frár og fleygr,
firrtr pín og orku-seigr,
heljar ekki finnr far;
hamrinn skal til Hafnar sigla,
hamingjan láti' hann ekki mygla,
elligar fella fjaðrirnar.
24. Kemst hann svo fyrir kóng og herra,
kann hans vegr ekki' að þverra,
út-kvisaðr lángt um lönd;
England, Frakkland, Austr-ríki
ekki segja finnst hans líki,
meðan hrafnar hafa önd.
25. Hvörr sem fríðan fuglinn plokkar,
fyrirbænum mætir okkar;
rændr kviku fata fè
bið eg loksins Litli-krummi
leingi vel í færu dummi
og Valhallar hani sè!

# Ægis-drekka
## hin nýa.

***Um þá mikiligu Vatnsfjarðar veizlu 1766, hvar Ægir, Rán og þeirra 9 dætr sátu að heimboði.***

Vötnin og árnar vaxa fljótt og viðr sjór;
þessi fjörður er þeigi mjór.
2. Heyrðu mig, Ægir! herra vatns og hafsins þar,
skamtari flóðs og fjörunnar!

1) sjá bls. 12. nót. 7.

3. Því geingr áin[1] grimmliga'
uppá græna jörð?
því fjarar ekki þennan fjörð?
4. Lèttu' undir baggann, láttu
strauminn lækka þá,
svo verði fær hún Vatnsdals-á.
5. Vatnsfjörð þurkaðu, fyrst að
tíðin fer í hönd,
svo bein verði leið á Barðaströnd.
6. Járnsmiðju *Gests*[2] og jötna-
bygða èg finn stig;
en efað tröllin taka mig[3].
7. Einhvörr hagmæltr yrkja
kann um ómátt þinn;
er það ei minkun? Ægir minn!
8. Nei! hèr á annað höfðing-
ligra' að hefja spil:
vèr bjóðum yðr veizlu til.
9. Við sjáar hamra sett er borð,
það sèrðu nú;
dúkar á steina breiddir brú.
10. Lands er af gæðum, líka
sjáar, lagt á borð,
þarf ei að hafa þarum orð.
11. Hèr er smjör, ostr, hèr er
brauð og hángið kjet
og fleiri rètta raritet.
12. Hèr er nýtt slátr, harðr
fiskr, hákallinn,
og eptir-rèttir, Ægir minn!
13. Hvannirnar, skaltu hèrna
fá, sem höfum vèr;
fá skaltu líka fernslags ber.
14. Sjófángið þóað sízt þèr kynni
sýnast hnoss,
kokkurinn bætir allt hjá oss.
15. Fullt er af rèttum fjöru-
borð, það fáheyrt er;
ölfaungin sjálfir færið þèr.
16. Utúr því verðr Ægis-drekka'
í annað sinn,
ekki' hef eg gleymt því Ægir minn!
17. Heimboð þá gjörðir hefðar-
ligt, það hefi' eg frètt;
Æsir þar margan átu rètt.
18. Þú kunnir að brugga krydd-
að öl í kerin stór;
soðníngar pottinn sókti Þór.
19. Víst skal ei Loki veizlu-
spjöllin vinna hèr,
einsog hann gjörði þá hjá þèr.
20. En nú er fallið niða-myrkr
nætr á;
kann vera, tröllin komi þá.
21. Vorðið er dymmt í veizlu-
salnum við þitt full,
lánaðu' okkr þitt lýsi-gull.
22. Verið nú, Ægir! velkomnir
í veizlu sið,
er hellis-skútinn öndvegið.
23. Velkomin Ægis vertu frú!
til veizlunnar,
Madama Rán eg meina þar.
24. Næst ykkar dætr níu jom-
frúr nefni' og bið:
velkomnar allar veri þið!
25. Stendr nú veizlan stór og
fræg í Steinavík,
á Vestfjörðum hefir ei verið slík.
26. Opt er í fyrstu frægast,
þetta finn eg enn,
hèr vill ei batna bragurinn.
27. Vaxandi mönnum vatnið
eykr vonda sút;
fjörðurinn aldrei fellr út.
28. Myrkrið er svart, en mèr
er ei að matast sýnt,
lýsi-gull Ægis laungu týnt.
29. Hjá Ægis dætrum yndi' og
hita einginn fær:
afgamlar hrotur eru þær.
30. Ægis-drekkan er eins í þess-
um eyði-stað,
því sullið hans er sjó-blandað.
31. Við það er úti veizlan, öll
það viti þjóð,
samt var hún af oss gefin góð.
32. Því fer þú, Ægir! ekki' í-
burt og út fyrir skèr,
fyrst búið er að beina þèr?

1) Vatnsfjarðar-á, að hvörri ferðamenn (meðal hvörra skáldið) komu og ætluðu að hafa fjöru yfir Vatnsfjarðar-vaðal, en hún var ei komin og þartil var áin ófær. 2) Smiðja kallast enn nes það er þar geingr úti sjóinn og sèzt enn smiðju-tóptin í skóginum og steinn í, með áklappaðri steðja-þrönni; hèr hefir án efa verið Rauða-smiðja, eignuð *Gesti Oddleifssyni*. 3) í skóginum, hvar þeir biðu fjörunnar, hefir kallað verið reymt.

33. Snikir þú enn og snapar,
þetta snöggt eg finn;
hvar er nú höfðingskapr þinn?
34. Veit eg, þèr leiðist varla
hèr að vera' í nótt;
uppi skóg vil eg skunda fljótt.
35. Þèr er ei vorkun, vina þín
er vís hjá þèr;
efað svo væri mín hjá mèr,
36. Skylda èg hvorki skeyta'
um á, nè skerja-fjörð,
sofa munda' èg sætt á jörð.
37. Hèr er nú ekki' að heilsa
því, nè hafa' um margt;
legg eg mig niðr á limið hart.
38. Skýin mig aumka' og skritiliga skæla sig,
gráta þaug ofanyfir mig.
39. Í skógar-runnum skvaldrar
Kári' og skekr sig,
með saungli vill hann svæfa mig.
40. Þèr skógar-nornir! þaggið
tröllin þussalig,
vil eg ekki þau veki mig.

---

# Skjaldmeyar-kvædi,

*eðr lof-kvæði um Hornstrandir, í hvörju upp eru talin landgæði og hlunnindi þessa landsins norðlægasta útkjálka.*

Viðkvæðið:
*Góðr þykir grautr mjels*[1],
*girnist eg hann laungum,*
*ef mèr skemtir skjaldmeyin á*
*Draungum.*

Kosts og gæða kennir þar
kólgu rekstr hranna;
kjötið feitt og kálið var
kæti ferðamanna,
en jómfrúin af öðru bar,
öllum sýndi gæzku þels;
*góðr þykir grautr mjels;*
ljóss hún getr gefið skar,
girnist eg það laungum,
*ef mèr skemtir skjaldmeyin á*
*Draungum.*
2. Brenni-viðar er ei án
í þeim góðu löndum;
einsog mý við mykju-skán
morkefli' eru' á Ströndum;
vetrar hyrði' eg litt um lán,
þó leggi' hann að fyrir Mikaels;
*g. þ. g. m.;*
eldurinn, þó rjúki Rán,
rýkr eptir faunguin; *ef m. s. s. á D.*
3. Þar eru berin blá og svört,
bezta hvönn í heimi,
jurtin grá[2], og grösin björt
galdrs ráða sveimi;
allt er sem í sögu gjört,
særinn færir upp til mels
*g. þ. g. m.*
niðriks-stein og agat ört,
þeir aptra drauga gaungum;
*ef m. s. s. á D.*
4. Margt er í þræsum þorngrund mjó!
þarum ekki fleira;
vísir menn þar verka nóg,
þó vilji færstir heyra;
einginn gleipir allt við sjó,
þó ætti hann vit og maga Bels;
*g. þ. g. m.*
eg vil setjast hèr í hró
og hlýða fræða saungum;
*ef m. s. s. á D.*
5. Á Ströndum eru fèn svo feit,
færstir siður eta
þeir sem eru' úr annari sveit,
innlendir það geta;
mjólkin, þóað hún sè heit,
hnígr trautt við bólið þèls;
*g. þ. g. m.*
skeifan flaut um rjóma-reit,
mig ránkar til þess laungum;
*ef m. s. s. á D.*
6. Því er ei kin, að þar sè gott
og þægiligt að búa;
þóað kæli veðrið vott,

1) grautr er hið bezta fágæti á Hornströndum, hvar skjaldan er farið í kaupstað. 2) Grá-jurt, eðr Fjanda-fæla brúkast til galdra.

viðurinn kann að hlúa;
einginn haldi spaug nè spott,
þó spyrjist þaðan koma èls;
*g. þ. g. m.*
klæðin aldrei þurfa þvott,
þornar hár á vaungum;
*cf m. s. s. á D.*

7. Hafið auðinn sýnir sinn,
sem eg virði' ei minna:
hvað er betra' enn hákallinn
hèr í landi' að finna?
fátt eg tala' um fiskinn hinn
flyðru, þorsk og alla sels;
*g. þ. g. m.*
af honum heingjast óskröpin
uppí hjall á staungum;
*cf m. s. s. á D.*

8. Strandir margan hafa hver,
haf- og jökul-ísa,
þeir gefa pètr-salt af sèr,
samt um nætr lýsa;
í stuttu máli birta ber
bliðu-gleði sjóna hvels, *g. þ. g. m.*
paradís að íslenzk er
útá þessum taungum;
*cf m. s. s. á D.*

9. Strandir kom eg eittsinn á,
auðar leit og tómar;
seint mèr vinnst að segja frá
sögðum jarðar blóma,
en mig gjörir það að þjá,
þær eru sagðar bæli dèls;
*g. þ. g. m.*
samt eg vil þeim hýrast hjá,
hrinda stúr og aungum,
*cf m. s. s. á D.*

10. Æði veðrs olli grett,
að eg kvað um þetta;
tvisvar lýsu þakið þètt,
þá rèð sundr detta,
veitu spjót í sárin sett,
síðan tvö, þá mæðin hels,
*g. þ. g. m.*
andar handar vana vett
við er reiða þraungum;
*cf m. s. s. á D.*

# Lysthús-kvædi.

Viðkæðið:
*Fagurt galaði fuglinn sá*
*forðum-tíð í lundi;*
*listamaðrinn leingi þarvið undi.*

Undir bláum sólar sali,
Sauðlauks- uppí lygnum -dali
fólkið hafði' af hana gali
hvörs-dags skemtun bænum á,
*fagurt galaði fuglinn sá;*
og af fleiri fugla hjali
frygð um sumar-stundir;
*listamaðrinn leingi þarvið undi,*

2. Laufa byggja skyldi skála,
skemtiliga sniðka' og mála,
í lystigarði ljúfra kála,
lítil skrikja var þar hjá, *f. g. f. sá;*
týrar þá við timbri rjála,
á tóla smíða fundi; *l. l. þ. u.*

3. Elli-bliðr börnum sínum
byggði laup[1] af hagleik fínum,
einsog dýsar manni[2] mínum;
margr naut þess útifrá, *f. g. f. sá,*
er stóð á þaki stólpa frýnn,
steinninn kvað þar undir; *l. l. þ. u.*

4. Vallar þáng af völdum manna
vaxa tók um lysti-ranna
aldin-toppa' og tamdra hvanna;
titling margan beið þar hjá,
*f. g. f. sá;*
þetta dælir Sauðlauks sanna,
svipr vængja stundi; *l. l. þ. u.*

5. Mestr var af miklu blómi
mustarðr að allra dómi:
Kristr, Islands er það sómi,
eptirlíking til hans brá;
*f. g. f. sá;*
þessi friðr lundar ljómi
lángar sást um grundir; *l. l. þ. u.*

6. Gull-ligr runnr húsið huldi,
hèrmeð sína gesti duldi;
af blakti laufa bliðr kuldi
blossa sunnu mýkti þá, *f. g. f. sá;*
blærinn kvæða bassa þuldi,

1) húsgrind. 2) mági.

blaða milli drundi; *l. l. þ. u.*
7. Sólin kom í krabba-merki,
klædd var jörðin grænum serki,
síneps dauninn dygða sterki
dugði sætum þroska ná; *f. g. f. sá*;
næst var þar af nytja verki
njóta smiðr mundi; *l. l. þ. u.*
8. Búskr jurta' úr borði miðju
bar ávöxt, fyrir Gyrgis[1] yðju;
bragnar hugðu blómstra-gyðju;
bygggja slíka lysti-rá; *f. g. f. sá*.
Þulr hárr úr hrumleiks viðjum
hingað feta mundi; *l. l. þ. u.*
9. Vín á milli mustarðs stofna
manninn hressti krapta-dofna;
margr saung við sólar ofna
og sendi tóninn greinum frá;
*f. g. f. sá*;
lyst var eingin segg að sofna,
sorgin burtu hrundi; *l. l. þ. u.*
10. Hunángs blóm úr öllum áttum
ylmi sætum lífga máttu;
saungpípan í grasa gáttum
gjörði tið á enda kljá; *f. g. f. sá*;
skjótt var liðið lángt af háttum
lagst var allt í blundi; *l. l. þ. u.*
11. Ætla' eg ráð sig inn að pakka,
aldinn tèr með sinnið frakka;
vængja-dýr eg heyri' ei hlakka,
hljóminn þann eg trega má;
*f. g. f. sá*;
af mer hratt eg elli þakka
í svo stökum lundi; *l. l. þ. u.*
12. Böðvar-eysu bur skal nefna[2]
bót við hleif úr fræði svefna
í lystigarði gat að efna
grindar-hús og eyrum sjá,
*að fagurt galaði fuglinn sá.*
Eika kví nam Kila stefna
keipli' af huga-sundi;
*listamaðrinn leingi þarvið undi.*

# Búrdrífu-vísur.

*Um þau undur, er almúginn forðum trúði að ske mundi á ýmsum helgi-nóttum, helzt nýárs-nótt; og einkum um þá svonefndu búrdrífu, hvílik verið hafi, eptir fornri kellínga-trú.*

Búrdrífan á nýárs nótt
nýúng þótti lýði;
konurnar um það hafa hljótt,
hvað sú glósa þýði.
2. Nú veit eg að nætr þrjár
nefnast eptir vonum
helgar vera hvört eitt ár,
helzt hjá Ísa konum
3. Undantekið frá þeim fer
fjórða svöfna-gaman:
jólanótt er haldin hèr
helg af öllum saman.
4. Jóhanns-vaka grösin gefr
grösum öðrum betri,
þrettánda nótt þarnæst hefir
þrúgu lög[3] á vetri.
5. En þó baulur taki tal
og trylli menn í landi,
held eg lítið happa val
hèðan nokkrum standi.
6. Móðir auðs er átta-dag
álfum merki-gríma,
fá þeir bóla-festu plag
og flytja þennan tíma.
7. Kross ef götum girnast á
garpar mennskir vaka,
ljúflíngarnir þángað þá
þíngin með sèr taka.
8. Setja gull hjá seggja hlið,
sæta rètti' og feita;
þá skal boðnu þegja við,
þá skal floti neita.

1) eða Georgs (o: jarðyrkjumanns). 2) hèr er nafn og föðurnafn smiðsins, og svo þess, er kvæðið gjörði. 3) allt vatn skyldi að víni verða eitt augnablik á 13du nótt jóla.

9. Eptir hygg eg allt hjá þeim
álfa góðið vera;
þegar dagar, dreingir heim
drjúgan afla bera.
10. Húsfreyurnar hèrámót
hlutu veiting eina,
hvört hún er af álfa rót,
ekki kann eg greina.
11. Hitt er mælt, þó hrein og svöl
himins ásýnd væri,
á búr-gólfunum fèlli föl,
sem fyrrgreind njóla bæri.
12. Það var mjúkt og það var sætt,
það var hvítt að liti;
það var satt, að það var ætt,
þess ef meingið nyti.
13. En þann matar-mjöllu dún
misti fjöldi vífa;
nýárs-dags þá birti brún,
burt var horfin drifa.
14. Aptast nætr augnablik
elið búrin hýsa;
vandhæfa því volli strik,
virðar máttu' ei lýsa.
15. Ráðið feingu fljóðin hitt
fleygri mjöll að tálmi:
grýtu lètu' á gólfið mitt
gjörða' af viga-málmi.
16. Sigju-grindar sagt er oss
sætur tvinni spela
lagt hafi' yfir ker í kross,
kom svo búra hèla.
17. Ut hún gat ei gotið sèr
gegnum opið stóra;
einsog rindill út ei fer
um krossbundinn ljóra.
18. Máske nokkrum saga sönn
sýnist ekki' að trúa,
af því leingr fæðu-fönn
finna' ei þær, sem búa.
19. Nýársdaginn næsta' er var
neinn ei til þess þeinkti.
Eik-garðs-dýs til ármatar
oss búrdrifu skeinkti.
20. Vetrliða vina þekk,
vöknuð upp af dúri,
mjaðar-húss er heiti fèkk,
happið tók í búri.
21. Eingir þóttust önnr slík
æti borðað hafa;
virtist höldum hèlan lík
hunángs daggar safa.
22. Einsog sikrað drafla dust
dýrum kryddum blandið;
svoddan hefir hvörgi fluzt
híngað uppá landið.
23. Þiggðu systir! þökk af mèr
þína fyrir rètti,
búrdrifuna' og allt það er
ætt á borðið settir.
24. Matar-heillin að þèr öll
og önnur gæfa streymi;
aldrei þverri þessi mjöll
í þínum unar-heimi.
25. Bænda seðji mjöllin mjúk
maga lystar-ólma;
þartil allar fái fjúk[1]
freyur Garðarshólma!

---

# Rata-ljóð,

*eðr samlíking ámilli nafarsins Rata, með hvörjum Oðin boraði gat á Hvítbjörg og þess stóra jarð-nafars, er flutt var til Islands* 1755, *og borað með honum berg, undir hvernum í Laugarnesi suðr, í* 2 *daga til* 7 *álna dýptar og síðan viðhætt.*

---

Jeg af stærstu jötna-tólum
Jólners kaupið fiflanar
horskum skeinki hringa-sólum;
hvað, þær spyrja, kaupið var?
bezt mèr þætti brennuvín,
þó brúki' ei Oðin það til sín;

1) þennan snjó, búrdrifuna.

mjöður góðr þykir þöllum,
þennan býð eg stúlkum öllum.
2. Er hann frjáls, eða' er hann stolinn?
einhvörr kynni' að spyrja þess;
Oðins nafar hittir holin,
hèraf smíða skáldin vers;
nipt hann glapti nauða frí,
nóg hafði' Oðin fyrir því;
Rati sýndi veginn vissa,
varð því Gunnlöð píku' að missa.
3. En hún vildi' og varð að kaupa,
í verðlaun honum mjöðinn ber;
þarf nú ekki' af því að raupa,
þegna lukkan snúin er;
enda Gunnlöð, Oðin, Freyr,
einnig Rati sjást ei meir;
annar kynnist aldar-háttur,
eyðist greiði, lyst og máttur.
4. Eg vil segja: þóað þegnum
þetta bætist nafar-korn,
sem Hvitbjörg ratað gæti' ígegnum
og grafist inní baðstofu horn,
eingum sýndist á því skikk,
allir hèldu vondan grikk;
fljóðin mundu banna' og blóta,
bregða við til handa' og fóta.
5. Mèr hafa borizt miklar frèttir,
málið ekki leingja skal;
Island við það brýrnar brettir,
bezt eg heyri nafra-val
híngað komið vera' í vor,
veit eg aldrei slikan bor
hafi Danmörk haft að geyma,
hvört mun skáldin um það dreyma?
6. Niutiu' og nokkra feta
nafarinn stóri sagðr er,
í þrjátiu liðum ljónar geta
legginn skrúfað, eins sem ber,
sundr, stundum saman með
silast hjólum verkfærið;
þrjá við stólpa styðst hann Rati
stendr vindan efst í gati.
7. Smýgr gegnum grjót og kletta,
gánginn einginn tálmar hans:
reyndu kendir þegnar þetta,
það er kunnugt sunnanlands;
undirjarðar uggði lið,
álfa' og dverga hryllti við;
hvera kindur heitt þó blèsi,
holaðist berg í Laugarnesi.
8. Krókr móti kemr bragði,
kreinkist makt og hreysti-par:
Vúlkanus í veginn lagði
vegg fyrir þann, sem klettinn skar;
og af gleri gjörði brú,
gegnumborast aldrei sú;
Hvitbergs sýnist harkan feikna
hjá því varla neitt að reikna.
9. Það var lán fyrir landsins vætti,
lendti Rati hrauns við þak;
sliks í minning álfar ætti,
ærliga með vopnatak,
hátið stóra' að halda, fyrst
hafa þeir ekki rikið misst;
enn, þótt lýðir ei þeim skeyti,
álfar byggja fjöll og leyti.
10. Nu er talið nóg um Rata,
nafnið beri hann einsog hinn;
í Sviþjóð fyrri fiðr gata
fyrst var gjörðr, lika minn;
báðir opna hjörgin hörð,
báðir opna lukta jörð,
báðir Voðins vifni kenna;
vænst er jörðin Odins kvenna.
11. Samt þá skilr aptr annað,
eigandana fyrst tel eg,
amors fyrri kjör rèð kanna,
kemst hinn aldrei sama veg.
Hel, þó kannist bylin breið,
býr hún eingum frygða-seið;
liggr vitis lafði stúrinn,
ljær hinn friðli starfa dúrinn.
12. Ad lyktum við sitt lán að una
lizt mèr gott og þènanligt;
gefni Lofnar frjáls af funa,
fýrar eins, þó gángi tregt,
lukku' og náða njóti þaug;
Niflheims kuldi frygða-spaug
deyfir; lifi ítar allir!
opnist Rata gígar hallir!

# Smá-kvædi.

## I.
## Rata-kveðja
til Síra *G. P.*;
hún fylgði Rata-ljóðum þá þau vóru honum send 1755.

Hann af hálfu minni
hvatvís Rati
heilsar Gunnar gilsi
gatlaus hratar;
ball hann ei við bókfell,
hergvís hýsist
ókyrr etinn blekum,
af mót-trafi[1].
*eðr:*
blökku bleki stokkinn
brèfs und trefjum.

## II.
## Um Haf-frúna
þá við hana skildist þ. 25. Aug. 1761.

Mey-fiskurinn suðr sigli,
sig si parið Gýmir ygli
við þá mey;
Voðins gæða gögl hún fygli,
góðar bænir aldrei mygli;
far vel fley!

## III.
## Vísa til Ægis
gjörð um haustið 1753 í Stykkishólmi, þá verið var að skrifa utanlands-brèf, en kaupfarið var búið. Skiparinn hèt *Skade*.

Ægir bið eg aptri *Skada*,
allr snúist hafs í rót!
Ægir legu gèfi glaða,
garðinn báru setji mót!
Ægir láti ekkèrt mein
ama þeim við festar-stein;
Ægis hindrun þá skal þökkuð,
þegar brèfin eru lökkuð!

En þegar brèfin vóru búin, eptir 3 daga, þá var sömu vísu umsnúið, enda vildi þá svo til, að byrinn kom á.

Ægir bið eg elti *Skaða*,
eptir snúist hafs í rót!
Ægir lukku gefi glaða,
garðinn eingan setji mót!
Ægir láti ekkèrt mein
ama þeim við Höddu vein!
Ægis hindrun þá var þökkuð,
þegar brèfin urðu lökkuð.

## IV.
## Hjalla-villa.
Um sumarið 1752 fóru *E.* (skáldið) og *B.* norðr Kjöl og ætluðu til Skagafjarðar; þeir riðu i illviðri undan lest úr Hvítárhólma og ætluðu, eptir tilsögn, að ná Grettisbæli og biða þar lestar, en villtust austr með Hofsjökli á Eyfyrðinga veg, og komust eptir nokkur dægur ofaní Eyafjörð, og var þá vísan gjörð.

Norðr um eg fór ferð
fjalla-sýn Hjalla
urð til Eyafjarðar,
olli því skollinn;
firrðr matnum, essi, eyrð,
ill þótti villan;
arðigr mèr klár kjörðist
köll búa fyrir öll.

## V.
## Um ferð yfir Hjaltadals-heiði.
Haustið 1752 fylgði maðr úr Hörgárdal þeim *E.* og *B.* yfir heiðina; hann tók úr stóði ljóst hross, með tveim folum, en eptir var grá meri, fylfull og graðr hestr heptr, með 7 öðrum hrossum; fylgði þessi hópr þeim fram

1) pappír.

eptir dalnum, og var talað um að koma svo skrítinni ferð í eina vísu.

Reisug merin leir-ljósa
lýsing ber og forprís við ísinn[1]:
fylgðu tvö folöldin
fyðill styrkr óriðinn hinn þriðji,
eptir var hann í hapti
hjá nýbærri gránu; þrettán
til, þeir er brast böl
bóleið[2] Hjalta róluðu' að Hólum.

## VI.
## Hesta-sæla

eðr samtal tveggja góðhesta, er þeir fundust eptir dauðann í Jóa-dölum, o. s. frv.

1. Hrókr svarti' að foldu fèll,
sem frægr kappi,
burt er hann úr brauta slappi.
2. Stóri Brúnn, sem Starkaðr
forðum, steig af heimi,
fákar ei því göfgir gleymi.
3. Keyptr fèkkst sá fýr, sem
elli fór að leyfa
og við hann læknar vopni hreifa.
4. Söðul-dýrið sendt var burt
úr sorgar standi
og hneggja tók á hesta-landi:
5. Er ei Kragi kominn hèr?
á Kraga leiði
eg leitaði hans og leingi þreyði.
6. Minning sýndi' eg mistum
vin, er minn flóði
dýsin hans í dauða-blóði.
7. Höldar lögðu kropp við
kropp í klaka váðir,
sofa þeir nú saman báðir.
8. En ofr-lèttr andi blóðs og
ígángs vofa
ekki vill þar inni sofa.
9. Dauðra jóa dölum í, þar
dvínar elli,
fundust þeir á fögrum velli.
10. Brúnn og Rauðr rennast
að á rosknum fæti,
hneggjuðu vakrir vina-læti.
11. Höfuð-svíminn horfinn er
og húngrið ríka,
fóta-skjögrið farið líka.
12. Titt hvörr annars tutlar
dátt í tagl og makka,
samleikandi'að síðum blakka.
13. Við fagra læki, grösin græn
og gróðrar blóma
þeir velta sèr í vallar ljóma.
14. Hrókr svarti hóf svo tal í
hesta máli:
hèr er völ á vænu káli.
15. Nú er skipt um skarða gull
í Skævaðs veldi,
hèr er mikið yndis eldi.
16. Nú eru læknuð lemstur öll,
sem leiðr þeimi
kvaldi' oss með í manna heimi.
17. Eignar-drottin elska' eg
minn, sem ætið vildi
tjá mèr vorkun, vægð og mildi.
18. Líka sjúkum leituðu fleiri
liðs og hægðar,
en allar vóru bjargir bægðar.
19. Seinast til þess garpi' hann
greiddi glampa Rínar,
eymdar-stundir stytta mínar.
20. Þann skal eg aldrei fylla
flokk, sem fákar ýðja,
drottnum sínum böls að biðja.
21. Heldr skal eg honum óska'
að heppnist leingi,
beztu' og mestu mara geingi.
22. Merkisdagr er Þorra-þræll
á þessum vetri
og æfidögunum öllum betri.
23. Hátíð er til heilla bezt, eg
hrósa þessu;
eða komstu' ei hèr á Kyndilmessu?
24. Kragi sannar þulu þá, með
þægu bragði;
allt er þetta satt, hann sagði.
25. Herra mínum helzt eg ann
og hvörjum seggja,
sem mèr gjörðu lið að leggja.
26. En happa-snauðar hendr
þær mig hremdu feigan,
gjöldin síðan eptir eiga.
27. Fèlagi góðr! gleymum sút
og grillum öllum,
á þessum bliðu blómstr-völlum.

1) jökulinn á Hjaltadals heiði. 2) heiði.

## VII.

## Heródes-Vísur.

Um hest þann á Englandi er Heródes hèt, og sagt var að hefði verið hjá *Vilhjálmi* Kumbaralands Hertoga, en skrifað var i fréttablöðum 1765, að fyrir hestinn hefðu boðnir verið 1000 gíneiskir gulldalir.

1. Ætið heyrist eitthvað nýtt:
um anda múga,
vættir, fylgjur vofur, drauga
virdar eru' að ljúga' og spauga.
2. En, nú trúir einginn því
sem áðr kendi
*Pýthagóras* prèdikandi
af púka bæði' og eingla standi.
3. Segir hann: að sálir dauðra
seggja liði
í úngbörn, sem eiga' að fæðast;
eingir þurfa slíkt að hræðast.
4. Helga-kviðu forsögn fyrst
oss fór að kenna,
að endrburðr elztu manna
ein sè villa kerlinganna.
5. En mig leiðir lærdóms-þras
í litinn efa;
Asíu klerkar annað skrafa,
ekki þori' eg móti' að hafa.
6. Braminar og Bonsar fyrir
bændum tala,
að sálir hverfi hvildar-stola
í hund og kött, og svín og bola.
7. Eptir dauðann æðstu menn
þó ervitt gángi,
í hestum kónga hlaupa leingi,
hvörs-dagliga komnir að spreingi.
8. Engils-menn í avisunum
ogsvo rita
um aptrgeinginn Edomíta;
upp rèð við það margr líta.
9. Illr kominn Askloh frá nam
áðr forðum
Gyðingalands gramr verða,
og grimmr börnin lífi skerða.
10. Aptrgeinginn grunar oss
þeim grandi kindum
hræðiligr í hrossa standi
Heródes á Kumbaralandi.
11. Flogin er nú fregnin hans
til fjærstu þjóða;
stríðs er hestr, hófar deyða,
höfuð-þing til dýraveiða.
12. Landnáms drusla dagsverk
eitt til dæmis sýnir:
Eiðfaxi með grjóti grana
görpum sjö varð einn að bana.
13. Fyrir þristinn þófa tarf í
þýzku máli
sagt þeir bjóði, sem hann fali,
sextýgi hundruð ríkis-dali.
14. Börnum stendr öllum ógn
af Englands fáki,
Heródes ef hests í líki
hremmir eptir jarðar ríki.

## VIII.

## Um Grátoppa,

er var afbragð annara hesta á Islandi, honum samtíða. (Fyrri vísan er snúin úr mansaung *Hallfröðar Vandræðaskálds* til *Kolfinnu.*)

Þykkir mèr ek þekki
þunnhyldgan mar gunnar,
sem fley brautu fljóti
fler út meðal skerja;
en nær söðlaðan sèr ek
saum[1] í reiðar glaumi,
er sem skrúðbúin skriði
skeið með gullnum reiða.
Upp hljóp ei Grátoppi
enn þótt melar brenni,
elding líkr frjó foldar
fremri góðhestum lemr,
freyðir og öskrar óðr,
er mèl tálma gera;
augnblik ef taum slakar,
ei prófast skil hófa.

## IX.

## Hest-vísa.

(Slèttubönd fjórkveðin al-dýr.)
Jarpr skeiðar fljótr, frár,
finnr reiða-ljónið
snarpr leiðar gjótur, gjár;
glymr breiða frónið.

1) týgjaðan útsaumuðu reiðveri.

## X.

## Meya-dans,

sýnir hvað útheimtist til fullkominna kvennkosta.

Leikr lipr-tá
löguð sveimar
snotur, vitur, vösk;
eykr fip, er á
augun heima
í koti sitr kösk,
hátt litr
höddu-ljóma lina,
sóma sina
blóma blína
bragnar á,
motrs fit er fljót og rösk.
Orðum vert að eyða
er ei mèr í þetta sinn:
(kvenna rart er artist art!)
enna skart ei þarftu margt,
nema þig sjálfa!
ljós álfa
lið-skjálfa
hjóla sól á bóli vil eg beiða:
virtu verkan þinn!
fagr-eygð -fætt -hendt
fleyi' er meyan ólík ei
með rá og reiða:
gulli búnum húnum hún
með haglig segl og mösturin
brunar vön til veiða.
Lag er heygt, hætt, endt.

## XI.

## Um Biðil nokkurn,

sem heila klukkustund stóð á bersvæðis hóli og bað stúlkunnar berhöfðaðr ámóti norðan hörku stormi og fjúki, en kól þó ekki.

Honum þeyta hríðin vann,
hrímið stráði skjanna;
að brúðar heiti bliða mann,
biðillinn má það sanna.

## XII.

## Um *Anonymum*

eða geistligan mann nokkurn, sem vera þóktist bisukps-efni; um hvörn það var í flymti haft, að hann ætti vingott við konu nokkra, en hann var ókvæntr.

Hyllir undir hollan
hallast mitrið valla,
fylling ástar olli
allvæn snót á palli;
spillir að kinka kollum,
kallar og rýgar snjallir;
af gylling gefn er sollin
grallara-börs þeir spjalla.

## XIII.

## Maga-skifti.

Fáfróðr almúgamaðr nokkurr sá (meðal annara útlenzkru orða er hann ekki skildi) þetta orð í Þingbókinni, og fekk af því samvizku, sem kvæðið sýnir, undir eins og það bendir til þess, hvörsu íslenzkan aflagast af framandi glósum (sem á dögum skáldsins mjög tíðkuðust), einkum í opinberum skjölum, dómum og brèfum.

1. Auðnazt hefir yndi mans
innbyggjurum þessa lands;
nú er samt á sælu stans
sízt um þennan tíma;
Venus linar fjalla frost
og friðla kost
freðinn gæðir bríma.

2. Heimskr landi lesa tók
landsins þrykktu rètta-bók,
í henni finnr orðin klók,
einnig Maga-skifti;
af því varð hann amors frí
og uppfrá því
aldrei meir sig gifti.

3. Svoddan er, hann sagði, slæmt;
sè það uppá þingi dæmt,
eða vottað viðrkvæmt
um vífs að skifta maga;
heldr vil eg grúfa grey
og giftast ei
grátinn alla daga.

4. Uppí Borgarfirði fèkk
fljóðið af því vondan smekk:

*Sigríðr* í hofi hèkk[1],
*Hólm-stara'* ei sig gifti
*Illugi* kaupin þoldi þó
og þar að hló;
það vóru maga-skifti.
5. Trúi èg því tranðliga' að
tryggum stúlkum liki það,
úngir þótt í annan' stað
ynntu svuntu-skifti,
og á hvörri friðlar frú,
sem fá þeir nú
forklæðinu lypti.
6. Ur því verðr ekki gott,
ef þær heyra svoddan spott;
með fimtar-dómi færa brott
fáheyrð lögin þessi;
fari þá sem auðið er,
eg ætla mèr
ekki' að fjölga versi.

## XIV.

## Um sèrliga subbu,

sem á sèr nokkrar stall-systur.
Hvörgi sè èg, þó syrgi[2]
slíkrar piku líka:
flagð í fasi' og hegðan,
fingrs hefir soð-sting *björg Inga*;
stykkin í soð sokkin
sóðaligt jóðlaði fljóðið;
rennir hún klúrt af könnum,
karmlöð sleikir um barminn hin
arma.

## XV.

## Um *Hebet-Ullu*,

dóttur Mustapha IIIja, Soldáns í Miklagarði, hvörja hann gifti ársgamla einum jarli sínum, fertugum að aldri.
1. Soldáns dóttir vöggu við
vill ei mannlaus þegja
fertugan tekr vopnavið
vetrgömul meya,
2. Furða þig ei faldagná,
fædd á svölu barði[3];
þær eru skjótar eðlið á
úti Miklagarði.
3. Arin friðlum færa kjöll
frygðar böndin herða;
meydóms er að óttast spjöll,
ef þær gamlar verða.
4. Hótin slík ei hræðumst vèr
hvörs er Lofn í standi,
því Amor siglir uppá sker
útá klaka-landi.
5. Hásetarnir koma' á kjöl,
Kúpídó vill ei meira;
ólgan slær þeim uppí möl
ekkjur brimið heyra.
6. Amor flýgr fljótt sem örn
frá þeim burt af hjarni,
og þar skilr entir hvörn
einn hjá sínu barni.
7. Hingað færðist feikna-skraf
frá tyrknesku sprundi;
Litar ferja lángt um haf
lagði' úr Stólpa-sundi.

## XVI.

## Um föstuhald Tyrkja,

helzt í Miklagarði árið 1759.
1. Tyrkjar eru mestu menn;
minnast skal eg eins í senn:
þrjátíu daga og miklu meir
matarlausir eru þeir.
2. Eptir lögum gæta geðs
gildir þjónar Múhameðs;
fyrir sprundin fasta slíng,
fæðn drykk og tilhneiging.
3. Þarmeð líðr ljúft sem dans
lángafasta Rómadans[4],
húngrið á þeim hvörgi' er sèð;
hvörnig getr þetta skeð?
4. Hann, er sefr, sult ei fann,
sama vitnar náttúran;
þaðan hafa þeir lært það lag,
að lúra sèrhvörn föstudag.
5. Pávar ei með ótal skikk
á þann hittu föstu-grikk;
með dráttum[5] sultinn deyfa má,
dagliga Tyrkjar ekkèrt fá.
6. Hvörra þjóða tímatal
töldum dögum reikna skal;

1) sjá Landnámu. 2) sorgandi eptirleiti. 3) Islandi. 4) mánuðr sá, á hvörjum þeir halda föstu þessa. 5) drætti kalla menn fisk, einkum í sjóplázum.

nóttin er, sem ekki neitt,
ætluð fyrir lifið þreytt.
7. Það hafa Tyrkjar skilið skjótt,
þeir skemta á ferli hvörja nótt;
laga föstu ljósa-gögn,
leingi smakka' ei matar ögn.
8. En um húmið holdi' í vil
hreifir brúka dans og spil,
bezta èta vist og vín,
vífin líka faðma sín.
9. Arið þó þeir ættu um kríng
allan fasta daga hríng,
með þessu móti þyldu vel,
þóað pávinn sylti' í hel.

---

## XVII.

## Um gjafir *Klements* páva hins 13da,

sendar *Dán* greifa, hershöfðingja Austr-ríkis keisara, 1759.

1. *Klemus Dána* kefli[1] sendi
í kóri vígt af hug og trú,
þarmeð striði þegninn kendi;
það mun bita, grèlan sú.
2. Hattinn líka byssu-baldri
blessadan sendi Rómi frá;
þegar brúkar hann í hjaldri,
hvörgi ramma skotin á.
3. Mun nú *Dáni* mæta Prussum,
mèr lízt að þeir forði sèr;
þótt þeir sèu' í Sörla mussum,
sundr keflið búkinn sker.
4. Hætta *Dána* hvörgi tálmi,
hrekr pávinn fènda lið;
hann er undir ægis-hjálmi,
einginn Prussi lítr við.
5. Elli-dauða beið hann *Benc*[2],
báli skírnar[3] kominn að;
ófrið *Klemus* eingum lèni,
allir kristnir biðja' um það.
*eða:*
Þó *Klemus* messi, róma rèni!
rètt er kristnir biðji' um það.

---

## XVIII.

## Hnattar-kvæði,

eðr um þann litla jarðar-hnött, er til sýningar var gjörðr í Sauðlauksdal,

1. Hnötturinn sem í Sauðlauksdali
settr var að aldar-tali
sautján hundruð sextíu' og tveir
ekta-borinn Islendingr
er, og hvörr-einn kunstar-slingr
vegna þess hann metr meir.
2. Ekta-borinn Islendingr
efni tók, sem reka-býngr
hafði til þess haga manns;
ráða-drjúg með reglan elli
reikað[4] fèkk og gjört að belli,
skapað grind og skrínið hans.
3. Ekta-borinn Islendingr,
að þeim hnetti lagði fíngur,
skipti fyrst í fernt og tvennt;
margr fór að markast hríngr
margr kom á hnöttinn stíngr
og marvísliga myndað pent.
4. Ekta-borinn Islendingr
af þeim hnetti kvæði sýngr;
ótal sögur innan skamms
kynnu menn að lesa' og læra,
líka sèr í nyt að færa,
sem að eru' á eggi gamms.
5. Sómir vel, þó virðar frètti,
veröld er á litlum hnetti
sýnd og kend í Sauðlauksdal;
heimsins fjórar höfuð-ættir,
höf og lönd og veldismættir,
bygða þrek og þjóða tal,
6. Norðr-breidd og suðr sjáum,
síðan leingðir vita fáum,
miðgjörð heims og merkja-baug,
sólar-deili, dagr, gríma,
dvalir mána' og ársins tímar;
mörg eru fleiri merkin þaug.
7. Þýðing mundi verða' í vöfl-um,
væri' ei skírt á þremr töblum

---

1) sívalt, tveggja álna lángt mest, er kallað kommandó-stafr, er hershöfðingjar brúka til að tákna með til sveitarhöfðingja og annars liðs, hvörninn sèr haga skyldi í orustunni. 2) *Benedikt* pávi var þá ný-dauðr. 3) hreinsunar-eldi. 4) *reika* kalla smiðir að ryðja trè, helzt rekabúta.

ókunnugum allt í vil;
snýst svo kúlan meðal möndla,
málbönd vega-leingðir höndla,
mílna fjölda' og millibil.

8. Heimsins parta lítið líki,
lit og málað jarðar-ríki,
er Island fæðir út-taugað;
varð ei stærri' á vestr-höllum
veraldarinnar hreiðr-böllur;
lát þèr, bróðir! líka það.

9. Oskum vèr þess eptirlætis,
ellibelgnum kastað gæti
vort hið forna föðurland,
og góðum lærdóms eggjum útum
allslags, nema hreiðr-drútum,
vorpið beggja valda stand.

## XIX.

## Um Málverk *R. O. d.*

(Bróðir hennar (skáldið) kom eittsinn að henni, þá hún var að draga upp hrafus fót.)

1. Hefirðu, systir! krumma kló
kosið þèr að teikna?
vil eg hana varla þó
verðuga til þess reikna.

2. Höfuðið er þess heldr vert
hrafns af dökkum búki[1],
við það nemið vaxi skert
vill hinn minnis-sjúki.

3. Nú er skipt um skarða gull
skömmum fyrir tíma,
blómstrin gjörðir frygða-full[2]
í fagran borða' að stíma.

4. Oska' eg heldr arnar hramm,
útúr kyrkju rekinn[3]
málaðan vildir færa fram,
fyrst hann var þar tekinn.

5. Svo kann bæinn eldr að
ei til skaða þvínga;
teiknííngin mun tákna það,
sem trúin Vestfirðinga.

6. Sagt er fugla-kóngsins klær
úr kyrkju jarðar blómi
grafnar sè, því gjörðu þær
að góðum helgidómi.

7. I silki, líni, vef og vír
og vunnum sauðar hárum,
skrúðinn sá er sèrliga dýr
sem þær fyrr ei báru.

8. Málaðu systir! menn og dýr
milli blómstra vauda;
missirin gefa mörg og skír
munstrin þèr til handa.

9. Bústu svo við bónda þinn
bezt um pent[4] að keppa,
drag upp sögur og dæmi svinn
og dikti fræga greppa.

10. Bið hann mynda börnin smá,
bið hann vöggur gera,
hvað þú skyggir eptirá
ei mun gagnlaust vera.

11. Þú fyrst grasa þekkir blóm
og þráða listir Isa,
mun þig öld, að mínum dóm,
meistaraliga prísa.

12. Skrifaðu þennan skyndibrag,
skamtar listin kringa[5]
mathematiskt letra lag
línur, krika'[6] og hringa.

## XX.

## Hökul Vísur,

kveðnar við *R. O. d.* ámeðan hún var að sauma og baldýra messu-hökul.

1. Silki hvitt[7] á sauma býng
svartr litar tvinni;
róðu[8] þræðir *R, O, d*[9]. um kring
og raðar skuggum inni[10].

1) menn segja, að sogið blóð úr hrafns höfði lækni ónæmi. 2) lystilig. 3) sem verið hafði í klukkna streingjum, en Sira *Björn* bóndi hennar hafði burt tekið. 4) málverk, því Sira *Björn* hafði lært að teikna. 5) hún nam þann skrifmáta, sem mælingar-fræðimenn hafa, að setja saman stafi af bogum, hornum og línum. 6) krókar horn (*anguli*). 7) líkaminn var gjörðr af hvítu atlaski og saumaðir skuggarnir með svörtu silki. 8) líkneski. 9) fángamark: *Rannveig Olafsdóttir.* 10) setr skugga límanna í sína náttúrligu röð.

2. Letr gulls og lögð í hring
lanfin þótt hún inni,
nál að mála þvílík þing
það er ei kunstin minni.
2. Mynda kross og mannlikíng
menþöll hygg eg kynni;
þartil ei við þorna sting
þyrmir góma skinni.
4. Silkis hár um salar lýng[1]
sjálfir maðkar vinni[2]
þræði rekr kæran kring,
þó Kinskir fina spinni.
5. Audlitsdrætti drósin slíng
drýgir svona' og þynnir;
líkams svip og læti ring
lagar veikr pinni.
6. Um hökul-verkið sem eg sýng
seggir leggja' í minni,
að *Rannveig* hefir þetta þíng
þrædt með hendi sinni.

## XXI.

## Um *Oddnýu* litlu *Skúladóttur*.

(Hún bað að gefa sèr bók, og fèkk hana með þessum vísum áskrifuðum.)

1. *Oddný* böggull segi' eg sè,
sifeldt hleypr yðandi;
hvorki tala' eg háð nè spè,
hún er mesta *spaugelse*.
2. *Oddný* gekk með grátna kinn
gustinn fèkk á vángann sinn,
af því hringa-seljan svinn
svaf óslýng um lesturinn.
3. Jómfrú *Oddný* enn í dag
óvandans það bætti lag:
svefni brá, af svoddan hag
sikrið hlaut og þennan brag.
4. *Oddný* litla bað um bók,
bróðir hennar af því tók;
brátt hann *Oddný* kyssti' í krók,
kverið fèkk, það yndi jók.
5. Ef þú værir, einsog brúð,
undir borði nett og prúð;
handa fifl og gumpa gjögt
gætir af þèr vanið snöggt.
6. Eitt er það, sem enn eg tel:
ef hún nennti' að prjóna vel,
ekki þyrfti' að óttast par
andann, myrkrið, grilurnar.
7. *Oddný* fallig þækti þá,
þá hún skyldi' í kaupið fá
bæði sikr; bók og skrín,
böggull væri systir mín.
8. *Oddný!* gáðu glöggt að því
gjörðu þig ekki svoddan bí,
að þú gjörir illa litt,
eða rífir kverið þitt.
9. Ráðvaldr, sem klappa kann,
kann að finna barn-úngann,
rauðan litað getr gump,
og grafið út þinn litla rump.

## XXII.

## Um fræða-kver *Oddnýar*.

1. Faðir þinn hefir feingið þèr
fræða- sálma'- og bæna-kver;
vaktirðu' ei svo vegligt þíng,
vöndinn færðu' í betalíng.
2. Heilla-ráðin haldtu bert,
hitt er lángtum meira vert,
að þú verðir af því stillt,
yðkir gott, en forðist illt!
3. Ef þú færir ei með töf
ávöxt neinn ef slíkri gjöf,
lýða fæðu lastið nóg,
lika muntu ríða' i skóg.
4. Annað byrja vil eg vers,
við skulum aldrei geta þess;
þú munt hæðins hepta spott
og heldr vilja læra gott,
5. Lærðu hvört í letri blað,
lærðu kverið utanað,
að þú verðir eigu-frýn,
sem Eykindilinn[3] nafna þín!

## XXIII.

## *Palatium mobiliatum*,

(bendir til þeirrar ímyndanar,

1) lýngrunnar eru gjörðir inni húsum, hvar 2) silkimaðkarnir gjöra silkið. 3) *Oddný* festarmey *Bjarnar* Hitdælakappa.

sem binn einfaldasti almúgi hefir um ýmsa búnaðar-háttu kóngs og drottníngar, t. d. að hann fari til almennrar vinnu með húskörlum sínum, hún sitji inni á palli, mjólki sjálf kýr sínar, en í gullfötu og s. frv.).

1. Hèr er blandað blóð og skyr,
 það bragnar finna;
lýsa dyrgjur lofðúngs ranna
leir-pottr og blöndu-kanna.

2. Nætr-gagnið vænt er við, svo
 verði fugtin;
hèr er komin kvenna praktin,
kóngs *respekt* og herra-maktin.

## XXIV.
## Gaman-bögur,

(gjörðar sumarið 1759 á leiðinni frá Friðriksbergi inn til bæarins í Höfn, á hvörri þeir bræðr komu í gaman-keppni, hvörr fyrr uppgæfist að bæta við.)

1. Spjátrúngarnir språnga,
*leggjum land undir fót*,
völum stèttir stánga
*á Dana-mót og dans vill hún heyra.*

2. Eggi meðr mánga, *l. l. u. f*,
um grjót óstuddir gánga,
*á Dana-möt og d. v. h. h.*

3. Ur runnum viðra vánga
*l. l. u. f*,
leggr ljúfan ánga *á D. o. d. v. h. h.*

4. Á hægri hlið til þánga *l. l. u. f*,
skriða refar ránga *á D. o. d. v. h. h.*

5. Bakvið meyar mánga, *l. l. u. f*,
hvar ágæt eplin hánga
*á D. og d. v. h. h.*

6. Fyrir fýra svánga, *l. l. u. f.*
þarft er að fara þángað
*á D. og d. v. h. h.*

7. En í álfu fánga *l. l. u. f.*
höfum Hafnar dránga
*á D. o. d. v. h. h.*

8. Með því brag að bánga
*leggjum land undir fót*;
styttum leið svo lánga
*á Dana-mót og dans vill hún heyra.*

## XXV.
## Um stofu-lappan.

(*O. G. s.* kom og spurði *E.* hvað hann gjörði; hann svarar:)

Lappa èg stofu loppinn
lappa èg allt af kappi;
lappað var fyrr með leppum,
lappað er nú með pappír;
lappað óvanda-löppum,
lappa þarf smíði glappa;
lapp ef súg leiðan teppir
lappið verðr að happi.

# E. Viðbætir.

## Endr-kvida,

gjörð til ályktar og endalyktar skáldsins veraldligum kvæðum og kveðlíngum, 1768.

1 *Cor.* 11. *v.* 31—32: *Ef vèr dæmum oss sjálfir þá verðum vèr eigi dæmdir, en nær vèr dæmumst, þá verðum vèr af Drottni typtaðir, svo vèr fyrirförumst ekki með heiminum.*

### Formálinn.

*I. Með því Guðs orð býðr að menn skuli sjálfir dæma sín eigin verk, en trúa eigi hrósi annara manna, þá vil eg nú ogsvo gjöra þetta við kvæðin mín, og segi eg hèr fyrst hvað mèr til þess komi.*

Sánkti *Páll* fèkk kristnum kendt
kænsku dygða næmi;
hans guðlig mælskan mèr hefir bendt,
minnast vil èg helzt á tvennt,
sem er fyrst: að sig eigi hvörr að dæma.

2. Ekki' að hlífa sjálfum sèr,
í svoddan rèttargángi
framsýnt bæði' og farsælt er,
frelsarans miskun ávöxt ber:
alla blessun; ekki' er smátt í fángi.

3. Nema' oss dæmum, dæmumst vær
drottins hrís að líða,
því oss heims með fjölda fjær
fyrirdæmíngar annars slær
og reiði Guðs sem refsar hart ásíðan.

4. Enn segir *Páll* í öðrum stað,
að oss beri prófa
verkin þau sem vèr höfumst að,
virðíng sálar eykr það,
eingu nýtt er annara klappið lófa.

5. Hvörr einn sína byrði ber,
bera' ei fyrir hann aðrir,
ef hann þykist, illa fer,
eigin hrósið lyktar verr;
eins honum bregðast annara hræsni-fjaðrir.

6. Hef eg nú fyrir herrans náð
hugað að ráði mínu,
elsku sjálfs og girnda gráð,
góðverk heims og falska dáð,
vigtað allt og virt í lagi sínu.

7. Grunsamt varð mèr hól og hrós
heim-elskandi manna;
alþýðunnar afhalds rós,
og heimspeki mána-ljós;
öfundar last var óhultara' að kanna.

9. Kristr segir: sè þeim vei,
sem af öllum mönnum
hreppa lof, en lýtast ei;
lýða hrós og mannorðs gey
falsprófhetar forðum tóku hrönnum.

9. Formáli slikr fyrst eg vil
fylgi þessu kvæði;
það á að gjöra þjóðum skil
fyrir því, sem orkt er hingaðtil;
um minn lifnað annarsstaðar eg ræði

*II. Um kveðskap minn yfir allt, hans almennings álit. Um skálda lukku og temprun þessarar gáfu.*

10. Sigandi hlaut eg sæmðalán,
með signuðum lukku skerfi,

bragða, slisa' og huldrs án;
betra' er það enn veraldar rán[1],
þó herrar með því heiðr og ríkdóm erfi.

11, Meðal annars, ljóða-lags
lysting til eg hafði;
úngdóms fýsnin efni brags
optliga fann og gjörði strax
vísu, þegar viðburðurinn krafði.

12. Aldrs þroskinn leingri ljóð
lagaði eptir vonum,
í þeim drjúgara' efni stóð;
einatt ræddi' um heila þjóð,
kónga leyfði kvinnum með og sonum.

13. Heimspekina mærði'eg mest
og mentir lærdóms allar;
af siðgæðunum saung eg flest,
sýndi og vitti margan brest;
sumt var ljóst og sumt í dæmum spjallað.

14. Náttúru vísdóm nytsaman
nam eg þjóð og landi;
ýmisligt eg orkti' um hann
og uppvakningar margar fann,
sem hvörr kunni' í sínu að nýta standi.

15. Gamankvæði gjörði' eg enn
og gælur nokkrar krydda
alvöru salti; sáu menn
satýrisku skrítyrðin;
stökur með þeim stæla mátti' og brydda.

16. Opt eru kveðin kvæði ný,
kostug vera þóktu;
mergjað efni, mælska frí,
málsnildin, og eptir því
annað fór, sem flestir bragnar sóktu.

17. Þeir vóru' að lofa þetta' og hitt,
þókti til að slægjast;
álit margr sagði sitt,
sèrhvörr virti kvæðið mitt
eptir því, sem eyrun gjörði klæa.

18. Þróaðist við þvilíkt agn
þótti lukku-næmr;
seggjum hugði' að semja gagn,
en sjálfbyrgings eg hafði magn,
þótt ásetningrinn ei væri svo slæmur.

19. Bæta vildi' eg lýti lands,
lærdóm ýmsan fræva,
ránglætið að reka' í stans,
rètta sýna skyldu manns
og patrióta prýði-dygð[2] að æfa.

20. Að varnaði mèr víti kunn
vildi' eg yrði skálda,
sem lágu jafnt við ljóða-brunn[3]
svo lukkan þeirra fèll í grunn;
níði' og klámi sumir rèðu sálda.

21. Missiri var eg heil og hálf
og heilum árum saman
vísulaus í varaskjálf
vann þá annað hyggjan sjálf;
viku' eða mánuð mest hitt átti' eg gaman

22. Allir þeir, sem þetta sjá
og þekkja, munu játa,
satt er það eg segi frá,
svo hefi' eg tempruð gáfu þá,
lesti' og dygðir lýtt og skreytt í máta,

*III. Hvörsu kvæði mín reyndust aðfinníngarverð, nær eg rannsakaði þau eptir guðs-orði. Dæmi góðkunnugra presta og annara merkis skálda urðu mèr þá eigi einhlýt um minn ónytju kveðskap.*

23. Allt fyrir þessu, þegar að
þeinki' eg seinna betr
um lifnað minn og líka það,
lesa fèkk eg annað blað;
við samvizkuna samanbar heilög letur.

24. Í þeim speigli svo má sítt
sálar andlit skoða,
hræsnar hann eingis yfirlit
einsog hól og manna vit,
fyrir dómi guðs hvað dugir ei nè stoðar..

25. Spè-gler heims er speki' og hygð

1) öll veraldar lukka er hripsuð af þeim hana sækja og ætíð rángfeingin, þarfyrir má hún rán heita. 2) Föðurlands elsku. 3) vóru aldrei nema að yrkja, og forlögðu því allt annað, sem gjöra þurfti, sönnuðu svo þá meiníngu, að skáld sèu óláns-menn.

spilt í syndar arfi,
af sjálfs-elskunni skírð og skygð;
skín á saurgri meina-dygð
næsta hverfull fullkomleika farfi.

26. En hún verðr dymmu dregg
drottins skygnd í ljóma,
lukku barna lofuð negg[1]
lýsast þar, sem stropuð egg;
svo ernú varið vildismanna blóma.

27. Drjúgum mèr eg dæmi tók
dyrfsku-manna' í landi,
merkis-skálda mentin klók
minni þènti' ei kokkabók,
væri' hún eptir illskældanna standi.

28. Góðra presta frelsi fritt
eg fèkk til eptirmyndar,
gamanvísur gjörði títt,
þó gögnuðu þær harla lítt,
nema til að narrast að til syndar.

29. Meinlaust gaman mjög er rart,
meingað eingu galli;
en það, sem er ekki þarft,
eg hefi' að vísu skáldað margt,
að stytta bið í bygð og uppá fjalli.

30. Þó aðrir hafi nú eins eða fleir
orkt, sem góðir heita,
slíka skuld ei minka meir
mína enn sína kunna þeir;
af orðum guð vill einnig reiknings leita.

31. Líka er meir enn marklaust hjal
mærðar bundin ræða,
ef hègómann svo skrýða skal
og skilnings krapta þreyta val
í því, sem er ónýtasta mæða.

32. Nefna þarf ei níð og háð
næmt í bundnu máli;
af vönduðum trauðla verðr náð
vandað sizt og talað í bráð,
það hefir orðið opt að beittu stáli.

*IV. Að sum hreysti-yrði finnist í kvæðum mínum, er almennt þóktu nett, hofmannlig og skemtilig, en eru þó í raun rèttri ekki svo kristilig. Bibliu málshættir og orða-tiltæki skyldu eigi vera í gaman-vísum, nè andlig dæmi uppá hègómliga hluti; — að eigi sæmi að hafa sálma-lög við ó-andlig kvæði, þótt eg hafi gjört það af gáleysis dyrfsku, eptir afhöldnum dæmum.*

33. Hèr ef eg nefni' í hróðrar smíð
helzt þau menn ei lasta,
hofmannlig og holdi blíð
hagyrðin, sem kristnum lýð
ekki sóma', og sizt af þeim að brasta.

34. Nokkur slík (því miðr) má
í mínum bögum hitta;
fundið hef eg eptir-á
áðr hvað eg gleymdi' að sjá;
það vann tíma þjóðum helst að stytta.

35. Margr hefir hraustliga hrækt
halr á æsku skeiði,
gamandikti drýgt og tækt
með dæmum helgum, það er frægt,
og háttum máls, sem heilög ritning greiðir.

36. Eg á skot í skálda-reið,
skemtan flestum mönnum
(minnast þess eg má um leið)
mjög er þekk, en færstum leið,
dæmi ring að draga' af guði sönnum.

37. Skyldt á við það venja bög
(vert er henni' að tálma)
við fánýtt efni' og óðar-slög
andlig jafnt og beztu lög
hafa, sem við hjartnæmustu sálma.

38. En þótt dæmin opt í senn
uppá slíkt eg hafi
um göfuga klerka' og mæta menn,
sem misjöfn orktu ljóðmælin
við sálma tón, og svoddan hældu skrafi.

39. Vondr gista víst ei má
vani' í blygðar tjóni;
*Kötlu-gylling*, ar eg á
og kveðlinga tvo eða þrjá
betr sæmdi bragr í heiðnum tóni.

40. Hyrðulítið raddar rof
rækt á guði hnekkir;
sömu nótum segi' eg um of

---

1) negg eðr hjörtu heimsins barna líkjast hèr við egg, sem menn plaga að skygna móti sólu, til að vita hvört þau ný sèu

að sýngja spaug og guði lof;
mèr skilst þá komin skörin uppí
bekkinn.

41. En eg hef til efna kvödd
í eptirþánka-leysi
sálma-lög að ljóðum stödd;
ljóst er samt, að eigin rödd
sèrhvörr fugl í sinu brúkar hreysi.

V. *Um amors-vísur, óbljúga og annað kitlandi talsháttu og annað ósæmiligt, sem finnast kann í nokkrum mínum kveðlingum, prýdt og torkendt með snilliligum orðum, glósum elligar hálf-ljósum meiníngar yrðum, hvað mörgum hefir gott þókt og mikið artugt.*

42. Þykir mer nú þeigi rángt
að þreyngja' að kvæða messu[1]
þó greppum virðist vera strángt
og vandfýsnin sè komin lángt;
samvizkan skal segja dóm í þessu.

43. Aldar stundum dró èg dám
drjúgar enn eg vildi;
hæverskt fólkið háð og klám
heldr verstá siða-nám
og banvænt, sè það borið í opnum skildi.

44. Þarámót ef samansett
sèst í Eddu skrúða
losta-ræða ljúf og nett,
lýðum þykir hrósað rètt,
og skarta vel, hvað skáldið orkti prúða.

45. Amors kvæði' og mansaungs mærð
mörgu smakkar fljóði,
kveðin opt og utanað lærð,
andar spillist heilsu værð
og gjörir dreggja gáng í úngu blóði.

46. Nær sem einhvörr bóka-bör,
bragar prýddr gáfum,
smiðar barðar frosta för,
fræðum slíkum lærdóms ör,
allir seilast eptir þessum háfum[2].

47. Og eg hefi á mèr reynt
um afhald slíkra vísna,
flestum þókti þekkast greint,
ef þar var nokkur inni leynt
undir-rót til einhvörrar synda fýsnar.

48. Vildi' eg' ei svo vánka-rík
vers eg snotrað hefði,
frjálst um pilta-pörin slík,
*Piku-skræk* og þessu lík;
eins þó virðíng veraldar eigi kefði.

VI. *Hvað eg dæmi um mín nytsamari kvæði; um þann máta að móralisera eðr kenna siðalærdóm með gamni, og straffa lesti með skop-yrðum.*

49. Nú er eptir að nefna hvað
nýtt í mínum kvæðum
allir segja sannprófað,
samt eg hefi fundið það
mest-allt seyrt og meingað litlum gæðum.

50. Heimsins vísdóm virti' eg hærst
og veraldar lærdóm þrifa:
af þeim glæðum gól eg næst,
guðs af speki nýtti fæerst;
náttúran fèkk mèr nógligt um að skrifa.

51. Kænsku regla mörg, eg man,
mærð er hófi fjærri,
sæmd um of, en satt er van;
sumt, hvað býðr *Gratían*[3],
Krists líferni kemr ekki nærri.

52. Samt eg hèr í sannleik má
segja tilgáng hollan,
dygðum nam eg i ljóðum ljá
lof og ást, en hrekki fjá,
og útmála þá einsog sjálfan skollann.

53. Guði nokkra þjónkan þó
þarmeð hugði' eg gjöra
og föðurlandi ranna ró,
sem ritt er, farið og sezt í hró;
þetta deyfði þreying heimsins kjöra[4].

54. Því eg meinti' að gjöra gott,
guðs í reikníng leggja,
sjálfhælninnar virti vott,
veraldar barna hræddist spott,

1) með reglum, svo skáldskaprinn vandaðr verði. 2) háfur (*plur.*) skeinkingar, gersimar. 3) *Gratians L'homme de cour.* 4. Heimsins lukka, sem eg eptirsókti, deyfði þennan ásetníng.

steins og sleggju staddr ámilli
beggja.

55. Vandlæti mitt var ei klárt,
veraldar elsku blandið;
heims-ádeila sviði sárt,
hið sama gjörði' eg opinskárt,
en vildi fyrir það virðíng hafa'
um landið.

56. Lítilsverð er sannleiks sögn
sú í drottins augum,
en þó fylgi frómleiks ögn,
færstum hrífr meir enn þögn,
nett að landsins lýtum þó vèr
spängum.

57. Frelsarinn hefir ei fiðrað við,
nè fyrir oss haft þann máta,
hans ber víst að hafa snið
og heims án gamans straffa sið,
en vorn í hjarta verðleik eingan
játa.

*VII. Loksins, þó eg nú þannig hafi dæmt kveðskap minn, til að taka frá honum allt falskt álit fyrir almenníngi, þá kunn hann saml til nokkurrar siðbótar að þèna. Eg meina ei heldr þarmeð, að oftalað sè, hvað eg orkt hefi, til að auglýsa og útmála guðlaust framferði, ódygðir og ósiði. Það rètt er talað, virðist guð að blessa, en hvað áfátt er, vorkenni góðir menn.*

58. Nú þótt tali' eg svo eðr svo,
um sjálfs míns eigin dikti,
illum mega þeir verða vo,
vildi' eg hræsinn burtu þvo
svika lit og sinna' ei múga rykti.

59. Þessarar aldar eðli blindt
um skör fram ei hefi
lastað, eðr land áminnt;
láti guð hvað rètt er innt
blessast æ og beztan ávöxt gefi!

60. Hitt sè grafið í gleymsku
sjó,
og gjöri'ei sannleik vafa
í eptirbreytni' og andar gjó;
alla kristna bið eg þó
veikleik mínum vorkun með að
hafa.

---

# Prentvillur.

*Bls.* 6 *l.* 26 *l.* dróttkvæðr. *Bls.* 16 *síðara dálks l.* 2. *l.* gylvi. *Bls.* 24 *s. d l.* 6. *l.* leynt. *Bls.* 37 *f. d. l.* 29. *l.* næst. *Bls.* 39 *s. d. l.* 1. *l.* næst. *Bls.* 52 *f. d. l.* 14. *l.* meynum. *Bls.* 54 *s. d. l.* 26. *l.* aleyðing. *Bls.* 55 *f d. l.* 3. *l.* vánka. *Bls.* 63, *nóta l.* 5. *l. færast.* *Bls.* 71 *f. d. l.* 21. *l.* allt. *Bls.* 73 *s. d. l.* 4. *l.* týgjað. *Bls.* 76 *f. d. l.* 23. *l.* ita. *Bls.* 80 *f. d. l.* 15. *l.* brith. *Bls.* 95 *f. d. l.* 13. *l.* þeirri. *Bls.* 96 *f. d l.* 13. *l.* flýttu; *s. d. l.* 36. *l.* knúðu. *Bls.* 119 *f. d. l.* 23. *l. yndi.* *Bls.* 129 *f. d. l.* 25. *l.* reikar-. *Bls.* 134 *f. d. l.* 16 *l.* þveran. *Bls.* 146 *s. d. l.* 32. *l.* sýnir. *Bls.* 150 *s. d. l.* 9. *l. svoaa.* *Bls.* 154 *s. d. l.* 28. *l.* skarar. *Bls.* 162 *s. d. l.* 46. *l.* jafnt veit. *Bls.* 188 *s. d. l.* 48. *l.* Eiki-. *Bls.* 200 *s. d. l.* 1. *l.* fyrir. *Bls.* 227 *s. d. l.* 16 *l.* eptir. *Bls.* 230 *s. d. l.* 30 *l.* færðu.

## T. L.

*Af kvæða-bók þeirri, er vèr í fyrra með boðsbrèfi voru tofuðum að láta á prent útgánga, leggst hin fyrri deild hèr nú fram fyrir almennings sjónir, og heldr hún öll þau kvæði Islands merkasta þjóðskálds Eggèrts Olafssonar, er vèr höfum getað yfirkomizt (að undanteknum 2 smákvæðum, sem ei eru leingri enn svo, að bæði tilsamans vart mundu numið hafa hálfri blaðsíðu, en þóttu of rángfærð til að geta prentazt), hvör í flestu tilliti trauðliga munu eiga sinn maka á vora túngu. Önnur okkur meir áríðandi störf hafa orsakað nokkurn drátt á útkomu deildar þessarar, einsog við, af sömu orsök, ei heldr höfum haft svo miklar tómstundir til leiðrèttíngar próf-arkanna, sem ófimleiki okkar í þessu tilliti útkrafði. Með síðari deildinni höfum við í ráði að gjöra grein fyrir framgángsmáta vorum við útgáfu þessa kvæða-safns og handritum þeim, sem við þarvið notað höfum; einúngis viljum vèr geta þess hèr, að Hra Conferenceráð og Jústitíaríus í Landsyfirrèttinum Dr. júris M. Stephensen hefir gefið einum okkar forlagsrèttinn til þessara kvæða, hvörn bróðir skáldsins Jón Olafsson þann 1ta Sept. 1808 brèfliga hafði afsalað sèr til hans. Loksins óskum vèr að þessi ágætu kvæði, með hvörra útgáfu við ei höfum haft hinn minsta ávinníngs tilgáng, mættu verða sem flestum landa vorra til uppbyggíngar og skemtunar.*

Kaupmannahöfn þann 26 Júní 1832.

*E. Jónsson. Th. Sæmundsson. S. Thorarensen.*

